Og bækurnar eiga fyrst og fremst að vera mentandi, fremur en fræðandi. Auðvitað bezt að fróðlegt efni sé sett fram á mentandi hátt, en eg skal undir eins skýra, hvað vakir fyrir mér. Það fer ekki altaf saman að vera mikill rithöfundur og andans maður, og að vera nákvæmur í öllum smáatriðum. Bókum manna eins og Renans, Taine, Macaulay, Brandesar er ýmislegt álátt í þessu efni, þær eru stundum of persónulegar og hlutdrægar, alls ekki fræðibækur, eins og menn mundu kjósa til þess að hafa við kenslu, heldur ekki vísindarit í strangasta skilningi, þótt þær séu bygðar á mikilli rannsókn og þekkingu. En það eru framúrskarandi mentandi bækur. Þær fara eldi um huga manna, knýja þá til að hugsa, til að vera með eða móti. Og fyrir sjálfmentun geta þær haft óendanlega meira gildi en bækur labbakútanna, þar sem hver staðreynd er vafalaus, og andleysið sú staðreynd, sem er vafalausust allra. Með því að skrifa inngang og athugasemdir við slík rit, þar sem gerð er grein fyrir þeim á svipaðan hátt og skáldritum, og bent á það helzta, sem er of og van, má alveg óhætt fá þau alþýðu í hendur.

## XIII.

Það mundi vera freistandi, ef slík stofnun kæmist á fót með sæmilegu fjármagni að bakhjalli, svo að ekki væri nauðsynlegt að bækurnar rynnu út, að velja þær eftir föstum meginreglum, gera útgáfuáætlun fyrirfram og fylgja henni á hverju sem gengi, taka ekki nema gömul og viðurkend rit o. s. frv. En þetta má ekki verða. Forstjóri þessarar útgáfu verður að velja lifandi bækur handa lifandi mönnum, hann verður að vera jafnnæmur á, hvað vex erlendis og hvað gróið getur í landinu sjálfu. Hann verður að kunna að sneiða bæði hjá því skerinu, sem felst í því að dilla lökustu þörfum fólks, og hinu, að fæla það frá með því að setja markið of hátt. Og mér finst auðsætt, að ef á að vekja fólkið til lestrar og vinna gegn

lakari bókum, þá verður að velja mikið af alveg nýjum bókum, bókum um »brennandi« spurningar augnabliksins, t. d. nú um orsakir styrjaldarinnar, rás hennar og afleiðingar. Það þarf ekki að kvarta um, þótt þessar bækur séu ekki ódauðlegar. Lifandi hluttaka í menningu samtímans er ein tegund ódauðleika. Það er í bókmentunum eins og líkamanum. Í sumum hlutum hans eru sífeld frumuskifti, en frumur í beinum og tönnum lifa von úr viti. En hvorstveggja er þörf. Allar fræðibækur úreldast meira og minna, og sum skáldritin, sem mest áhrif hafa haft í svipinn. En við verðum að grípa þær á fluginu. Úr því við getum ekki hafið okkur upp yfir tímann, verðum við að vera börn samtímans — honum vaxnir.

## XIV.

Það er aðeins hin dæmalausa sljóskygni manna á alt, sem heitir andleg verðfræði, sem gerir, að ekki liggur betur í augum uppi hvílíkur búhnykkur slíkar þýðingar eru. Menn eru svo vanir að fá öll andleg gæði sama sem gefins, að þar sem eitthvað verður að hafa fyrir þeim, nenna þeir ekki að bera sig eftir þeim. Ef okkur væri boðinn eins mikill kornforði og Ísland þyrfti með, með því einu skilyrði, að við önnuðumst þreskingu þess og flutning til Íslands, þá mundi enginn skoða huga sinn um að taka því boði. En þegar við eigum kost á að gera dýrustu vísindalegar og fagrar bókmentir annara þjóða eign íslenzkrar alþýðu, ef við nennum að hafa fyrir því að þýða þær og gefa þær út, þá áttum við okkur ekki á því. Alt efnið fáum við ókeypis, reynslu skáldsins, rannsóknir vísindamannsins, vitið og andann. Þeirra eigin þjóð hefir borgað þeim fyrir það, að svo miklu leyti sem slíkt verður borgað, við fáum það fyrir ekki neitt. Í það kveður svo ramt að, að við Íslendingar, af því við erum svo smáir, getum fengið að þýða ókeypis rit samtímahöfunda, sem heima hjá sér eru að eins til í svo dýrum útgáfum, að alþýða kaupir þá ekki. Þessvegna verða

öll söfn af ódýrum alþýðuútgáfum að lifa mest á bókum, sem eru svo gamlar (meira en 50 ára), að þær eru orðnar frjálsar. Þetta er alls ekki heppilegt, og væri meira lesið af góðum bókum, ef alþýðan ætti sífelt kost á þeim beztu, jafnóðum og þær koma út. En við getum sneitt hjá þessu skeri.

Við þurfum ekkert annað en velja bókina, kosta þýðinguna, einhvern hluta af útgáfukostnaðinum, eftir því hvað bókin á að vera miklu ódýrari en sannvirði. Þá höfum við í hverri vel valinni bók eignast alþýðukennara, sem ekki þarf meira að hugsa um, hvorki að fæða né launa. Hann er að vísu ekki eins fjölhæfur og kennarinn, ekki eins eftirgangssamur, og samt er oft meira vit í einni bók en meðalhausi, og hún smýgur oft inn í kyrðina, og læsist þar í hugann betur en orð kennarans. Og þar sem kennarinn nær til nokkurra tuga í einu, nær bókin til hvers sem vill. Hún er meira en ein og þríein, hún getur verið ein og þrjúþúsundein, ef vill, skifst í þrjú þúsund staði, verið lesin af 10000 og samt verið heil á hverjum stað. Þar sem efninu verður ekki skift, nema með því að sífelt komi minna og minna í hvern hlut, er andinn í einu óskiftur og verður þó gefinn í ótal staði. Og með því að taka höndum saman við hann, getur féð orðið ótrúlega frjósamt. Það er ein af mestu fjarstæðum og dásemdum heimsins, þó hún sé nú orðin svo algeng að fáir hugsa um hana, að hægt skuli að vera að kaupa rit eins og Nýja testamentið, Fást og Passíusálmana fyrir 1—2 kr. og þaðan af minna, eða líkt og einn lélegur málsverður kostar.

Og svona safn yrði ekki einungis lífsblóð sjálfmentunarinnar í landinu, sem næði út á hvern skaga og inn í hvern dal, engar hríðar eða fjarlægð gætu heft af starfa, sem tæki við mönnum í æsku og fylgdi þeim æfina á enda. Sumar gömlu bækurnar nýjar fyrir hvern aldur, af því ný reynsla opnar þar sífelt nýja heima. En það mundi líka verða vopn í hendi skólanna, til þess gætu kennararnir vísað, þangað gætu margir þeirra átt ærið að-

sækja. Ýmsar þessara bóka mætti nota við kenslu, með kenslu Og einkum yrði það áframhald. »Hinn sanni háskóli nú á dögum er safn af bókum«, segir Carlyle. Skólamentunin er, þegar hún er bezt, undirbúningur undir að færa sér bækur í nyt. En hvað verður ef bækurnar vantar?

XV.

Það mun mega telja mikilvæga mótbáru gegn því, sem að framan er sagt, að engin slík stofnun er til erlendis. Að vísu eru til stór útgáfufyrirtæki, sem gefa út afbragðsrit í ódýrum útgáfum, félög sem gefa út fræðibækur o. s. frv. En yfirleitt láta ríkin bókaútgáfuna sig engu skifta.

En svo æskilegt sem það er fyrir okkur að taka okkur stærri þjóðir til fyrirmyndar í ýmsum efnum, þá megum við aldrei gleyma að taka tillit til sérstakra þjóðhátta. Vegna fámennisins er alt það ærnum örðugleikum bundið á Íslandi, sem mæðir á mergðinni. Annarstaðar er gróðavegur að gefa út ódýrar alþýðubækur. Upplögin geta skift hundruðum þúsunda. Hér er slíkt vafasöm fjárvon, og menn ráðast ekki í það. Annarstaðar er sjálfmentunin talin aukaatriði. Fyrir okkur er hún þvert á móti. Einmitt í henni eigum við að vera fyrirmynd og ekki að eins herma eftir. Og það er alls ekki víst, að jafnvel með stórþjóðunum sé bókaútgáfa í réttu horfi. Alþýðuútgáfurnar eru einatt of ljótar og óvandaðar. Fólk les illa útgefna bók með minni alúð og virðingu. Afstaða þess til bóka yfirleitt verður önnur. Auk þess á alþýðan, eins og eg drap á áðan, ekki völ á nýjustu verkum beztu höfundanna, þeim verkum, sem hún les um í blöðunum og helzt vildi fá. Þetta er ómetanlegur skaði. Ef ríkið léti bókaútgáfuna til sín taka, mætti kippa þessu hvorutveggja í lag.

Það mætti fremur hafa það á móti tillögu minni, að hún nái of skamt. Íslenzka ríkið mætti vel styrkja fremur en það gerir útgáfu beztu rita innlendra, fornra og

nýrra. Það mætti jafnvel veita styrk til tímarita og blaða, ef þau væru því samboðin. En slíkt annast nú flokkar, félög og einstakir menn, svo að bezt er að hugsa fyrst um það sem brýnast er.

Eg efast ekki um, að svona opinbert útgáfufyrirtæki gæti orðið til íhugunar og vakið víða eftirtekt. Það sem á við á einum stað, svo brýnt að það skapar sérstakar stofnanir, getur orðið til eftirbreytni víðar. Í London er t. d. ekkert þjóðleikhús. Yfirleitt eru Englendingar lítið gefnir fyrir að styrkja stofnanir af ríkisfé (t. d. sjúkrahús, háskóla). Þeir láta auðmenn sína gera það. Nú er engin hætta á, að hætt verði að leika í London. Nóg er fólkið. En af því ekkert leikhús er til, sem hugsar um listina eina, án þess að taka tillit til gróðans, þá hnignar leiklistinni ár frá ári, eltir smekk múgsins, spillir honum um leið, verður að elta hann ofan á við stig af stigi. Og ef þetta á að lagast, verður að grípa til neyðarúrræðis fátækari bæja, og fara að styrkja eitthvert leikhús til þess að vera fyrirmynd og marka stefnuna. Þannig mun það smátt og smátt sýna sig, að það borgar sig betur að leggja eitthvað í sölurnar en láta reka á reiðanum, þótt ekki verði beinlínis að strandi.

## XVI.

Flest af því, sem hér hefir verið sagt, er ekki annað en ágrip af ýmsum miklu lengri ritgerðum, sem ekki er kostur á að birta nú. Eg verð að geta þessa af því, að þó að víða sé hér farið fljótt yfir sögu og ef til vill ekki rökstutt nógu nákvæmlega hvert atriði, þá er það ekki af því það sé að sama skapi fljótráðið. Eg hefi hugsað þetta mál árum saman, velt því fyrir mér frá nýjum og nýjum sjónarmiðum, og orðið því sannfærðari um réttmæti þess sem eg hefi athugað það betur. Eg veit, að hér er um nærri því einstakt andlegt velferðarmál að ræða, ef menn þekkja vitjunartíma sinn.

Þessi ritgerð er hvorki skrifuð til skemtunar né fróð-

leiks, heldur í hagnýtum tilgangi. Og ef hún ber ekki hagnýtan ávöxt, þá væri hún betur ekki skrifuð og ekki lesin. Ef svona hugmynd er ekki framkvæmd, er hún einskis virði. Hún er meira. Hún er stórspillandi. Í hvert skifti sem maður kynnist hugmynd, sem á að framkvæma og hægt er að framkvæma, viðurkennir gildi hennar: »já, eiginlega er þetta satt, eiginlega ætti eg að gera þetta, og gæti líklega gert það« — og gerir svo ekki neitt, snýr sér til veggjar, og sofnar með kvöldbæn dáðleysingjans: »það er nú svona fyrir manni«, þá hefir hann minkað. Hann er á þeirri hægu leið, sem »hallar undan fæti«. Að sjá hið rétta, hið bezta, og una svo því næstbezta eða næstversta, það er dauðasynd einstaklinga og þjóða. Það er að rjúfa samband framkvæmda og hugsjóna — gera hugsjónirnar að magnlausum skuggum sjálfra sín, og verkin að skrípamyndum hugsjónanna, ekki sköpuð í mynd þess bezta í okkur, heldur hins lakasta. Það er betra að vita ver og breyta eftir því skársta, sem maður veit, en vita betur og gera það ekki. Skoðanir fá gildi sitt með því að komast í framkvæmd. Annars eru þær dauð heilafylli. Það er enginn, sem er sannfærður um réttmæti þess, sem hér hefir verið sagt (og þetta mál kemur hverju læsu mannsbarni á landinu við), sem ekki getur gert eitthvað til þess að skapa það almenningsálit, sem hlýtur að knýja það fram af sjálfu sér.

*Sigurður Nordal.*

---

# Hrunið.

Hvern af öðrum bar hann bikar
beiskra nautna sér að vör,
og drakk þá út í djúpum teigum
djarft í lífsins skemtiför.
En dauðinn beið við dyrastaf.

Vængjamagn sitt misti andinn.
Myrkvaðist óðum lífsins för.
En hann bar í blindri gleði
bikar nautna að fölri vör.
En dauðinn glotti við dyrastaf.

Þroski hans í kör var kropinn,
kulnuð hjartans glöðu bál. —
Nógur tími er enn að iðrast,
eiturdrefjum kasta af sál.
En dauðinn hló við dyrastaf.

Eina nótt skal ennþá kafa
ofan í lífs míns gleði-haf. —
En meðan sál á mjúkum bylgjum
myrkra nautna hló og svaf,
dauðinn opnum dyrum svifti.

Bíð, uns fæ eg aftur unnið
alt mitt lífsafl, von og trú,
yfir hjartans auðu tómin
upp til himna slegið brú.
En dauðinn hendi drap á brjóstið.

*Jón Björnsson.*

# Ísland 1918.

Seinna meir verða sennilega sett kapítulaskifti í sögu Íslands við árið 1918, sakir ýmsra atvika, sem að minsta kosti á yfirborðinu hafa markað þar nokkur tímamót, eins og sjá má af, þó ekki sé nema stuttu yfirliti yfir ástand og atburði ársins.

Ef fyrst er litið á árferðið, var það yfirleitt ilt og óhagstætt, svo að »elztu menn mundu ekki annað slíkt« nú frekar en endranær, þegar harðnar í ári. Fyrstu daga ársins var þó hláka og alauð jörð sunnanlands og meira eða minna auð víðast hvar annarstaðar. Í leysingum þá um áramótin hljóp t. d. Hvítá yfir Flóann og varð af allmikið flóð, en skammætt. En lítið var þó liðið af janúarmánuði áður en tíðin tæki að harðna og rauk upp með fannburð og frosthörkur, sem héldust sleitulaust í hérum bil mánuð sunnanlands, en annarstaðar langt fram á Þorra. Mun þá hafa verið til jafnaðar um og yfir 20° frost (C). Mest varð frostið 21. jan., en þá voru 36° á Grímsstöðum, en ekki nema 12° í Vestmannaeyjum og 25° í Reykjavík. Um þessar mundir rak einnig ís að Norðurlandi og fylti firðina suma og í hörkunum lagði víða víkur og voga og lá landfastur ís og samfeldur frá Melrakkasléttu til Gerpis. Þá lagði einnig Reykjavíkurhöfn, og bæði á Breiðafirði og í Ísafjarðardjúpi var gengið og ekið á ísnum með póst og annað farteski landa í milli og milli meginlands og úteyja. Lá ísinn, bæði lagís og borgarís, langt út frá landi, svo að ekki varð séð yfir út af þeim hæstu hálsum, sem mannaferð liggur um. Allvíða var þess getið, að birnir gengu á land í hörkunum, og voru þá drepnir bæði norður á Sléttu, í Fljótum, á Skagaströnd, í Mjóafirði, Núpasveit og víðar, og var einn þeirra veginn og vó 1300 pund fleginn. Hvalir króuðust inni í ísnum og voru t. d. tveir drepnir í vök á Húnaflóa, og á Látraströnd náðust 90 höfrungar í eitt skifti, og var selt af þeim ketið á 11 aura pundið. Fugl féll einnig mjög, bæði rjúpa og æðarfugl, og sumstaðar fundust álftir frosnar í vökum. Á einum

stað í Landeyjum er sagt, að hross hafi fundist standa í haga helfreðin. Þótti ástandið um tíma hið ískyggilegasta og var látið illa yfir úr öllum sveitum landsins. En þegar á leið fór hörkurnar að lina, og fyrstu þorradægrin var stundum 4⁰ hiti í Reykjavík á daginn og frostlaust á næturnar. Í öndverðum febrúar hlánaði um land alt og varð nær alautt á láglendi sunnanlands, og öðru hvoru 4—6⁰ hiti, og fór þá ísinn að leysa frá landinu. En í febrúarlok kom afturkippur, og rak þá enn ís inn á Eyjafjörð í stórviðri. Hófst þá aftur grimdartíð og grenjandi hríðar nokkuð fram á Góu, en slotaði svo í þriggja vikna tíma unz aftur rauk upp í rosa í einmánaðarbyrjun og stóð í meira en hálfan mánuð með 10—25⁰ frosti og garra. Þá kom aftur bati og blotar, svo jörð varð víða auð og ísinn fór að leysa sundur og reka burtu. Varð þetta mörgum bændum til bjargar, því að hey voru víða lítil, en gjöf og innistaða orðin ýmsum nærri um megn, 25 vikur sumstaðar. En ekki varð þessi bati til frambúðar, því að upp úr hvítasunnu, eða í maílok sló aftur niður og gerði náttfrost og nepjur, og hélst langt fram í júlí. Var jörðin nú illa farin og hrakin, og gerði þá grasbrest um alt land um sumarið, og var tekið seint til sláttar. Sumstaðar var sagt, að kalinn væri alt að því þriðjungur túnanna og varla ljár berandi í útengjar, og það, sem nýtilegt var af túnunum, tæplega betra en útengjar áður. Í Skagafirði fengust t. d. sex hestar af einu túni, sem áður gaf sextíu, og tíu af öðru, sem áður gaf hundrað og tuttugu. Heyskapur var helzt stundaður upp um mýrar og heiðar. Í Safamýri slógu t. d. 20 bændur fleiri en áttu þar ítök. Um sláttinn var víðast hvar góð tíð og þurkar. En upp úr miðjum september harðnaði aftur og fenti víða fé og teptust leitir, og í nóvember svarf víða svo að, að taka varð skepnur á hey og hýsa þær, og sló þó sumstaðar í harðbakka að ná þeim sakir illviðra. Í nóvemberlok leysti snjóa og hélst jörð víðast alauð það sem eftir var ársins.

Það lætur að líkindum, að landbúnaðurinn hafi ekki spunnið gull úr þessu árferði, enda þykjast margir bændur hafa borið skarðan hlut frá borði. Auk þess sem grasbresturinn varð, brást uppskera garðávaxta víðast tilfinnanlega, nema helzt í Rangárvalla- og Skaftafellssýslum. Þó var heyskorturinn jafnaður eftir föngum með fóðurbæti, einkum síld, og telst fróðum mönnum svo til, að bændur hafi eytt tveimur miljónum króna til þeirra kaupa. Við ótíðina og ókjörin bættist svo óvenjudýrt vinnufólkshald, kaupamenn tóku 40—60 kr. en kaupakonur 18—25 kr. á viku, auk fæðis og skæðis.

Afurðir landbúnaðarins hafa hinsvegar ekki hækkað að sama skapi og hin ófriðarárin, og verzlunin óhagstæð og klafabundin af brezkum samningum. Af landbúnaðarafurðum hefir þó smér hækkað svo í verði, að það kostar í Rv. um 6 kr. kg, og mjólkin komst upp í 80 au. l. En þó var mjólkurskortur víðast í bæjum og smérframleiðsla heldur lítil, því að eins 12 rjómabú störfuðu. Kýrverð var 400—500 kr. og verð á öðrum skepnum eftir því, á ám 40—60 kr. og sumstaðar hærra, á góðum reiðhestum 1000—2000 kr., en á púlshestum um 500 kr. 1000 hestar voru sendir til Danmerkur. Á öðrum afurðunum var verðið svipað og áður, nema ket hækkaði dálítið, var selt í Rv. á 1.54—1.66 kg af sauðaketi, en á kr. 1.50 á Akureyri. En slátur af sauðum og geldum ám kostaði 2.50—3.25. Talið er að ket hafi hækkað í verði um 88 á hndr. síðan í upphafi ófriðarins, en þó hefir formaður Búnaðarfélagsins reiknað út, að fyrir eina kettunnu með hæsta Reykjavíkurverði hafi fyrir stríðið fengist 366 kg af rúgméli, en 1918 (í febr.) aðeins 183 kg. Svipað verður uppi á teningnum, ef bornar eru saman aðrar vöruteg. T. d. fengust áður fyrir kettunnuna 232 kg af haframéli, en 1918 aðeins 135 kg, einnig áður 317 kg af hveiti, en í febr. 1918 aðeins 132 kg, áður 131 kg af sykri, en s. l. ár ekki nema 81 kg.

Svona hefir dýrtíðin komið niður á flestum sviðum, og enn aukist á árinu 1918, og er talið að verðhækkun hafi þá numið til jafnaðar alls 230 á hndr. síðan í styrjaldarbyrjun. Í Reykjavík var útsöluverð helztu vöruteg. þetta um sumarið 1918: kol: 325 kr. smálestin, og hafa þau hækkað um 1030 á hndr. síðan fyrir stríðið, rúgmél 63 kr. hver 100 kg, og nemur hækkunin þar 253 á hundr., hveiti 80 kr. 100 kg, og er hækkunin þar 268 á hundr., hafranél 45 kr. hver 100 kg, og hækkunin 209 á hndr., sykur í smásölu kr. 1.50 kg og kaffi kr. 2.20 kg, en það hefir ekki hækkað nema um 58 á hndr. Annars hefir verzlun landsins verið enn þá erfiðari og verri þetta ár en undanfarið. Hún hafði áður verið samningsbundin við Breta, en þeir samningar féllu úr gildi um áramótin, en hófust ekki á ný fyr en í marz og var ekki lokið fyr en seint í maí, til stórbaga fyrir verzlun landsins og siglingar. Fyrir Íslands hönd samdi þriggja manna nefnd, Kl. Jónsson fyrv. landritari, Rich. Thors framkvæmdastjóri og E. Briem form. Búnaðarfjelags Íslands. Þessir nýju samningar voru nokkuð frábrugðnir þeim fyrri, bæði víðtækari og samið við fleiri en Breta, bæði fulltrúa Bandaríkjanna, Frakka og Ítala, og fóru samningarnir fram í London. Þeir tóku nú bæði til inn- og útflutts varnings, þannig

að bandamenn áttu fyrir ákveðið verð forkaupsrétt að íslenzkum útflutningsafurðum, en skuldbundu sig hinsvegar til þess að selja Íslendingum ákveðinn smálestafölda af helztu nauðsynjavörum, s. s. kolum, korni og steinolíu. Þó var ákveðið innflutningshámark ýmsra tegunda, sem ekki mátti víkja frá, og var því skipuð nefnd til þess að sjá um innflutninginn og jafna honum niður á innflytjendur hlutfallslega eftir því, sem þeir höfðu flutt inn áður. Þó heyrði innflutningur landsverzlunarinnar ekki undir eftirlit innflutningsnefndar, en landsverzlunin sá um aðdrætti ýmsra aðaltegundanna, s. s. á korni, kaffi, sykri, kolum og steinolíu. Að þessum teg. frádregnum er álitið að innflutningsmagnið hafi sjö síðustu mánuði ársins numið um 9 miljónum króna eftir álagslausu innkaupsverði varningsins. En alls mun hafa verið flutt inn á árinu fyrir rúmar 30 miljónir króna.

Aftur á móti hefir verð á útfluttum vörum á árinu numið um 46 milj. kr. og er það mest fiskur, en því næst ket og síld, og var það næstum alt bundið samningum við Bandamenn og fór gegnum hendur sérstakrar útflutningsnefndar. Þó afsöluðu Bandamenn sér nokkru af kaupréttinum og leyfðu útflutning síldar til Svíþjóðar og hrossa til Danmerkur, eins og áður er sagt, og sömuleiðis var ketið, rúmar 35 þús. tunnur, selt til Noregs fyrir um 7 milj. kr óa. Annars var verzlunin á árinu mest við Bandaríkin og hefir eitt skip — Gullfoss — haldið uppi stöðugum ferðum milli New-York og Reykjavíkur, farið alls 6 ferðir, en Lagarfoss 3 og Willemoes 2. Verzlun Íslands við Bandaríkin nam frá 1. júlí 1917 til 30. júní 1918 930000 doll. í útfluttum vörum, en 1807000 doll. í innfluttum vörum, og er það mjög mikil aukning frá því fyrir stríðið, því þá (1914) nam útflutningurinn 86813 doll. en innflutningurinn 15855 doll. Mest er það hveiti, sykur, grjón og vefnaðarvörur, sem keypt er frá Bandaríkjunum; þó viðskiftin hafi mest hnigið vestur á bóginn, hafa þau einnig verið allmikil við Bretland og Danmörku.

Eins og sjá má að nokkru leyti á því, sem sagt var um verzlunina, hafa siglingar og samgöngur verið fremur stopular og stirðar, einkum fyrri hluta ársins, meðan samningarnir voru ekki fullgerðir. T. d. var útgerðin að komast í öngþveiti í ársbyrjun vegna saltskorts, og kom ekki saltskip fyr en í miðjum maí, því hin höfðu verið kyrsett, og flutningaskip landssjóðs í aðgerð. Úr siglingunum rættist þó þegar á leið. Fimm síðustu mánuði ársins fóru t. d.

29 skip frá Reykjavík til útlanda, en 73 komu. Auk Ameríkuferðanna, sem áður er getið, var haldið uppi stöðugum ferðum milli Reykjavíkur og Kaupmannahafnar með einu skipi, sem flutti þó ekki póst, og milli Leith og Reykjavíkur með viðkomustað í Bergen. Flutningsgjöld með þessum ferðum hafa lækkað allmikið á árinu, einkum vegna þess, að stríðsvátryggingar lækkuðu. Stríðsvátrygging á vörum kostaði fyrri árshelminginn 3 og 5 af hndr. eftir því, hvort flutt var á gufu- eða seglskipum, en 12 eða 15 af hndr., ef siglt var um hættusvæðið. En eftir að samið var vopnahlé féll iðgjaldið svo, að það nam aðeins $^1/_8$ af hndr. fyrir öll skip jafnt. Nokkuð svipað fóru flutningsgjöldin að lækka. Fyrri hluta ársins var flutningsgjald milli Bretlands og Íslands 400 kr. á smálest með landssjóðsskipum, en í desember 175 kr. að jafnaði. En sennilega hefir flutningsgjaldið ekki allstaðar verið alveg svona hátt, því auk áætlanaskipanna sigldu hingað allmörg leiguskip, aðallega með kol og salt, og botnvörpungarnir sigldu stöðugt með afla sinn til Englands.

En botnvörpungarnir, sem veiðar stunduðu nú, voru að eins sjö, fimm frá Reykjavík og tveir úr Hafnarfirði. Einn var gerður út frá New Foundlandi. Oftast nær öfluðu þeir í ís og sigldu jafn óðum með aflann til Englands. Verðið var mjög misjafnt, frá 1200 og upp í 8000 pund fyrir farminn. En auk botnvörpunganna stunduðu 14 þilskip veiðar á vetrarvertíð, en 7 á vorvertíð, og var hæstur afli 62 þús. Einnig var nú aftur farið að stunda allmikið veiðar á opnum bátum, og í Reykjavík voru t. d. á árinu 120 bátar. Eitt skip var einnig gert út til hákarlaveiða. Í ýmsum veiðistöðum hamlaði gæftaleysi nokkuð, en yfirleitt var aflinn góður og má telja að fengist hafi alls um 19 þús. smálestir, miðað við fullverkaðan saltfisk. Aftur á móti brást síldaraflinn að ýmsu leyti og öfluðu botnvörpungarnir tiltölulega minna en vélbátarnir, einn t. d. aðeins 700 tn. Á Siglufirði voru þessar veiðar stundaðar af 60 vélbátum og 1 botnvörpung og 8 skipum norskum, og var aflinn samtals um 60 þús. tunnur. Eitthvað svipað var ástandið á Ísafirði, en rættist þó nokkuð úr, er á leið, bæði þar og í Reykjarfirði. Mun hafa orðið af þessu halli á útgerðinni allvíða, enda var flest, sem til sjávarútvegs þurfti, vandfengið og dýrt. Smálestin af saltinu kostaði t. d. 260—270 kr. og steinolíutunnan 90 kr., en smurningsolía 200 kr. Af öðru því, sem sjómenn þurfa, má nefna að olíuklæðnaður og stígvél kosta nú um 125 kr. og línur $3^1/_2$ pd. um 95 kr. og fjögra mannafar, sem áður kostaði 200 kr. með öllum

útbúnaði, kosta nú minst 600 kr. Fæði sjómanns er reiknað 80 kr. á mánuði auk soðningar. En fiskverðið er að jafnaði t. d. í Rvík 10—14 aura pundið í smásölu. Á fullsöltuðum fiski komst verðið eitt sinn upp í 80 au. kg, en féll fljótt eftir að fréttist um brezku samningana. Telst mönnum svo til að Bandamenn hafi með þeim haft af Íslendingum um 30 milj. kr. á móts við það ef verzlunin hefði verið frjáls. Nokkur ný skip hafa bæzt í flotann á þessu ári, þar á meðal fyrsta dieselvélarskipið, sem hingað kemur, og 4 vélskip önnur. Hins vegar hafa líka nokkur skip farist og mannskaðar orðið. Í febrúar fórst vélbáturinn Njörður með 4 mönnum. Í s. m. strandaði Asnæs, pappírsskip, við Meðalland og druknuðu 2 menn, 11. marz strandaði es. København hjá Gróttu, 3. marz fórust vélbátarnir Adolf og Frí frá Vestmannaeyjum og 9 manns druknuðu. 5. apríl fórst bátur frá Ólafsvík og druknuðu 9 menn. Í s. m. fórust 2 bátar af Akranesi með 5 mönnum. Í júlí var vélbátnum Gullfaxa sökt. Í ágúst fórst saltskip við Suðurland, í okt. var botnvörp. Njörður kafskotinn og 24. des. strandaði skipið Philip við Garðsskaga.

Af atburðum, sem orðið hafa í stjórnmálum landsins, er helzt að geta þess, að á árinu fekk Ísland viðurkent frelsi sitt og fullveldi. Konungur hafði látið svo um mælt á ríkisráðsfundi 14. nóv. f. á., að hann vildi láta taka alt samband landanna til meðferðar og endurskoða það. Danska stjórnin tjáði sig þá einnig reiðubúna til að taka upp samninga og varð það úr milli íslenzka forsætisráðherrans og dönsku stjórnarinnar að senda samninganefnd til Reykjavíkur. Var svo Alþingi kvatt saman 10. apríl, því að í öndverðu var búist við því, að samningarnir gætu hafist um það bil. En svo varð ekki, og varð þá allmikill kurr meðal margra þingmanna út af því að láta þingið sitja iðjulaust svo langan tíma, því samningarnir hófust ekki fyr en 1. júlí, og þinginu var stefnt saman aðallega þeirra vegna. Önnur mál, sem fyrir því lágu, voru engin mjög merk, og urðu þó allmiklar umræður og skærur um ýms þeirra, einkum dýrtíðar og launamál. Þinginu var slitið aftur 17. júlí og var það lengsta þing, sem hér hefir setið. 10 stjórnarfrumvörp voru lögð fyrir þingið og 39 þingmannafrumvörp og 25 frumvörp afgreidd sem lög, en 12 feld og 12 ekki útrædd. Einnig voru fluttar 50 þingsályktanir og 8 fyrirspurnir. En merkasta mál þingsins var, eins og áður segir, sambandsmálið. Samninganefndin tók til starfa 1. júlí og áttu sæti í henni af Dana hálfu, Ch. Hage verzlunarráðherra, þingmennirnir I. C. Christensen, Borg-

bjerg og prófessor E. Arup, en af Íslendinga hálfu, kosnir af Alþingi: Jóh. Jóhannesson bæjarfógeti, prófessor Einar Arnórsson, Bjarni Jónsson frá Vogi og Þorsteinn M. Jónsson. Þessi nefnd kaus sér síðan undirnefnd og stóð alt starfið fram til 18. júlí, að uppkast nýja sáttmálans á íslenzku og dönsku var undirskrifað. En áður hafði virzt svo um tíma sem skoðanamunur ætlaði jafnvel að verða meiri en svo, að samkomulag næðist, og komu fram ýms uppköst og tillögur, er lauk með þeim sáttmála, sem nú er staðfestur og alkunnur. Uppkastið var borið undir Alþingi, sem kom saman 2. sept. og samþykt þar með öllum atkvæðum gegn tveimur. Síðan var það borið undir þjóðaratkvæði 19. okt. og samþykt með 12338 atkv. gegn 989, og í Þjóðþinginu danska voru þau samþykt 22. nóv. með 100 atkv. gegn 20 og í Landsþinginu 29. s. m. með 42 atkv. gegn 15, og gengu í gildi 1. des.

En böggull fylgir hverju skammrifi og nokkrar »plágur« gengu líka yfir landið á árinu, og er þar helst að telja Kötlugosið og kvefpestina. — Katla byrjaði að gjósa um nónbil 12. október. Varð þess fyrst vart í sveitunum í kring af landsskjálftahræringum allsnörpum. Síðan fóru að heyrast afskaplegar dunur og dynkir í fjöllunum og öskugráir reykjarstrókar tóku að vinda sig upp yfir hnjúkana og smáhækka og stækka. Brauzt síðan fram mikið jökulhlaup og vatnsflóð og rann á Mýrdalssand austan Hafurseyjar með ógnum og usla. Tók t. d. alveg af brúna á Hólmsá og bar hana burtu með stöplum og öllu saman. Tóku síðan að sjást sindrandi glæringar og leifturblossar í reykjar- og gufumekkinum, sem altaf varð hærri og hærri með hverjum degi. Varð hann svo hár að hann sást vestan og norðan af landi og langt utan af sjó og altaf látlaus ljósagangurinn með miklum blæbrigðum og litskrauti, svo að fólk safnaðist hvervetna saman í stórhópa til að horfa á — það sem ekki var á gosstöðvunum. Í jökulhlaupinu eyddust fjórir bæir í Meðallandi: Sandar, Sandasel, Rofabær og Melhóll, en mannbjörg varð alstaðar. Aftur á móti týndist margt af skepnum, en sumt fanst dautt í íshrönglinu og hrönnunum. En í nærsveitunum, þar sem loftið og hagarnir spiltust af ódaun og ösku, gerðu skepnur ýmist »að híma eða æða um málþrota«. Öskufallið varð um tíma allmikið og fór víða yfir; í Reykjavík var t. d. einn daginn öskuskán um allar götur, og andlit og fatnaður fólks öskugrár og kámugur. Og víðast á Suðurlandsundirlendinu voru »allar lautir og enda rót alstaðar eins og flag af öskugráu klessulagi«. Þá varð stundum svo dimt, að ljós urðu að loga um hádag,

en nákunnugir menn viltust milli bæja, þó skamt væri á milli. En stundum var eins og biksvart myrkrið moraði af maurildum og öskukornin fuku um eins og snarkandi gneistar eða settust á húsin svo að lýsti af. Voru menn í fyrstu hræddir um, að askan væri banvæn gróðri og fénaði og bar eitthvað á veikindum fyrst framan af. En síðan var askan rannsökuð í efnarannsókarstofunni í Rvík, og reyndist mestur hluti hennar kísilsúr efnasamsteypa og nokkuð af járni, í efnasambandi (ferrosamb.) sem hættulegt er gróðri, en eyddist smásaman áður en það gæti eitrað jarðveginn. Einhver gerði það sér til gamans, að reyna að reikna út hvað öskufallið hefði verið mikið, og gizkaði hann á, að 57 smálestir af ösku hefðu fallið yfir Reykjavíkurbæ þann daginn, sem einna verstur var. Þetta er þrettánda Kötlugosið sem sögur fara af, hið fyrsta var 1179, en hið næsta á undan þessu 1860. Menn, sem voru á ferð eystra, gizkuðu á, að jökulgjáin, sem gosið og hlaupið mynduðu, væri 1000 faðmar á lengd, 300 á breidd og 80 á dýpt, en aurburðurinn myndaði allmikla landspildu fram í sjóinn.

Önnur plágan, sem yfir gekk og ekki betri, var kvefpestin eða spánska veikin. En hún hefir farið um flest lönd og orðið, að sögn, 6 miljónum manna að bana. Verst varð veikin í fyrri hluta nóvembermánaðar í Reykjavík. Skall hún þá yfir alt í sinu og svo ört og óvænt, að í mörgum húsum lögðust allir íbúarnir svo að segja í senn og margir voru hjálpar- og hjúkrunarlausir jafnvel dögum saman eða lágu einir hjá líkum ættingja sinna, en ófærir um að ná í aðstoð. En er á leið varð mikil bót á þessu. og var þá komið á fót reglubundnu hjúkrunar og hjálparliði og sjúkrastofum komið upp og ósjálfbjarga fólk flutt þangað. Var þetta alt rekið fyrir samskotafé ýmra einstaklinga og félaga og unnið af sjálfboðaum undir stjórn próf. L. H. Bjarnason. Má svo segja, að stöðvast hafi alt viðskiftalíf bæjarins og samband hans út á við um tíma; búðum var lokað vegna fólkseklu, nema lyfjabúðum og brauðsölubúðum; blöð komu ekki út og símasambönd ekki afgreidd, nema til lækna o. s. frv. Samfara þessu var matarskortur og ýms eymd og óþægindi, sem leiddi af illri aðbúð og húsnæðisleysi, sem mjög hefir sorfið að í Reykjavík. Má t. d. nefna að einn dag um áramótin síðari var hús auglýst og báðu 80 manns um það samdægurs. Úr matarþrönginni var reynt að bæta á ýmsan hátt, m. a. hélt Thor Jensen uppi eldhúsi, þar sem hann gaf um og yfir 300 manns mat daglega fram til áramóta. Í Rvík er talið að látist hafi 260 manns, mest 14. og 17. nóv. eða yfir 30 hvorn daginn. Flest hefir dáið á

aldrinum 30—40 ára. — Út um land breiddist veikin nokkuð, t.d. bæði upp í Borgarfjörð og austur í sveitir, en varð yfirleitt vægari þar en í Rvík. Ýmsar sveitir hafa líka ákveðið að verjast og hafa nokkrar deilur orðið um upptök veikinnar og varnir gegn henni.

Helztu mannalát ársins eru þessi: 17. jan. Snorri kaupm. Jónsson á Akureyri, s. d. Engilbert Sigurðsson bóndi á Kröggólfsstöðum, 25. jan. Bergur Þorleifsson söðlasm., 20. febr. frú Anna Claessen, 10. febr. Guðbjörg Jónsdóttir í Hvammi á Landi, 28. febr. Gróa Blöndal í Vatnsdal, 18. febr. Þórhildur Skúladóttir í Odda, 12. febr. Sig. Jónsson frá Haukagili, 4. marz Hjörtur Hjartarson í Rvík, 5. marz frú Guðrún Jónsdóttir á Efra-Hvoli, 3. marz Bergljót Jónsdóttir frú, 21. marz H. Andersen vélstjóri, 11. apríl Friðbjörn Steinsson á Akureyri, 25. maí Bjarni Þórðarson frá Reykhólum, s. m. Halldór Benediktsson á Skriðuklaustri, 14. ág. G. Grönvold kaupm., 22. sept. frú Helga Johnson, 30. okt. frú Kristjana Snæland í Hafnarfirði, 28. nóv. Elinborg Fr. Kristjánsson, 19. nóv. frú Guðrún Þorsteinsdóttir frá Breiðabólsstað, 27. des. Valgard Claessen, s. m. Sigurjón Jóhannesson frá Laxamýri.

Í inflúenzunni létust m. a. frú Torfhildur Hólm 14. nóv., frú Elín Laxdal 12. nóv., frú Þóra Hermannsson 12. nóv., frk. Bergljót Lárusdóttir 17. nóv., Jón Kristjánsson prófessor 9. nóv. og kona hans Þórdís Benediktsdóttir 12. nóv., Jóhann Kristjánsson ættfræðingur 12. nóv., Guðm. Magnússon (Jón Trausti) 18. nóv., Páll Matthíasson skipstj. 15. nóv., Jón Jónsson frá Vaðnesi, frú Borghildur Arnljótsson 17. nóv., Guðm. Guðmundss. cand. phil. 15. nóv., síra Lárus Halldórsson frá Breiðabólsstað 17. nóv., dr. Björn Bjarnason, Sigfús Bergmann kaupm. í Hafnarfirði, Oddgeir Ottesen Ytri-Hólmum, Finnbogi Jónsson Útskálahamri, Guðm. Benediktsson bankaritari, frú Herdís Matthíasdóttir 19. nóv., frú Jónína Amundadóttir 20. nóv., frú Guðrún Johnson, Gestur Einarsson á Hæli, frk. Ingileif Zoega, Emil Jensen bakari 21. nóv., Björn Bjarnason sýslumaður 12. des.

**Vilhjálmur Þ. Gíslason.**

---

## Ritfregnir.

**Minningarrit um séra Jón Bjarnason** dr. theol. (1845—1914). Gefið út af hinu ev. lút. kirkjufélagi Íslendinga í Vesturheimi. Winnipeg 1917.

Kirkjufélagið vestur-íslenzka hefir gefið út sérstakt minningarrit um séra Jón Bjarnason látinn. Er það að maklegleikum, að Vestur-Íslendingar finna hvöt hjá sér til að heiðra sem bezt minning þess manns. Bæði sem leiðtogi og sem maður á séra Jón heitinn það skilið, að honum sé sá sómi sýndur látnum af þeim, sem hann var svo mikið fyrir. Sem l e i ð t o g i hefir séra Jón tvímælalaust verið meira fyrir vestur íslenzka þjóðarbrotið en nokkur maður annar, ekki í kirkjulegu tilliti einu saman, heldur í flestum greinum, svo mjög sem hann lét sig skifta allan hag útfluttra landa sinna, var að einhverju leyti riðinn við öll þeirra áhugamál og þar venjulega að einhverju leyti í broddi fylkingar. Og ekki er oss Austur-Íslendingum síður skylt en bræðrum vorum vestra að minnast þess með þakklæti, hversu séra Jón barðist alla tíð fyrir varðveizlu þjóðernisins með Vestur-Íslendingum, hversu mikinn þátt einmitt hann á í því, að þeim hefir tekist alls yfir að varðveita það til þessa tíma. En að séra Jón var þeim sá leiðtogi sem hann var, stóð vitanlega í nánasta sambandi við það, hvílíkur m a ð u r hann var, hvílíkum kostum búinn einmitt til að verða leiðtogi annara; á eg þar fyrst og fremst við ágætar gáfur hans, stefnufestu, einarðleik og ósérhlífni. Að hann vegna mannkosta sinna hafi verið höfði hærri en aðrir Vestur-Íslendingar um hans daga, munu allir, andstæðingar ekki síður en meðhaldsmenn, fúsir til að kannast við. Og sjálfsagt er það höfuðlán Vestur-Íslendinga að hafa átt annan eins mann og séra Jón í sínum hóp einmitt á frumbýlingsskaparárunum.

Svo skammt sem liðið er síðan séra Jón leið er enn naumast hægt að gera sér fulla grein áhrifanna af starfi hans. En trú mín er það, að dómur sögunnar verði þar yfirleitt ekki nema á einn veg.

Minningarrit kirkjufélagsins fer alls yfir vel með minningu hins látna stofnanda þess og forseta um fjölda ára. Eg skal í einlægni játa, að eg hafði ekki búist við því jafngóðu. Því að það er vandaverk að ganga svo frá slíku riti, að þeim er lesi þyki sér ekki nóg boðið með því, sem sagt er um þann, sem verið er að minnast. Lofsamlegu lýsingarorðin eru svo handhæg og freistingin svo mikil að grípa til þeirra þar sem látnir menn eiga í hlut, sérstaklega atkvæðamenn; enda segir gamalt orð: »lastaðu ekki látinn mann« (de mortuis nil nisi bene). Eðlilega kennir í minningarritinu víða lofsamlegra lýsingarorða, en þó ekki til neinna lýta. Mikið af því lofi, sem höfundarnir bera á séra Jón látinn, er í alla staði maklegt. Um sumt hljóta að verða skiftar skoðanir — eins og gengur.

Mestur hluti minningarritsins er æ f i s a g a séra Jóns í þrem þáttum eftir þá séra Runólf Marteinsson (»Fram að hádegi«, 1845—80), Sigurbjörn Sigurjónsson (»Á Seyðisfirði«, 1880—84) og W. H. Paulson (»Í Winnipeg« 1884—1914), og þ r j á r r i t g e r ð i r um séra Jón eftir þá séra Björn B. Jónsson (»Leiðtoginn«), séra Guttorm Guttormsson (»Í ræðustólnum«) og séra Hjört J. Leó (»Ritstörf«). Auk þess eru í ritinu »Endurminningar og ummæli« nokkurra nafngreindra vina séra Jóns og loks þrenn minningarljóð eftir þá séra Jónas A. Sigurðsson, séra Valdemar og séra Matthías — eru hin síðustu þeirra ort að séra Jóni verandi enn á lífi.

Eins og eg las ritgerðirnar um séra Jón á undan æfisögunni, svo vil og minnast þeirra hér á undan henni.

Þar hefir séra Björn forseti tekið að sér það hlutverkið, sem þakklátast var, að lýsa séra Jóni sem l e i ð t o g a, enda hefir hann komist vel frá því. Í ritgerð þeirri er margt vel athugað. Er vafalaust sannmæli það er hann segir um séra Jón, að hann hafi verið »þeim hæfileikum gæddur til líkama og sálar, er gera menn sjálfkrafa að leiðtoga annara manna«, enda lít eg svo á, að þar hafi séra Jón verið mestur, — meiri sem leiðtogi en sem kennimaður og jafnvel rithöfundur. Eins hygg eg það réttmætt þegar forsetinn segir um hann, að þótt andleg mótun hans kynni að hafa orðið af annari gerð ef aldrei hefði til Vesturheims farið, þá hefði hann, hvar sem hann hefði lifað og starfað, orðið atkvæðamaður og höfðingi, því að svo miklu hærri var hann öðrum mönnum og atgerfið mikið. Aftur skal eg játa, að þá skoðun hefi eg aldrei haft á séra Jóni, sem forsetinn heldur fram, að hann »hafi fyrst

og fremst verið trúmaður af hjarta og tilfinningu«. En þess er vitanlega að gæta, að persónuleg kynni mín af séra Jóni voru lítil, svo að eg hefi ekki á öðru að byggja en því, sem eg hefi lesið eftir hann prentað. Í prédikunum séra Jóns hinum prentuðu (»Guðspjallamál«) hefir mér altaf fundist hjartans og tilfinninganna gæta mun minna en mikilla vitsmuna hans, og þar vera yfirleitt fremur talað til höfuðs og skilnings. Alt hið sama fanst mér um þær fáu prédikanir, sem eg heyrði séra Jón sjálfan flytja um dagana. Þetta kemur þá líka heim við það, að afturhvarfsprédikun í eiginlegum skilningi með sterkri undirstrikun syndar og náðar, hefi eg enga fundið í »Guðspjallamálum« hans, en það er aftur því eftirtektarverðara, sem hann leggur jafnmikla áherzlu á friðþægingunna og hann gerir. Og Krists-prédikun séra Jóns finst mér yfirleitt bera vott hins sama, að þar sé mestmegnis talað til höfuðs og skilnings. Persónulegs vitnisburðar um Krist gætir þar fremur lítið, svo mjög sem Kristi þó er haldið þar fram og trúvarnar-viðleitnin einlæg.

Lýsing séra Guttorms á séra Jóni »í ræðustólnum« veitir mér, sem svo sjaldan átti þess kost að hlýða á hann, erfitt að leggja dóm á. Eg hefi altaf gert mér í hugarlund, að öllu meira hafi að séra Jóni kveðið sem ræðumanni utan kirkju, en í prédikunarstólnum, enda kemur sú skoðun mín að sumu leyti heim við það sem höf. segir um það efni. Prédikanir hans hinar prentuðu gefa vafalaust nokkra hugmynd um hann sem ræðumann þ. e., ræðuflytjanda. Auk þess sem mér finnast þær einatt miklu fremur fræðandi hugleiðingar um trúmál en það, sem eg kalla prédikanir (þ. e. persónulegur vitnisburður), finnast mér þær oft of sundurlausar, þurrar og veraldlegar — að eg nú ekki nefni lengdina og breiddina — til þess að þær hafi getað verið verulega áheyrilegar. En eg játa fúslega, að þetta kann að hafa horft öðruvísi við þeim, er sunnudag eftir sunnudag sátu undir ræðustól hans með hjartað fult samúðar með ræðumanninum, sem þeir litu upp til með kærleika og nærri því lotningu. Hinu get eg vel trúað, að á mannfundum utan kirkju, ekki sízt þegar hiti var í mönnum og kapp, hafi séra Jón, sá skapsmunamaður sem hann var, borið af öðrum sem ræðumaður og þá getað hrifið þá, sem á hann hlýddu, svo að seint gleymdist.

Um séra Jón sem rithöfund munu lengst af verða skiftar skoðanir. Þó ekki um málfærið á því, sem eftir hann liggur prentað. Um það verða víst allir, sem til þekkja, að vera séra Hirti Leó samdóma, að málið á ritverkum séra Jóns sé afbragð. Þarf í því efni ekki annað en nefna hina meistaralegu þýðingu hans á bók

Monrads: »Úr heimi bænarinnar«. Eg efast um, að til sé á íslenzka tungu betur þýdd bók en hún, að Mynsters hugleiðingum einum undanteknum. Lesandinn gleymir því ósjálfrátt, að þar er um þýðing að ræða, svo eðlilegt er málfærið alt á þeirri bók. Af því, sem til er frumsamið eftir séra Jón, þykir mér einna mest koma til sumra blaðagreinanna í Sameiningunni. Aftur þykir mér nú orðið miklu minna varið í fyrirlestra hans. Þeir eru allir meira og minna »undir sama laginu«, þótt hver beri sína sérstöku yfirskrift, og bæði lengd og breitt einatt fram úr hófi. Þótt innan um og saman við sé margt smellið í þeim, þá er þar líka býsna mikið af staðhæfingum, sem teljast mega óverjandi. Hann ræðst þar oft miskunnarlaust á andstæðinga sína og gerir meira að því að fjölyrða um »skaðlegar afleiðingar« þeirrar stefnu, sem þeir halda fram, en að reyna að hrekja staðreyndir þær, sem þeir byggja á. Kveður óhæfilega mikið að þessu í baráttu hans gegn »nýju guðfræðinni«, sem honum var svo meinilla við. Barátta hans þar var mestmegnis fólgin í því að berja í borðið og hræða menn með stóryrðum um skaðsemi stefnunnar. Þess vegna var svo undur lítið á því að græða, sem hann lagði þar til mála. Við andstæðingar hans þar gátum ekki varist þeirri hugsun, að séra Jón gerði sér alt of lítið far um að kynnast ástæðunum, sem nýja guðfræðin hefði fyrir sig að bera og athuga þær til hlítar.

Það kemur þá varla heldur flatt upp á neinn, þótt oss finnist það ofmælt, að séra Jóni er sá vitnisburður gefinn í minningarritinu, að hann hafi verið frjálslyndur maður í trúarefnum. Að hann hafi ef til vill verið það framan af æfinni tel eg ekki ólíklegt, t. d. í samanburði við sýnódu lýðinn norska og séra Pál Þorláksson. En eg fæ ekki betur séð en að hann yrði með aldrinum æ ófrjálslyndari í þeim efnum og það svo, að erfitt var að eiga orðastað við hann um trúmál. Eg skil blátt áfram ekki hvernig menn, sem þó þektu hann jafnvel og höfundar minningarritsins, geta í alvöru haldið hinu gagnstæða fram. Þeir verða þá að leggja annan skilning í hugtakið »trúarlegt frjálslyndi« en alment er gert.

Þegar eg því næst sný mér að æfisögunni sjálfri, eins og hún er sögð í »minningarritinu«, þá er þess ekki að dyljast, að miðkaflinn, sá er skýrir frá Seyðisfjarðardvölinni, er tilkomuminstur. En þar er líka um aðeins stutt árabil að ræða og viðburðasnautt, þótt vafalaust hafi þau dvalarár hér heima orðið séra Jóni áhrifarík í einu tilliti. Sú skoðun er rík með Vestur-Íslendingum, að

bezta lækningin við heimþrá útfluttra landa vorra sé að senda þá heim til gamla landsins. Þeir muni þá brátt sakna Vesturheimslífsins, hverfa aftur vestur og una þar betur hag sínum eftir en áður. Einmitt vegna »læknandi áhrifa« sinna í þessa átt hygg eg, að Seyðisfjarðardvöl séra Jóns hafi orðið honum mjög gagnleg. Hinum höfundunum báðum hefir, að því er mér virðist og eg get um það borið, tekist sérlega vel að láta staðreyndirnar bera manninum vitni, og sá vitnisburður er þess eðlis, að hann skilur eftir í huga þess, er les, skýra mynd af stefnuföstum og stórhuga manni, sterktrúuðum á guð og góðan árangur af starfi því, sem hann hefir kallað hann til að vinna, ódeigum til stórræða og ólötum til framkvæmda, hugsjónamanni, sem er þess albúinn að slíta sér upp fyrir hið mikla áhugamál sitt. Þar er lítil tilhneiging til að draga fjöður yfir þær takmarkanir, sem benda mætti á í fari séra Jóns, ekki síður en annara manna, þótt vitanlega sé meiri áherzla lögð á hitt. Eftirtektarvert er það, hve höfundarnir allir fara tiltölulega lítið út í deilumál séra Jóns, sem þó kvað svo mikið að meginhluta æfi hans, og þá eins hitt, hversu þeir forðast, að draga þá menn fram á sjónarsviðið með nafni, sem hann átti í höggi við um dagana. Eg skil þetta svo sem vott um háttlægni (takt) og lasta það ekki. En á æfisögu annars eins bardagamanns og séra Jón Bjarnason var, verður slíkt að teljast galli. Sérstaklega mun mörgum þykja kynlegt, að ekki skuli neitt skýrt frá bardagaárunum síðustu. Skall þó aldrei meiri ófriðaralda á lífsskip séra Jóns og kirkjufélagsins en einmitt þau árin. Að öðru leyti eiga þeir séra Runólfur og W. H. Paulson heiður skilið og þökk fyrir æfisöguna, hvernig hún er sögð. Verði saga Vestur-Íslendinga einhvern tíma rituð, eignumst vér að vonum enn fyllri sögu séra Jóns, svo samantvinnuð sem hún er allri sögu vestur-íslenzka þjóðarbrotsins á frumbýlingskaparárum þess í hinni nýju heimsálfu. Sú söguritun ætti þó ekki að dragast lengi úr þessu, svo hætt sem er við, að með dræltinum firnist yfir margt, sem ekki má gleymast og glatast, þótt ekki væri fyrir annað en það, hve vel það sýnir hver málmur er enn í Íslendings-eðlinu.

Um allmörg ár var séra Jón Bjarnason framarlega í sveit guðfræðilegra andstæðinga minna, og var það óefað til dauðadags. Af framkomu hans í þeim deildum þóttist eg geta ráðið, að hann væri ekki jafn mikill maður í guðfræðilegum l æ r d ó m i og á öðrum sviðum. Og þá skoðun hefi eg enn þá. En hún hefir aldrei get-

að að engu gert í sálu minni það álit á séra Jóni, sem mjög snemma festi þar rætur, að þar ættum vér Íslendingar einn af vorum mikilhæfustu og í sumu tilliti frumlegustu mönnum á síðari tímum. Þrátt fyrir alt, sem á milli hefir borið, er það álit mitt á séra Jóni hið sama enn í dag. Þegar eg lít yfir æfiferil hans, eins og hann nú blasir við mér að enduðu skeiðhlaupi hans, þá veitir mér auðvelt að draga fjöður yfir það í fari hans og framkomu, sem mér gazt miður að, vegna lifandi áhuga hans, einarðleika og ósérplægni. Séra Jón hafði sína galla — hver hefir ekki það? — en hann var mikilmenni þrátt fyrir það. Og vér Íslendingar eigum offátt slíkra manna til þess, að vér höfum ráð á að gleyma þeim, sem voru það með sanni, jafnskjótt og moldin hylur líkamsleifar þeirra. Að nafn séra Jóns Bjarnasonar muni lifa með Vestur-Íslendingum meðan nokkur þeirra kannast við íslenzkt þjóðerni sitt, tel eg vafalaust. En einnig meðal vor Austur-Íslendinga ætti minning hans að lifa í heiðri. Látum svo vera, að hann segði oss einatt beiskan sannleikann og að stundum gætti nokkurrar óbilgirni í dómum hans um oss og andlega hagi vora. Hins ber þá ekki síður að minnast, af hve góðum hug það var gert, góðum hug þjóðrækins manns, sem ekki gat þagað við því, sem honum gazt ekki að í lífi þjóðar sinnar, sem hann unni hugástum.

Allur frágangur minningarritsins að prentun og pappír er hinn prýðilegasti og myndirnar ágætar.

Dr. J. H.

**Þorvaldur Thoroddsen: Árferði á Íslandi í þúsund ár.** I.—II. hefti. Gefið út af hinu íslenzka fræðafélagi. Kbh. 1916—17.

Afarmikil vinna liggur á bak við slíka bók sem þessa. Segist höfundur hafa haft hana í smíðum í hjáverkum í rúm 30 ár og safnað til hennar smátt og smátt. Bókin fæðist jafnhliða öðrum verkum af líku tæi, sem komið hafa frá hendi höfundar.

Stuttur inngangur skýrir frá heimildarritum og því næst skiftist bókin í tvo kafla: Árferðisannáll 865—1900 og Hafís við strendur Íslands. Árferðisannállinn er þrír fjórðu hlutar bókarinnar, og er átt við árferði í rýmri merkingu, því að auk veðurfars er getið t. d. eldgosa, jarðskjálfta, drepsótta, faraldurs í skepnum, skiptapa, bæjarbruna o. s. frv.

Aðalheimildarrit eru annálar og alls eru heimildarritin mýmörg. Og þó sakna eg þess mjög tilfinnanlega, hve lítið eitt heim-

ildarrit er notað, og það einmitt það ritið, sem merkast er og áreiðanlegast um sögu landsins, en það er Íslenzkt fornbréfasafn. Mun sumum koma í hug, að á því sé fátt að græða um þetta efni, en við mjög lauslega athugun og eftir minni, get ég bent á eftirfarandi:

Í réttarbót Eiríks konungs Magnússonar 2. júlí 1294 (D. I. II, 155) stendur eftirfarandi grein: »Eigi viljum vér að mikil skreið flytjist héðan, meðan hallæri er í landinu«.

Í bréfi Íslendinga um skilyrði fyrir sáttmála og hylling við Magnús konung Eiríksson, um 1320, (D. I. IX, 5) er komist svo að orði: »Skreið og mjöl viljum vér að ekki flytjist meðan hallæri eru í landinu«.

Má sjá það á öðrum slíkum bréfum Íslendinga, að klausa sem þessi er þar ekki fastviðloðandi; hún er einungis á þessum tveim stöðum og má því hiklaust af henni ráða árferði á Íslandi um það leyti.

Árið 1430 ferst skip fyrir Harðbak á Melrakkasléttu (D. I. IV, 469, 511, 527).

Árið 1512 braut skip við Kaldárós í Hnappadalssýslu (D. I. VIII, 318).

Í samningi þeim, sem þeir gerðu með sér Stefán biskup Jónsson í Skálholti og Narfi ábóti á Helgafelli, 3. febr. 1514 (D. I. VIII, 370), er getið þeirra: »tilfella sem heilög Skálholtskirkja hefir fyrir orðið af eldgangi« o. s. frv. Getur verið að með þessu sé átt við afleiðingar Heklugossins 1510, en víst er það alls ekki, getur átt við annað óþekt gos. Og undir öllum kringumstæðum átti að geta þessa.

Árið 1530 brennur kirkjan á Holti undir Eyjafjöllum (D. I. IX, 432, 498).

Um árið 1543 eru til a. m. k. tvær mjög merkar upplýsingar, og það frá sjálfum Skálholtsbiskupi Gissuri Einarssyni. Í einni minnisgrein sinni getur hann um: »Kirkjukúgildin sem dáið höfðu í þessum nautadauða sem gengið hefir« (D. I. XI, 292).

Og í bréfi sem hann skrifar til Geble Péturssonar biskups í Björgvin 9. júlí 1543 (D. I. XI, 203) segir svo: »Hafa hér verið mikil harðindi í Íslandi þetta ár, allra

mest fyrir sakir hafíss svo siglingaskip hafa varla kunnað að fá upp sókt landið«.

**Engra þessara atriða er getið í Árferðisannálnum, áranna 1514 og 1543 er þar alls ekki getið.**

Þetta eru fá atriði að vísu, en þau geta verið margfalt fleiri og merkari. Og hér er um að ræða miklu áreiðanlegri heimild en annálana og flestar eða allar heimildir, sem notaðar eru.

Eg kem ekki auga á, að Alþingisbækur Íslands séu nokkursstaðar notaðar sem heimild. Gildir hið sama um áreiðanleik þeirra og Fornbréfasafnsins. Og við lauslega aðgæzlu hefi eg séð þar margt sem sjálfsagt var að nota við samning bókarinnar. Um fyrstu ár 17. aldar eru t. d. í Alþb. Ísl. miklu nákvæmari frásögur um árferði en nokkursstaðar eru til annarstaðar, sem sé bréfum biskupa og lögmanna. Aðalheimildir höf. um þau eru Annálar Björns á Skarðsá og Árbækur Espólíns. Einstök atriði önnur mætti nefna, svo mörg úr Alþb. Ísl., sem sjálfsagt var að nota, að það tæki hér upp alt of mikið rúm að rekja þau.

Er af þessu auðráðið, hver dómurinn hlýtur að verða um þessa bók: Þótt höf. hafi lagt mjög mikla vinnu í bókina og notað hinn mesta fjölda heimildarrita, þá er bókin næsta ófullkomin, því að höf. hefir látið hjá líða að nota til fulls sum áreiðanlegustu heimildarritin, sem mjög mikið var á að græða.

Eg hefi nokkuð aðgætt það, hvernig þau heimildarrit eru notuð, sem notuð eru, og ekki orðið var við að neitt verulegt vantaði í. Bókin hefir því að líkindum fult gildi að því leyti sem alt er í henni, sem vinna má úr þeim heimildum. En til þess að hún geti talist fullkomið yfirlit yfir árferði á Íslandi í 1000 ár, verður að gefa út viðbót við hana með þeim upplýsingum, sem vinna má úr þeim heimildarritum, sem ekki hafa verið fullnotuð. Og það verður ekki gert til fulls fyr en þau rit eru öll komin út.

Það hefir mjög tíðkast til þessa að ganga fram hjá Fornbréfasafninu, eða að nota það a. m. k. ekki nærri því til fulls. En sú mun verða raunin á, að alla sögu Íslands, a. m. k. frá dögum Staða-Árna og nokkuð fram yfir siðaskifti, verður að skrifa gjörsamlega á ný, með stuðningi af Fornbréfasafninu, og mun þá margt reynast með öllu rangt, sem nú er tekið fyrir sögulegan sannleika, og margt nýtt og óþekt koma í ljós.

**Tr. Þ.**

**Skrá um handritasöfn Landsbókasafnsins.** Samið hefir **Páll Eggert Ólason.** I, 1. Reykjavík. Prentsmiðjan Gutenberg 1918.

Það mátti ekki seinna vera en á hundrað ára afmæli Landsbókasafnsins, að byrjað væri á því að gefa út sæmilega skrá yfir öll handritasöfn þess. Þarna kemur byrjunin, 80 bls. í 4 bl. broti með prýðilegum frágangi hið ytra og hið innra. Nær hún yfir 212 fyrstu tvíblöðungana, en full 7000 eru handritin í safninu. Er hún sniðin eftir beztu fyrirmyndum í því efni, svo sem eru skrár dr. Kr. Kaalunds um handritin í Árnasafni og Konungsbókhlöðu. Hér er við tölu hvers handrits gerð grein fyrir stærð þess, blaðsíðufjölda, ástandi, bandi, þar sem það er, efni ritsins, og höfundum, rithönd og aldri að svo miklu leyti sem unt er. Þá er rakinn ferill ritsins, þar sem hann er kunnur: hvernig handritið er til komið og hverja leið það er komið á safnið. Loks er getið um not þess, við hvaða prentuð rit það hefir verið notað eða til þess vísað. Geta fæstir ókunnugir gert sér í hugarlund, hve víðtæka þekkingu, skarpskygni og aðgætni þarf til að semja slíka skrá svo vel sé. Er það mikið lán að eiga mann svo vel til þess fallinn sem Páll Eggert Ólason er, því að þetta er hið mesta þjóðnytjaverk. Má heita að hinir miklu fjársjóðir íslenzkra fræða, sem geymdir eru í handritasöfnum Landsbókasafnsins, séu lokaðir öllum almenningi með níu njarðlásum, meðan ekki er komin fullkomin skrá, með efnis- og nafnaskrá, þar sem sjá má í hendi sér, hvað til er í handritum um hvert efnið. Þegar þessi skrá, sem nú er byrjuð, verður fullbúin, þá er fenginn lykillinn, er opnar söfnin öllum þeim, er íslenzkum fræðum unna, og er það spá mín, að þeir muni þá koma auga á margt það, er þeir áður gengu duldir, að væri til, og draga það fram í dagsljósið, til auðgunar andlegu lífi þjóðarinnar. Því fyr sem skráin er fullger, því betra fyrir vöxt og viðgang íslenzkra fræða. Er vonandi að stjórn og þingi sé það ljóst, að svo mikið fé ætti að veita til útgáfunnar á hverju ári, að skráin geti komið út jafnharðan og hún verður til frá höfundarins hendi.

Varla þarf að taka það fram, að þessi skrá ætti að vera til á hverju bókasafni í landinu og komast í hendur allra þeirra, er leggja stund á íslenzk fræði.

G. F.

**Magnús Jónsson: Marteinn Lúther.** Æfisaga. Rvík 1917.

Þetta er þriðja ritið, sem birzt hefir á íslenzku um Lúther, og eru öll frumsamin. Mega íslenzkar bókmentir því teljast auð-

ugar að Lúthersæfisögum. Þó var engin vanþörf á þessari bók. Stórmennum kirkjunnar er meiri hætta búin af kreddum æfisöguhöfundanna, sem oftast eru prestar eða guðfræðingar, en flestum öðrum; hafa höfundarnir löngum sett sinn eigin svip á andlit þeirra. Oft hefir Lúther orðið illa úti. Á síðari árum hefir æfiferill hans verið rannsakaður frá rótum og meiri alúð verið lögð við að finna hið sanna en áður eru dæmi til. Margt nýtt hefir þá komið í ljós. Er Lúther nú allur með öðrum svip en áður var. Á nýju rannsóknunum byggir sr. M. J. sögu sína.

Æfisagan er rituð fyrir alla alþýðu manna. Frásögnin er fjörug og einið þrauthugsað. Drættirnir fáir og skýrir. Lúther stendur ljóslifandi fyrir lesandanum, kostir hans og gallar. Með sömu hreinskilni er sagt frá afskiftum hans af bændauppreistinni og framkomu hans á ríkisþinginu í Worms. Höf. tekst ágætlega að rúma í einni samfeldri mynd andstæðurnar í eðli Lúthers, »Lúther sem opinberara lífsins, stríðshetjuna ósigrandi, ritdeilugarpinn og framkvæmdaskörunginn, og á hinn bóginn heimilisföðurinn Lúther, viðkvæman, kýminn, ístöðulítinn og draumlífan«. Lúther er hágermönsk trúar- og þjóðhetja. Og heimilishetja; menn skilja hvað eg á við, þótt málið eigi ekki orð yfir það, líklegast af því að fæstar sögur fara af þeim hetjunum, þótt flestar séu.

Eftir því sem mér er bezt kunnugt er bók þessi bezta alþýðuritið um Lúther, sem út kom á Norðurlöndum siðbótarafmælið mikla 1917. Mynd sr. Magnúsar af Lúther er listaverk, en engin ljósmynd. Hann hefir lagt sál sína í hana. Sumstaðar virðist ljóst af frásögninni að sr. M. J. er afbragðs teiknari. Mér er og næst að halda, að það þurfi flestar sömu gáfur til að rita vel æfisögu manns og teikna andlit hans.

Málið er ljóst og lipurt. Setningarnar stuttar og snjallar. Því leiðara er að það skuli ekki altaf vera hreint. Eg nefni t. d.: bls. 8 »Þeir voru móttækilegir mjög fyrir hinum nýju hugmyndum«, bls. 14 »Hann var djúpt trúhneigður«, bls. 23 »betlimunkareglan, sem Lúther undirgekst«, bls. 35 »Fræin að uppreisn hans . . . eru hér þegar lögð«, bls. 43 »Hin sanna yfirbót . . . umspennir alla æfina«, bls. 47 »Lúther mætti fyrir sendiboða páfans« o. fl. Gallar á rithætti eru tvennskonar, læknandi og ólæknandi. Lýtin á rithætti sr. M. J. eru öll af fyrri tegundinni. — Prentvillur eru fleiri en góðu hófi gegnir, en engar hættulegar.

**Ásg. Ásgeirsson.**

**Gestur: Undir ljúfum lögum.** Alexander Jóhannesson bjó til prentunar. Rvík. Útgefandi Þorsteinn Gíslason. 1918.

Ljóðabók þessi er eftir góðan gest á heimili skáldgyðjunnar. Heimamaður er hann þar ekki, en glögt er gests augað, og ekki ólíklegt, að það veki athygli á söngvum hans, að hann er gestur, sem tekið hefir eftir kvæðalögum heimahjúanna, fundizt þar ýmislegt á vanta og reynt síðan af ásettu ráði að kveða á annan veg.

Fyrst er að geta þess, að samræmi ljóðs og lags liggur Gesti mjög á hjarta. Hefir hann ort snildarlega undir ýmsum fögrum lögum og er það mikilla þakka vert og gróði, að fá íslenzka texta við þau.

Efalaust verða, eins og þegar hefir brytt á, nokkuð skiftar skoðanir um það, hve mikill skáldskapur sé í bók þessarri. Eg fyrir mitt leyti lít svo á, sem bókin sé frekara eins konar háttalykill, en eiginlega til orðin fyrir þann guðmóð, sem menn einatt ímynda sér, e. t. v. stundum með röngu, að hrífi ljóðskáldin til bragsmíða. Og þó er það sannast að segja, að víða í bókinni bregður fyrir ágætum skáldskap, sem ekkert góðskáld þyrfti að skammast sín fyrir. Gætir þess einkum í fyrra kafla bókarinnar, sem er samnefndur henni. Vil eg nefna nokkur ágæt kvæði, t. d. hinn snildarlega Sorgardans í Sveinkaljóðum. Hann er svona:

Okkar óðum fækka fundir,
fyrnist ást,
ástin þín,
ekki mín,
ástin þín, sem brást.
Ekkert getur lengur stytt mér stundir.
Sorgin, hún er trygg og trú,
trygg og trú,
trúrri en þú,
þó hún mæði mig á allar lundir.
Ég vildi að sorgin,
— ég vildi að þú —
— vildi að þú —
— værir sorgin.

Hér koma fram ágætir ljóðskáldseiginleikar, inniIeg tilfinning, fagurt og samræmt form, og sá andblær frá hæðum skáldskaparins, sem enginn aflar sér sjálfur, heldur er »gefinn að ofan«. Nefna má fleiri góðkvæði í þessum flokki, t. d. Hún Kata litla í

Koti, Í Ljúfaland, Hún syngur o. fl. Í þessum beztu kvæðum Gests er dillandi söngómur, sem heillar eyru og hug, og í því er fólginn aðalstyrkur hans. En aftur má e. t. v. segja um Sveinkaljóð sem heild, að samhengið sé full-laust og perlurnar virðist því stundum hrjóta hver í sína áttina.

Vel tekst honum og, er hann yrkir »vikivaka«, t. d. Hólamannahögg og Sigurður Íslandströll, sem hvorttveggja eru ágæt kvæði í sinni röð. Þar hefir hann náð hinu fegursta úr miðaldarhreimnum og yngt það upp.

Allmargar þýðingar og stælingar eru í bókinni og ætla eg ekki að tala nánara um þær, enda eru mér ekki kunn öll frumkvæðin. En smekklegar virðast þær yfirleitt vera. Þó kann eg illa við línuna »Örninn baksar og beinir flug«, í Árnasöng Björnsons. Og sú þýðing virðist einnig að öðru leyti vera miður vel úr garði gerð.

Í bálkinum Hendingum eru ýmsar snotrar náttúrulýsingar og í síðasta kafla bókarinnar, Í hálfum hljóðum, kvæði og vísur ýmislegs efnis. Kennir þar margra grasa, en beztar þykja mér skopvísurnar um ástand lands og lýðs og stjórnarfarið, t. d. Skammirnar og Mörlandavísur.

---

Aðalatriðið í kvæðum Gests er þó formið í þrengri merkingu, eða það alt, er að bragfræðinni lýtur. Kemur hann þar fram með ýmsar breytingar frá því, sem nú er venja í skáldskap vorum, og má greina þær í tvent: Reglulegar nýjungar frá skáldsins hendi (svo sem tilbrigðin í ljóðstafasetningu) — og hins vegar afturhvarf til bragreglna fyrri tíma, er einkum kemur í ljós í áherzlum þeim, er skáldið notar.

Um nýjungar skáldsins segir dr. Alex. Jóhannesson í sínum fróðlega formála fyrir bókinni:

»Í nokkrum kvæða Gests gætir nýrrar ljóðstafasetningar; eitt af afbrigðum hans í ljóðstafasetning er það, að hann tengir saman síðasta áherzluatkvæði ljóðlínu við fyrsta áherzluatkvæði næstu ljóðlínu og heldur auk þess stuðlum, eins og í þessu erindi:

Líða tregatár um fölar hlíðar,
hljóðar bíða grundir kuldatíðar,
hinsta lóa lyftir væng á sandi,
synda andir burt frá klakagrandi.
Náhljóð kveður við í hverju spori,
spörum harm — alt rís á næsta vori.
(Hausthармur.)

Þessi nýju ljóðstafaorð eru auk þess skothendur og eykur það á hljómfegurðina.

Annað afbrigði hans er það, að hann tengir saman ljóðstafi, þótt stuðlar séu á milli, eins og t. d. í Álfakónginum:

ljúfa stjarna, hvar má augað eygja
ljósið þitt
lýsa rökkurgeim —

og er bersýnileg prýði að þesskáttar tilbrigðum í ljóðstafasetning, en gæta verður þess, að hrúga ekki allskonar ljóðstafatilbrigðum saman í einu og sama kvæði, því þá er hætt við, að allir ljóðstafafjötrar hrökkvi í sundur og íslenzk ljóð varpi sparibúningnum, ljóðstafaskrautinu.«

Eg get verið dr. Alexander sammála um það, að stundum fer allvel á þessum afbrigðum, en samt verð eg að telja alveg misráðnar þessar gagngerðu breytingar á ljóðstafasetningu þeirri, sem eyru vor og hugur hafa vanizt, frá því er vér fórum fyrst að heyra vísur kveðnar, kvæði sungin, eða þulur og langlokur þuldar.

Ljóðstafareglurnar eru orðnar svo óaðskiljanlegur hluti ljóðanna í vitund vorri, að afbrigðin særa eyrun, og þar að auki er hætt við, að svo fari, sem dr. Alexander óttast, að ef breytingar eru leyfðar yfirleitt, þá verði afleiðingin sú, að allar ljóðstafareglur fari í einn graut og Íslendingar missi þá ósjálfráðu tilfinningu, sem þeir nú hafa (flestir) um rétta setningu ljóðstafa, þótt engar viti þeir reglur. Það er ekkert að því, þótt Gestur hafi reynt þetta, til gamans, en tilraunin sýnir, að í þessu efni er hið gamla of rótfast í okkur til þess, að nokkrar verulegar nýjungar geti búizt við að sigra. Og hætt er við, að hver myndi syngja með sínu nefi, er fram í sækti, og reglur þær, sem Gestur fylgir, eru sköpun eins manns og hafa ekki þá festu, sem hin forna, aldagamla ljóðstafasetning vor hefir öðlazt.

Afturhvarfa Gests til bragreglna fyrri tíma gætir einkum í áherzlum samsettra orða. Sem kunnugt er, hefir áherzlan tekið allmiklum breytingum í íslenzku, frá því, sem áður var. Reyndar er aðaláherzlan að fornu og nýju á fyrsta atkvæði orðanna yfirleitt, en á afleiðsluendingum og öðrum lið samsettra orða var að fornu aukaáherzla, sem svo var sterk, að jafngilt gat í skáldskap aðaláherzlu. Sem dæmi má taka:

ráð gegninn bregðr ragna (Húsdrápa)
ok her þarfir hverfa (Vellekla)

*algildan* biðk aldar (*Sigurðardrápa*)
jast*rín*, Haralds, mína (s. st.), o. s. frv.

Áherzlan í þessum orðum hefir því verið þannig ($\frown$ merkir aðaláherzlu, en $\smile$ aukaáherzlu): *ráðgegninn* $\overset{\frown}{\times}\overset{\smile}{\times}\times$, *herþarfir* $\overset{\frown}{\times}\overset{\smile}{\times}\times$, *algildan* $\overset{\frown}{\times}\overset{\smile}{\times}\times$, *jastrín* $\overset{\frown}{\times}\overset{\smile}{\times}$. Með öðrum orðum: Aðaláherzla og aukaáherzla gátu staðið saman, en það er ekki leyfilegt í nýíslenzku, nema í einstöku samsettum orðum, þar sem minningin um samsetninguna er vel ljós, t. d. í *grá-blár*, *jafn-mikill* o. þvíl. Annars er reglan sú í nýíslenzku, að *önnurhvor samstafa orðs eða samsetningarliðs hefir* (aðal- eða auka-) *áherzlu og tvær slíkar áherzlusamstöfur geta ekki staðið saman*. En aukaáherzlan í þriðja atkvæði getur jafngilt aðaláherzlu, t. d.

í öngum mínum erlend*is* ( : glys).

Hér hefir *erlendis* áherzluna $\overset{\frown}{\times}\times\overset{\smile}{\times}$, en að fornu $\overset{\frown}{\times}\overset{\smile}{\times}\times$. Áherzlubreyting þessi varð á 15.—16. öld, sem sjá má af kvæðum frá þeim tíma.

Nú virðist mér það alveg óleyfilegt, enda Sýsifosar-starf, að vekja þessi fornu áherzlulög til lífs aftur. Afleiðingar þeirra héldust að nokkru, fyrir rímneyð skáldanna, lengi eftir að talmálið hefir verið breytt, en á 19. öldinni tókst að losast við þau, og er sannarlega engin ástæða til að vekja þau upp aftur.

Og eitt er víst: Ef Gesti er leyfilegt að koma með aðrar eins áherzlur og þessar t. d.:

að vaða-*klof-snjó* ($\overset{\frown}{\times}\overset{\smile}{\times}$) : dró (*Hólamannahögg*)
verið fljótir í *verstakka* ($\overset{\frown}{\times}\overset{\smile}{\times}\times$) : Bakka,
*sjónhending* ($\overset{\frown}{\times}\overset{\smile}{\times}\times$) : lending (*Háeyrardrápa*) o. s. frv.,

— þá hefir rímnaskáldunum einnig verið leyfilegt að yrkja á þessa leið:

Týrinn fés með Tomýres *drotningu* (áh. $\overset{\frown}{\times}\overset{\smile}{\times}\times$), eða
sem *hlæjandi* sólin skafla (áh. $\overset{\frown}{\times}\overset{\smile}{\times}\times$) í Númarímum.

En þetta er sem sagt alveg óleyfilegt nú, því að þótt áherzlan *eigi* e. t. v. að vera, að fornum sið, á báðum atkvæðunum, þá verður reyndin sú, fyrir áherzlulögmál það í nýíslenzkunni, sem um var getið áðan, að áherzlan færist aðeins á rangt atkvæði; t. d. verður *sjónhending* þannig: $\times\overset{\frown}{\times}\times$ í stað $\overset{\frown}{\times}\times\overset{\smile}{\times}$ — *drotningu*: $\times\overset{\frown}{\times}\times$ í stað $\overset{\frown}{\times}\times\overset{\smile}{\times}$.

Annað mál er það, að gera má það sér til gamans, að yrkja *alveg* eftir fornum reglum, en það hefir Gesti ekki hepnazt, t. d. í dróttkvæðu vísunni til Magnúsar landshöfðingja. Þar er t. d.

í 3. línu hljóðdvalar-villa (kvantitets-villa): »meðan ímuniðnir«, sem er alveg óleyfilegt eftir fornum bragreglum, því að í dróttkvæðu eiga að vera a. m. k. þrjú löng áherzluatkvæði, og með er stutt atkvæði að fornu lagi.

Ef rita ætti nákvæmlega um þetta mál, þá yrði það löng ritgerð og er öll þörf á því, að það væri gert.

Tilaun Gests til að yrkja upp frá rótum bragform Íslendinga er merkileg. Oft hefir það heyrzt á undanförnum árum, að þess væri þörf. Ljóðstafirnir væri t. d. langt of mikið haft á skáldin. En þótt svo sé e. t. v. stundum, má sjá það á skáldskap Gests, að ekki muni fært í bráð, að sleppa þeim höftum. Má geta nærri, hvernig skáldklunnunum mundi takast, er bragsnillingi eins og Gesti tekst ekki betur.

---

Dr. Alexander Jóhannesson hefir ritað fróðlegan formála fyrir bókinni og drepur þar lauslega á aðaleinkennin á skáldskap Gests. Frágangur bókarinnar er allur í bezta lagi.

**Jakob Jóh. Smári.**

**Tíu sögur** eftir **Guðmund Friðjónsson.** Reykjavík. Bókaverzlun Sigurðar Kristjánssonar. 1918.

Það er »kraftur og kyngi« í sögum Guðmundar Friðjónssonar. Orðfærið er svo ramíslenzkt og kjarnmikið, að betra getur ekki. Stundum er það svo íburðarmikið, að nota má um hann orð skáldsins (E. Ben.) um »anda náttúrunnar« — að hann

ber háskrúð sjálfra litsins linda
í ljósmyndina af degi og nótt.

Og myndir þær, sem hann dregur upp, eru flestar svo sannar, að við, sem alizt höfum upp í sveit, könnumst við þær úr bernsku — könnumst við mennina, háttalag þeirra, tal og kæki.

Guðmundur hefir snúið bakinu við töfrum vorsins. Í sögum hans blæs stælandi nepja ofan af heiðadrögum og firnindum mannlífsins. Hann hatar allan kveifarskap og amlóðahátt, þótt hann hins vegar finni til með þeim, sem eiga bágt án eigin tilverknaðar — og þess gætir víða, að honum þykir yngri kynslóðin veimiltítuleg, sérhlífin og of hneigð til allskonar tyldurs. Honum finst hana vanta staðfestu, kraft, þrautseigju og nægjusemi þeirrar eldri. Er sízt vanþörf á slíkri prédikun, þótt nokkuð einhliða sé. Nú, þegar fossfall erlendrar menningar og áhrifa streymir yfir þjóðlíf vort, er full þörf á rödd hrópandans í eyðimörkinni, sem varar oss við, að láta flóð þetta skola burt svip vorum og sál, hið ytra og innra,

sem mótazt hefir við aldalanga baráttu gegn eldi, ís og andlegum dauða.

Þessi einkenni Guðmundar, sem eg nú drap á, koma þegar berlega í ljós í fyrstu sögunni (Afi og amma), sem raunar er engin saga, heldur lýsing — snildarleg lýsing á hjónum með ýmsa beztu eiginleika þeirrar kynslóðar, sem nú er að hverfa eða horfin — nýtnina, sparsemina, karlmenskuna — og á hinn bóginn sérvizku og kreddufestu.

Í Frásögn Malpoka-Manga lýsir hann kvenskörungi einum, sem vasast mjög utan heimilis og heldur m. a. fyrirlestur »um heimilisháttprýði, húsmóðurskyldur og sólskinið í heimahúsum þrifnað og reglu«, en er sjálf mesta subba og vargur að auk. Síðast í þeirri sögu býsnast sögumaður yfir því, að »Birgitturnar og Gunnurnar« séu »í þann veginn að fá kosningarréttinn«. Þegar eg las þetta, hreyfði sér hjá mér löngun til andmæla, þar eð mér virtist þetta vera »sneið« til kosningarréttar kvenna. Skyldi ekki vera margar »Birgitturnar og Gunnurnar« í karlmannsfötum, þótt nokkuð á annan veg sé? Og er nokkurt vit í takmörkunum, sem styðjast við ytri ástæður, t. d. vissa tekjuupphæð, kynferði o. þvíl.? Og hvernig á að meta andlegt atgjörvi manna við kjörborðið?

Ábyrgð er alvarleg saga um það, hvernig samvizkulaus braskari narrar nízkan og úlfúðarfullan bóndafáráðling til þess að »ljá« sér jörðina í veð, en alt fer auðvitað til skollans — bóndinn deyr, konan flosnar upp af kotinu, börnin tvístrast í allar áttir, en kaupmannsbraskarinn fær mikilfenglegt grafarmark yfir jarðneskar leifar sínar, þar sem á eru letraðir mannkostir hans o. s. frv. Í sögunni er nístandi kaldhæðni og um leið djúp meðaumkun með veslingunum, sem samvizkuleysið annarsvegar, og fáráðlingshátturinn hins vegar, steypa í ógæfu.

Frá Furðuströnd fjallar um »dularfull fyrirbrigði«, og líkist helzt þjóðsögn. Neistaflug segir frá pólitískum blaðrara og brennuvargi, sem hlotnast mikill heiður og sæmd fyrir »afrek« sín. Óviðfeldið finst mér það hjá skáldinu, að hann þarf endilega að láta þá tvo landsmálaskúma, sem helzt koma við sögur hans (Grím í »Neistaflugi« og Bjarna í »Tólfkongaviti«) vera Sjálfstæðismenn. Náttúrlega hefir hann fult leyfi til þess, en það minnir of mjög á »gargið« í stjórnmálaflokkunum.

»Geiri húsmaður« lýsir ágætlega ást bóndans (og húsmannsins) á fénaði sínum. Mannamót fjallar um þinghússbyggingu, þar sem eldri og yngri kynslóðin stendur á öndverðum

meið, en fundurinn um málið endar með skelfingu og hlátri. Jarðarför segir frá æfiraunum afdalabúa á Norðurlandi, á koti, þar sem »enginn sunnudagur« hefir »verið í fimtán ár«.

Tólfkóngavit er einhver hin bezta saga um stjórnmálaþrefið, sem til er á íslenzku. Þar kemur fram glöggskygni höf. á sálarlíf manna og minni hans á orð og atvik. Reyndar má draga í efa, hvort sennilegt sé, að Bjarni hafi séð allan skollaleikinn, eins og fram virðist koma í sögunni, en viljað þó í hann líka. En ekki er það óhugsandi. Og bændurnir, sem hann er að brýna til kjörfylgis við sig, standa skýrt fyrir augum lesandans, hver með sínum einkennum.

Seinasta sagan, Hillingar, er einna losaralegust. Er þar líkast því, að margar perlur séu dregnar á band, sem virðist ætla að hrökkva í sundur á hverju augnabliki. En hver um sig eru þær ljómandi fallegar.

Guðmundur er kominn í fremstu röð íslenzkra sagnaskálda. Og gott er að mega vænta meira af þeim sérkennilega og frumlega skáldskap, sem hann hefir upp á að bjóða.

**Jakob Jóh. Smári.**

**Gunnar Gunnarsson: Edbrödre.** Roman fra Islands Landnamstid. Gyldendal. Kh. & Kria 1918.

Gunnar Gunnarsson hefir skrifað nýja bók og stóra á dönsku. Hann er nú einna afkastamestur íslenzkra rithöfunda; hefir gefið út sextán bækur. Og mikið má vera ef slík fljótvirkni hefir engin áhrif á vandvirknina, þegar til lengdar lætur, þótt ekki sjái á fyrsta sprettinn. — Í Danmörku er bókum hans nú tekið tveim höndum með vaxandi vinsældum. T. d. voru um síðustu áramót komin út nærri þrettán þúsund eintök af ættarsögu Borgarfólksins og eitthvað af bókunum hefir verið þýtt á sænsku, finsku og hollenzku og enskar og þýzkar þýðingar munu vera til, en útgáfan bíða betri tíma. Meðal Íslendinga hafa bækur hans ekki átt sömu vinsældum að fagna, þótt allmikið hafi oft verið um þær rætt. Þær þykja »fara illa« og vera svartsýnar, og hvorstveggja gætir nokkuð í Fóstbræðrum.

Þótt ýmislegt megi eflaust að bókunum finna, ekki sízt þeim fyrstu[1]), finst mér samt andúðin og óvildin, sem lagt hefir út úr mörgum íslenzku dómunum, vera óverðskulduð. Mér finst einkum

---

[1]) Endursk. heildarútg. af Borgslægten hefi eg ekki séð.

hafa skinið út úr þeim skortur á samúð, samúð til að reyna að skilja orsök og eðli þeirra lífsskoðana og þeirrar listar, sem birtist í bókunum. En samúðarlaus ritdómari er lélegur ritdómari. — G. G. fór utan á unga aldri, efnalaus og mentunarlítill, til að brjóta sér braut í andlegu lífi ókunnrar þjóðar. En Róm var ekki reist á einum degi. Það hefir heldur ekki fengist með sitjandi sældinni að komast það, sem G. G. hefir farið. Það hefir kostað baráttu, baráttu fyrir mentun og þroska sjálfs sín og baráttu fyrir daglegu brauði, kostað erfiði og ómilda dóma, fátækt og jafnvel hungur. Það væri því ekki að undra, þótt eitthvað af þessu hefði litað lífsskoðun þess, sem fyrir því hefir orðið, eða þótt það hefði vakið hjá honum spyrjandi vafa um ýmislegt í lífinu, sem öðrum finst efalítið. Og hafa ekki, þegar öllu er á botninn hvolft, allar setningar, sem skáld og spekimenn hafa sagt og skrifað um eðli lífsins og tilgang, endað á ósvöruðu spurningarmerki? En bölsýnin í bókum G. G. er í rauninni ekki í öðru falin en þessu, og hverjum manni er auðvitað frjálst að taka því eða hafna.

Í Fóstbræðrum ber ekki eins mikið á þessu eins og í sumum fyrri bókunum. Þó held eg að benda mætti á stað í einni af næstu bókunum á undan, sem benti á að þetta efni hefði þá verið farið að vaka fyrir G. G. Og í efnisvalinu er þroskaþráður G. G. þannig ekki ósvipaður Jóns Trausta, þótt margt sé annars ólíkt. Þetta er söguleg skáldsaga frá landnámsöld Íslands. Þar er lýst lífi og þroska þeirra fóstbræðra Ingólfs og Hjörleifs frá barnæsku þeirra í Noregi og þangað til Hjörleifur er drepinn á Íslandi og Ingólfur seztur að í Rvík. Hjá ýmsum Íslendingum bregður oft fyrir einhverri vantrú eða vanþóknun á því, að taka yrkisefni úr fornum, norrænum heimildum. En það er ástæðulaust þegar vel er á haldið. Því að það er á engan hátt til að rýra eða spilla fornu bókmentunum. Þær geta lifað sínu lífi fyrir því. Það er þvert á móti til að vekja á þeim nýja athygli og umhugsun, og er ekki vanþörf á því, þegar þær eru að drukna í syndaflóði aðfluts andleysis, og getur þó varla talist dýrtíð á þeim iðnaði innlendum. Og það sýnir líka að ennþá er það bezta í þeim lífslind, sem nýtízku list getur ausið úr. En til Fóstbræðra gæti þessi ótti þó tæplega náð, því að beinar heimildir þeirra eru svo magrar og sundurleitar. Og það er í rauninni einkennilegt atvik, að ekki skuli vera til nein samfeld saga forn um þá fóstbræður og þann merkisatburð, sem við þá er tengdur. Því þótt t. d. Landnáma sé einstæð bók í heimsbókmentunum, er hún víðast þurt og leiðinlegt sögurit.

Hún er eins og kirkjugarður, þar sem ekkert sést eftir af hetjunum, sem gengnar eru undir græna torfu, nema þögul nöfnin á köldum legsteinunum. En það er lífið, sem lifað hefir bak við nokkur þessi nöfn, sem G. G. hefir viljað reyna að vekja á ný í Fóstbræðrum. Í öllum aðalatriðum hefir hann farið eftir þeim fornu heimildum, sem fyrir lágu, en ort í eyðurnar af sínu eigin ímyndunarafli. Yfirleitt held eg að lýsingarnar á lífi og hugsunarhætti þeirra tíma, sem lýst er, séu réttar og beri vott um, að höf. hafi gert sér far um að lifa sig inn í menningarsögu tímabilsins. Margar lýsingarnar eru góðar og skemtilegar, t. d. lýsingin á blótinu á Gaulum, heimsókn Hjörleifs hjá papanum o. fl. Stundum verða þær þó full-langdregnar. Þó eru þetta aukaatriði, að eins umgerð utan um mannlýsingarnar, sem nú eins og áður eru mergur málsins hjá G. G. Að vísu eru engar persónur í þessari bók á borð við t. d. Gest eineygða eða séra Sturlu, sem að ýmsu leyti voru svo einkennilegar og nýjar sálarlýsingar í ísl. bókmentum, hvaða skoðanir sem menn annars kunna að hafa á þeim, að þær hefðu átt að geta aflað höf. meiri samúðar en þær hafa gert. Ýmsar mannlýsingar í Fóstbræðrum eru þó skýrar, ef til vill ekki sízt sumar aukapersónurnar, t. d. Örn gamli og Hróðmar. Og ástasögurnar, sem slungið er saman við örlögþættina í lífi aðalpersónanna, eru fallegar og lýsingin á Helgu Arnardóttur sennilega sú bezta í bókinni, ef vel er lesið. Aftur á móti virðast mér lýsingarnar á Ingólfi og Hjörleifi ekki hafa orðið eins stórfeldar og eftirminnilegar og búast hefði mátt við, þótt víða sé brugðið skörpu ljósi yfir einkenni og mismun á lundarlagi þeirra, bæði í hugleiðingum sjálfra þeirra og ýmsum atvikum, alt frá því þeir urðu samferða yfir heiðina í Noregi og þangað til þeir skildu, við Ísland. Þessi einkenni þeirra og mismunur kemur í rauninni allur fram í lýsingunni á því, þegar þeir rista upp jarðarmenið til að sverjast í fóstbræðralag: Ingólfur risti áfram með jöfnum tökum, hann var rólegur og lét ekki á sig fá. — — Leifur var æstur, hann sargaði áfram af öllum mætti, svo að röndin hjá honum varð bogin og ójöfn. — —

Þetta gæti mint á lýsingu Íslendingasagna. En annars eiga Fóstbræður, eins og flestar aðrar nýrri skáldsögur, lítið skylt við framsetningarhátt eða málblæ þeirra, og finst sumum það ljóður á ráði rits, sem lýsa á sama tíma. En svo þarf ekki að vera. Fóstbræður eru t. d. í insta eðli sínu nútíma saga, engu síður en fornsaga, þegar til sálarlýsinganna kemur. Og hver tími eða höf. á

sér sína framsetningu og sinn málblæ — það er líkaminn, sem sálin íklæðist. Hjá höf. ísl. sagna var hann leikrænn, hjá flestum nýrri skáldsagnahöf. ljóðrænn, og þ. á. m. í Fóstbræðrum. Reyndar er stundum talað um sögustíl á sumum nýrri ritum norrænum. En það, sem menn hafa kallað svo t. d. hjá Björnson og Ibsen, er í rauninni alls ekki sögustíll. En það er ljóst dæmi þess, hvað sá, sem skapa vill sér þróttmikinn og fagran stíl, getur lært af fornbókmentunum, þegar fífill þeirra var fegurstur, ef hann skilur þær og kann að handleika á sjálfstæðan hátt. Að sumu leyti er þessi misskilningur líka sprottinn af því, að menn hafa blandað saman stíl og máli í þrengri merkingu. Forn málseinkenni hafa margir reynt að tileinka sér bæði hér og annarstaðar, yfirleitt og í ritum um forn efni. En þótt eg þykist þess fullviss, að fornsögurnar, ásamt þjóðsögunum, þurfi hver maður að kynna sér, sem vill auðga og efla styrk sinn í íslenzkri tungu, er eg G. G. samt öðrum þræði þakklátur fyrir, hvað lítið hann hefir reynt að koma fornum blæ á mál sitt í Fóstbræðrum. Fyrst og fremst af því, að úr því verður oftast nær ópersónulegur utangarnastíll, ósamstæð þvæla af fornu og nýju, rétt eins og menn færu að klæðast í einu nýtízku diplomat og fornum leistabrókum. Og ennþá ömurlegra verður þetta á dönsku — þótt liðugt bókmentamál sé, — svo að stundum, þegar eg les slík rit, eða jafnvel að eins sumar danskar þýðingar á fornritunum, lætur það svipað í eyrum mér og ef einhver ætlaði að reyna að spila tunglsskinssónötu Beethovens á hárgreiðu.

Þegar á alt er litið, er ýmislegt sem á það bendir, að Fóstbræður gætu náð meiri lýðhylli meðal Íslendinga en flestar fyrri bækur G. G. En, ef til vill, er það að eins af því að hún er ekki bezta bók hans, þrátt fyrir kosti hennar. Hún er t. d. hvergi eins vel skrifuð og það, sem bezt er skrifað í þeim fyrri. Og andinn í henni er í sjálfu sér ekki íslenzkari heldur. En það hafa ýmsir fundið bókum G. G. til foráttu, að þær væru óíslenzkar í anda. Reyndar finst mér að mönnum mætti liggja það í léttu rúmi, hvort andinn er að nafninu til íslenzkur eða erlendur, ef hann á annað borð er sá heilagi andi, sem einn getur skapað lifandi listaverk. En sannleikurinn er sá, að andinn og þjóðlífslýsingarnar bæði í þessari og flestum öðrum bókum G. G. er hvorki ónákvæmari né ósannari en gengur og gerist í skáldritum og alment er af þeim krafist. Hitt er annað mál, að þess má sumstaðar sjá merki, að þær eru skrifaðar af manni, sem sjálfur lifir ekki að staðaldri meðal þeirra atburða, sem hann lýsir. En ein

ástæða þess, að mörgum Íslendingum er illa við sumar lýsingarnar, t. d. á Reykjavíkurlífinu í Vargi í Véum, á þó eflaust eitthvað skylt við það, að sannleikanum verði hver sárreiðastur.

Það er tízka margra manna, þegar minst er á þessi atriði, að fara að klifa á þjóðrækniskorti og ættjarðarástar hjá G. G. og öðrum Íslendingum, sem á dönsku rita. Reyndar væri nú ekki hundrað í hættunni, þó að eitthvað heltist niður af þessu undanrennuþunna ættjarðargutli, sem barmafylt hefir íslenzkt þjóðlíf. En þessar ásakanir eru ómaklegar. Íslendingarnir hafa aldrei dregið dulur á þjóðerni sitt. G. G. telur sig t. d. altaf eiga heima í Vopnafirði og kemur nú til Íslands á hverju sumri. Og ýms kvæði hans, sem birzt hafa, bera síður en svo vott um kala til eða kæruleysi um Ísland.

Auðvitað ber engan veginn að skilja þetta svo, að æskilegast væri að Íslendingar færu að skrifa á dönsku. Íslenzk tunga hefir eflaust beðið tjón af burtför þeirra fáu, sem farnir eru. Því að henni er þroskaauki í hverri þróttmikilli hugsun, sem klædd er hennar holdi. En þær hafa komið ekki allfáar frá Islendingum við Eyrarsund. Og ef til vill má segja yfirleitt, að sú menning sé ekki fullvalda, hvað sem öllum samningum líður, sem geti ekki eða fái ekki að fleyta sér fram á móðurmáli sjálfrar sín. En er mönnum samt ekki vorkunn þó þeir leiti af landi burt, ef þeir þykjast á annað borð finna í sér einhverja krafta? Leiti þangað, sem lífvænlegra er og þroskavænlegra, þótt víðar sé reyndar pottur brotinn í þessum efnum en á Íslandi? Eða er það ekki skiljanlegt, hvaða skoðanir, sem menn kunna annars að hafa á því, að rithöf. leiti burtu úr þjóðfélagi, sem sjálft vill snúa við þeim bakinu? Þjóðfélagi, þar sem prentarinn, sem prentar bókina, fær meira fyrir hana, en höfundurinn, sem semur hana, þjóðfélagi, sem ætlar, þegar bezt lætur, öllum rithöf. sínum og listamönnum til styrktar í meira en 10 ár minni upphæð en fæst fyrir mánaðarafla eins botnvörpungs. Og það gæti í þessu sambandi eflaust verið fróðlegt fyrir hagfræðing að bera saman mat á manngildi og þorskgildi á Íslandi það herrans ár þegar það gerist fullvalda konungsríki. Þetta þykir kannske lygilegt, en þó mun ekki líða yfir lesendur þingtíðinda og fjárlaga af því:

því aldregi var því um Alþingi spáð
að ættjörðin frelsaðist þar.

Annars er það einkennilegt um þann harmagrát, sem hafinn hefir verið á síðari árum út af »íslenzkum bókmentum á dönsku«, að ákúrurnar hafa allar beinst að skáldunum einum, en ekkert ver-

ið fengist um ýmsa aðra, sem ritað hafa á erlendum málum og það útbreidd ágætisrit og viðurkend á sínu sviði, engu síður en rit skáldanna á sínu, t. d. rit Finns Jónssonar og Þorv. Thoroddsens. Og á hvaða rökum er það eiginlega reist, að gera í þessu sambandi upp á milli þess, þó skrifuð væri t. d. á dönsku söguleg skáldsaga, bókmentasaga eða menningarsaga um sama tímabilið?

En hvað svo sem þessu líður, er það auðvitað æskilegast, að ef rithöf. geta einhverra hluta vegna ekki frumritað bækurnar á móðurmáli sínu, verði reynt að snara þeim þangað sem fyrst. Og fyrir skáldritahöf. að minsta kosti, ætti þetta að vera tiltölulega auðvelt, ef þeir fá á annað borð nokkurn útgefanda. Því að það er öllum hagur, lesendum, höf. og útgef., að bækurnar komi samtímis út á báðum málunum. Og þá mættu ákúrurnar fyrir ættjarðarsvikin fara að hætta. Íslenzkum bókmentum veitir ekki af að halda öllu sínu til haga. Því að þrátt fyrir alt er ekki ólíklegt að einhvern tíma rísi deila milli ísl. og danskrar bókmentasögu um »eignarréttinn« á Íslendingunum. En þá er of seint að iðra þess, að hafa sjálfur smíðað vopnin í hendur andstæðinganna.

V. Þ. G.

**Insta þráin (Den store Hunger)** eftir **Johan Bojer.**

Þegar eg las ritdóm Sigurðar mag. Guðmundssonar um bók þessa, sem er lofgrein frá upphafi til enda, datt mér allur ketill í eld. Eins og aðrar bækur þessa höfundar, er skáldsaga þessi snildarverk, hvað efni og framsetning snertir, ef stefna bókarinnar eða lífsskoðun væri ekki afar bölsýn og varhugaverð.

Hvað vill höfundurinn sýna og sanna? Bersýnilega sama og Kristján Jónsson kvað:

»Lífið alt er blóðrás og logandi und,
sem læknast ekki fyr en á aldurtilastund«.

Þetta bölsýni er, sem betur fer, ekki allra, — og heilar þjóðir t. d. Forngrikkir hafa ekki þekt það, og venjulega þekkir ekki unga fólkið þessa lífsskoðun, ef það ekki hlær að henni, enda má fullyrða að þúsundir gamalla manna, karla og kvenna, sem alla æfi hafa átt við mótlæti að búa, hafa eitthvað sér til huggunar, sem gerir líf þeirra bærilegt, eins og Egill Skallagrímsson sem huggaði sig við ástgjöf guðanna, er hann kvað:

Þó hefir Míms vinr
mér of fengnar

bölva bætr
es et betra telk.

Og endar á þessum orðum:

Skalk þó glaðr
góðum vilja
ok óhryggr
heljar bíða.

En þetta svartsýni höfundarins er ekki nóg, því að hið neikvæða í hans trúarskoðun verður jákvætt, líkt og hjá Aug. Comte höfundi »Positivismans«, því að hann fer lengra í afneitun allra trúarskoðana en allir aðrir fræðimenn, sem kendir eru við »isma« — lengra en Níhilistar, Agnostisistar og Atheistar, því að hjá honum verður enginn sannleiksneisti í neinum trúarfræðum veraldarinnar. Slík kenning er æði nýstárleg hér á landi, enda er hún mesta fjarstæða.

En hið jákvæða hjá höfundinum í þessari kenningu hans er »Insta þráin« (Den store Hunger) sem hann lætur knýja sinn merkilega Þjalar-Jón, Pétur söguhetjuna, til að reyna til að bæta úr örvinglun sinni með því að skapa í sjálfum sér einskonar guðsveru til þess að hægja örvinglan sinni, en sem verður hjá höf. æði ónáttúrlegt. Því að síðasta stryk hans, er að sá korni á náttarþeli í akur óbótamanns, er hafði ofsótt hann og látið hund sinn rífa barn hans í hel. Lætur hann þennan granna sinn vera í voða staddan, því að hann vantaði útsáð í akur sinn. Þessi fórnfýsi heldur hann, sem allir Materialistar, er eg hygg að séu þeir einu, er afdráttarlaust lofa bókina, sé eina ráðið til að lægja ofstopa þjóðanna og sætta þær sín á milli. Því að með engu öðru móti en slíkri sjálfsafneitun og sampíning geti guðlaus veröld staðist.

Voltaire sagði, og fleiri stórfrægir höfundar síðan: »Ef mannkynið afneitaði Guði, mundi það óðar skapa sér nýjan«, og þegar hinir nýju Darwinistar deildu við Dr. Martineau, sagði dr. M.: Guð opinberar sig á þann hátt, að maðurinn á að leita þangað til hann finnur. Sama kendi Esaias, Davíð og meistarinn mikli.

**Matth. Jochumsson.**

---

# Dr. Björn Viðfirðingur.

*Norna kerti æfialdurs*
*okkar flestra er stutt og mjótt.*
*Bognar það og brestur stundum,*
*brennur, hjaðnar, eyðist fljótt.*
*Ljós af skari löngum tekur*
*lífræningi, er títt og ótt*
*bregður töfra saxi sínu.*
*Sá hefir n ú n a slegið brýnu.*

*

*Vitaðsgjafa vorrar tungu*
*vindar erja og hríðar sá.*
*Snorra sjóður, Ara auður*
*eru dreifðir til og frá.*
*Út í Höfn og Öxnafurðu*
*eftirleitin þarf að ná, —*
*Fýrisvelli fara á Skeiði,*
*Furðustrandir, Gnítaheiði.*

*Gísla fylgsni í Geirþjófsfirði*
*geymir enn þá dýran málm.*
*Gersemum frá aldaóðli*
*út er fleygt, í mosa og hálm.*
*Heldur skyldi af Héðni moka*
*hrundum stafni en kveða sálm,*
*Gunnars haug til gripa brjóta,*
*gjalli ofan af Njáli róta.*

*Andi manns, er orðum safnar,*
*alla vega þarf að gá —*
*njósnir hafa í nausti hverju,*
*nesja-búð og dala-krá,*
*ganga reka að Gjögri og Horni,*
*guða vel 'á ömmu skjá.*
*Margspurull og minnisgóður*
*maðurinn sé og óljúgfróður.*

*Enn á gulli ormur liggur,*
*æfi langa fóstru trúr —*
*fræðidís, er Háva hefir*
*helgað sinna nægta búr.*
*Viðfirðingur var að leysa*
*viðfangsefni flóknu úr,*
*þegar 'inn fölvi fjögramaki*
*fræðiljósið tók af raki.*

*Ungur gat hann fræði-flúða*
*fossa stiklað, eins og lax;*
*gekk því fram með glöðu bragði,*
*gunnreifur, til næsta dags.*
*Árdagsfákur æsku sýnir*
*eldimerlað, blóðrautt fax.*
*Alt fer það í aftans skugga*
*eins og ljós í héluglugga.*

*Gerðist Björn, þó vanheill væri,*
*víðförull um tíma og rúm.*
*Ungur sér til öndveg's ruddi*
*eins og sagan ber um Glúm.*
*Alt of snemma augun góðu*
*yfir dró hið þögla húm*
*s á sem getur orðstír eigi*
*úrvalsmanninn rænt, þó deyi.*

*Forðum sýndi Gunnar Gjúki*
*göfga list, er tónum sló*
*eina hörpu í ormagarði;*
*allar nöðrur féllu í ró.*
*Tónakyngi og málsins máttur*
*menn og guði saman dró.*
*Óðinn fékk af orðgnótt sinni*
*átrúnað hjá kynslóðinni.*

*Snild og kraftur málsins, magna*
*manndóminn að verja land*
*fyrir hverri föru-tízku,*
*fúsri til að vinna grand.*
*Visnuð tunga veitir höfði*
*vanka, og hálsi tjóðurband.*
*Dýrgrip skal til orðstírs eiga.*
*Ættlerana vil eg feiga.*

*Drengur sá, er fóstru fræðum*
*fram í dauða tryggur er,*
*göfgi sinnar móður metur,*
*Mímisbrunn fyrir skemdum ver,*
*Draupnisgull í heiðri hefir,*
*Hliðskjálf kýs og byggir sér —*
*þokkagyðjur þessum manni*
*þjóna munu í dáinsranni.*

Guðmundur Friðjónsson.

---

# Dr. Björn Bjarnason
## frá Viðfirði.

---

Hann var fæddur 3. júlí 1873 í Viðfirði í Suður-Múlasýslu og var hann 13. af 16 systkinum. Faðir hans var Bjarni Sveinsson[1]) bóndi þar, bókhneigður maður, er varði hverri tómstund til lesturs og skrifta. Er mér sagt að til séu margar bækur skrifaðar eftir hann og séu þær alveg sem prent væri. Kona Bjarna en móðir dr. Björns var Guðrún Jónsdóttir, frábær dugnaðarkona. Þau hjón voru jafnan fátæk, en komu hjálparlaust öllum sínum mikla barnahóp á legg. Björn var snemma hneigður til bókar. Kendi elzta systir hans honum að lesa og skrifa, og kverið kunni hann utanbókar 7 ára gamall. Bjó hann sér til blek úr sóti til þess að geta skrifað og las þær bækur er hann náði í. Oft faldi hann sig frammi í stofu til þess að geta í friði lesið Íslendingasögur og fleira, en ekki var hann eldri en 8 ára, er hann var látinn sitja yfir fé. Var þó langur vegur að reka ærnar í haga.

---

[1]) Um ætt dr. Björns hefir herra Hannes Þorsteinsson skjalavörður góðfúslega látið mér þetta í té:

Bjarni í Viðfirði faðir dr. Björns var son Sveins bónda samastaðar († 1877, 80 ára) Bjarnasonar einnig bónda þar († 1820, 47 ára) Sveinssonar s. st. Bjarnasonar sterka (í Sandvík í Norðfirði f. c. 1690), Sveinssonar. En kona Sveins eldra í Viðfirði og móðir Bjarna eldra þar var Ólöf dóttir Péturs Arnsteds prests á Hofi í Vopnafirði Eiríkssonar á Ásmundarstöðum á Sléttu Eiríkssonar í Skógum í Axarfirði Einarssonar prests galdrameistara á Skinnastöðum († 1699) Nikulássonar Einarssonar Nikulássonar sýslumanns Þorsteinssonar sýslumanns Finnbogasonar lögmanns Jónssonar Maríuskálds Pálssonar. — Kona Bjarna eldra í Viðfirði og móðir Sveins var Halldóra Árnadóttir frá

Síra Jónas Hallgrímsson á Skorrastað fermdi hann, og mun það hafa verið fyrir hans orð, að Björn var til menta settur. En undir skóla lærði hann hjá síra Birni Þorlákssyni á Dvergasteini og sagðist alt af búa að þeirri ágætu kenslu. Kendi síra Björn honum í tvo vetur og telur hann bezta námsmann er hann hafi sagt til. Haustið 1890 gekk Björn inn í 2. bekk latínuskólans og var öll skólaár sín næst efstur í sínum bekk, enda virtist hann jafnvígur á allar námsgreinir. Útskrifaðist hann 1895

---

Nesi í Norðfirði Torfasonar og Guðrúnar Þórarinsdóttur prests á Skorrastað Jónssonar prests á Hólmum Guttormssonar prests sama staðar Sigfússonar prests í Hofteigi, er Oddur biskup spáði fyrir, Tómassonar, en kona síra Þórarins á Skorrastað var Sesselja Bjarnadóttir prests í Ási í Fellum Einarssonar og Guðrúnar Stefánsdóttur prófasts og skálds í Vallanesi Ólafssonar prófasts í Kirkjubæ Einarssonar prófasts í Eydölum Sigurðssonar. Var Halldóra kona Bjarna eldra í Viðfirði föðursystir síra Þórarins gamla Erlendssonar á Hofi í Álftafirði, móðurföður þeirra Tulininsarbræðra. — Kona Sveins í Viðfirði og móðir Bjarna föður dr. Björns var Sigríður Davíðsdóttir frá Hellisfirði Jónssonar á Kolmúla Hemingssonar Jónssonar rímnaskálds á Vattarnesi Jónssonar. Var Sigríður systir samfeðra Árna stúdents Davíðssonar í Belgsholti, föður Hannesar prestaskólakennara, svo að hann og Bjarni í Viðfirði voru systkinasynir, en hið einkennilega var, að Hannes Árnason og Sveinn faðir Bjarna voru einnig systkinasynir, því að Árni stúdent Davíðsson faðir Hannesar og Halldóra Árnadóttir móðir Sveins voru systkin sammæðra.

Móðurætt dr. Björns er einnig alkunn. Guðrún móðir hans var dóttir Jóns í Fannardal Björnssonar á Selsstöðum í Seyðisfirði Jónssonar á Brimnesi Andréssonar. En kona Björns og móðir Jóns í Fannardal var Ingibjörg Skúladóttir á Brimnesi Sigfússonar á Kleppjárnsstöðum Jónssonar á Skjöldólfsstöðum, Gunnlaugssonar prests í Möðrudal Sölvasonar prests sama staðar Gottskálkssonar á Reykjum í Tungusveit, er kominn var af Birni Jórsalafara og þeim Vatnsfirðingum. En kona Jóns á Brimnesi og móðir Björns á Selstöðum var Þórunn Ólafsdóttir lögréttumanns á Ketilsstöðum í Jökulsárhlíð Péturssonar á Hallgilsstöðum Péturssonar eldra á Torfastöðum í Vopnafirði Bjarnasonar sýslumanns á Bustarfelli Oddssonar prests á Hofi í Vopnafirði Þorkelssonar Hallgrímssonar Bjarna-Sveinbjarnarsonar prests í Múla Þórðarsonar. Voru þeir síra Oddur á Hofi og Guðbrandur biskup bræðrasynir. Er mjög fjölmennur ættbálkur kominn frá Bjarna Oddssyni (Bustarfellsætt), og hefir karlmenska og harðfengi lengi verið ættarmark á því kyni.

með ágætiseinkunn. Skólaskýrslur greina þó eigi frá einni námsgrein er Björn bar af öðrum í, en það var leikfimin. Hann unni alla æfi leikfimi og hvers konar íþróttum og lagði á þær hina mestu stund Er það eftirtektavert, að í hinu stutta æfiágripi er hann reit, svo sem skylda er til, þegar hann varð doktor, lætur hann þess getið um kennara sinn, síra Björn Þorláksson, að hann hafi verið jafnvel að sér gerr um klassiska mentun sem líkamsíþróttir. Svo hefir Ólafur Rósenkranz sagt mér, að dr. Björn hafi verið einn hinna beztu leikfimismanna er hann hafi kent og að enginn hafi tekið honum fram að áræði. Hann var ofurhugi til stökks og klifraði sem köttur Í knattleikum, glímum og dansi var hann jafnan lífið og sálin á skólaárum sínum, og í leikfélagi skólapilta tók hann fjörugan þátt.

Sumarið sem Björn varð stúdent sigldi hann til Kaupmannahafnar. Segist hann, í æfiágripi því er eg áður greindi, hafa verið innritaður sem læknisfræðisnemi við háskólann og hafi hann fyrsta misserið þreifað fyrir sér í öllum deildum hans, áður en hann réð það af að lesa málfræði og hafa norræn mál fyrir aðalnámsgrein en þýzku og latínu að auki. Næsta vor lauk hann hinu almenna heimspekisprófi með lofi

Á háskólaárum sínum varð Björn að afla sér fjár með aukastörfum, aðallega prófarkalestri og þýðingum. 1897 kom út þýðing hans »Úr dagbók Sibiriufara« eftir Korolenko, 1898 þýðing á »Uraniu« eftir Flammarion, og sama ár þýddi hann langa grein, í Eimreiðina, eftir vin sinn Henrik Ussing, um »Nútíðarbókmentir Dana«.

Sumarið 1897 brá hann sér til Íslands og fór þá fótgangandi með Jon H. Krabbe, nú trúnaðarmanni stjórnarinnar, frá Mývatni til Ísafjarðar, meðal annars í þeim tilgangi að safna þjóðsögum. Birtist sumt af þeim í Sagnakverum þeim tveimur, er hann síðar gat út á Ísafirði, 1900 og 1903. — Veturinn 1899—1900 las hann heima á Ísafirði á heimili unnustu sinnar Gyðu Þorvaldsdóttur læknis. — Í upphafi hafði hann ætlað sér að taka skólakennarapróf í þeim

fræðum, er eg áður greindi, en brá af því ráði og tók meistarapróf í norrænum fræðum árið 1901. Fór hann síðan heim og gerðist skólastjóri við Barnaskólann á Ísafirði.

10. september 1902 kvongaðist hann heitmey sinni. Hefir þeim orðið fimm barna auðið, og lifa tvær dætur og einn sonur.

Árið 1903 komu út »Æfintýri handa börnum og unglingum«, er Björn hafði þýtt. Veturinn 1903—'04 flutti hann á Ísafirði fyrirlestra einu sinni á mánuði fyrir Mentafélagið þar. Af handritum hans og bréfi til mín sé eg, að þeir hafa verið um þjóðflutningatímann, víkingaöldina, fund Íslands og landnám, löggjöf og landsstjórn, aðaleinkenni sögualdarinnar, íþróttir, skemtanir og félagslíf, og loks um fornbókmentirnar. Einn þáttur úr þessum fyrirlestrum birtist í Tímariti Bókmentafélagsins 1904: »Fáein orð um íþróttir og skemtanir fornmanna«.

Á þessum árum tók Björn að undirbúa doktorsritgerð sína: »Nordboernes legemlige uddannelse i oldtiden«. Sumarið 1904 sigldu þau hjónin til Kaupmannahafnar. Starfaði hann að ritgerðinni um veturinn. 11. nóv. þ. á. skrifar hann mér:

»Eg hef nú setið með sveittan skallann síðan ég kom og farið á hundavaði yfir ósköpin öll af útlendum heimildarritum, írskum, enskum, frönskum og þýzkum annálum, kronikum og historíum, til þess að leita að upplýsingum um herfarir og háttu norrænna víkinga, og enn sé ég ekki fyrir endann á allri þeirri hersingu af munkaritum, er þeir háu herrar heimta að ég taki með. — — Hvernig sem ég streitist við, get ég ekki orðið búinn með skriftirnar fyr en í marz í fyrsta lagi«.

Ritgerðin var tekin gild 29. maí 1905 og varði Björn hana við Kaupmannahafnarháskóla 27. sept. s. á. Hvarf hann þá heim til Ísafjarðar aftur og gegndi þar skólastjórastöðu sinni þann vetur og hinn næsta.

Um sumarið 1907 flutti hann búferlum til Reykjavíkur og vann fyrst fyrir sér með tímakenslu um veturinn.

Um nýársleytið mun hann hafa fengið stöðu við Landsbókasafnið. Um það skrifar hann mér 23. marz 1908:

»Við starfið á bókasafninu kann ég mjög vel. Ég fæst við að skrásetja og kanna handrit. Að vísu er þar ekki margt stórfenglega andríkt, en svo einkennilegt íslenzkubragð er að mörgu af þeim varningi, að ég hirði ekki um gómsætari mat«.

Haustið 1908 kom út bók hans »Iþróttir fornmanna á Norðurlöndum«. Sama haust var hann skipaður kennari við Kennaraskólann. Hann skrifar mér 14. des. 1908:

»Frá skólanum get eg ekki sagt þér gjörla, því að eg kann lítt um hann að dæma frá kenslufræðinnar sjónarmiði. En að mínu viti gengur hann v e l, og ræð eg það helzt af því, að nemendurnir eru hinir ánægðustu og áhugasömustu, þykir yndi að náminu og gefa sig alla og óskifta við skólalífinu. Eg þykist líka vita að flestir kennararnir kunni alltraust tök á starfi sínu. Um sjálfan mig skal þess þó getið, að eg finn að eg er of reikull í ráði um a ð f e r ð i r n a r, sem þú leggur svo mjög áherzlu á; eg hef ekki ratað á það enn, að kunna að leggja niður fyrir mér fyrir fram, hvernig eg skuli haga kenslu minni, jafnvel ekki fyrir eina stund í senn, nema þegar um bókmentafyrirlestra er að ræða. Eg verð að fara eftir augnablikshvötum, dansa eftir þeim þráðum er hugmyndatengdirnar spinna í meðvitund minni. Ekki er eg hræddur um það, að eg beri ekki nógu mikið á borð, en hitt finn eg vel að betur mætti raða réttunum og gera þá gómsætari. Hins vegar hugga eg mig við þá von, að mér muni lærast starfið smátt og smátt, því að yndi hef eg af því, enda hugsa eg ekki um annað en skólann.

Af þessu geturðu leitt þá ályktun, að lítil líkindi muni til að eg verði til þess að auðga skólann að námsbókum í mínum greinum, sízt svona fyrsta kastið. Orðskipunarfræði og stílfræði tel eg enda ómögulegt, jafnvel færustu mönnum, að semja að svo stöddu, meðan vísindalegar rannsóknir vanta gjörsamlega á þeim sviðum«.

Svona leit hann þá sjálfur á kenslu sína. En handrit sem til er eftir hann um byrjandakenslu, sérstaklega í móðurmálinu, sýnir að hann hefir brátt með hinni mestu gjörhygli tekið að gera sér og nemöndum sínum grein fyrir k e n s l u a ð f e r ð u m og rökstutt þær. Í hinni snjöllu

minningargrein um dr. Björn hefir Helgi Hjörvar kennari lýst kenslu hans og samlífi við nemendurna þannig:

»1908 tekur Kennaraskólinn hér til starfa og varð hann þar kennari. Eg var þar einn nemenda hans. Og eftir að hafa sjálfur fengist nokkuð við kenslu, skilst mér það æ betur, hversu frábærlega hann rækti það starf, hversu grandgæfilega hann vandaði til hverrar einustu kenslustundar. Enga fyrirhöfn sparaði hann, ef nemendur hans áttu í hlut. Aldrei hefi eg t. d. séð stíla leiðrétta af slíkri umhyggju og hjá honum. Og enginn skildi þó betur en hann, hversu bókstafurinn deyðir en andinn lífgar. Þrátt fyrir þessa miklu nákvæmni varð kensla hans aldrei þur eða þunglamaleg, en síhlý, skýr og fjörleg, en þó stillileg og virðuleg, eins og maðurinn sjálfur. Í allri umgengni hans við nemendur var ástúð og djúp alvara og festa, samfara glaðlyndi og bróðurlegu félagslyndi. Mesta gleði hans var að bregða sér til leika með nemendum sínum, milli kenslustunda og oft þess utan, síðari hluta dags, eða þegar tími vanst til. En þessi félagsskapur breytti í engu hinni þögulu virðingu fyrir kennaranum. Slík festa og göfgi var jafnan yfir honum Þess í milli bauð hann nemendum oftlega til kveldverðar, heima á heimili þeirra hjóna. Varð þá einatt skrafdrjúgt og glatt á hjalla, og margskonar þjóðlegir leikir til skemtanar. Þær stundir munu seint úr minni líða þeim sem nutu. Og upp úr þessu hlutu margir nemenda hans vináttu hans til frambúðar, og þeirra hjóna beggja. En dr. Björn gleymdi trauðla nokkrum nemenda sinna, þótt hann væri »firr farinn«. Hann var síspyrjandi þá, sem hann umgekst eða hitti, um líðan og gengi hinna, sem hann gat ekki staðið í beinu sambandi við. Og nú, við lát hans, munu þeir hver og einn blessa minning hans, hins hugumljúfa kennara og göfuga manns«. (Skólablaðið 1919, bls. 9).

Til eru í handriti fyrirlestrar er hann hefir flutt á Kennaraskólanum um íslenzkar bókmentir: um Eggert Ólafsson, Jón Þorláksson, Sigurð Pétursson, Benedikt Gröndal eldra, Magnús Stephensen, Bjarna Thorarensen Sigurð

Breiðfjörð og Bólu-Hjálmar, Steingrím Thorsteinsson og Grím Thomsen (drög). Þeir eru, að mér virðist, prýðilega samdir, og bregður þar víða fyrir andríkum líkingum.

Árin 1908 og 1909 komu út tvö fyrstu bindin af Sturlungu, í útgáfu Sigurðar Kristjánssonar, og hafði dr. Björn búið þau undir prentun Í þrjú ár, 1910–1912 var hann ritstjóri Skírnis, en skrifaði þar ekki annað en nokkra ritdóma, enda mun skólinn hafa tekið mestan tíma hans og heilsan var farin að bila. — Um vorið 1912 fór hann að Vífilsstöðum og var þar um sumarið, en um haustið til Kaupmannahafnar og þaðan um nýár til Vejlefjord Sanatorium. Þaðan skrifar hann mér 18. jan. 1913 meðal annars:

»Henni er nú svo komið, orkunni minni, — sem aldrei hefir mikil verið — að mér vex í augum að eiga að hripa eitt sendibréf. Það er líka svo kalt þessa dagana. Óðar en maður rekur einhvern anga út undan fötunum seilist nepjan upp yfir rúmstokkinn og glepsar í hann gráðugum tönnum. Furða hvað nefið á mér þolir. Ef til vill verður það þó kalið af fyrir sumarmálin, svo að eg verð að koma heim spýtnefur. Ekki þó í flokki með öðrum »spýtnefum«, til þess að vella fyrstu vorgrautana; svo snemma verð eg varla flugfær, en einhverntíma fyrir Jónsmessuna vona eg að fá að sjá ykkur Víkinga og Esjuna. Nema það kynni að detta í mig með vorinu að ganga suður, — o, nei, skildingana vantar; mig tekur víst enginn Djunki upp af götu sinni. Það skal verða gleðidagur, þegar eg kem heim til Víkur aftur. Eg held eg fari á túr! Ertu með? Það er hálfleiðinlegt að liggja svona alt af í rúminu, alheill, til þess að gera. Lestur get eg þó lítið skemt mér við, því að þessi hitavella, sem í mér er, fer að derra sig óðar en eg reyni eitthvað lítilsháttar á mig andlega eða líkamlega. Ég hefi verið að gutla við að lesa Odysseifskv. (þýð. Svb.) undanfarið og hefi imponerað læknunum mjög með því. Henni er nú svo komið klassisku mentuninni — lítur út fyrir — að það þykja undur og stórmerki ef maður sést með Hómer í hendi og það í þýðingu. Enn meira gekk þó fram af þeim, er eg sagði þeim, að jafnvel ísl. alþýðumenn læsu þessa bók og hún væri til í 2 útg. og auk þess poet. þýð.

Þú ræður mér til að yrkja — og þá náttúrlega helzt slétu-

bönd! Það er líkt og að ráða prófastinum á ..... til að skemta sér við smíðar. Hann átti einu sinni að reka nagla í vegg. Naglinn lenti í nefið á honum, en hamarinn út um glugga. Ráðinu hef ég samt reynt að fylgja; en gáfuna vantar gjörsamlega. Alt af þegar eg ætla að fara að yrkja, rennur sama myndin upp í huga mér: sólaruppkoma um vornótt heima í Viðfirði; þá sýn hefi eg fest dýpst í huga; eg naut hennar svo oft þegar eg sat hjá inni í fjalli að næturlagi eða vakti yfir túninu. En ekki einu sinni þessa einustu mynd í mínu poetiska albúmi hefi eg getað málað. Ekki vantar það, að margar verða vísurnar til hjá mér, og verkið er mér bezta dægrastytting; en alt eru það aðfengin leirbrot, illa samspengd. Til dæmis eru þessar 2 sléttubandavísur (— það er jafngott þótt þú fáir að kenna á afleiðingum ráðs þíns):

Villir tröllin sumarsól,
sylluhöllin loga;
gyllir fjöllin, hlíðar, hól;
hillir föllin voga.

Þekur márinn fjörufit,
fögur blika höfin;
rekur sunna glóðaglit,
gullin rekkjutröfin.

Og þessar tvær ósléttar:

Rakkar latir rísa' í tröð;
roðar lagarstafi,
rekur sunna geislum-glöð
gullintröf úr hafi.

— — —

Dimt er enn í dölunum,
döggin grá á bölunum,
en út um haf hjá hvölunum
byrjarlog í sölunum«.

Ekki fékk hann bata á Vejlefjord Sanatorium og fór þaðan í febrúar 1914 suður í Sviss til Locarno við Lago Maggiore og var þar fram í miðjan júlí s. á., er hann fór til Clinique Les Sapins í Leysin. Það er í frönsku Sviss. 30. júlí segir hann í bréfi til mín:

»Loks um miðjan júlí slapp eg úr böndum Hábít jötni í Lógörðum. Honum þykja fagrir frankarnir, og hann beitti því öllum brögðum til að halda í mig sem lengst, lét kerlingu sína fá mér bezta herbergið í húsinu með svölum gegnt sól, — svo að hægt var að ýta út þangað rúmi mínu á daginn —, dekraði sjálfur við mig í mat og kurteisi og setti út dóttur sína, sem er mær tungumjúk í meira lagi, til að telja mér trú um, að þeir yrðu allir hjartveikir sem til háfjallanna færu. En hvorki var það þó dekrið né fortölur hennar, er hamlaði svo lengi hingaðför minni, heldur vorkuldarnir og veðursæld Lógarða í samanburði við önnur héruð Helvítalands (— svo þýddi eg ávalt Helvetia í Cæsar hjá sr. Birni forðum og glotti þá klerkur í kampinn, en ávítaði mig þó ekki, því hann hélt eg gerði það í hjartans einfeldni). — — Hér í Leysin hef eg verið hálfsmánaðartíma. Fellur allvel. Verð víst að liggja í rúminu fram um jol. Batanum miðar þetta hægt og örugt — það þykist eg nú finna með vissu. Hér batnar allflestum. Það er hreinn og beinn undrakúr þessi sólkúr fyrir beinberklinga. Við liggjum í sólunni í fötum keisarans 5—6 stundir á dag.

Blessaður, gefðu mér eitthvert annað ráð til dægradvalar en að yrkja. Eg er orðinn hálfærður af að klifa sólarhringum saman við sömu hendingarnar, sem fá þó aldrei skáldasnið á sig. Og nú er svo komið, að eg hefi ekki frið á nóttinni, er yrkjandi í svefninum. Í nótt dreymdi mig t. d. (— eg var byrjaður á bréfi til þín í gærkvöld), að við stóðum kjólbúnir í ganginum að Wittmacks Lokale. Það var ball í Ísl.félagi. Við vorum að skrafla saman fyrir framan spegilinn, meðan þú varst að toga á þig hanzkana, um einhvern hlut, er þú lagðir frá þér á meðan á spegilhilluna (— kerti? að það hafi verið kerti, marka eg af því, að eg man svo hljóðandi variant við 3. hendingu: »Á þeim loga ljósin skær«. Í svefninum getur reyndar logað á mörgu. Þar er engin logik(?)). Tvær síðari hendingarnar mundi eg, er eg vaknaði:

Þau seldi þér in mjúka mær,
sem merkt er þér á baugi.«

Í ljóðabréfi til Sigf. Blöndal, sept. 1914, hefir hann kostulega lýst högum sínum í Leysin:

Sjálfum mér að segja frá
sé eg engar þarfir á:
Sálin skorpin skreið á rá,

skrokkurinn grindahjallur,
Þar um sigin þunnildi
þúsund horuð maurildi
glóra dauft í dimmunni,
þá dagurinn er allur.

Nú á að skoða skrokkinn vel,
skygna bæði hupp og stél
með radium og Röntgens-vél,
rétt svona að ganni.
Svo vona eg, ef vingjörn sól
verður mér um næstu jól,
að mega fara' að rölta á ról
og reyna' að verða' að manni.

Systur á eg, sol'tið peð,
saffrangulum augum með,
hryggur boginn, hokið knéð,
hjarta úr svörtum steini.
Í þennan harða hnullunginn
hef eg þegar brotist inn,
og ljósgul augun ljúfleg finn.
Líklega sá eini.

Stofan mín er mesta gull,
af músabörnum rogafull,
í hverju horni sorp og sull,
því sópað er í flaustri.
Á öllum veggjum eru dyr
— aldrei svoddan þekti eg fyr. —
Enginn gluggi. Gangsvalir
gagnvart suðri' og austri.

Ýlir, þýtur, gnestur gátt
við geypilegan hljóðamátt,
þegar glettin glygg um nátt
í göt og rifur hvía.
Ferna sextán franka' eg gef
fyrir stofu mýs og kvef
um vikuna. Að auki hef
aðstoð læknis fría.

Að veggjarbaki er kostakröng
kytrustofa'. Um dægur löng
heyri eg þaðan svásan söng
sorg og gleði boða.
Þar liggur dís ein dökk á bjór,
— digur eins og meðalþjór
— er mér sagt — eg aldrei fór
yfir um hana' að skoða.

»Góðskí nóttskí!« gegnum þil
grenjar á kvöldin hringabil.
»Áttu, pabbi, ekki til
ögn af súkkulaði?«
Aftur svara eg: »Rússarakk
er rækals ekki sinn bölvað pakk.
Hans, systir, farðu' á flakk
og færðu' henni mola' í blaði«.

Eina bók þýddi hann meðan hann var í Leysin. Minnist hann á það í bréfi:

»Þú spyrð um þýðinguna. Hún hefur legið á hillunni lengi. Af því að ég les aldrei íslenzku finn ég glögt að málsmekkurinn og mállipurðin dofnar; mannssálin er harpa sem alt af þarf að stilla. — — Hver þýðingin er bið ég þig geta ekki um við neinn, né heldur yfir höfuð að ég sé að fást við þýðingu. Það er »Kejsarn av Portugallien« eftir S. Lagerlöf — gullfalleg bók. En er því miður ekki nema liðlega hálfnaður, og það illa gert sem af er«.

Dvölin í Leysin varð löng. Veikindin voru þrálát — tóku sig upp aftur og aftur. Hann kom ekki heim þaðan fyrri en sumarið 1917. Þá var hann orðinn það hress, að hann gat með varfærni farið að vinna að ritstörfum. Var honum þá svo sem kunnugt er falið að starfa að íslenzku orðabókinni, og vann hann af alhuga að henni árið sem varð hans síðasta. Heilsan batnaði jafnt og örugt, unz sóttin mikla kom skyndilega og lagði hann í gröfina. Hann andaðist 18. nóvember 1918, rúmlega 45 ára að aldri.

Í vasabók sína hefir hann einhvern tíma skrifað þessar stökur:

Ef utan við mig eitthvað reit ég
ósjálfrátt á blaðadót,
»15« þar leit ég
fyr en vissi ég af því hót.

Hvert sinn mér í huga ómar:
»Hér er skráð þín æfispá«.
Hvaðan fengu fingurgómar
fyrir löngu vitund þá?

---

Dr. Björn Bjarnason var af góðu bergi brotinn í báðar ættir og kom það fram í öllu eðli hans og dagfari. Eg sá hann fyrst á skipsfjöl, er eg fór til Reykjavíkur til að ganga inn í 3. bekk latínuskólans. Björn var þá í 4. bekk. Þá voru á 2. farrými á »Thyru« um 20 skólapiltar og heldur glatt á hjalla og þysmikið. Það sem dró mig undir eins að Birni var prúðmenska hans og yfirlætisleysi og hlý góðvild, er meðal annars kom fram í því að bjóðast til að hjálpa mér með eitthvað, sem eg var að fást við — mig minnir það væri flatarmálsfræði — því að eg var að lesa undir inntökupróf á leiðinni. Frá þeirri stund vorum við jafnan vinir. Fyrsta ár mitt við Kaupmannahafnarháskóla bjó eg á Garði og var þá sambýlingur Björns. Með honum var gott að vera.

Björn var í æsku feiminn, og eimdi lengi eftir af því. Hann gaf sig lítt að ókunnugum að fyrra bragði og virtist þá dulur og fáskiftinn. Lagði ekki lag sitt við marga, en var ástúðlegur og tryggur vinum sínum og leit meira á kosti þeirra en sína. Í kunningjahóp var hann glaðvær og skemtinn og gat verið æringi. Honum var yndi að veita með rausn á heimili sínu og sómdi sér manna bezt í húsbóndasæti.

Heimilið var kastali hans, eins og Englendingar segja. Það vissi hann fyrir löngu, að hann var vel kvæntur, og tengdafólki sínu unni hann mjög. Var það að makleg-leikum. Allir munu skilja, en bezt þeir sem til þektu, hvílík þrekraun það var honum að liggja árum saman í

lamasessi, einmana í ókunnu landi, fjarri konu og börnum, með starfsþrá í hverri taug og dauðann yfir höfði:

Heyri eg yfir höfði þyt
af Heljar vængjum þöndum.
Verkin dreymd og vonaglit
verð eg að láta af höndum.

En hann var sterkari en ólánið, bar það í hljóði og skrifaði vinum sínum gamanbréf, eins og ekkert væri að. —

Dr. Björn var af skáldum kominn og sjálfur skáldmæltur vel, þótt hann hefði það lítt í frammi. Eg hygg að hann hafi örsjaldan borið við að yrkja fyrri en hann tók það upp sér til dægrastyttingar í legunni löngu. Sýna bréfkaflar þeir er eg tilfærði, hvernig hann sjálfur leit á það. Til eru nokkrar stökur og kvæði eftir hann, frumsamin og þýdd, og birtist sumt af þeim í Iðunni. Þessi erindi skrifaði hann í ljóðabók Sigríðar dóttur sinnar, og mætti margt skáldið telja sig sælt þess, að hafa ort:

Fögur er mjöllin
sem fótur enginn tróð.
Dotta í blikinu
draumfjötruð ljóð.

Fögur eru blöðin
sem fáði engin hönd,
vonrík sem barnanna
bíðandi önd.

Láttu' ekki í bók þína
letra nema það
sem geyma viltu gullstöfum
greypt í hjartastað.

Láttu' ekki í hjarta þér
letra önnur mál
en þau sem guð og fegurðina
festa í þinni sál.

Virtu sjálf þinn sóma
og samvizkuköll,

að setjirðu ekki svartan blett
á sálar þinnar mjöll.

Þó úti syrti og svali,
það sakar ekki til,
ef áttu nóg í sjálfri þér
af sólargulli og yl.

Veiti það hlutskifti
hamingjan góð,
að hljómi þér æ í hjartastrengjum
hrein og fögur ljóð.

Námsgáfur dr. Björns voru fjölhæfar eins og eg benti til áður. Mun það hafa verið ein af ástæðunum til þess, að hann var ekki þegar í stað einráðinn í því, hvaða nám hann ætti að stunda. En leyniþræðir í eðli hans munu hafa dregið hann ósjálfrátt að norrænum fræðum, enda hvikaði hann aldrei frá þeim síðan. Lífskjör hans höfðu það og í för með sér, að hann gat ekki gefið sig að mörgum og fjarskyldum efnum. Þreytandi skyldustörf tóku mestan hluta tíma hans og krafta, meðan þeir entust, og hann gat því ekki helgað vísindum og ritstörfum nema lítinn tíma. Hann hafði og jafnan minna álit á hæfileikum sínum en rétt var og var strangur dómari við sjálfan sig. Af þessu leiddi, að hann fór aldrei út yfir það svið, er hann var bezt heima á, og leiddi alt annað hjá sér.

Aðalverk hans er doktorsritgerðin. Þar var efni sem eðlisfar sjálfs hans vísaði honum á. Hann skildi það með sál og líkama. Íþróttamannseðlið í honum hlaut að draga hann að þessum þætti í lífi fornmanna — er jafnframt var einn hinn glæsilegasti — og það því fremur sem enginn hafði tekið þetta efni til rækilegrar meðferðar áður. Að dómi þeirra er bezt vita, hefir hann gengið svo vel og röksamlega frá því, að þar verður naumast miklu haggað eða við aukið. Öll er bókin vel og skemtilega skrifuð. Það sýnir og álit það er hann vann sér með riti sínu meðal vísindamanna, að hann var kvaddur til að rita í

Johannes Hoops' Reallexikon der germanischen Altertumskunde þær greinir er snertuíþróttir fornmanna á Norðurlöndum, og eru þar komnar allmargar greinir eftir hann um þau efni.

Bók hans »Íþróttir fornmanna á Norðurlöndum« er að mestu leyti endursögn doktorsritgerðarinnar, en nokkuð aukin, einkum teknir inn í lesmálið lengri kaflar úr frumheimildunum.

Tilgangur dr. Björns með því riti var ekki að einsá að fræða, heldur og að vekja æskulýðinn til nýs íþróttalífs, með því að bregða upp mynd af íþróttum fornmanna og benda á, hve ríkan þátt þær áttu í atgjörvi þeirra.

Af líkum rótum er það runnið, að hann þýddi »Mín aðferð« eftir I. P. Müller (1911). Vann hann þar um leið íslenzkri tungu hið þarflegasta verk, því að þarna varð að finna og mynda fjölda orða um líkamsæfingar, og er mesti snildarbragur á því öllu, sem vonlegt var. Dr. Björn á og drjúgan þátt í því leikfimismáli, sem nú er haft við leikfimiskenslu í skólum og annarstaðar.

Snemma hafði dr. Björn áhuga á þjóðsögum og þjóðsagnafræði. Í Huld 1895 eru þrjár þjóðsögur frá hans hendi. Hann safnaði og þjóðsögum og æfintýrum, sem þegar er sagt. Þjóðsögur voru honum skuggsjá þjóðlegrar menningar. Því segir hann í formála fyrir Sagnakveri sínu: »Til þess nú að þjóðsagnirnar komi að fullum notum sem skuggsjá alþýðlegrar menningar, er sýna megi framþróun hennar stig af stigi, þurfa að vera til söfn öld fram af öld, jafnvel frá hverju hálfaldartímabili.«

Hann sá nauðsynina á því að safna einmitt þjóðsögum frá vorum tímum og bendir á að hverju leyti þjóðtrúin virðist nú orðin ólík því, sem hún áður var. Mundi hann hafa gert meira í þessum efnum, ef honum hefði enzt tími og aldur til.

En dýpsta og skærasta skuggsjá íslenzkrar menningar var honum tunga vor. Hann hafði lengi safnað spakmælum og einkennilegum orðum og orðatiltækjum til að skýra þau og rekja til róta. Það var því ekki undarlegt,

þó honum væri það feginsverk að starfa að íslenzku orðabókinni, enda var hann ágætlega til þess fallinn. Og hann var byrjaður á því verki með lifandi áhuga. Sá sem tekið hefir við því, sem hann hafði lokið, segir mér, að það sé mesta furða, hve miklu hann hafi afkastað á svo stuttum tíma. Það þótti honum raunar að því að orðtína bækur, að hugurinn var þar bundinn við bókstafinn og mátti lítt tefjast við að gefa gaum að andanum, og segir magister Sigurður Guðmundsson mér, að hann hafi kvartað um það, en eg er viss um, að hann hefði jafnað þann halla, er hann fór aftur að vinna úr safninu, skýra orðin og þýða, vega þau og finna jafngildi þeirra, því að orð voru honum eins konar glímubrögð hugsunarinnar, að finna stutt og mjúkt orð var eins og að koma snöggu og mjúku bragði á. Löng orð og luraleg voru honum jafn hvimleið og bolabrögð. Hann unni svo mjög fögrum orðum, að stundum var um of. Stíll hans gat orðið eins konar »fegurðarglíma« og mist við það hitann. Gætir þess helzt á stöku stað í »Íþróttum fornmanna«. En yfirleitt ritaði hann listavel. Honum þótti gaman að þýða af útlendum málum það sem erfitt var. Það var fimleiksraun, reyndi á mjúkleik íslenzkunnar. Þýðingar hans eru yndislega þýðar, og þar sem hann myndar nýyrði, hattar hvergi fyrir. Það úir og grúir af nýyrðum í »Úraníu«, en eg spái því, að fáir finni þau nema víðlesnir menn og athugulir.

Hið síðasta, er dr. Björn ritaði, var um n ý y r ð i, fyrirlestur sem hann flutti í Verkfræðingafélagi Íslands 30. okt. s.l. Þar var um það að ræða, hvernig ætti að auðga tungu vora af orðum yfir nýja hluti, handtök og hugtök, svo að hún væri vaxin kröfum tímans og næði að þroskast eftir eðlislögum sínum, hrein og fögur, sterk og mjúk. Þetta er hið mesta menningaratriði og brýn þörf á að taka það til rækilegrar meðferðar og benda á beztu leiðirnar. Það hefir dr. Björn gert. Fyrirlesturinn er meistaraverk. Þarna var efni, sem hann hafði hugsað frá rótum, gert sér innlíft unz það streymdi fram eins og

lind frá bergi. Hann stendur hátt, með útsýn yfir upptök tungunnar og eðlisrás. Hann skygnist um þar sem vötn hennar deilir og bendir á »yngilindir orðaforðans«. Hann slær eins og í gamni sprota sínum hér og þar á klettinn og alstaðar streyma fram fagurtærar lindir. Það er bjart yfir honum, hann talar eins og sá, sem vald hefir, og vinum hans hlær hugur við. Þeir höfðu heimt hann úr helju og verkefnin brostu nú við honum.

Nítján dögum síðar var hann dáinn — horfinn.

*Guðm. Finnbogason.*

---

# Sir George Webbe Dasent.

Nokkru fyrir miðja nítjándu öld voru uppi í Svíþjóð ýmsir ungir menn, sem lögðu sérstaklega stund á miðaldabókmentir Svía, þjóðleg fræði og þjóðsagnir. Varð það til þess að stofnað var svenska fornritafélagið. Af leiðtogum þessarar hreyfingar má nefna Carl Säve, Gustaf E. Klemming og Gunnar Hyltén-Cavallius. En meðal þeirra var og útlendingur einn, sem að áhuga á þessum fræðum stóð ekki að baki hinna. Þessi maður var George Stephens, prestssonur frá Englandi, sem fluzt hafði til Svíþjóðar árið 1834 til þess að leggja þar stund á norræn mál og fornfræði, aðallega í þeim tilgangi að finna á þann hátt leifarnar af frummynd ensku tungunnar, sem hann nefndi »skando-angliska« mállýzku og átti að hafa verið sameiginlegt mál Norðurlandabúa og Englendinga. Þetta var ein af meinlokum Stephens og leiddi hann síðar inn í rúnarannsóknir. Hann var einkennilegur maður, og áhugamikill, en ekki að sama skapi gagnrýninn og vandvirkur. Áhugi hans og fjör hafði áhrif á þá er kyntust honum og lét þá hefjast handa. Bústaður hans í Stokkhólmi var einskonar samkomustaður þessara leiðtoga þjóðlegra fræða. Stephens var síðar, eins og kunnugt er, kennari við Kaupmannahafnarháskóla (frá 1851).

Árið 1841 kom til Stokkhólms ungur Englendingur, George Webbe Dasent, og var hann einkaskrifari enska sendiherrans þar, Sir Thomas Cartwright. Mun Dasent brátt hafa komist í kynni við þessa svensku fræðimenn fyrir tilstilli Stephens. Dasent var þá hálfþrítugur, fædd-

ur á eyjunni St. Vincent í Vestindíum 22. maí 1817, en þar var faðir hans þá yfirdómari; mun föðurætt hans vera af normönskum uppruna. Hann gekk í skóla á Englandi og stundaði nám við háskólann í Oxford og mun þar aðallega hafa hneigst að grísku og latínu. Að loknu námi dvaldi hann um hríð í Lundúnum og tók þá að rita fyrir *The Times*, því að hann hafði komist í náin kynni við Sterling og Delane ættirnar, sem þá réðu mestu við það blað, enda kyntist hann og um þær mundir ýmsum helztu rithöfundum og merkismönnum Englendinga, svo sem Thomas Carlyle o. fl. John Thadeus Delane, skólabróðir og bezti vinur Dasent's, tók innan skamms við ritstjórnarstörfum við blaðið og hélt þeim um þrjátíu ár. Dasent dvaldi fjögur ár í Stokkhólmi, en ferðaðist þó nokkuð á meginlandi Evrópu á þeim árum; þannig fór hann til Þýzkalands og sá þar Jakob Grimm, og mun hann hafa hvatt Dasent að halda áfram þeim lærdómsiðkunum, er hann hafði þá hallast að — þjóðsagnafræði og fornislenzkum bókmentum.

Eg efast um að Dasent hafi þekt nokkuð til íslenzku eða norrænna fræða áður en hann kom til Stokkhólms, enda var ekki um auðugan garð að gresja viðvíkjandi þeim efnum á ensku máli. Jafnskjótt og hann kom til Stokkhólms mun hann hafa farið að leggja stund á þetta, og tel eg það ekki efamál, að það hafi hann gert að hvötum Stephens. Fyrsti árangurinn af þessum iðkunum hans var ensk þýðing á Snorra Eddu (Gylfaginning og Bragaræðum), sem prentuð var í Stokkhólmi 1842, og er hún tileinkuð Carlyle. Þýðandinn segir, að það sé í fyrsta skifti, að þetta rit sé þýtt á ensku, en það er reyndar ekki rétt, því að Snorra Edda kom út í enskri þýðingu í Mallet-Percy's *Northern Antiquities*, en sú þýðing er annaðhvort úr frönsku eða latínu; mega því ummæli Dasent's að nokkru leyti til sanns vegar færast, því að þýðing hans er sú fyrsta úr frummálinu, og að því er eg ætla, fyrsta ensk þýðing af íslenzku fornriti, gerð eftir frumritinu. Allar eldri þýðingar af íslenzkum kvæðum og öðru, er

hingað til höfðu birzt, voru eftir öðrum þýðingum. En þessi orð Dasent's virðast benda til þess, þó ótrúlegt megi virðast, að hann hafi ekki þekt Mallet-Percy's rit, og sýna því að hann hafði ekkert fengist við íslenzkar bókmentir áður hann kom til Norðurlanda. Hann segir, að það hafi ekki verið neitt áhlaupaverk að fást við að þýða Eddu, því að engin orðabók væri til yfir málið nema orðabók Björns Halldórssonar, og hún væri ekki fullnægjandi að því er fornmálið snerti. Hann kveðst ætla að þýða Skáldu seinna, en aldrei kom hún út frá hans hendi; líklega hefir honum veitt erfitt að fást við hana, enda er ekki auðhlaupið að því að þýða hana á útlend mál svo vel fari. Það er einkennilegt við þessa þýðingu Dasent's, að hann setur formála Snorra aftast, og gerði hann það af ásettu ráði efnisins vegna, svo að lesendurnir skyldu ekki byrja á formálanum og láta afvegaleiðast af honum að því er norræna ásatrú snerti. Hann skilur og sögnina um Gefjuni og Gylfa úr og gerir að sérstakri sögu. Þýðingin má yfir höfuð heita sérlega góð.

Ári seinna (1843) kom út í Lundúnum þýðing eftir Dasent á íslenzku málfræðinni eftir Rask, og er þar fylgt svensku útgáfunni. Kveðst Dasent hafa lært íslenzku með því að þýða þá bók eða öllu heldur endurrita hana, og gefi hann hana nú út á prent í þeirri von, að hún megi vekja athygli á tungu og bókmentum, sem eigi mjög skylt við ensku og geti haft mikla þýðingu fyrir þá, er stunda ensku, en hingað til hafi verið lítill gaumur gefinn. Hann tekur það fram, hve nauðsynlegt sé að auka og bæta enskukensluna í skólunum, og geti við þær umbætur íslenzku-þekking komið að góðu haldi. Þessi þýðing var hið mesta þarfaverk; að vísu var þetta ekki fyrsta íslenzka málfræðin, sem birzt hafði á ensku, því að amerískur fræðimaður, George Perkins Marsh, hafði þýtt litlu málfræðina eftir Rask og látið prenta í Burlington, Vermont, fjórum árum áður (1838), en ekki mun sú bók hafa fengið mikla útbreiðslu, enda var hún ófullkomnari en Dasent's þýðing. Hafði Dasent bætt við nokkrum lesköflum í

bundnu og óbundnu máli aftan við, með nokkrum skýringum neðanmáls. Formálinn er dagsettur í Homburg-von-der-Höhe 7. ágúst 1842, og mun það hafa verið um þær mundir, að Dasent hitti Grimm, eins og áður er getið.

Hið síðasta rit, sem Dasent gaf út meðan hann dvaldi í Stokkhólmi, var útgáfa af Theophilusi (1844) á ýmsum málum; þar á meðal tvær fornþýðingar af sögunni á íslenzku (eftir Stokkhólmsbók 4to, nr. 1 og 11) ásamt þætti af Anselm erkibiskupi. Það er einkennilegt, að útgefandinn þykist þurfa að halda uppi vörn fyrir það, að hann gefi út þessa merku helgisögu. Snýr hann sér í formálanum að tveim flokkum manna, þeim sem með óvild og jafnvel fyrirlitningu líti á miðaldirnar og vilji ekkert um þær heyra, og þeim sem hrósi og hæli á hvert reipi miðaldasiðum og vilji líkja eftir þeim í flestu. Sjálfur kveðst hann standa bil beggja milli þessara öfga, falla bezt við þá tíma, sem hann lifi á, en þó kunna að skilja og meta rétt miðaldirnar og trú þeirra manna, er þá lifðu, og sé sögnin um Theophilus merkilegur vitnisburður þar um. Eg get ekki séð, hvers vegna útgefanda þótti nauðsynlegt að láta þessi varnarorð fylgja útgáfunni, nema ef vera skyldi, að hann óttaðist, að menn héldu, að hann hallaðist að kaþólsku og dýrlingatrú. Útgáfan á að vera orðrétt eftir handritunum, en nokkur viðvaningsbragur er á henni, þó hún annars sé sæmilega góð fyrir þá tíma. Aftan við er íslenzkt-enskt orðasafn.

Árið 1845 hélt Dasent aftur til Englands og kvongaðist þá systur Delane's, sem þá var orðinn ritstjóri fyrir *The Times;* varð Dasent meðritstjóri blaðsins og hélt því starfi um 25 ár, og í fjarveru eða forföllum Delane's hafði hann allan veg og vanda af ritstjórninni. Stóð blaðið þá í miklum blóma, enda tókst þeim mágum að safna að sér mörgum ritfærum mönnum. Auk þessa var Dasent um tíma (1852—65) prófessor í enskri tungu og bókmentum við King's College í Lundúnum. En þótt hann þannig ætti mjög annríkt, lagði hann þó ekki norrænuna á hilluna; við og við birtust í blöðum eða tímaritum þýðingar

á norskum þjóðsögum og íslenzkum þáttum eða öðru þess konar. Loks kom út árið 1859 þýðing hans á þjóðsögum þeirra Asbjörnsen og Moe; náði sú bók þegar mikilli hylli meðal enskumælandi þjóða og hefir síðan oft komið út bæði í heilu lagi og úrvali, enda er þýðingin snildarverk. Framan við var langur inngangur eftir Dasent um uppruna, ummyndanir og útbreiðslu þjóðsagna og æfintýra, og svo samband þessara norsku sagna við norræna goðafræði og goðasagnir. Byrjar höfundurinn á því að lýsa heimkynnum ariska kynflokksins og fylgir hann þar kenningum þeim sem þá voru algengar en nú þykja úreltar. Þá álitu menn, að Aríar (Indo-Germanar eða Indo-Europear, eins og þeir líka eru oft nefndir) væru upprunnir austan úr Asíu og hefðu fluzt vestur til Evrópu snemma á forsögulegum tímum. Upptök európisku menningarinnar voru samkvæmt þeirri skoðun þar austur frá, og því var svo margt sameiginlegt með Evrópumönnum og þeim hluta flokksins, sem eftir hafði orðið austur í Asíu (Indverjum og Persum). Samkvæmt þessu rekur Dasent feril æfintýranna og gerir það vel og læsilega, enda hlaut hann lof fyrir greinina hjá Max Müller, sem þá nýlega hafði gefið út ritgerð um samanburðar goðafræði, sem vakti mikla athygli, og hafði með öðrum ritum getið sér nafn sem austrænn málfræðingur. Það er sagt, að Dasent sjálfur hafi skoðað þessa ritgerð sem það bezta, er hann hafi skrifað, og lætur víst ekki fjarri, að svo sé, þótt ýmislegt megi að henni finna, en hana verður að dæma eftir þeim tíma, þegar hún var skrifuð.

Árinu áður (1858) hafði komið út önnur allmerk ritgerð eftir Dasent, með titlinum *Norsemen in Iceland* (í ritgerðasafninu *Oxford Essays)*, og var það stutt yfirlit yfir víkinga- og söguöldina, tildrögin til landnáms Íslands, stjórnarfyrirkomulag þjóðveldisins og heiðnu trúarbrögðin. Höfundurinn byrjar með lýsingu á ástandinu í Evrópu, þegar víkingaferðirnar hófust, — og endar með því að benda á hinar dökku og björtu hliðar norræna lífsins, einkum þær siðartöldu, því þær dyljist oft, þegar menn

dæmi um spillvirki og vígaferli víkinganna. Sjálfur er hann hrifinn af karlmenskubrag aldarinnar. Tekur hann það fram, að jafnrétti karla og kvenna hafi verið miklu meira hjá Norðurlandabúum, en meðal austrænna og suðlægra þjóða, og sérstaklega leggur hann áherzlu á, að hver maður varð að hafa sjálfsgildi, hann gat ekki eingöngu lifað á frægð ættar sinnar eða forfeðra; ef hann var af góðum ættum því strangari kröfur voru gerðar til hans, að hann væri einhvers virði sjálfur, ef hann vildi hljóta metorð og virðingu annara. Ritgerðin er ljóst og vel skrifuð og höfundurinn kemst oft mjög heppilega að orði, en nokkuð er höfundinum tamt að tala um hina einu og sönnu trú og sjá ráðstöfun forsjónarinnar í viðburðunum.

Grímur Thomsen ritaði ritdóm um þessa ritgerð í *Antiquarisk Tidskrift* (1859) og lauk hann á hana lofsorði, en benti þó á ýmsan misskilning og á einstaka stað vanþekkingu frá höfundarins hálfu, einkum á íslenzkum lögum og daglegu lífi þjóðarinnar. Klykkir Grímur út með því að hrósa samlöndum höfundarins og segir, að nú sé norræna andans frekar að leita á enskri slóð heldur en meðal afkomenda víkinganna, sem byggju á föðurleifðinni. Finnur Grímur líka að því, að höfundur skuli nota orðin »Norsemen« og »Norse« í staðinn fyrir »Northmen« og »Northern«, og hefir hann rétt fyrir sér í því sumstaðar en sumstaðar ekki. Aðfinning Gríms á rót sína að rekja til stefnu Fornritafélagsins undir stjórn Rafns, er vildi gera alt sameiginlega norrænt, til þess, eins og Munch bar þeim á brýn, að gefa Dönum dýrðina eða að minsta kosti góðan skerf í henni; leiddi það til þess að Munch og Keyser fóru oflangt í gagnstæða átt og vildu eigna Norðmönnum alt og kölluðu alt norskt, og varð þá skamt öfganna á milli. Dasent lét sér samt aðfinslu Gríms að kenningu verða, því að í inngang[i]num fyrir Njálu notar hann ætíð orðið »Northmen« og fer oft ver á því þar.

Árið 1861 kom út þýðing Dasent's á Njálu *(The Story of Burnt Njal)* í tveim snotrum bindum. Það mun óhætt að segja, að ekki hafi komið út nokkur íslenzk saga á

útlendu máli í öllu betri búningi, bæði með tilliti til þýðingarinnar sjálfrar sem og annars frágangs á bókinni, enda hefir víst Dasent jafnt og forleggjarinn, Mr. Douglas, gert sér alt far um að búa hana sem bezt úr garði. Douglas samdi sjálfur ágætt registur við bókina. Bandið er mjög laglegt; framan á báðum bindunum var mynd af Rimmugýgi, Fjörsváfni og atgeir Gunnars, og eru þau tengd saman með silfurhring miklum, er fanst í Orkneyjum, en milli vopnanna eru bönd að ofan og neðan og á þeim standa á ensku málshættirnir: »Ber er hver að baki sér nema bróður eigi« og »Skamma stund verður hönd höggi fegin«. Í bókinni eru myndir af skálanum íslenzka eftir Sigurð Guðmundsson málara, kort af Íslandi og af Suðurlandi og uppdráttur af Þingvöllum, en hann er slæmur. Dasent hefir ritað langan formála og inngang, þar sem skýrt er frá sögu, lífi og siðvenjum Íslendinga, svo að lesendunum veitist auðveldara að skilja söguna. Inngangurinn er nokkuð líks efnis og ritgerðin frá 1858, nema að hér er ítarlega í margt farið, sérstaklega að því er lög og réttarfar snertir, og notaði Dasent þar rit þeirra Maurers og Weinholds um þau efni, en þau rit þekti hann ekki, er hann reit hina ritgerðina. Notar hann þau með gagnrýni og góðri greind, og getur ekki felt sig við sumar skoðanir Maurers, t. d. þá að lögmenn eða lögsögumenn hafi verið til á Íslandi áður en alþingi var sett; einnig greinir þá á um kviðdóminn. Allmikið er þar og um Brjánsbardaga, en hann er sá atburður er mest snertir sögu Bretlandseyja. Auk þessa inngangs eru þrjár ritgerðir prentaðar sem viðauki aftan við seinna bindið, sem sé um víkinga, um Gunnhildi drotningu konungamóður, og um gildi peninga á söguöldinni. Í fyrstu ritgerðinni lýsir höfundurinn góðum og illum víkingum og tekur sem dæmi upp á þá fyrri Þorvald víðförla og fylgir þar þættinum af honum, sem Dasent tekur trúanlegan, þótt auðséð sé, að þar er um hálfgerða helgisögu að ræða, sprotna af trúarboðsstarfi Þorvalds. Annars ber Dasent aðfarir víkinganna, sérstaklega eins og þeim er lýst í Orkneyja sögu,

saman við afreksverk og athafnir enskra sjóhetja, eins og Drake, Cavendish og annara.

Á textanum gerir Dasent enga breytingu nema þá að hann setur kristniboðsþáttinn inn á öðrum stað en tíðkast í handritunum. Til þýðingarinnar hafði hann ekki kastað höndunum. Kveðst hann fyrst hafa ráðið það með sér að þýða Njálu árið 1843 og mikill hluti sögunnar hafi verið þýddur það ár, en hann sá það brátt að hér var um stórt fyrirtæki að ræða, sem eigi varð lokið við á stuttum tíma; en þó svo mörg ár hafi liðið frá því hann byrjaði á þýðingunni, og þar til hún varð prentuð, hafi hann þó aldrei algerlega lagt hana til hliðar, en unnið að henni, þegar færi gafst, þýtt og endurþýtt suma kaflana mörgum sinnum. Og eftir að hann nú hafi gert alt til þess að fullkomna þýðinguna sem bezt, leggi hann hana fram fyrir almenning með nokkrum kvíðboga, ekki af því nokkur efi sé um ágæti og fegurð frumritsins, heldur af því að hann óttist, að einhverjir gallar frá þýðandans hálfu kunni að kasta skugga á þetta snildarverk. Þegar hann líti aftur í tímann yfir þau ár, sem liðið hafa síðan hann tók sér fyrir hendur að þýða söguna, og þar til nú að því sé lokið, verði hann hissa á sjálfum sér fyrir þá dirfsku, að takast slík verk á hendur, þar sem hjálparrit þau, er hann þá átti kost á, hafi verið svo lítilfjörleg. Engin góð útgáfa hafi verið til af texta sögunnar. Engin fullnægjandi orðabók og ekkert viðunandi rit um stjórnarfarið íslenzka og lögin, sem svo mikið sé fjallað um í sögunni. Síðan 1843 hafi þó orðið nokkrar breytingar til batnaðar. Maurer's rit um upphaf allsherjarríkis á Íslandi hafi komið út og hafi það verið mikil hjálp. Orðabók þá, er Richard Cleasby hafi safnað til en ekki lokið, hafi erfingjarnir fengið þýðandanum í hendur til þess að koma henni í röð og reglu og síðan gefa út; hafi hann haft mikið gagn af því safni Loks hafi hann og notið aðstoðar íslenzkra manna svo sem Gríms Thomsens og Guðbr. Vigfússonar. Hann endar formálann með þessum orðum: »Í fornöld var það skylda fósturföður að ala upp og leggja ástfóstur

við barn það, er hann hafði tekið af höndum foreldranna, sem voru honum meiri að ættgöfgi. Þetta rit, sem þýðandinn hefur tekið úr húsi íslenzkra fræðimanna, meistara sinna í fróðleik, og alið og fóstrað mörg ár undir ensku þaki, á nú að fara út í heiminn og berjast fyrir lífi sínu, og vinna foreldrunum nýja frægð. Þeim sem fyrstur klæddi það í enskan búning nægir það, ef þetta fósturbarn hans getur aukið öðru laufi við frægðarsveig þann, sem krýnir enni hinna fornu stórmenna Íslands«.

Sumar af skoðunum Dasent's á Njálu munu menn nú ekki alment fella sig við. Hann leggur of mikla áherzlu á sögulegt gildi hennar og annara íslenzkra sagna. »Margt er talið söguleg sannindi í öðrum löndum, sem stendur á veikari grundvelli, og mörg frásögn í ritum Þúkydidesar og Tacítusar, eða jafnvel hjá Clarendon og Hume, er tekin trúanleg, þótt skilríkin fyrir henni sé ekki að einum tíunda hluta jafnsterk og þau, er styðja frásagnir þessara íslenzku sögumanna frá elleftu öld«. Þá skjátlast honum og um ritaldur sögunnar. En hann tekur það fram, að furðuverkin og fyrirburðirnir, sem sagan segir frá, sanni engan veginn óáreiðanleik hennar; þau geri öllu heldur það gagnstæða, því að, hversu ótrúleg sem oss virðist þau nú, þá trúðu menn þeim þó fastlega á þeim dögum, þegar sagan gerist og einnig þegar hún var rituð. Hann ætlar og að sum þeirra verði skýrð á eðlilegan hátt, eins og t. d. þegar söng í atgeir Gunnars, en sú skýring fer samt út um þúfur fyrir honum.

Þýðingunni var mjög vel tekið og birtust margir ritdómar um hana. Guðbr. Vigfússon skrifaði um hana í *Nýjum félagsritum* (21. ár), Grímur Thomsen í *Antiqvarisk Tidsskrift* (6. bindi), og Konráð Maurer í *Germania* (7 bindi). Ritdómur Maurers er rækilegastur þeirra allra; finnur hann að ýmsu, er honum þótti miður fara, en lætur þó vel yfir verkinu. Í enskum blöðum og tímaritum var sögunnar víða getið og alstaðar lokið lofi á hana. Eg skal geta hér einungis ritdómsins í *Saturday Review*, sem var þá og er ennþá eitt með helztu og beztu vikublöðum Englend-

inga. Segir hinn ónefndi ritdómari, að þótt margir lærðir íslenzkufræðingar séu á meginlandi Európu, þá hafi þó enginn þeirra unnið jafnmikið að því að gera almenningi aðgengilegar fornbókmentir Íslendinga sem Dasent; en þar á hann líka við orðabókina, sem Dasent var þá að vinna að og ritdómarinn virðist hafa haft einhverja nasasjón af. »Mr. Dasent er einn af þeim sárfáu mönnum, sem kunna að rita hreina, heimalna, mergjaða saxneska ensku . . . Meira að segja, svo mikil fegurð er yfir máli hans, að fáir, og það jafnvel af ólærðum mönnum, munu ljúka við lestur ritsins, sérstaklega inngangsins, svo að þeir séu ekki þakklátir hinum gáfaða manni, er hefir leitt þá um hart og hrjóstrugt land án þess að láta þá nokkurn tíma finna til minstu þreytu«. Ritdómarinn endar með því að segja, að nú sé það nærri því þjóðarskylda, að skipaður sé prófessor í íslenzku við enskan háskóla. Viðtökurnar, sem þessi þýðing þannig fékk þegar í byrjun, hafa reynst réttar, því að nú mun fyrsta útgáfan fyrir löngu uppseld, en margar alþýðlegar og styttar útgáfur hafa síðan komið út. Aldrei hefur þó formálinn eða inngangurinn verið endurprentaðir í heilu lagi, og viðaukunum hefir verið slept, enda þyrfti að endurskoða það ef ætti að prenta það á ný, því að nú er margt af því úrelt. En þýðingin sjálf hefir reynst fyrirmyndarrit.

Þegar Njála var komin á prent, tókst Dasent ferð á hendur til Íslands til að sjá staði þá, er hann í huganum hafði svo tíðum dvalið á, meðan hann var að fást við söguna. Eftir því sem segir í »*Þjóðólfi*« (13. árg., nr. 31—32) kom hann til Reykjavíkur með póstskipinu »Arctúrus« 23. júlí 1861 og var dr. Grímur Thomsen með honum. »Mr. Dasent ferðaðist nú til Geysis og Heklu, þá suður um Rangárvelli og innum Fljótshlíð, og kynti sér hina helztu staði og örnefni, sem Njála hermir; en þaðan reið hann norður Sand, og voru fleiri Bretar í þeim flokki og herra Grímur; sögðu það sumir að hann hefði farið þessa ferð hingað mest sakir Mr. Dasent, er hann hefir kynst við í Lund-

únum, og til þess að vera leiðtogi hans hér á landi.[1] Bókmentafélagsdeildin hér gerði hann að heiðursfélaga sínum, eins og maklegt var«. Meira veit eg ekki um það ferðalag, nema að Dasent getur þess í grein, sem hann skrifaði um ferð til Færeyja nokkru seinna, að þeir hafi riðið fyrstir Breta yfir Sprengisand og riðið hann á skemri tíma en gert hafi verið nokkru sinni áður. Á þeirri ferð mun »Ríðum, ríðum og rekum yfir sandinn« hafa orðið til. Eg hygg að með þeim hafi og verið á þeirri ferð John Francis Campbell frá Islay, skozkur náttúru- og þjóðsagnafræðingur; að minsta kosti ferðaðist hann um þetta svæði það ár. Þeir munu hafa farið utan aftur með »Arctúrus« frá Akureyri 14. ágúst.

Næsta ár kom Dasent aftur til Íslands með »Arctúrus« 26. júlí og var dr. Grímur ennþá í ferð með honum, en þó ferðaðist hann ekki í þetta skipti um landið með honum. Dvaldi hann hér þangað til 25. ágúst. Um ferð hans það ár hefur einn samferðamanna hans skrifað all-langa ferða-rollu, »A tour twenty years ago«, sem prentuð er í *Travels by Umbra* (Edínborg, 1865). Að vísu er það ekki nein vanaleg ferðasaga, heldur gamansöm lýsing á ferðalaginu og ýmsu aukið inn til skemtunar, svo að úr því verður eins konar ferða-skáldsaga á sögulegum grundvelli. Allir ferðamennirnir ganga þar undir dularnafni, og hafa allir eitthvað sér til ágætis.[2] Archibald M'Diarmid er John F. Campbell, sem áður var nefndur. Lord Lodbrog er Lord Newry, þá ungur maður, síðar jarl af Kilmorey. Mr. Digwell er John Roche Dallyns, frændi Dasent's og ungur jarðfræðingur, sem höfundurinn hendir mjög gaman að, því að Mr. Digwell hafði fyrirtaks matarlyst, en oft var lítið um æti og var hann því einatt

---

[1]) Sbr. *Bréf Jóns Sigurðssonar*, 1911, bls. 322.

[2]) **Ráðninguna á þessum dularnöfnum hef eg tekið úr æfisöguágripi Dasent's eftir Arthur Irwin Dasent, son hans, sem prentað er framan við *Popular tales from the Norse*, Edínborg, 1903. Ýmsar aðrar upplýsingar hef eg tekið úr því ágripi.**

innan tómur. Þá er Mr. X., meðlimur parliamentsins, en það er Charles Cavendish Clifford; hann er höfundur ferðasögunnar, þó hann láti að vísu aðra persónu vera það, sem sé Umbra, en það er skuggi hans sjálfs. Loks er Mr. Darwin, en það er Dasent. Höfundurinn lýsir honum þannig: »Mr. Darwin var verulega frægur maður. Hann hafði skrifað vísindalega bók um norræna fornfræði, og í viðurkenningarskyni fyrir það hafði skandinaviskur sjóli gert hann að riddara af rostungsorðunni öðrum flokki, og hékk band þessarar frægu orðu um hinar breiðu herðar hans. Hann var stór og sterkur sem Herkúles, hafði sítt svart skegg, sem náði niður að mitti, líkur víkingi fornaldarinnar, og hygg eg, að hann stundum hafi haldið það sjálfur, að hann væri víkingur. Svo gagnsýrður var hann af anda fornaldarinnar, að stöðug barátta stóð í brjósti hans milli fortíðarinnar og nútíðarinnar, eða öllu heldur milli ímyndunarinnar og veruleikans. Hann var tveir menn í einu. Þó hann væri trúmaður mikill, grunar mig samt, að inst í hjarta sínu hafi hann skoðað kristnina eins konar uppskafningstrú og álitið að Þór, Óðinn, Freyja o. s. frv. væru þær einu verur, sem vert væri að tilbiðja. Í reyndinni var hann ágætur borgari, húsbóndi, er galt skatta og skyldur, ástúðlegur eiginmaður, og góður heimilisfaðir; en í draumi eða ímynduninni var berserkur, norrænn sjóræningi, er sigldi um sjóinn á dreka sínum, lét sverðið glymja á hjálmi óvinanna, drap, brendi, rupladi og rændi, og á þann hátt fullnægði lofsverðri æfintýraþrá. Mig uggir, að hann tæki frægðardrauminn fram yfir veruleikann. Eg hygg að með sjálfum sér hafi honum þótt þetta heiðvirða líferni súrt og haldið, að það væri ekki köllun sín að gæta þessara smásálarlegu skyldna. En hann var hinn þægilegasti maður í umgengni, alt til dauðans . . .« því Mr. Darwin varð fyrir þeim ósköpum að farast í eldgosi upp í Mofellssveit, og Mr. Digwell dó úr hungri, en Lord Lodbrog kvæntist prestsdóttur frá Hítardal og fór að hokra upp á Mýrum.

Svo fór um sjóferð þá, en frásögnin er vel skrifuð og skemtileg.

Enn er ein persóna, sem kemur fyrir í þessari ferðasögu, sem sé Mr. Jonson frá Kaupmannahöfn. Það er auðvitað dr. Grímur Thomsen. Segir höfundurinn um hann, að hann sé einn að þeim fjörugustu og gáfuðustu mönnum, sem hann þekki, í rauninni mjög vingjarnlegur og mundi leggja talsvert í sölurnar til að gera mönnum greiða, en hann er gæddur þeirri gáfu að geta fundið bresti manna, og kemur svo óspart við kaunin á þeim. Segir höfundur frá því, hvernig hann stríddi öllum þessum ferðalöngum, einkum varð Mr. Digwell illa úti, því að Mr. Jonson fór að tala um dýrindisrétti við hann þar til Mr. Digwell rak upp angistaróp, en Mr. Jonson horfði á hann sem Mefistófeles sigrihrósandi. Má víst um þetta viðhafa ítalska máltækið *Se non é vero, é ben trovato* (Ef það er ekki satt, þá er þó vel tilfundið).

Dasent og samferðamenn hans lögðu í þetta skifti leið sína úr Reykjavík yfir Þingvelli og Geysi, en þaðan fóru þeir fyrir norðan Bjarnafell, Hellisskarð, yfir Hlöðuvelli og niður í Brunna; þótti þeim landið þar æði eyðilegt, en þó á sinn hátt tilkomumikið; líkir ferðaritarinn öræfunum þeim við lýsingu Miltons á heimkynnum Satans eftir fall hans.[1]) Þeir komu í Reykholt og héldu þaðan til Kalmanstungu Gengu þeir á Eiríksjökul og tók fjallgangan 13 stundir; ennfremur sáu þeir Surtshellir. Héldu svo norður yfir heiðar til Hrútafjarðar, þaðan vestur í Dali, eftir Skógarströndinni til Helgafells; þá til Ólafsvíkur og yfir að Stapa, en síðan suður um Mýrar og Borgarfjörð, yfir Svínaskarð til Reykjavíkur. Tel eg víst, að Dasent hafi ráðið ferðinni, og sérstaklega valið þessa leið til að sjá sveitir þær, þar sem margar af merkustu sögunum gerðust.[2]) Eftir því sem höfundur ferðalýsingarinnar seg-

[1]) Sjá *Paradísarmissir*, Kmh. 1828, bls. 3: Þar var að sjá | í öllum áttum | dapra dýblissu o. s. frv.

[2]) William Morris fór hér um bil sömu leið þegar hann ferðaðist á Íslandi árið 1871. Á seinni ferð sinni um Ísland 1873 fór hann norður

ir, var þeim vel fagnað, þar sem þeir komu; nafn Dasent's hafði eins konar töfrakraft, það þurfti bara að nefna það, þá var uppi fótur og fit á hverjum manni að gera honum og félögum hans til geðs. Á ferðinni segir Dasent samferðamönnunum margar sögur og er útdráttur úr þeim í bókinni. Sonur hans getur þess, að Dasent hafi verið haldið opinbert gildi af höfðingjunum í Reykjavík, en hvergi get eg fundið þess getið í blöðum frá þeim tíma. En blöðin voru nú ekki eins fréttafróð þá sem þau nú eru. Sjálfur hefir Dasent ekkert skrifað um ferðir sínar á Íslandi, og er víst engin eftirsjón að því; hann hefir sem sé skrifað um aðrar ferðir sínar og hefir ekki tekist það vel; þannig er grein hans um ferðina til Færeyja 1864 fram úr öllu lagi leiðinleg.[1])

Ekki leið á löngu áður ný þýðing kom frá Dasent, og var sú af Gísla sögu Súrssonar (*The Story of Gisli the Outlaw*); var hún gefin út af Douglas í Edínborg 1866, og vel frá henni gengið eins og fyrri sögunni. Hún hefir þótt að sumu leyti að því er málið snerti taka fram Njálu þýðingunni. Dasent steypir textanum af Gíslasögunum saman, leggur eldri söguna til grundvallar en bætir við ýmsu úr hinni og fer ekki illa á því. Telur hann söguna að ýmsu leyti standa öðrum sögum framar að efninu til og líka vegna þess, að Gísli var verulega gott skáld; þrátt fyrir hinn ytri búning kvæða hans og flóknu kenningar, sem gera þau nokkuð óaðgengileg almenningi, geymi þau þó ljósa hugsun og djúpa tilfinningu. Eg skal síðar víkja að þýðingu Dasent's á vísunum. Hann heldur,

Sprengisand, eins og Dasent hafði gert 1861, en Morris fór suður Kjalveg aftur til Reykjavíkur. Dagbækur Morris á þessum ferðum hafa nýlega verið gefnar út af dóttur hans (William Morris, *Collected works*, vol. VIII., London 1911), og eru þær skemtilegar aflestrar, en því miður er lýsingin á seinni ferðinni mjög í molum.

[1]) Í *Edinburgh Review*, 143 bd. 1876, er ritdómur um ferðabók Richard Burton's *Ultima Thule* (1875). Hefir hinn ónefndi ritdómari haft aðgang að dagbókum frá ferðum þeirra Dasent's 1861 og 1862, í handriti; ef til vill hefir hann verið einn af þeim félögum.

að sagan sé skrifuð á Suðurlandi og bygð á frásögu Þuríðar fróðu Snorradóttur til Ara fróða, og veltur sú skoðun víst á veilu. Í innganginum, sem er all-langur, gerir þýðandinn grein fyrir efni sögunnar og bendir á hin markverðustu atriði hennar, tekur fram gildi hennar sem heimildar um ýmislegt í lífi fornmanna. En hér, eins og honum víða annarstaðar hættir við, leitast hann við að skýra ýmislegt frá kristninnar sjónarmiði; þannig sér hann í draumkonum Gísla persónugervinga tveggja stefna, — hin góða draumkona sýnir hinn milda og fyrirgefningarfúsa anda kristninnar, en hin konan hina blóðþyrstu og harðbrjósta norrænu hjátrú; þær eru »verndarengill og valkyrja, ef svo má að orði komast, sem berjast um líkama hetjunnar í lifanda lífi, en um sálina eftir dauðann«. Að öðru leyti er inngangurinn skýr og skilmerkilegur. Í bókinni eru sjö myndir úr sögunni, eftir C. E. St. John Mildmay, og er Dasent sérlega ánægður með þær og segir, að sjaldan hafi listamanni tekist betur að ná anda sögunnar og farið betur með svip og búning, en Mildmay geri í þessum myndum. Hér virðist mér þó Dasent skjátlast hraparlega; myndirnar eru alveg ónorrænar að svip, og persónurnar fölar og þróttlausar, þó þær að vísu séu ekki illa dregnar. Gísla sögu var vel tekið, þó ekki hafi hún náð eins mikilli hylli og Njála meðal enskra lesenda.

Þess hefir verið áður getið, að Dasent, meðan hann vann að Njálu, hafi komið að góðu haldi handritið að orðabók þeirri, er Richard Cleasby hafði safnað til en eigi enzt til að ljúka við. Erfingjar Cleasby's höfðu kallað eftir handritinu úr höndum Konráðs Gíslasonar um 1854, en hann hafði unnið að því á kostnað þeirra síðan Cleasby dó (1847). Nú fálu þeir Dasent að ljúka við orðabókina og búa undir prentun. Mun hann hafa unnið að þessu í mörg ár í hjáverkum. En loks gafst hann upp við það,[1])

[1]) Safn Dasent's sjálfs til orðabókarinnar mun hafa verið selt eftir dauða hans. Fyrir eitthvað tuttugu árum hafði bóksali einn í Frankfurt-am-Main til sölu handrit af íslenzkri orðabók eftir Dasent (30,000 seðlar og 4 bindi í arkarbroti. Sbr. Katalóg nr. 451 frá Joseph Baer í Frankfurt).

fékk Clarendon Press til þess að taka að sér prentunina og var þá Guðbrandur Vigfússon ráðinn til þess að annast um útgáfuna. Eg hygg að Grímur Thomsen muni aðallega hafa átt þátt í því, að Dasent komst að þeirri niðurstöðu, að hann gæti ekki lokið við orðabókina upp á eigin spýtur. Í ritdómnum um Njálu hafði Grímur látið ánægju sína í ljós yfir því, að brátt væri von á þessari orðabók, en jafnframt tók hann það fram, að hepplegast mundi verða að láta Konráð Gíslason, sem svo lengi hafði unnið með Cleasby, ljúka við verkið eða að minsta kosti vera í ráðum með það; hversu vel sem útlendingur væri að sér í málinu — og Dasent með þýðingunni hefði sýnt að hann væri það —, þá væri þó æfinlega hætt við, að honum yrðu ýms glappaskot á, sem innfæddur Íslendingur mundi ekki gera; til sönnunar sínu máli benti hann á ýmsar villur í íslenzkum orðum, sem stóðu í innganginum að Njálu.

Um þetta orðabókarmál hefir verið ritað áður á íslenzku,[1]) og mér er ekki ljúft að rifja það upp að nýju; en eigi verður hjá því komist að minnast nokkuð á það hér, því að Dasent var við það riðinn, og hefir sumum legið þungt orð til hans út af því. Hann á ekki þátt í orðabókinni sjálfri, eins og hún var prentuð, las einungis prófarkir af fyrstu tveim örkunum, en hann skrifaði innganginn og æfisögu Cleasby's framan við hana. Að innganginum hefir það verið fundið, að hann væri ekki vel skrifaður eða vel viðeigandi, og er nokkuð til í því. Aðaltilgangur höfundarins með honum virðist að vera sá, að sýna samlöndum sínum, hve áríðandi íslenzk tunga og bókmentir væru fyrir málfræðina, og enska málfræði og sögu sérstaklega, því að margt í siðum, lögum og daglegu lífi Englendinga yrði fyrst að fullu skilið, þegar það væri borið saman við norrænar heimildir. Hins vegar getur

---

[1]) Sjá æfisögu Konráðs Gíslasonar eftir prófessor Björn M. Ólsen í *Tímariti hins ísl. Bókmentafélags*, XII. bindi, bls. 68—71, og æfisögu Guðbr. Vigfússonar eftir Jón Þorkelsson skjalavörð í *Andvara* XIX. ár, bls. 14.—17.

hann ekki um eldri orðabækur yfir íslenzku eða um það, sem áður hafi verið unnið á því sviði, né heldur skýrir hann greinilega frá þeim reglum eða þeirri aðferð, sem fylgt hafi verið við samningu þessarar orðabókar. Hér kemur það greinilega í ljós, eins og víðar, að Dasent var blaðamaður og rithöfundur, en ekki strangur vísindamaður. En mestri þykkju hefir þó valdið frásögn hans þar um það, hversu Cleasby's orðabókin hafi orðið til. Hann segir, að Konráð Gíslason hafi sent til Englands 1854 einungis eftirrit (transcripts) af orðabókar-handritinu, en þar á meðal hafi ekkert verið af handritum Cleasby's sjálfs. H. G. Liddell gat þess í formálanum fyrir fyrsta hefti orðabókarinnar 1869, og hafði það þau áhrif, að þá voru sendir frá Kaupmannahöfn tveir kassar af handriti. Þeir voru þó ekki opnaðir fyr en 25. ág. 1873, en þá hafði síðasta örkin af orðabókinni verið send í prentsmiðjuna. Dasent kveðst ekki hafa opnað þá fyr, til þess að trufla ekki Guðbrand við starfið. Reyndust kassar þessir að geyma hreinskifaðan mikinn hluta orðana, sumt af því með hendi Claesby's. Nú segir Dasent, að það sem sent hafi verið 1854 hafi verið í slæmu standi. Vill hann yfir höfuð gera lítið úr verki Konráðs og þeirra, er með honum unnu, en lætur mikið yfir því sem Claesby sjálfur hafi gert. Það eru auðsjáanlega öfgar; Cleasby var að vísu greindur maður og hafði aflað sér mikillar þekkingar á ferðalögum og vist við ýmsa háskóla, en hann lagði stund á of margt til að geta orðið vel að sér í því öllu eða jafnvel í nokkru einstöku. Hann þótti sómamaður, var vinsæll og vel liðinn, hvar sem hann kom, enda hafði hann nóg fé. Hann hefir líklega lagt meiri alúð við íslenzkuna en nokkuð annað af því, sem hann stundaði, en það gefur þó að skilja, að hann hefir varla verið svo vel að sér í henni, eins og Dasent vill gefa í skyn. Það sem kallað er eiginhandarrit hans munu því vera hreinskriftir hans af uppköstum hans og annara, er með honum unnu — og verður því ekki eignað honum einum. En engan má furða á því, þótt Dasent væri þungt í skapi til Konráðs, þegar hann

komst að því, að Konráð hafði haldið eftir miklu af handritinu. Það er hægt að skilja það að Konráði hlyti að þykja leitt að láta aðra ljúka við það verk, sem hann hafði unnið svo mikið og lengi að, en handritið var þó eign erfingjanna, þar sem Cleasby og þeir höfðu borgað fyrir alla vinnuna á því, og áttu þeir því kröfu til þess. Annað mál er það, hve mikils virði það var, sem sent var 1854. Dasent og Guðbrandur segja, að það hafi komið að litlu haldi, en það hafa síðan verið leiddar sterkar líkur fyrir því, að þar sé hallað réttu máli[1]) Hvor þeirra beri sök á því, læt eg ósagt; þó mun varla skuldinni verða skelt á Dasent einn[2]). En þegar litið er á alt þetta orðabókarmál, sannast líklega málsháttarinn, að sjaldan veldur einn þá tveir deila. Það var þó heppilegt, að Guðbrandur var fenginn til að vinna að orðabókinni. Enginn mundi hafa lokið við hana á jafnskömmum tíma og hann, og með henni hefir hann unnið ómetanlegt gagn. Margt hefir verið að henni fundið og má víst gera það með góðum rökum, en engin ein bók hefir stuðlað meir að stundan íslenzks máls og íslenzkra fræða. Ef Konráð hefði haldið áfram við hana, hefði hún að líkindum orðið vísindalegri og betur úr garði gerð að mörgu leyti; en hefði hún þá nokkurn tíma komið út? Enginn efast um lærdóm og vandvirkni Konráðs, en hann átti það til að vera hægfara og seinvirkur með aftökum.

Skömmu eftir 1860 byrjaði að koma út endurskoðuð og aukin útgáfa eftir R. G. Latham af ensku orðabókinni, sem kend er við dr. Samúel Johnson. Dasent greip þá tækifærið til þess að benda á sambandið milli ensku og íslenzku. Hann skrifaði langan ritdóm um fyrstu heftin

---

[1]) Sjá *Efterladte Skrifter* Konráðs Gíslasonar, útg. af dr. Birni M. Ólsen, II. bindi, bls. IX—XXII. 273—293.

[2]) H. G. Liddell, prófastur á Christ Church, segir, að Guðbrandur hafi fundið handritið að miklu leyti í óreglu, og að hann hafi oft sagt við sig, að hann hefði unnið betra verk og léttara, ef hann hefði byrjað „de novo“ *(Henry George Liddell, A Memoir by H. L. Thompson.* London, 1899, bls. 206).

af orðabókinni og tók ómjúkt á henni; leitaðist hann við að sýna fram á, hve skýringum um afleiðslu og skyldleika orða væri ábótavant, og taldi útgefandanum hafa yfirsést í því að leita ekki að uppruna margra enskra orða í norrænu eða íslenzku. En ritdómurinn var of einhliða og svæsinn og Dasent fór sjálfur viltur vegar sumstaðar í því að rekja ætt orðanna. Má ráða af því, að það fór vel, að hann var ekki einn um íslenzku orðabókina. Auk þessa reit Dasent ýmislegt um þessar mundir, er snerti Norðurlönd, og má sérstaklega geta hér þriggja ritgerða, sem allar fjalla um sama tímabil, sem sé Noreg og England á 11. öld, Magnús góða og Harald harðráða; allvel skrifaðar greinar, bygðar að mestu leyti á norrænum heimildum, en hafa þó ekkert sérlegt gildi. Hann safnaði síðan þessum og öðrum ritgerðum sínum saman og gaf út í í tveim bindum undir titlinum *Jest and Earnest* (Gaman og alvara, 1873).

Um 1870 varð sú breyting á hag Dasent's, að hann hætti blaðamensku og varð embættismaður (civil commissioner) og hélt þeirri stöðu yfir tuttugu ár. En um sömu mundir virðist hann hafa komist að þeirri niðurstöðu með sjálfum sér, að hann væri fær um að rita skáldsögur. Lét hann nokkrar þeirra koma á prent; voru þær mestmegnis bygðar á endurminningum og reynslu hans sjálfs. Eg hefi ekki lesið þær, en samkvæmt einróma áliti ritdómenda þeirra tíma voru þær í meira lagi þunnar, og yfrið langar voru þær líka. Eg get þessa hér, því að hin síðasta þessara ritsmíða Dasent's var *The Vikings of the Baltic*, sem kom út í þrem bindum. Það er söguleg skáldsaga, bygð aðallega á Jómsvíkingasögu og á köflum úr ýmsum öðrum sögum, en að öðru lætur höfundurinn ímyndunaraflið ráða. Það er allfróðleg bók, kemst höfundurinn oft vel að orði og gefur víða góðar lýsingar, en efnið er teygt um of. Um víkingalífið í lok tíundu aldar gefur hún samt góða hugmynd. Betra hefði þó verið, ef Dasent hefði þýtt Jómsvíkingasögu með inngangi og góðum

skýringum,[1]) því að þar hefir honum jafnan tekist bezt, enda sneri hann brátt aftur að þýðingarstarfinu, því að um þetta leyti kom út eftir hann þýðing á nýju safni af æfintýrum Asbjörnsens og var sú vel gerð eins og hin fyrri.

Samkvæmt tillögum brezka þjóðskjalavarðarins (Master of the Rolls) hafði enska stjórnin ákveðið árið 1857 að láta gefa út á ríkisins kostnað annála, skjöl og sagnarit, er snerta Bretland hið mikla og Írland á miðöldunum. Svo lítur út sem Dasent hafi tekið að sér að annast útgáfu á sögum og skjölum viðvíkjandi ferðum Norðmanna til Bretlandseyja og landnámi þeirra þar, því að árið 1860 og aftur 1872 var það auglýst, að slíkt safn, útgefið af honum, væri undir prentun. Munu ritgerðir hans, er eg mintist á að framan, um England og Noreg á elleftu öld standa í sambandi við þetta. En af útgáfunni varð þó ekkert. Þegar á átti að herða, mun Dasent hafa séð, að hann hafði ekki nóga þekkingu og æfingu til að leysa þetta af hendi, svo vel væri, og fór svo að Guðbrandi Vigfússyni var falið það á hendur og gaf hann út árið 1887 tvö bindi af safni þessu, aðallega Orkneyingasögu og Hákonar sögu gamla, ásamt þáttum, útdráttum úr annálum, og Dunstanus sögu og Játvarðar sögu helga. En þó Dasent ekki gæfi út textann, þýddi hann þetta alt á ensku og kom það út 1894. Er þetta gert með venjulegri vandvirkni og smekkvísi hans sem fyrri sögurnar, en þó er mikill munur á ytri fráganginum, því að hér er hann mjög slæmur, þótt á kostnað ríkisins væri það útgefið; pappírinn er vondur og stundum skjöldóttur, kort eru engin og alt gert með sem minstum kostnaði; en ekki er það Dasent að kenna. Inngangurinn að Orkneyinga sögu er eingöngu landfræðislegur og að því leyti fróðlegur; í innganginum að Hákonar sögu er að eins gefið yfirlit yfir efni sögunnar, en þar hefði þó mátt ýmsu bæta við. Þetta

[1]) Síra Jón Bjarnason er annarar skoðunar, sbr. ritdóm hans í *The Nation* (New York), 30. des. 1875.

voru síðustu rit Dasent's og hafði hann þannig fengist við íslenzkar bókmentir meira og minna í rúma hálfa öld. Við þessar seinustu þýðingar naut hann aðstoðar sonar síns, John Roche Dasent. Um þær mundir varð hann fyrir því tjóni, að hús hans brann og fórst þar mikið af bókasafni hans. Hann andaðist að Tower Hill, Berks, 11. júní 1896.

Bókmentafélagsdeildin í Reykjavík hafði gert Dasent að heiðursfélaga sínum, og var það lengi sú eina viðurkenning, er Íslendingar máttu sjálfir veita fyrir bókmentir eða vísindalega starfsemi. Auk þess var hann riddari af Dannebrog, og árið 1876 gerði Bretakonungur hann að riddara og þar með fylgdi titillinn Sir.

Dasent hafa auðsjáanlega verið nokkuð mislagðar hendur. Hann ritaði eðlilega mikið um dagana, þar sem hann var svo lengi blaðamaður, en mest af því sem hann hefir skrifað var birt í dagblaði því, er hann var við, og slíkar ritsmíðar jafnaðarlegast »verða til og deyja um leið«. En ekki kveður heldur mikið að hinum lengri tímaritagreinum hans og bókum, sem eg hefi séð. Hann er margorður og leitast við að vera fyndinn, en tekst það ekki. Eg hygg það muni vera blaðamenskan, sem spilt hefir ritbætti hans eins og annara, og það er einkennilegt, að þær greinar hans eru beztar, sem fjalla um efni, er fjærst liggja blaðamensku, en það eru ritgerðir hans um norræna sögu og bókmentir. Ekkert af því sem hann hefir frumritað mun þó til lengdar halda nafni hans uppi. En það gera hins vegar þýðingar hans. Þar hafði hann aðhald og fór sér hægt, og þar kemur smekkur hans og stíll bezt fram. Í formálanum fyrir Njálu drepur hann á aðferð þá, er hann hafi fylgt við þýðinguna. Hann segir svo: »Af ásettu ráði hefir þýðingin verið gerð eins bókstafleg og eðli þessara tveggja tungna leyfði. Við þýðingu vísnanna hefir að vísu nokkuð víðara svigrúm verið tekið, en þó mun sá, er getur borið þær saman við frumritið, finna að þær koma nærri því. Skylda þýðanda er ekki í því fólgin að ná meiningu frumritsins á þann hátt að kasta á glæ

orðtækjum og orðalagi annars málsins og taka upp í þeirra stað orðtæki og orðalag hins; heldur í því er hún fólgin, að finna í sinni eigin tungu orð og orðtæki, sem bezt og skýrast svari til þeirra í tungunni, sem hann þýðir úr, og þannig láta málið verða eins nákvæma eftirmynd og auðið er af myndum og hugsunum hins málsins. Á þann hátt verður þýðingin ánægjuverk, en hún krefur þá líka bæði tíma og erfiði«. Með þessu móti varð Njálu þýðingin líka fyrirmynd. Það gefur að skilja, að eigi má þýða fornrit eins og sögurnar okkar á sama mál og með sama orðalagi eins og skáldsögu síðustu tíma. Það verður að gefa þeim annan blæ og annað snið, velja eldri orð, en þó má ekki gera málið of fornt eða torskilið nútíðarlesendum. Dasent sá þetta glögt, og leitaðist við að fylgja því. Í þýðingunni á Snorra Eddu fór hann sjálfsagt nokkuð langt í því að nota gömul og úrelt orð; Carl Säve fann að því, og lét Dasent sér það að kenningu verða, því að í seinni þýðingum hans gætir þessa minna. Stundum notar hann skozk orð og fer venjulega vel á því. Í þýðingum hans er einkennilegur stíll, málið hreint, kjarnyrt, hispurslaust og blátt áfram. Það liggur nærri að bera þær saman við þýðingar þeirra William Morris' og Eiríks Magnússonar. Ekki verður því neitað, að þeim hafi að mörgu leyti tekist mjög vel, en fornyrðin hjá þeim eru of mörg og tilgerðin keyrir tíðum fram úr hófi; ef einhver færi að rita þannig á íslenzku, mundu menn ekki hika við að kalla það »torf«. Í þýðingum þeirra Guðbr. Vigfússonar og F. Y. Powells vill vandvirknin einatt fara út um þúfur; má og merkja þar nokkra tilgerð og gerræði; þeir voru ekki að sama skapi gætnir og þeir voru fljótvirkir. Dasent var brautryðjandinn, og eg efast um, að þeir sem fetuðu í hans fótspor, hafi verulega tekið honum fram í nokkru.

Það sem einna erfiðast er að þýða á útlenda tungu eru kvæðin eða vísurnar, með öðrum orðum skáldamálið; það er ekki auðvelt að þýða kenningarnar svo að þær njóti sín og um leið gera vísuna skiljanlega lesendunum. Hér er um ýmsa vegi að velja: annaðhvort að þýða vís-

una orði til orðs, að minsta kosti svo nákvæmlega sem málið leyfir, og hirða ekkert um hreim eða rím; eða að þræða orðin nokkuð nákvæmlega og halda stafrími og hreim; eða að sleppa kenningunum alveg, ef nauðsyn krefur, og gefa efni kvæðisins í bundnu máli. Í Njálu leitast Dasent við að gefa kenningarnar að miklu leyti, halda að nokkru stafrími og gefa þýðingunni vissan hreim, en ekki eru vísnaþýðingarnar altaf sem nákvæmastar. Í Gísla sögu gefur hann vísunum fullkomið kvæðasnið og rím. Í hinum síðustu þýðingum hverfur hann þó að fyrri aðferðinni. Eg hygg að réttast sé að þýða vísurnar í bundið mál, ef bókin er annars ætluð almenningi.

Annað er það, sem óvissu veldur í þýðingum, og það er meðferð eiginnafna Mannanöfnum verður að halda óbreyttum og gerir Dasent það að mestu leyti. Hann heflar þau að vísu dálítið, til þess að gera þau tungutamari lesendunum; þannig sleppir hann venjulega endingunni *r (ur)* í mannanöfnunum. En hins vegar hefir hann þann ósið að bæta endingunni *a* við öll kvennanöfn, hvort sem sú ending er í íslenzkunni eða ekki, t. d. Hallgerda, Gudrida, Gudruna. Það hefir hann tekið eftir latnesku þýðingunum af sögunum; þar getur það verið afsakanlegt, en í ensku ekki; hann sleppir því líka í seinustu þýðingum sínum. Auknefni manna eru venjulegast þýdd og má það viðurkvæmilegt heita. Verst er þó að eiga við staða- og landanöfn; þar er erfiðast að draga línuna milli þess sem þýða ber og óbreytt skal standa. Í flestum þýðingum má því finna ósamkvæmni í þessu, og svo er líka hjá Dasent. Stundum þýðir hann ekki nöfnin en tekur hljóðlík orð, þó orðið, sem hann setur í staðinn, sé ekki sömu merkingar, t. d. Vale (Völlur), Rangrivervales (Rangárvellir). Önnur þýðir hann beinlínis, svo sem Threecorner (Þríhyrningur), Redslips (Rauðuskriður), Springs (Keldur), Rapes[1]) (Hreppar); aftur á móti lætur hann önnur hald-

---

[1]) Dasent hefir víst haldið, að orðið *rape* (notað um fylki í Sussex) væri sama og hreppur, en nú er það talið ólíklegt.

ast óbreytt, svo sem Hof, Holt og Hólar, þó eins auðvelt hefði verið að þýða þau. Bezta reglan mun vera að halda staðanöfnum óbreyttum að svo miklu leyti sem mögulegt er, að minsta kosti láta fyrri hlutann í samsettum nöfnum vera óbreyttan, því þá er ætíð hægara að átta sig á nafninu; þýðing á heitum veldur venjulega glundroða, en gerir sjaldan gagn.[1])

Það er íslenzkt máltæki, að eitthvað fljúgi landshornanna á milli. Það mætti því komast svo að orði, að Dasent með þýðingu sinni hafi látið Njálu berast heimshornanna á milli. Enskan er víðlesið mál og enskir menn ferðast víða; mentaðir Englendingar hafa líka kunnað að meta Njálu. Andrew Lang, hinn merki »folkloristi«, getur þess, að Speedy, höfuðsmaður í enska hernum, hafi sagt lífvörðum Teódórs konungs í Abessíníu söguna af Gunnari, Njáli og Skarphéðni; hafi þeim fallið hún vel í geð; »og með afbökuðum nöfnum og öðrum breytingum«, segir Lang, »mun þessi saga svo verða sögð í Abessiníu, og þaðan berast út um Afríku, þar sem hvítir menn hafa aldrei stígið fæti. Svo víðfleyga og langæra mátti hinn ónefndi sögumaður gera frægðina«. Að því er víðfleygnina snertir, er þó sögumaðurinn ekki einhlítur. Þar til verður hann að njóta aðstoðar góðs þýðanda, en þýðandinn er sem byrinn, er ber skipið fyrir fullum seglum með skipshöfninni frá landi til lands.

*Halldór Hermannsson.*

---

[1]) Engir þýðendur hafa farið svo langt í að þýða eiginnöfn, sérstaklega staðanöfn, eins og þýðendur íslenzkra fornrita í þýzka safninu *Thule*. Tökum t. d. þýðingu prófessors A. Heusler's á Njálu; þar er alt þýtt í belg og blöðru. Móheiðarhvoll verður Lehmengenbühl; Fljótshlíð, Stromhalde; Grjótá, Griessach; Rangá, Krummach; Seljalandsmúli, Almlandstirn; Eyjafjallajökull, Inselbergferner; Skeið, Rennfeld, o. s. frv. Slík meðferð veldur því meðal annars, að enginn getur áttað sig á staðanöfnunum í Njálu eftir almennu Íslandskorti. Að þessu hefir líka verið fundið af Þjóðverjum; einkum hefir prófessor H. Gering harðlega vítt það (sjá *Zeitschr. für deutsche Philologie*, XLIV. bindi, bls. 489—490). Hvað mundi og Konráð Maurer hafa sagt um slíkt? En annars mætti þetta kenna okkur að fara varlega með útlend nöfn, skíra þau ekki upp og gera óþekkjanleg. Sú var tíðin að Filadelfía átti að heita Bræðraborg á íslenzku, og fleira mætti nefna af sama tæi.

# Björn úr Mörk.

*Til Dr. James Morison.*
Oxford, marz, 1917.

I.

Björn úr Mörk kemur inn í Njálu eins og hann væri kallaður. Hann er miklu betri förunautur fyrir Kára en Þorgeir skorargeir. Þorgeir er ekki nærri eins skemtilegur, og auk þess of líkur Kára. Slík tvístirni eru ekki heppileg í frásögn. Tveir félagar þurfa annaðhvort að vera gagnólíkir, eins og þeir fóstbræður Þorgeir og Þormóður, eða þá annar miklu fremri, eins og Gunnar er Kolskeggi. Það er þreytandi að eiga lengi að skifta sömu tegund áhuga og aðdáunar jafnt milli tveggja manna. Auk þess er Kári eftirlæti höfundarins og lesandans. Um hann kemur vinum og óvinum, Ásgrími og Flosa, saman, að enginn sé honum líkur. Vér viljum helzt, að hann hafi sem mestan sóma af hefndinni. Þorgeir fær hálfan heiðurinn meðan hann er við vígaferlin riðinn, en með Björn og hugleysi hans í baksýn ljómar hreysti Kára enn skýrar en ella. Víg Þorgeirs og Kára eru slátrun, sem mundi verða leiðinleg ef oft væri endurtekin. Þeir eru ofureflismenn óvinum sínum, eins og Ketill segir. Með Björn að félaga verður leikurinn ójafnari og hættulegri fyrir Kára, og tvísýnt um úrslitin. Og nýr þráður, kýmnin, vefst inn í frásögnina, og hjálpar til þess að breiða blæju listarinnar yfir manndrápin.

Það mætti því með sanni segja um Björn, líkt og Voltaire sagði um guð almáttugan og Bismarck um Austurríki, að

hefði hann ekki verið til, hefði átt að búa hann til. En nú er Njála ekki það, sem forfeður vorir kölluðu lygisögu, en vér með tilhlýðilegri virðingu skáldsögu. Njála er saga. Og á því er lítill vafi, að Björn úr Mörk hefir verið til í einhverri mynd í sögusögnum þeim, er höfundur Njálu[1]) þekti, og hefir búið búi sínu á öndverðri 11. öld. Hann er ekki tómur tilbúningur. Og samt er leyfilegt að skoða hann eins og hann væri það. Því eins og hann nú er í sögunni, er hann listarinnar verk og andleg eign höfundarins á sama hátt og Hamlet er eign Shakespeares, Halla Jóhanns Sigurjónssonar og Galdra-Loftur síra Skúla Gíslasonar. Um þetta er óþarft að fjölyrða. Sá sem les frásögn Njálu um Björn, án þess að finna mark höfundarins á hverri línu, er ekki læs, þótt hann þekki alla stafina.

Sá sanni Björn úr Mörk er sá, sem Njála segir frá. Hann lifir. Um hann einan hirðum vér. Hvernig fyrsta fyrirmyndin hefir verið, skiftir í raun og veru litlu máli. Látum hina dauðu jarða sína dauðu. Kári þurfti fylgdarmann, sem gat verið í snúningum fyrir hann og haldið vörð meðan hann svaf. Það má vel vera, að þessi fylgdarmaður hafi verið huglítill og grobbinn karl. Víst er um það eitt, að það er líkara listinni en lífinu að hafa efni á að láta tvo jafnólíka og einkennilega menn og þá Kára og Björn vera á ferð saman.

Það er meira að segja ekki óhugsandi, að á fyrstu mannsöldrunum eftir að viðburðirnir gerðust, meðan »Njála« var ekki annað en sundurlausar frásagnir um þá, hafi hróður þessa fylgdarmanns verið svo lítill, að alt hafi verið gleymt um hann, nema nafnið. Eða jafnvel nafnið líka. Fyrsta fyrirmynd þess Bjarnar, sem vér þekkjum, getur í raun og veru hafa verið einhver borginmannlegur kotkarl um 1100, um það leyti, sem sagan var að steypast í heild, verða að listaverki, sögð til skemtunar með

---

[1]) Það getur ekki spilt neinu af því, sem aðalatriði er í greinarkorni þessu, þótt eg geri ráð fyrir, að Njála sé til orðin á einfaldari hátt en rétt kann að vera.

áherzluna á því »sögulega«. En hvað sem þessu líður, má ganga að því vísu, að höfundur Njálu hafi haft einhverjar sagnir af Birni, um sjálfshól hans og hugleysi, að hann átti konu, sem mat hann lítils og hann var hræddur við, og að hann stóð að baki Kára í bardögunum. Björn hefir verið þar skopmynd eingöngu, sem fjörgaði frásögnina og var andstæða Kára í hugrekki og hreysti.

## II.

Á þessu stigi málsins tekur nú höfundur Njálu við Birni og verður beinlínis ástfanginn í persónunni. Vel má geta þess til, að hann hafi sjálfur þekt svipaðan karl, að þar sé um nýja fyrirmynd að ræða, en vafalaust hefir hann líka séð í hendi sér, hve listhæft efni hér var um að ræða. Hann lætur sér ekki lynda að nota Björn einungis í baksýn fyrir Kára, heldur lifir sig inn í hann, blæs lifandi anda í nasir hans, kafar djúp sálar hans, og leggur sig svo fram, að hvergi eru handtök snillingsins gleggri í sögunni. Þó að Kári sitji með allan sómann af vígunum, verður Björn lesandanum ekki síður minnisstæður.

Söguritarinn dregur ekkert fjöður yfir hið skoplega í fari Bjarnar. Viðurnefni hans er »hvíti«, smbr. »hvítur maður og huglaus« í Laxdælu. Hann er skygn og skjótur á fæti, — skapaður til þess að sjá hættuna í tíma og forða sér. Hann er sjálfhælinn sem mest má verða, og óspar að frýja óvinum sínum hugar í skjóli Kára. Það er Kári, sem stökkvir brennumönnum á flótta, en Björn, sem æpir: »rennið ér nú, brennumenn!« Og rétt á eftir segir hann kost vera, að fúnaði svo margir af Síðumönnum sem h a n n vildi.

Víða vegur höfundurinn hvert orð, svo að setningarnar verða tvíræðar, eftir því hvaðan á þær er litið. Þegar Björn segir við Kára: »en því munt þú hingað kominn, að nú mun fokið í öll skjól«, þá meinar hann: »nú er

svo komið, að fáir eða engir þora að duga þér nema eg«. En Kári og lesandinn hugsa: »nú áttu lítinn kost dugandi liðsmanna, úr því þú tekur Björn«:

Áttak næsta völ
nýtra drengja;
nú er úlfshali
einn á króki.

»Því leita fáir á mig, að engir þora«, segir Björn. »Að lítill slægur þykir í þér«, hugsar lesandinn. »Hvort þykir þér undir því mest, að við séum sem vitrastir«, spyr Björn Kára eins og í gamni. En í raun og veru vill hann grenslast eftir, hvort ríkara sé í huga Kára að leynast eða berjast, svo að hann geri ekki að óþörfu beran flóttahug sinn. Hann veit, að Kári verður að ráða Og þegar Kári tekur ráð Bjarnar, miklast hann og segir: »svo mun þér reynast, að eg mun ekki vera hjátækur í vitsmunum, eigi síður en í harðræðunum«. Fyrir lesandann, sem er rétt nýbúinn að ganga úr skugga um hreysti Bjarnar, er þetta lítið hól um vitsmunina. En Birni er full alvara. Hann er alveg búinn að gleyma, að í bardaganum rétt áður, þegar hann lét það eftir Kára að standa að baki honum, mintist hann ekki einu orði á harðfengi sína, heldur hélt fram vitsmunum sínum og hvatleik. Og þá er ekki snildin sízt í lýsingu Kára við húsfreyju Bjarnar á framgöngu hans: »Ber er hver að baki, nema sér bróður eigi, og gafst Björn mér vel. Hann vann á þremur mönnum, en hann er þó sár sjálfur. Og var hann mér hinn hallkvæmasti í öllu því, er hann mátti«. Kári reynir hér að gylla Björn, án þess að halla réttu máli. Með því að nota gamalt spakmæli, gefur hann í skyn, hvar Björn hafi staðið í bardaganum, án þess að húsfreyja skilji það. Hann segir af ásettu ráði »vann á«, því það merkir ekki einungis særa, heldur líka drepa. Og meiningin í síðustu setningunni er fyrirfram háð hugmyndum þess, sem heyrir, um getu Bjarnar.

Og síðustu orðin, sem sögð eru um Björn, skýra frá, hvað hann hafði upp úr krafsinu: »Þótti Björn nú miklu

heldur maður en áður fyrir sér«. Ekki »meiri maður«. »Heldur maður«, — nær því að vera maður.

En Björn væri lakari persóna en hann er, ef honum væri ekkert gefið nema grobbið og hugleysið. En því fer fjarri. Hann er tryggur Kára og vill duga honum sem bezt. Hann er ráðagóður og slunginn. Og hann hefir einlægan vilja á að vera drengskaparmaður.

Þetta ósamræmi í fari Bjarnar: millibilið milli þess, sem hann vill vera og er, vill gera og getur, kemur víða fram. Þegar óvinir Kára koma að honum sofandi, vekur Björn hann. Hann flýr ekki burt í skelfingaræði. Honum ferst betur við Kára en t. d. þrælunum við Arnkel goða, þegar hann átti líf sitt að verja á Örlygsstöðum. En Birni finst ekki þessi trúmenska sín eðlileg og sjálfsögð, eins og hverjum venjulegum manni. Honum finst hún orða verð, og hann segir við Kára þessa merkilegu setningu, sem sýnir inst inn í hugskot hans: »allmjög þarft þú þó mín til. Myndi sá nú hafa hlaupið í braut frá þér, er eigi væri jafnvel hugaður sem eg em«. Og þegar Kári býður honum að ríða burt og forða sér, neitar Björn, bæði af því að hann er hræddur um líf sitt, og óttast tungur vondra manna, ef hann kæmist undan, en líka af hinu — þó að það komi ekki fyr en seinast —, að þá yrði hann Kára að engu gagni eða liði. Kemur þessi tvískinnungur líka vel fram í samtali þeirra Kára, þar sem Björn hafði í sínu orði hvort, að hann vildi flýja sem harðast, eða hitt, að hann vildi bíða og taka í móti. Grobb hans er með öðrum orðum ekki einungis í munninum. Hann er þyrstur í frægð, langar til þess að vega. Í orðum hans við húsfreyju sína: »Aukist hafa heldur vandræðin, kerling«, hlakkar ánægjan yfir að hafa verið með í vígaferlum. Og af því að hann er ekki fær um að vega menn á drengilegan hátt, gerist hann grimmur og vill níðast á þeim, sem varnarlausir eru. Hann ætlar að vega Ketil úr Mörk eftir að Kári hefir þrifið hann höndum, og í ummælum hans um Grana Gunnarsson (»Björn kvaðst eigi nenna að drepa hann, en kvað hann þó þess maklegan«) sést

berlega, að honum hefir komið í hug að bana honum óvígum. Þarna hryllir mann snöggvast við Birni. En höfundur Njálu hefir bætt síðasta dræettinum, meistardrættinum, í myndina. Því kýmnin nær aldrei hæsta stigi sínu fyr en skuggi harmleiksins fellur einhversstaðar inn í frásögnina.

III.

Björn er Kaðalsson, Bjálfasonar. Bjálfi hafði verið leysingi Ásgerðar, móður Njáls. Hann er vellauðugur. Þessir fáu drættir skýra mikið í skapferli hans. Faðir hans og afi hafa verið algerðir þrælar að innræti, þó að þeir að nafninu til væru leystir úr ánauð. Þeir hafa ekki hugsað um annað en raka saman fé, eins og mörg dæmi eru til um leysingja. Auðurinn var eina vopnið, sem þeir kunnu að bera. Með þriðja manninum, Birni, koma þrár og viðleitni frjálsborinna manna inn í ættina. Nafnið eitt sýnir, að honum hefir í vöggu verið ætlaður annar hlutur og æðri en föður hans og afa. Hvergi er getið um ágirnd né fésínku í fari hans. Þvert á móti, hann kvænist fátækri konu, af því að hún er af góðum ættum. Hann vonast eftir, að konan muni geta hjálpað sér áleiðis upp á hærra stig í þjóðfélaginu. En hún getur aðeins eggjað Björn fram, og lítilsvirt hann þegar hann dugir illa. Hún getur ekki bætt úr brestinum í eðli hans.

Björn veit, að hann er frjáls maður, veit hvað í því felst, gerir sér grein fyrir, að hann þyrfti helzt að skara fram úr öðrum til þess að vera vel metinn, af því hann á enga ættarfrægð af að taka. Hann þráir viðurkenningu og frægð. En um leið er hann þrælborinn í allar ættir og ótal liðu. Á forfeðrum hans mann fram af manni hafa verið

fingr digrir,
fúlligt andlit,
lotr hryggr,
langir hælar.

Og meðan frjálsbornir menn voru að leikum og vígum, höfðu þeir öld eftir öld sömu störfin:

akra töddu,
unnu at svínum,
geita gættu,
grófu torf.

Vér tölum enn í dag um þýlyndi og þrælmensku, og þrælum er hvarvetna við brugðið í fornsögunum fyrir hugleysi og dáðleysi. Alt þetta arfgengi hvílir á herðum Birni, það er erfðasynd hans, hann ber syndir heillar menningarstefnu, syndir húsbændanna gegn þrælunum, þrælanna gegn húsbændunum. Engin furða þó að kleppurinn sé þungur, þegar hann ætlar sér að beina flug frjálsborinna manna. Andinn er að sönnu reiðubúinn, en holdið er veikt. Það er sama andstæða í fari hans og hermannsins, sem sagðist hafa ljónshjarta, en — hérafætur. Hugsum oss svolitla breytingu á taugakerfinu, dálitla herzlu í viljalífið, og Björn úr Mörk er orðinn að vígamanni.

Þegar Björn segir við húsfreyju, að það sé líkara, að fyrir öðru þurfi ráð að gera, en það beri til skilnaðar þeirra, að hann fylgi Kára illa, — »því að eg mun mér bera vitni um það hver garpur eða afreksmaður eg em í vopnaskifti« —, þá er ró og vissa sannfæringarinnar í orðum hans. En þegar á hólminn kemur, bilar hann, og tekur boði Kára, að standa að baki honum, með þessum orðum: »hitt hafða eg ætlað, að hafa engan mann að hlífiskildi mér, en þó er nú þar komið, að þú munt ráða verða« Hugleysi Bjarnar kemur hér yfir hann eins og að óvörum — þetta er í fyrsta sinn, sem skríður til skara — og hann beygir sig fyrir því eins og það væru forlög. Og sannarlega, þau forlögin eru ekki altaf viðráðanlegust, sem innan að koma.

Nú skilst betur, hversvegna Björn er albúinn að vinna níðingsverk. Í hjarta sínu er hann fullur gremju við sjálfan sig og forlög sín. Hann þjáist af ósamræminu. Það gerir hann grimman. Og um leið og vér sjáum harmsaukann í lífi hans, verður hann oss skyldari — »einn af

oss«. Því í hverjum manni, sem sækir fram, er einhver brestur, allir bera þunga einhverrar erfðasyndar, allsstaðar kasta dýrseðlið og tregðan einhverjum skugga. Hugsjónir vorar eru mörgum dagleiðum á undan viljanum, og viljinn á undan getunni. Björn reynir eins og fleiri að telja sér trú um, að þessi þverbrestur í eðli sínu sé ekki til. Hann reynir að brúa gjána með grobbi sínu. Hann vill sýnast allur annar en hann er. Það gerir hann skoplegan. Brúin hans yfir gjána er ekki nema aumasta hrím. Þó að hann fari yfir hana á hundavaði, rekur hann fótinn niður úr í hverju spori

IV.

Mér er sem eg heyri einhvern grípa hér fram í: já, þetta getur alt litið nógu laglega út, en skrambans gallinn er sá, að það er alt bygt í lausu lofti. Höfundur Njálu hefir aldrei hugsað svona. Þú lest eins og maður, sem hefir starað svo lengi á einhvern hlut, að hann er farinn að sjá ofsjónir.

Hafðu blessaður sagt! Einmitt fyrir þig og þína líka eru línur þessar skrifaðar. Þær eru sannarlega ekki gerðar til þess að bæta um Njálu, heldur til þess að þynna svo kjarnfæðu hennar, að hún verði auðmeltari venjulegum nútíðarlesanda.

Það er svo mikill og margvíslegur munur á 12. og 20. öldinni, að engan skyldi furða þó að nokkrir örðugleikar væru á því fyrir nútíðarmann að setja sig inn í anda hinna fornu rita. Pappírinn er þolinmóðari en kálfskinnið, — og einkum ódýrari. Á gullöld sixpence-bókmentanna lesa menn mikið og illa, og höfundum er borgað fyrir örk eða línu. Á kálfskinnsöldinni lásu menn lítið og vel, og laun höfundanna var frægðin ein, eða ekki annað en sjálf ánægjan af vel unnu verki, og hvorttveggja var meira fyrir að semja 25 blaðsíður af Íslendingabók en 500 bls. af Þiðreks sögu. Nú semja rithöfundar fleiri hillur en

þeir þá sömdu bindi. Alt teygir þá til þess að vera lang orða og greinilega Eg drap á arkarborgunina. Það er líka fljótlegra að rubba upp og vaða elginn, en vera stuttorður og gagnorður. Orðugar bækur fá fáa lesendur, menn hafa ekki tíma til þess að rýna í bækur, og eftir því sem þrengist á bókamarkaðinum, verður það nauðsynlegra fyrir höfundana að ná tökum á fjöldanum. Smátt og smátt verða allar bækur álíka auðlesnar og dagblöðin, gerðar til þess að lesast með morgunmatnum eða í lestarklefanum.

Því má heldur ekki gleyma, að sálarfræði nútímans er öðruvísi en fyrri tíða. Vér færum oss sjálfsathugunina miklu meir í nyt en þeir, sem þá lifðu. Þeir voru vanir að athuga aðra menn, því að án þess komust þeir ekki af í skylmingum lífsins, en sjálfir voru þeir heilli, og fremur verkanna en íhyglinnar menn. Og samt má ekki gera of mikið úr þessu sjónarmiði. Eddukvæðin sýna beinlínis og sögurnar óbeinlínis, að sjálfsathugunin hefir verið fornmönnum tamari en sagnaritunin fljótt á litið virðist bera með sér. Hér er um sjálfráða takmörkun að ræða. En hvað veldur henni?

Tvö sjónarmið hafa framar öllu öðru mótað sögurnar, og bæði vakað jafnt fyrir flestum beztu sagnariturunum: skemtun, sannindi. Að búa frásögn um sanna viðburði í sem listhæfastan búning. Nú er enginn vafi á því, að sú frásögnin er listhæfust, sem lætur alt bera fyrir augu og eyru lesandans, sem lætur persónurnar einungis lýsa sér með orðum og verkum, eins og þær væru á leiksviði, og fer ekkert út í að rekja, hvernig þeim sé innanbrjósts. Skáldsagnahöfundar nútímans víkja mjög frá þessu Þeir rekja hugsanirnar eins og þeir sæju gegnum persónurnar. Jafnvel leikritaskáld sýna hugsanirnar öðruvísi en þær mundu birtast í eðlilegu samtali, annaðhvort í eintölum, eða með því að láta persónurnar opna hug sinn fyrir »trúnaðarmanni«. En margs verður að gæta áður en þeim er legið mjög á hálsi fyrir þetta, eins og títt er í lítt hugsuðum ritdómum. Nútímahöfundar hafa öðlast mikið

af sálarþekkingu sinni með íhygli, og von að frásögnin beri þess menjar. Margt býr í hug og hjarta, sem aldrei birtist í orðum né verkum. Takmark nútímarita er oft ekki síður sálarfræðislegt en listrænt. Og auk þess er lesendunum yfirleitt ekki treyst til þess að geta í miklar eyður.

Mikið hefir verið deilt um sögulegt sannleiksgildi fornsagnanna. En eitt er víst: þó að heimildir og aðrar ástæður leyfðu sagnariturunum ekki altaf að fara með óyggjandi sannleik, reyndu þeir altaf að vera innan takmarka hins trúlega og sennilega. Þetta hefir aftur haft ómetanlega göfgandi áhrif á list frásagnarinnar. Meðal annars hefir það knúið höfundana til þess að segja ekki frá öðru en því, sem athugað varð. Um sálarástand sitt veit í raun og veru maðurinn einn:

Hugr einn þat veit,
es býr hjarta nær,
einn es hann sér of sefa.

Sú þekking fer með honum í gröfina. Aðrir menn vita aðeins um orð hans, verk og látæði, og þær ályktanir, sem að álíkum verða af þeim dregnar. Höfundur Sigurðarkviðu ennar skömmu gerir enga grein fyrir því, hvernig hann viti um eintal Brynhildar, eða hafi séð, að hún var »i n n a n ills of fyld«. Hann er ekki að skrifa s ö g u. En Snorri gleymir ekki að geta þess, að Karkur þræll hafi áður en hann var til höggs leiddur sagt »þessa atburði um ferðir þeira Hákonar jarls, sem nú er áður ritið«. Annars hefði enginn getað vitað, hvað þeim jarli tveim hafði farið á milli. Snorri er hér sem annarsstaðar innan vébanda hins sennilega, hvað sem sannindunum líður.

Engum gæti það verið fjær en mér að neita því, að sálarlíf mannkynsins hafi auðgast síðan á 13. öld, og vér vitum meira um mannshjartað en menn vissu þá. En hins er eg fullviss, að sagnaritarar eins og höfundur Njálu hafa þekt þær persónur, sem þeir lýstu, miklu nánar en í fljótu bragði verður ráðið af frásögu þeirra. Annars hefðu þeir ekki getað verið jafnhandvissir að ná sífelt aðaldráttun-

um, án þess að skeika. Og þetta verðum vér að hafa í huga þegar vér lesum fornsögurnar. Vér verðum að athuga persónur þeirra líkt og lifandi mennina í kringum oss. Þeir gefa ekki leyndarmál sálar sinnar fyrirhafnarlaust, þeir skrifta ekki. Vér fáum orð og æði, skýringalaust. Samt er munurinn mikill, munur listar og lífs. Í lífinu verðum vér að vinsa þau atvikin, sem lýsa manninum, eins og gullkorn úr miklu af sandi lítilsverðra athugana. Í sögunum, sem eru listaverk, er slept öllu því, sem óþarft er, og aðeins þeir drættirnir teknir, sem sterkast lýsa og auðkenna. Þær sýna bylgjufaldana í öldugangi sálarlífsins, og láta lesandann um að álykta, hvað á milli og undir býr. Ef hann er svo sljóskygn að eðlisfari eða sljófgaður af lestri annars konar bókmenta, að hann sjái ekki neitt, og neiti því, að nokkuð búi undir, þá er sökin hans og samtímans, en ekki sagnaritaranna.

Höfundar nútímans geta ekki verið of hófsamir, því að þá eru þeir hræddir um, að fólki sjáist yfir hvað þeir eru að fara. George Eliot, svo að eg taki aðeins eitt dæmi, lætur sér ekki nægja að leggja hvert kjarnyrðið af öðru í munn Mrs. Poyser (í Adam Bede), heldur bendir hún lesandanum að taka eftir þeim með því að láta síra Irwine segja um hana: »She is quite original in her talk, too; one of those untaught wits that help to stock a country with proverbs«. En höfundur Njálu segir um heimkomu Bjarnar og Kára: »húsfreyja spurði þá tíðenda og fagnaði þeim vel«. Og hann á heldur á hættu, að fjöldi lesanda taki ekkert eftir því, sem hann á við, heldur en að tyggja í þá og segja: húsfreyja var svo óðfús að vita um framgöngu bónda síns, að hún hafði spurt þá tíðenda áður en hún gætti að heilsa þeim. — En skyldi höfundur, sem er svo athugull um smámuni, vera óvitandi um það, sem meira er?

»Ef þú vilt láta verk þín lifa lengi, segir Lichtenberg, þá máttu ekki horfa í að hneppa það saman í eina málsgrein, sem aðrir mundu hafa skrifað um heila bók«. Það

er oft meiri vandi og meiri list að þegja yfir því, sem maður veit, en segja það. Höfundar fornsagnanna kunnu þetta. En fávísum mönnum, sem vanir eru segja meira en þeir vita, hættir við að halda, að þeir hafi ekki vitað meira en þeir sögðu.

*Sigurður Nordal.*

---

# „Ok nemndi tiu hõfuðit“ —

Flestir munu kannast við frásögn Njálu um það, er Kári hjó Kol Þorsteinsson:

»Þenna hinn sama morgin gekk Kári í borgina. Hann kom þar at er Kolr taldi silfrit. Kári kendi hann ok hljóp at honum með sverð brugðit ok hjó á hálsinn. Enn hann taldi silfrit — ok nemndi tíu höfuðit, er þat fauk af bolnum«. (Njáls saga. Rvík 1894, kap. 158, bls. 432).

Svipuð er frásögn Laxdælu um Auðgísl og Þorgils Hölluson:

»Þorgils rekr nú at telja silfrit. Auðgísl Þórarinsson gekk þar hjá, ok í því er Þorgils nefndi tíu, þá hjó Auðgísl til hans. ok allir þóttust heyra, at höfuðit nefndi ellifu, er af fauk hálsinum«. (Laxdæla saga. Rvík 1895, kap. 67, bls. 211).

Þá er eitt dæmið í Ilíonskviðu Hómers (X. bók, 457. erindi) þar sem sagt er frá því, er Díómedes sneið höfuðið af Dólon. Í riti sínu um líkamsparta dýranna (III. bók, 10. kap.) minnist Aristoteles á þá trú, að afhöggvin höfuð manna mæli. og getur þá þessa erindis Hómers. Hann segir:

»Sumir segja nú þetta og vitna til Hómers svo sem hefði hann þess vegna kveðið:

φθεγγομένη δ' ἄρα τοῦγε κάρη κονίῃσιν ἐμίχθη,
(hið mælandi höfuð til moldar hneig)

en eigi φθεγγομένου (mælandans). Í Karíu lögðu menn nógu mikinn trúnað á slíkt til að sakfella innborinn mann. Því að þegar prestur hins hertýgjaða Seifs var myrtur og

menn vissu eigi hver gert hafði, þá sögðust einhverjir hafa heyrt afhöggvið höfuðið segja oft:

ἐπ' ἀνδρὸς ἄνδρα Κερκιδᾶς ἀπέκτεινεν·

(Mann á mann ofan myrti Kerkidas).

Leituðu þeir því í héraðinu mann uppi, er Kerkidas hét, og drógu hann fyrir dóm. En ekki er unt að mæla eftir að barkinn er frá skilinn og án hreyfingarinnar frá lungunum«.

Oscar Bloch vitnar til þessara orða Aristotelesar í bók sinni um dauðann og segir: »Til eru að ýkjusögur (Legender) um höfuð, er hafi talað, t. d. haldið áfram byrjaðri bæn«. (Oscar Bloch: Om Döden I. Kbh. 1914, bls. 326).

Steingrímur Matthíasson hefir í grein sinni »Um lífseigju dýra og manna« í Skírni 1918, bls. 259, minst á sögur þær, er eg nú hefi greint. Segir hann um þær: »Þetta eru alt tilhæfulitlar þjóðsögur, tilhæfan að eins sú, að ef til vill hefir heyrst ymja í búknum út um barkann, líkt og kemur fyrir, að hæns halda áfram garginu, eftir að höfuðið er höggvið, en hjá þeim verður það greinilegra, af því að raddfæri fuglanna liggja neðarlega í barkanum«.

Eg held að »tilhæfan« sé alt önnur, og er það undarlegt ef enginn hefir séð hvar fiskur liggur undir steini í þessum sögum. Menn hafa spurt, hvort höfuðið gæti talað er það væri af hálsinum og með Aristoteles séð, að slíkt væri fjarstæða, vegna þess að loftstrauminn vantar frá lungunum, þegar barkinn er sundur, og höfuðið getur því ekki fremur gefið rödd frá sér en organið belglaust og blásturslaust. Þar með hefir þeim virzt sannað, að hér væri um hindurvitni ein að ræða. Sagan um Kerkidas er lögð að jöfnu við hinar, og gegnir þar þó auðsjáanlega öðru máli, ef Aristoteles hermir rétt frá þessu, því að þeir sem þóttust heyra höfuð prestsins tala, virðast ekki hafa verið sjónarvottar að því, er hann var veginn, og hins vegar endurtekur höfuðið orð sín. En bæði í frásögn Ilíonskviðu, Njálu og Laxdælu virtust höfuðin mæla u m l e i ð og þau voru af höggvin«.

Eg geri nú ráð fyrir, að allir verði á einu máli um

það, að afhöggvin höfuð mæli aldrei orð frá munni, og er þá eftir að skýra, hvernig sögur þær, er eg nú hefi greint, eru til orðnar.

Tvent ber til hverrar sögu. Annars vegar það, sem gerist í raun og veru, hins vegar það, hvernig þeir, sem viðstaddir eru, skynja það, sem gerist. Eg fyrir mitt leyti efast ekki um, að sjónar og heyrnar vottar að þessum viðburðum sögðu frá þeim eins og þeir komu þeim fyrir sjónir og heyrn, enda segir Laxdæla með berum orðum: »ok allir þóttust heyra, at höfuðit nefndi ellifu, er af fauk hálsinum« Hún skýrir að eins frá því hvernig þetta var fyrir skynjan þeirra, sem viðstaddir voru, en segir ekkert um það, hvort höfuðið talaði eftir að það var af höggvið. Þar sem nú gera verður ráð fyrir, að höfuðið, meðan það sat á hálsinum, hafi mælt þau orð sem menn heyrðu, er það fauk af honum, þá þarf að eins að skýra hvernig á því stóð, að menn heyrðu orðin samtímis því er gerðist síðar en þau voru töluð.

Þetta getur sálarfræðin gert með því að benda á einfaldar athuganir og tilraunir. Þannig segir William James: »Því hefir fyrir löngu verið veitt eftirtekt, að þegar um tvær skynjanir er að tefla og athyglin beinist með eftirvæntingu að annari þeirra, þá er hætt við að hin bægist frá meðvitundinni um stundarsakir og virðist koma á eftir hinni, þó að báðar séu í raun og veru af samtímis atburðum. Eitt algengasta dæmið sem greint er í bókum er það, að læknar sjá stundum blóðið streyma úr handleggnum á þeim, sem þeir taka blóð, áður en þeir sjá bíldinn fara inn úr skinninu. Á líkan hátt getur það borið við, að smiðurinn sjái neistaflugið áður en hann sér hamarinn falla á járnið. Það er þannig talsvert örðugt að greina nákvæmlega, hvenær tvær áverkanir koma, þegar þær vekja ekki jafnmikla athygli báðar og þegar sín er af hvoru tæi«. (W. James: The Principles of Psychology. Vol. I, bls. 409).

Tilraunir hafa verið gerðar með þeim hætti, að vísir er látinn snúast fyrir kringlóttu spjaldi, sem markað er

tölum líkt og klukkuspjald. En svo er um búið að bjalla hringir þegar vísirinn ber í ákveðna tölu á spjaldinu og má stilla hann upp á hvaða tölu er vill. Reyndur á nú að segja, hvar vísinn er í hvert skiftið, er bjallan hringir. Reynslan sýnir, að sé athyglinni beint að hljóðinu, þá virðist það koma áður en vísirinn er kominn í þá stellingu, sem hringir bjöllunni. Beinist athyglin hins vegar að vísinum, þá er hann kominn lengra þegar hljóðið heyrist, heldur en hann var í raun og veru, þegar bjallan hringdi. Athyglin greiðir þannig fyrir þeirri skynjan er hún beinist að, en hamlar hinni, svo að hún kemur seinna til vitundar. (Sjá Alfr. Lehmann: Grundzüge der Psychophysiologie. Lpz. 1912, bls. 522—525).

Mér virðist þetta nægja til að skýra frásagnir Njálu, Laxdælu og Hómers og aðrar slíkar. Auðsætt er, að athygli áhorfandanna hefir öll beinst að högginu og höfðinu sem fauk af bolnum. En bein afleiðing af því var það, að þeir heyrðu ekki orð hinna vegnu um leið og þeir mæltu þau, heldur þá fyrst er af var höfuðið. Þeir lýstu því sem þeir sáu og heyrðu eins og það kom þeim fyrir sjónir og heyrn. Það er óljúgfróðra aðal.

*Guðm. Finnbogason.*

---

## Ásdís á Bjargi.

Ásdís var í iðju' og draumum
ein um hitu þá,
að elska — og stuðla' að Grettis gengi
og gæfu hans að þrá.
En vonir bæði' og bænir hennar
barning vildu fá.

Snemma kendi mikla manninn
móðuraugað glögt,
sá í barnsins vögguvoðum
viðbragð hetjusnögt,
það var yndi — en annarsvegar
örlög myrkrið dökt.

Kvíðinn óx og þrautir þyngdust
þegar hann komst á legg.
Stríðnin, hvefsnin, bernskubrekin
brýndu lýðsins egg.
Ein hún kveið og ein hún skildi
alt það skapa-hregg.

Djásnafár úr föðurgarði
fór hinn sterki sveinn.
Heillaósk né afturkomu
orðaði þar ei neinn.
Með honum gekk á mikla veginn
móðurhuginn einn.

Mót þó blási kaldar kyljur
kærleik minn þú átt.
En leys mig, son, frá loga-kvíða
um lífs þíns norðanátt.
Látt' ei hug minn harmi lostinn
heilsa hverri nátt.

Undan skikkju brá hún brandi.
Berðu 'ann lengi og vel;
hans mun þurfa, en vænni vopna
verðan þig eg tel.
Still nú, frændi, storma þína
og stöðvaðu 'in myrku él. — —

En ísalög frá lífi Grettis
lögðust yfir Bjarg.
Með hverju ári' og öllum fregnum
óx það harmafarg.
Ásdís fann hvað undur litlu
ástin hennar barg.

Vit og snild og kappans kraftar
komu' í sama stað —
þegar Grettis heiðahreysum
haustin lögðust að,
fáir lýstu gleðiglampar,
Glámur sá um það.

Nístingsfrost og norðanbyljir
nauðuðu' um hvert hans flet.
Öfund, svik og illvild manna
aldrei viku' um fet. —
Ein á Bjargi allar nætur
Ásdís bað og grét.

Bar sú ást — og einvörðungu
útlaganum frið,

og í vörn mót húmsins herjum
honum veitti lið.
Sá var eini Grettis geisli,
er Glámur réð ei við.

Þyngst varð fórnin, er hún Ásdís
Illuga af höndum lét,
svo að Grettis miklu myrkur
mættu þoka' um set.
Aldrei hún í augsýn manna
áður né síðar grét.

---

Þó að bili heimsins hylli
og heykist vinur hver,
móðurástin býr á bjargi
og breytir aldrei sér.
Ásdís enn í völdum víða
vor á meðal er.

*Jakob Thorarensen.*

---

# Lækningar fornmanna

eftir

*Steingrím Matthíasson.*

---

Norskur læknir Dr. Fr. Grön hefir bæði í Norsk Magasin for Lægevidenskaben, Kristjania 1908 (Nogle Bemærkninger om Middelalderens medicinske Videnskab i Norden) og í tímaritinu Janus, Haarlem 1908 (Altnordische Chirurgie) skrifað ýtarlega um lækningar á Norðurlöndum fyr á öldum, og hefir hann þar tiltínt alt, sem þar að lýtur úr sögum vorum og öðrum fornbókmentum. Próf. Finnur Jónsson hefir einnig með venjulegum dugnaði fengið tíma til að rita fróðlegan bækling um sama efni (Lægekunsten i den nordiske Oldtid. Kbh. 1912.

Allar þessar ritgerðir hefi eg lesið mér til gagns og gamans og haft mér til stuðnings við samningu þessarar ritgerðar. En eg vil taka það fram, að eg hafði áður en eg las þær tekið saman efnið og uppistöðuna í mína ritgerð með sjálfstæðri rannsókn. Segi eg þetta til að firra mig óréttlátri ásökun um að hafa farið í smiðju til ofannefndra vísindamanna.

Innan um steinaldarmenjar, sem fundist hafa í Danmörku, Frakklandi og víðar, eru hauskúpur með kringlóttu eða sporöskjulöguðu gati, sem hefir verið meitlað eða tálgað með tinnuknífi gegnum höfðuðskelina. Það er auðséð á sárröndunum, að sumir mennirnir hafa lifað lengi eftir aðgerðina.

Þetta eru fyrstu menjar um lækningar í fornöld og gegnir furðu, að menn svo snemma á tímum skyldu ráðast í að fremja svo hættulega aðgerð. En í hvaða tilgangi var það gert? Um það eru vísindamenn ósáttir. Sumir halda að tilgangurinn hafi verið að ná út sullum eða öðr-

um meinsemdum, eða til að ná út beinflísum, sem stungist höfðu inn í heilann. Aðrir halda að þetta hafi verið tilraun til að lækna geðveiki, hleypa út illum öndum. Hvernig þetta hefir atvikast vitum við ekki, en víst er um það, að þegar fyrst fara sögur af forfeðrum vorum, þá hefir þessi lækningaraðferð verið löngu fallin í gleymsku. En einkennilegt er og eftirtektavert, að til skamms tíma hefir þessi sama aðgerð tíðkast meðal villiþjóða á Suðurhafseyjum og í Afríku. Þegar Evrópumenn komu fyrst til þeirra, voru þessar þjóðir enn á steinaldarstigi og frömdu þessar aðgerðir með svipuðum áhöldum og fundist hafa frá tímum steinaldarþjóðanna norrænu.

Annars er það af elztu lækningum forfeðra vorra að segja, að þær hafa verið á svipuðu stigi og enn tíðkast meðal villiþjóða víðsvegar í löndum. En hjá þeim eru lækningar venjulega í höndum seiðmanna eða galdramanna. Einn eða fleiri slíkir karlar eru í hverju bygðarlagi (t. d. *shaman* hjá Indíánum, *angekok* hjá Grænlendingum). Þeir eru bæði prestar og læknar í senn. Þeir einir hafa áheyrn guðanna og gerast því milligöngumenn milli guða og manna. Þörfin kallar þá og æfingin útvelur þá. Með bænagerðum, formælingum, göldrum og fórnfæringum reyna þeir að bægja burtu illum öndum og aðsteðjandi böli. Sjúkdómarnir illum öndum að kenna. — Smám saman myndast sérfræðingar meðal seiðmanna. Verða sumir eingöngu prestar, aðrir spámenn, þriðju læknar o s. frv. Atkvæðamestir og áhrifamestir eru þeir sagðir, sem að náttúrufari eru skygnir eða ófreskir. Hinir kákarar allflestir. Fornaldarritin og sögur vorar sýna, að svona hefir einnig verið hjá forfeðrum vorum í heiðni.

Þá var það algeng trú, að með göldrum mætti bæði vekja upp drauga og kveða þá niður. Og eins mætti bæði sýkja menn og lækna þá með göldrum.

Galdur er dregið af sögninni að gala, þ. e. syngja eða kveða. Og hafa galdrarnir verið fólgnir í því að syngja ýms ljóð, sem við áttu. Í Hávamálum telur Óðinn upp seytján galdraljóð, sem hann kunni:

»Ljóð þau kank
es kannat þjóðans kona
ok mannskis mögr.
Hjalp heitir eitt« o. s. frv.

— — — —

»Þat kank annat
es þurfu ýta synir,
þeirs vilja læknar lifa« o. s. frv.

Sjálfsagt hefir það komið sér vel, að galdramenn væru raddmenn góðir, engu síður en það þykir nú mikill kostur á hverjum presti, að hann kunni vel að tóna.

Það er engum vafa bundið, að það muni hafa getað dregið mikið úr þjáningum að hlusta á góða galdra, ef vel var »galit«, því alkunnugt er, að söngur hefir sefandi áhrif á sorgir og sársauka. Og líka hefir það mátt sín nokkurs, að galdramaðurinn syngi svo hátt, að hærra léti en hljóðin í sjúklingnum, svo að hvorki heyrði hann lengur til sjálfs sín né heldur heyrðu hinir, sem við voru staddir, óp hans og vein.

»Ríkt gól Oddrún
ramt gól Oddrún
bitra galdra
at Borgnýju« —

stendur í Oddrúnargrát, einu af Eddukvæðunum. Oddrún er fyrsta yfirsetukonan, sem sögur fara af í norrænum bókmentum. Borgný liggur á sæng og getur ekki fætt. Þá kemur Oddrún,

»gekk mild fyr kné
meyju at sitja«

og gelur galdra, sennilega hátt og snjalt. Borgný varð léttari og hefir eflaust flýtt fyrir fæðingunni, að söngurinn og töfrakvæðin drógu úr sársauka hennar líkt og klóróformið, sem við nú notum. En ekki hefir það spilt, ef hún hefir kunnað einnig að rista rúnir.

»Bjargrúnar skalt kunna,
ef bjarga vilt
ok leysa kind frá konum;

á lófum skal rista
ok of liðu spenna
ok biðja þá dísir duga«.[1])

Þessar og fleiri rúnir kennir Sigurdrífa eða Brynhildur Sigurði Fáfnisbana eftir að hann hefir rist brynju af henni og vakið hana á fjallinu. Í því sambandi má ekki gleyma að minnast á hve bæn sú er fögur, sem hún beinir til guðanna fyrir sína hönd og Sigurðar, því hún er sannarlega vel viðeigandi enn, t. d. í læknadeild háskólans, fyrir þá læknisnema sem kvongaðir eru:

»Mál ok mannvit
gefit okkr mærum tveim
ok læknishendr, meðan lifum!«

Því næst kennir hún honum auk góðra galdra ok gamanrúna ýmsar heilsurúnir, t. d.:

»Limrúnar skalt kunna,
ef vilt læknir vesa
ok kunna sár at séa;
á berki skal rista
ok á baðmi viðar,
þeims lúta austr limar«.

Rúnir og galdrastafir tíðkuðust langt fram eftir öldum gegn sjúkdómum sem öðru böli. En rúnirnar gátu verið tvíeggjað sverð, ef sá kunni eigi með að fara, sem risti. Við hverjum sjúkdómi, áttu alveg ákveðnar rúnir — héldu menn þá, eins og enn er alment haldið, að ákveðin lyf séu til við hverjum sjúkdómi. Þetta sést á Egils sögu (kap. 72.). Stúlka hefir lengi verið veik. Piltur á næsta bæ hafði rist rúnir í því skyni að lækna hana, en við það hefir henni hríðversnað. Þá ber Egil að. Hann lætur sýna sér keflið, sem rúnirnar voru ristar á, og þykist þá fljótt sjá, að þær eigi alls ekki við. Það er sagt um suma lækna á vorum dögum, að þeir eigi það til, þegar þeir eru sóttir til sjúklings, sem annar læknir hefir stundað

[1]) Bartels: Die Medizin der Naturvölker bls. 197 segir að villiþjóðir risti enn eða máli rúnar í lófann og annarstaðar til að „leysa kind frá konum.“

áður, að biðja um að sýna sér meðulin, sem sá hefir látið handa sjúklingnum, og segja svo: »Já, það lá að; svona bölvað gutl; enginn von að það hjálpaði!« Hella síðan úr glasinu í koppinn. — Líkt þessu fór Agli. Hann skóf rúnirnar af keflinu niður í eldinn og kvað vísu:

»Skalat maðr rúnar rísta
nema ráða vel kunni.
Þat verðr mörgum manni,
es of myrkvan staf villisk;
sák á tegldu tálkni
tíu launstafi ristna
þat hefr lauka lindi
langs oftrega fengit«.

Síðan risti hann sjálfur rúnir á keflið og lagði undir koddann Eftir það brá svo við, að stúlkunni batnaði.

Mörgum mun finnast nú á tímum harla barnalegt að rista rúnir til að lækna sjúkdóma, og þó er varla meira en mannsaldur síðan að ýmsir galdrastafir þektust meðal alþýðu sem voru notaðir til lækninga og í ýmsum öðrum vandræðum. Og reyndar þarf ekki einu sinni að fara svo langt aftur í tímann. Allir þekkja krossins rún. Flestir hafa lært að signa sig og marka kross á bæjardyrnar á kvöldin. Krossinn kom í stað Þórsmarks og annara heiðinna galdrastafa. Og eftir á að hyggja. Okkur læknum hefir öllum verið kent að setja tvöfalt krossmark yfir hvern lyfseðil, sem við skrifum (en reyndar er það hjá flestum orðið að krábulli, sem enginn skilur) Og lyfseðlana skrifum við á latínu, svo fólkið ekki skilji og haldi lyfjablöndunina leyndardómsfyllri en hún er. Hvað er þetta annað en rista rúnir?

Seiðmenn og seiðkonur til forna kunna hvorttveggja, að valda sjúkdómum og firra menn ýmsu fári. Blástur hljóp í fót Grettis eftir litla skeinu, er hann fékk við að hvöggva viðardrumbinn, sem fóstra Þorbjörns Önguls magnaði með kyngikrafti og sendi honum. Víða í sögunum eru svipuð dæmi og oft getið um gerningasóttir. Í Laxdælu (kap. 37) lesum við um seið svo magnaðan, sem

gerður var að Hrúti Herjólfssyni, að einn sona hans beið bana af. Hrútur náði í seiðmanninn og hyski hans og barði það grjóti í hel, »ok var ger at þeim dys ór grjóti ok sér þess merki ok heitir þar Skrattavarði«.

Í Þorfinns sögu Karlsefnis (3. kap.) er ágæt lýsing á seiðkonu og seið þeim, sem hún framdi. Má af því fá góða hugmynd um, hve mikinn átrúnað menn lögðu á galdra og spár og hve mikla virðingu menn báru fyrir þeim, sem kunnu til slíkra hluta. Hallæri mikið var þá í Grænlandi og var seiðkonan fengin til að efla seið og spá hve nær batna mundi.

»Býðr Þorkell spákonunni heim, ok er henni þar vel fagnat, sem siðr var til, þá er við þess háttar konum skyldi taka. Var henni búit hásæti, ok lagt undir hana hægindi; þar skyldi í vera hænsna fiðri. — — — var hon svá búin, at hon hafði yfir sér tuglamöttul blán ok var settr steinum alt í skaut ofan; hon hafði á hálsi sér glertölur, ok lambskinnskofra svartan á höfði ok við innan kattskinn hvít, ok hon hafði staf í hendi ok var á knappr; — — — hon hafði um sik hnjóskulinda, ok var þar á skjóðupungr mikill, ok varðveitti hon þar í töfr sín þau er hon þurfti til fróðleiks at hafa; hon hafði á fótum kálfskinnsskúa loðna, ok í þvengi langa, ok á tinknappar miklir á endunum; hon hafði á höndum sér kattskinnsglófa, ok váru hvítir innan ok loðnir. — — Hon var fámálug um alt. — — Henni var ger grautur af kiðjamjólk ok matbúin hjörtu ór öllum kykvendum, þeim er þar váru til; hon hafði mersingarspón ok kníf tannskeftan, tvíhólkaðan af eiri, ok var brotinn af oddurinn«.

Eftir að hún hefir matast, vill Þorkell, bóndinn, fara að leita frétta hjá henni, en hún vill ekkert segja fyr en morguninn eftir, er hún hefir sofið um nóttina. — Þá lætur hún reisa svonefndan seiðhjall eða pall háan, þar sem hún sezt upp. Síðan vill hún fá konur sér til aðstoðar, sem kunni fræði þau er Varðlokkur hétu. Konurnar slá síðan hring um hjallinn og syngja nú hátt og snjalt kvæðið Varðlokkur. Nú er svo að sjá á sögunni sem þetta (sennilega magnaða og mergjaða) kvæði hafi ásamt söngnum dáleitt hana og blásið henni andagipt í brjóst, því að

því loknu segir hún að sér séu nú »margir þeir hlutir auðsýnir er áðr var ek dulin ok margir aðrir«. — — »Síðan gengu menn at vísindakonunni ok frétti þá hverr þess, er mest var forvitni á at vita .... Þessu næst var komit eftir henni af öðrum bæ .... Veðráttan batnaði skjótt«. Hér hefir sjálfsagt verið um miðilsástand að ræða og miðil líkt og Pýþíu í Delfi.

Eg hefi tilfært þessa frásögn hér af því eg tel sjálfsagt, að slík seiðkona eins og þessi hafi eins og margir hennar líkar kunnað margt til lækninga, þó þess sé ekki getið í þessari sögu. Handaálegging og hugsanaflutningur er æfagamalt lækningaráð, sem enn er víða notað og gefst einmitt bezt í höndum þeirra, sem hafa miðilsgáfu, en þó einkum við móðursýki og veiklun í taugakerfinu.

Snemma hafa Norðurlandabúar eins og aðrar þjóðir farið að nota ýmsar jurtir og ávexti til lækninga. Jafnframt því, sem menn prófuðu sig fram til að finna nytjajurtir til manneldis, hafa þeir orðið margs vísari um aðra náttúru grasa. Í Fjölsvinnsmálum er eitt erindi (36.), sem bendir á trúna á lækningajurtir.

»Lyfjaberg heitir
en þat hefir lengi verit
sjúkum ok sárum gaman;
heill verðr hver
þótt hafi heljarsótt,
ef þat klífr kona«.

Í Hávamálum er ympráð á ýmsu, sem gott sé við sóttum, eins og t. d. í heilræðum þeim sem Óðinn gefur Loddfáfni:

»Því at Jörð tekr við öldri,
en eldr við sóttum,
eik við abbindi o. s. frv.
— —
beiti við bitsóttum,
en við bölvi rúnar,
fold skal við flóði taka«.

En það er eins og botninn vanti í þessi heilræði, og

sjálf eru þau svo torskilin og ósamanhangandi, að mann grunar, að hér muni vera að ræða um brot úr löngum fræðaþulum — baugabrot frá löngu liðnum tíma, gamlar menjar fornrar gleymdrar menningar.

Fornsögurnar bera vott um, að öll þekking forfeðra vorra í læknisfræði eins og öðrum greinum náttúruvísinda hafi verið mjög skamt á veg komin.

Grísk-rómverska menningin hafði fallið í gleymsku og aldrei náð til Norðurlanda, en það sem Arabarnir rifjuðu upp af fornum fræðum komst fyrst norður á bóginn löngu seinna og þá afbakað meira eða minna.

Forfeður vorir á söguöldinni stóðu því í rauninni á svipuðu stigi, að minsta kosti í læknisfræðinni, og hálfviltar þjóðir enn í dag. Menn kunnu langtum betur að stytta hvorir öðrum aldur en að lengja lífið og voru miklu leiknari í að koma hver á annan banvænum sárum en að lækna sár og meinsemdir.

Sögurnar eru yfirleitt hetjusögur, sögur af málaferlum og vopnaviðskiftum. Þær sýna fyrst og fremst glæsilegri hliðina á landi og þjóð, en skýra lítið frá eymd og bágindum. Þetta hefir komið mörgum til að halda, að forfeður vorir hafi verið langtum hraustari en nú tíðkast.

Sjálfsagt hefir vopnaburður og íþróttaiðkanir stælt krafta þeirra, sem tömdu sér þær mentir. En forfeður vorir voru ekki allir hetjur. Og þeir munu hafa verið fleiri þeir landar vorir, sem lítið eða ekki tömdu sér vígfimi og íþróttir. Þrælar og kotbændur voru fleiri en höfðingjarnir í landinu.

Það er lítil ástæða til að ætla, að Íslendingar þá hafi verið heilsubetri en þjóðir á svipuðu stigi í öðrum löndum, sem sögur fara af frá eldri og yngri tímum. Reynslan hefir ætíð sýnt og sýnir það enn, að meðal þjóða þar sem læknislist er lítt á veg komin og alþýðumentun er á lágu stigi, þar er manndauði ætíð mikill. Einkum er ungbarnadauði mikill vegna lélegrar uppfóstrunar, og hefir svo verið þá, ekki síður en nú. Auk þess er sagt, að í heiðni hafi börn verið borin út, sem veikluð voru og vanburða.

Það er nú reyndar mjög efasamt, hvort nokkru sinni hafi verið mikil brögð að því, nema á einhverjum neyðartímum. en hafi svo verið, hefir sjálfsagt mörgu lífvænlegu barni verið lógað auk þeirra vanheilu.

Því hefir oft verið haldið fram, að ungbarnadauðinn fyrrum hafi tortímt því, sem ekki var á vetur setjandi, og þess vegna hafi kynslóðin, sem komst á legg, verið úrvalshraust. Þó nokkuð kunni að vera satt í þessu, þá er þó langt frá því, að mikið sé úr því gerandi. Það fer t. d. fjarri því, að úrvalið, sem lifir, sé ónæmt gegn farsóttum. Flestum verður skeinuhætt af farsóttum. Þær eru meiri morðingjar en mennirnir sjálfir, og jafnvel svo, að kerling Elli verður að sitja í iðjuleysi oft og tíðum.

Reyndar er sjaldan getið um farsóttir í sögunum. Í Eyrbyggju (kap. 53.—54.) er þess getið, að 18 manns hafi beðið bana af sótt, sem talin var stafa af reimleika (Fróðárundur). Auðsjáanlega farsótt; líklega taugaveiki. Sömuleiðis getur um farsótt i Eiríks sögu rauða (Kap. 7.): »Kom sótt í lið Þorsteins ok önduðust margir. Tók sóttina fyrst kona hans, er Grímhildur hét; hon var ákafliga mikil ok sterk sem karlar, en þó kom sóttin henni undir«.

Þó sjaldan sé á landfarsóttir minst, hafa þær sjálfsagt átt eins auðvelt með að komast til landsins á söguöldinni eins og á öllum seinni öldum, sem nánari sagnir eru um.

Læknar, sem rannsakað hafa beinagrindur steinaldarmanna, fullyrða að bein þeirra beri menjar margs konar sjúkdóma. Fáir hafa orðið ellidauðir, en flestir dáið á bezta aldri milli tvítugs og fimtugs. Með hliðsjón af þessu gizkar próf. Finnur Jónsson á, að svipað hafi verið á víkingaöldinni og sögutímabilinu. Hann bendir á, að Eyvindur skáldaspillir kvarti um elli að eins fimtugur, og Finnur bætir við: »erfið barátta fyrir daglegu brauði, vosbúð og slit, en ef til vill einnig farsóttir hafa jafnt á steinöldinni og söguöldinni hjálpast að því að draga úr lífsþróttinum

og stytta líf manna«. (F. J.: Lægekunsten i den nordiske Oldtid. Kbh. 1912, bls 8)

---

Eins og þegar hefir verið bent á, voru fornmenn harla fákunnandi í að lækna innvortis sjúkdóma. Galdrar, rúnir og grasaseyði voru helztu ráðin. Gegn móðursýki og ímyndunarveiki gáfust þau vel, þá, eins og enn þann dag í dag, en við aðra sjúkdóma fór það eftir því, hve vel batnaði af sjálfu sér.

En þar eð nú sár og sárasjúkdómar voru daglegir viðburðir í fornöld, var ekki nema eðlilegt, að um meðferð þeirra fengist töluverð reynsla. Og reynslan safnaðist á einstakra manna hendur, þeirra, sem voru mest náttúraðir fyrir »að kunna sár að sjá«. Þeir sem í sögunum fá nafnið læknar eru yfirleitt s á r a l æ k n a r. Um nokkurn lærdóm var ekki að ræða, heldur nærfærni og meðfæddan áhuga fyrir því að hjálpa; einhver varð að gera það, og vildi þá vel til, ef til þess völdust greindir menn og athugulir.

Slíkir sjálfmentaðir líknarmenn hafa á seinni öldum verið nefndir hnjóðsyrðinu s k o t t u l æ k n a r, og er ósanngjarnt. Annarstaðar á Norðurlöndum hafa þeir fengið veglegra heiti og kallaðir k l o g e M æ n d, þ. e. hyggnir karlar, og er sönnu nær, því oftast völdust þeir sem vitið höfðu meira til að veita hjálp í neyð. — Það þótti góður kostur á hverjum lækni, þá eins og enn, að vera mjúkhentur og nærgætinn. Eftir bardagann á Hléskógaheiði (1043) er sagt, að Magnús konungur góði hafi þreifað á höndum manna og valið 12, sem honum þótti hafa »læknishendur«, til þess að hjúkra særðum mönnum og binda um sár þeirra. Gerði hann þetta eftir tilmælum Ólafs helga föður síns, er vitraðist honum í draumi. Því næst er sagt, að læknisgáfa hafi gengið að erfðum í ættum þessara útnefndu lækna og er sérstaklega getið um Atla langafa Rafns Sveinbjarnarsonar á Eyri, en Rafn varð nafn-

kendastur allra lækna á Íslandi í fornöld, eins og síðar skal nánar sagt frá.

Víða í sögunum er getið um lækna, bæði karla og konur — t. d. Álfgerði lækni í Fljótsdælu, Þorvarð lækni á Svalbarði í Vápnfirðingasögu, Hildigunni dóttur Starkaðar í Njálu, Grímu í Fóstbræðrasögu (»svarkr mikill, ger at sér um mart, læknir góðr ok nökkut fornfróð«, kap. 23.) og í Sturlungu um Þormóð, Brand, Vilhjálm, Helga Skeljungsson, Dálk lækni o. fl. Enn fremur er getið um ýmsa merka höfðingja, sem þóttu læknar góðir, eins og Sverri konung, Snorra goða, Hjalta Skeggjason, Njál o. fl.

Sjálfsagt hefir það oft tíðkast, að konur gengi í valinn til að hjúkra særðum mönnum. Konur hafa löngum verið englar mannanna. Fagurt dæmi þess sést í Víga-Glúmssögu (kap. 23.), þegar þeir Glúmur og fjandmenn hans eigast við sem óðir hundar á Hrísateigi. »Þess er getið, at Halldóra, kona Glúms, kvaddi konur með sér, — »ok skulum vér binda sár þeira manna, er lífvænir eru, ór hvárra liði sem er«. Enn er hon kom at, þá féll Þórarinn fyrir Mávi, ok var öxlin höggin frá, svá at lungun fellu út í sárit. Enn Halldóra batt um sár hans, ok sat yfir honum til þess er lokit var bardaganum«. — Á eftir fær hún snuprur fyrir það hjá Glúmi að hafa bjargað lífi fjandmanns hans. Þórarinn lá í sárum alt sumarið og varð græddur.

Eftir sama bardagann er þess getið um Helgu systur Glúms, að hún tók við syni sínum Þorvaldi tasalda, sem var mjög sár, — »fægði hon sár hans ok batt síðan« og varð hann einnig græddur.

Í Ólafs sögu helga er einkar fróðleg lýsing á því, hvernig særðum mönnum var hjúkrað eftir orustuna á Stiklastöðum. Þar liggja sárir menn úr liði Ólafs konungs í bygghlöðu einni og er þar hjúkrað af konu, sem er hvorttveggja í senn, læknir og hjúkrunarkona. Sjá Flateyjarbók II. bls. 363—366.

»Þar váru margir menn mjök sárir ok lét hátt í holsárum manna eða höfuðsárum, sem náttúra er til stórsára. — — — Kona ein vermdi vatu í katli til þess að fægja sár manna. — — —

Síðan settist hann (þ. e. Þormóður Kolbrúnarskáld) niðr ok kastaði klæðum af sér; enn er læknir sá sár hans, þat er hann hafði á síðunni — hon kendi þess, at þar stóð ör í, en þat vissi hon eigi víst, hvárt járnit hafði snúit. Hon hafði þar gert í steinkatli af lauk ok önnur grös ok velt þat saman, ok gaf at eta þeim hinum sárum mönnum, ok reyndi svá, hvárt þeir höfðu holsár, því at þá kendi af laukinum ór sárinu. Hon bar þat at Þormóði og bað hann eta. Hann svarar: »Ber í brott; ekki hefi ek grassótt«. Síðan tók hon spennitöng ok vildi draga út járnit, enn þat var fast ok gekk hvergi. Stóð ok lítit út, því at sárit var sollit. Þá mælti Þormóður: »Sker þú til járnsins, svá at vel megi ná með tönginni, fá mér síðan ok lát mik kippa. — — —

— — Síðan tók Þormóður töngina ok kipti á burt örinni«. —

Þessi frásaga gefur góða hugmynd um sáralækningar eins og þær voru þegar bezt lét. Þeir hafa verið athugulir margir læknarnir gömlu. Þarna sést, að laukgrautur hefir verið notaður til að kynna sér, hvort sárin næðu inn í magann. Þeir hafa að vísu ekki verið neinu nær til að geta læknað slík sár, þó þeir vissu að svo væri, því reynslan hafði einmitt kent þeim, að þess konar sár væru banbæn. En það var fróðlegt að vita, hvort um banvæn sár væri að ræða eða ekki.

Í Vígslóða og víðar sést, að fornmenn notuðu kera eða kanna til að sannfærast um, hve sárin væru djúp og hættuleg, og á annan hátt reyndu þeir líka að gera sér grein fyrir því, t. d. »ok var feitin ofarlega á spjótsfjöðrinni« stendur í Sturlungu (II. bls. 93).

Þetta og þvílíkt var nauðsynlegt að vita til að geta ákveðið réttar sárabætur, en samkvæmt lögum (t. d. Gulaþingslögum) var ákveðinn taxti sárabóta

Þegar talað er um dyn sára eða að hátt lét í holsárum manna, eins og í hlöðunni á Stiklastöðum, þá er þar átt við sár inn í brjóstholið. Um leið og loftið sogast út og inn, heyrist hvína í sárinu.

Um Snorra goða er sagt, að hann hafi bragðað á blóðugum snjónum þar sem særður maður hafði legið, til að forvitnast um, hvort blóðið væri úr holsári, banvænu eða

ekki (Eyrbyggja kap. 45). Hann þóttist finna það á bragðinu, að þetta væri feigs manns blóð, og fréttist það síðar, að maðurinn hefði dáið. Þetta má skilja þannig, að holblóð er oft blandað galli eða gori, og finst það bæði á bragði og lykt. — Snorri var löngum glöggur maður og greindur — enginn »meðalsnápur«, eins og hann sjálfur kemst að orði um heimamann sinn, er vildi af alefli kippa brókinni af öðrum Þorbrandssona, en gætti ekki að, að spjót stóð gegnum fótinn, sem hafði níst saman fótinn og brókina, svo ekkert gekk. Það er annars spaugileg frásögnin af því þegar Snorri tekur við þeim Þorbrandssonum til lækninga. Þeir voru engar kveitur þeir karlar. Hinn bróðirinn á bágt með að renna niður ostinum, sem hann var að borða. Þegar Snorri goði spyr hann, hvernig á því standi, segir hann »at lömbunum væri tregast um átit fyrst er þau eru nýkefld«. »Þá þreifaði Snorri goði um kverkarnar á honum, ok fann at ör stóð um þverar kverkarnar, ok í tunguræturnar. Tók Snorri goði þá spennitöng, ok kipti brott örinni; ok eftir þat mataðist hann«. Snorri græddi þá Þorbrandssonu.

Ekki verður séð á sögunum að venja hafi verið að að launa læknum verk þeirra. En vel má vera að svo hafi verið. Í Vápnfirðingasögu er t. d. getið um að Þorkell Geitisson hafi launað ríflega Þorvarði lækni fyrir að græða handarsár hans. Gaf hann honum reiðhest og silfurhring að auki. Þætti það lagleg borgun nú á tímum.

Vera kann að Snorri og hinir vitrustu meðal fornlæknanna hafi kunnað að stöðva blóðrás með fastreyrðum umbúðum. En þó leikur grunur á, að hvorki hann né aðrir hafi kunnað það svo vel, að fult gagn yrði að nema þegar um minni háttar sár var að ræða. Eitthvað hafa þeir kunnað, því jafnvel í Völsungakviðu hinni fornu er það gefið í skyn:

»Kominn es Helgi
dólgspor dreyra,
döglingr bað þik

at sárdropa
svefja skyldir«.

Einhverstaðar er þess getið, að blóðstemmur (þ. e. töfraþulur) hafi verið notaðar til að stöðva blóðið. Líklega hafa það þó, líkt og til skamms tíma, að eins verið fánýt lyf, sem höfðu orð fyrir að geta stöðvað blóðrás (sbr. njarðarvött (Fyrsvamp), kerlingareld eða t. d. kongulóarvef). Þegar blóðrás er ekki altof svæsin, stöðvast hún venjulega sjálfkrafa, stundum í yfirliði, þegar mikið hefir blætt, og er þá fánýtum lyfjum þakkað

Þegar höggvinn var limur af manni, eins og oft kom fyrir í bardögunum, tókst hvað eftir annað að binda um og græða fyrir stúfinn, jafnvel þó ekki sé þess getið, að æfðir læknar hafi verið við höndina. Ekki er þó þar með sagt, að verið hafi eingöngu að þakka þeim, sem batt um, að ekki blæddi til ólífis, heldur kemur hér til greina lítið atvik, sem er vant að hjálpa til. Við höggið kubbast ekki æðarnar þvert í sundur, sízt þegar höggvið er með bitlitlu vopni, heldur merjast þær og slitna í sundur, en við það snýst upp á innri hluta æðaveggsins (intime), blóðstorka myndast um leið, og það hvorttveggja stöðvar blóðrásina.

Það sést oft í sögunum, að menn bíða bana af (blæðir til ólífis) þegar höggvin er hönd eða fótur, og það eins þó framarlega sé.

»Gunnar . . . . hjó með sverðinu — ok kom á höndina Hallbirni fyrir ofan úlflið svá at af tók«. (Nj. kap. 54) Varð það hans bani

»Geir . . . hjó á hönd Arnþóri fyrir ofan olboga svá at af tók . . . . . . ok dó hann litlu síðar af blóðrás«. (Harðars. og Hólmv. kap. 13)

Hákoni góða blæðir til ólífis þó bundið væri um (Heimskringla I. s. 218). Hann var særður í músina (þ. e. vöðvann framan á upphandleggnum, en þá um leið í slagæðina innan við hann). Og í Sturlungu er þess getið oftar en einu sinni, að menn, sem í hegningarskyni voru

aflimaðir, hafi dáið af því. En ef til vill hefir þeim lítið verið líknað eftir áverkann.

Hins vegar er minna takandi til þess, þó Eiríkur jarl dæi af blóðrás eftir úfskurð (Flat. I. bls. 561), því annað eins getur enn komið fyrir í höndum lækna. Blóðstöðvun svo erfið inni í koki.

Til sáraumbúða hefir verið haft lín, þegar það var við höndina (sbr. »Þormóðr reist í sundr línbrók sína ok batt sár sitt« Fóstbr.s. kap. 9)). En þegar menn lágu í sárum svo mánuðum eða misserum skifti, eins og oft er getið um í sögunum — og þurftu ekki að vera nema svöðusár — þá vitum við, að með svo löngum græðslutíma fylgdi langvinn ígerð. Þá hefir þurft á miklum umbúðum að halda og þá hefir sjálfsagt oft vantað lín og verið notað alt það af tuskum og öðrum vefnaði, sem til var á heimili.

Til þess að græða sárin reyndu menn ýms smyrsl úr grösum og feiti. En hvergi er í neinum sennilegum sögum getið um, að þau hafi komið að verulegum notum. Ekki er takandi mark á fornaldarsögum, eins og t. d. Göngu-Hrólfssögu, þar sem segir frá því, er Möndull dvergur græddi fæturna á Hrólfi.

Í sögunum er hvergi getið um, að sár hafi verið saumuð saman fyr enn á Sturlungaöld, en það gerist í útlöndum; læknir norskur gerir við skarðið í vörinni á Þorgils skarða og tekst vel að græða það. Það er annars fyrst í Biskupasögunum, að minst er á að sár séu saumuð hér á landi (Bp. I. bls. 360 og 377) og er þá ýmist saumað með silkiþræði eða seimisþveng. Hvorttveggja gafst vel, og með skónál var saumað.

Um Hrólf Gautreksson (Fornaldarsögur III. bls. 102) og í öðrum þjóðsögum frá fornöld (t. d. um Hrómund Greipsson) er sagt að sár, jafnvel kviðristusár, hafi verið saumuð með silkiþræði og grædd. En slíkar sögur eru skrifaðar löngu seinna en fornsögur vorar, og hefir þá þekkingin á sárasaum verið farin að berast hingað til lands. Enn fremur sést á Biskupasögum, að þá hafa menn kunnað í stað sárasaums að fylla sárið með lérefti (lér-

eftskera) til að flýta fyrir að greri. Á þann hátt græðir Þorvaldur prestur Pálsson barkasár á konu, sem nærri hafði blætt til ólífis (Bp. I. bls. 377—378). Þetta og fleira bendir til, að þekking í læknisfræði hefir verið farin að aukast, þegar kom fram á 12. og 13. öld. (Áhrif sunnan úr löndum, frá Aröbum).

Annars verður maður að segja, að í sögunum er ekki um auðugan garð að gresja hvað læknislistina snertir. Menn reyndu að bjarga sér eftir föngum, stundum með skynsamlegu viti, en oftar hefir það verið í fálmi og ráðaleysi og þá orðið að ganga eftir lögmáli kerlingar: »það fer alt einhvern veginn« eða eins og Göthe lætur djöfsa kenna læknisnemanum: »wie es Gott gefällt« (þ. e. eins og guði þóknast).

Viðleggi kunnu fornmenn að gera fótlausum mönnum — og bera viðurnefni vott um það (sbr. Önundur tréfótur og Þórir viðleggr). En sennilega hafa þeir gervilimir verið harla fábrotnir. Einnig hækjur voru notaðar (Flat. I. bls. 210). Við liðhlaup og beinbrot tíðkuðust spelkur og bönd. Í Sturlungu er þess getið (St. II. bls. 99) að illa gróið fótbrot var brotið upp aftur í því skyni að rétta beygju eða skekkju á leggnum. Það tókst vel og maðurinn varð óhaltur. Má óhætt telja þetta einhverja markverðustu lækninguna frá þeim tímum.

Um fótbrot Guðmundar góða (Sturl. I. kap. 6) er það að segja, að frásögnin ber fremur vott um seiglu og hörku karlsins en að lækning sú, sem hann fékk hjá Helga Skeljungssyni, hafi verið svo merkileg. Þar hefir verið að ræða um lausa beinflís, sem hefir stungist gegnum húðina og setið þar fast og valdið bólgu. Helgi lét tvo karla draga þennan flein út úr holdi Guðmundar og græddi hann á eftir.

Í þessari frásögu og víðar í sögum er getið um, að notuð hefir verið bökun við eld við bólgumeinum. Við ígerðum má ætla, að fornmenn hafi kunnað að beita hnífi; að minsta kosti varð ekki Þórhalli Ásgrímssyni skotaskuld úr því að spretta í kýlið á fæti sínum með spjótinu. Hins

vegar sýnist ekki Gunnlaugur ormstunga hafa haft fyrir því áður en hann gekk fyrir Skúla jarl með ígerð í fæti »sem freyddi ór upp blóð ok vágr, er hann gekk«.

Í Vápnfirðingasögu er sagt frá því (11. kap.), að Brodd-Helgi hafi hleypt vatni út úr sulli í kviðarholi, og er það þá fyrsta sullaveikislækningin, sem sögur fara af hér á landi, en eftir lýsingunni að dæma er líklegra að um vatnsýki hafi verið að ræða. Hins vegar telur Guðm. próf. Magnússon engin tvímæli á því, að sullaveiki hafi verið til hér á landi kringum árið 1200, bæði í mönnum og skepnum, og tilfærir nokkur dæmi þess úr Biskupasögunum og færir rök fyrir. (G. Magn.: Yfirlit yfir sögu sullaveikinar á Íslandi. Rvk. 1913, bls. 5).

Í sögum biskupanna er mesti aragrúi af sjúkdómslýsingum, og má þar kenna sams konar kvilla og nú eru algengastir. En um lækningar er þar sjaldan aðrar að ræða en snertingar eða handaáleggingar hinna helgu biskupa, Guðmundar góða, Jóns og Þorláks, eða áheit til þeirra. Og eftir þeirra dag eru helgileifar þeirra hinir dýrmætustu læknisdómar, sem mörgum batnar af. Í frásögum þessum kennir auðvitað margra ýkja, en eflaust hefir mörgum batnað eins og enn þann dag í dag í katólskum löndum, þar sem enn er heitið á Maríu mey og ýmsa dýrlinga. En hins vegar er aldrei getið um þá sem ekki læknast, en þeirra tala mun ekki minni vera. Reynslan hefir sýnt, að móðursjúkum batnar vel af þess konar lækningum, en við alvarleg mein er líklega sjaldan um annað að ræða en í hæsta lagi einhvern stundarbata í bili fyrir átrúnaðinn.

Loks skal nú geta þess mannsins, sem mesta frægð hlaut fyrir lækningar sínar meðal forfeðra vorra á fyrri öldum. Það var Rafn Sveinbjarnarson á Eyri við Dýrafjörð (d. 1213). Um hann er sérstakur söguþáttur í Biskupasögunum.

Hann var höfðingi mikill, og segir sagan, að hann hafi verið atgervismaður hinn mesti, völundur að hagleik og skáld og að öllu fróður. Hann var syndur vel og við

alt fimur, bogmaður mikill og skaut manna bezt handskoti.

Hann hafði verið utan, farið til Rómaborgar og menntast vel í útlöndum, og hefir hann eflaust kynst merkum læknum og lækningum þeirra tíma. Hann bjó síðan rausnarbúi á Eyri og var hinn mesti öðlingur.

»Svo var bú Rafns gagneyðigt, at öllum mönnum var þar heimill matr, þeim er til sóttu ok eyrinda sinna fóru, hvort sem þeir vildu setið hafa lengr eða skemr. Alla menn lét hann flytja yfir Arnarfjörð, þá er fara vildu ..... Svo fylgdi hans lækningu mikill guðs kraptr, at margir gengu heilir frá hans fundi, þeir er bauvænir kvómu til hans fyrir vanheilsu sakir, sem hér segir:

Sótti Hrafn at hitta
höggusár af fári
maðr, eða meðr at öðrum
margr, hinn er þurfti bjargar:
hverr gekk hoddastökkvir
heill, segik á því deili,
ljóns eða leystr frá meinum
lögvarðanda ór garði.

Til einkis var honum svo títt, hvorki til svefns né til matar, ef sjúkir menn kvómu á fund hans, at eigi mundi hann þeim fyrst nökkvura miskunn veita; aldregi mat hann fjár lækning sína. Við mörgum vanheilum ok félausum tók hann, þeim er þrotráða vóru, ok hafði með sér á sínum kostnaði þangað til er þeir voru heilir. — — — — Eigi að eins græddi Rafn þá menn er særðir voru eggbitnum sárum, heldur græddi hann mörg kynjamein, þau sem menn vissu eigi hvers háttar voru — — —«. (Bisk. I. bls. 643).

Síðan er getið um nokkur dæmi, hvers konar sjúkdómar það voru, sem Rafni tókst að lækna, og um það, hver ráð hann hafði til þess. Sést af því, að hann hefir notað mikið hörundsbrenslu með glóandi járni, bæði við innanmeinum og taugasjúkdómum. Brendi hann ýmist krossmörk eða díla á húðina, og hefir það í rauninni verið svipuð lækning og fram til þessa hefir verið notuð í annari mynd með spanskflugu, sennepsplástrum og öðrum dragandi plástrum. Slík brensla gefst oft ágætlega við móðursýki og ýmsum taugakvillum, og við innvortis

þrautir af ýmsum ástæðum hverfa oft þjáningarnar, og kemur það sér vel, þó það oft sé að eins um stundarsakir. Það er eins og brunasárið í húðinni dragi sársaukann út á við, eða tilfinningin hið innra sljófgist um leið og taugahríslurnar í hörundinu ýfast við brunasársaukann.

Enn fremur sést, að hann hefir notað blóðtökur með góðum árangri. Blóðtökurnar hafa svipaða þýðingu og brenslan. Þær draga úr sársauka og geta oft bætt mikið í bili, að minsta kosti, stundum jafnvel eytt ýmis konar bólguveiki. Þetta hefir alt verið óþekt hér á landi áður, og hafa því þessar nýmóðins lækningar Rafns vakið mikla eftirtekt, enda streymdi fólk til hans, og hefir ekki spilt til, að lækningin var ókeypis, heimill matur o s. frv. En merkasta lækningin, sem sagan getur um at Rafn hafi framið, var sú, að hann læknaði mann mjög þungt haldinn af steinsótt, með skurði. Frá því segir þannig:

»Í sveit Rafns varð maðr þrotráða, er hét Marteinn ok var Brandsson; hann hafði steinsótt, svo at því mátti hann eigi þurft sækja, er steinninn fell fyrir getnaðarliðu hans. Síðan tók Rafn við honum, ok hafði hann með sér lengi, ok létti hans meini með mikilli íþrótt; ok svo sótti meinit at honum, að hann varð banvænn, ok lá bólginn sem naut, ok þá heimti Rafn til sín presta sína, ok þá menn er vitrastir vóru með honum, ok spurði, hvort þeim þótti sjá maðr fram kominn fyrir vanmegnis sakir, en allir sögðu at þeim þótti hann ráðinn til bana, nema atgerðir væri hafðar; en Rafn sagði, at hann mundi til taka með guðs forsjá ok þeirra atkvæði. Ok þá fór hann höndum um hann, ok kendi steinsins í kviðinum, ok færði hann fram í getnaðarliðinn svo sem hann mátti, ok batt síðan fyrir ofan með hörþræði, svo at eigi skyldi upp þoka steininum, ok öðrum þræði batt hann fyrir framan steininn, ok þá bað hann, at allir skyldu syngja V pater noster þeir er inni vóru, áðr hann veitti atgerðina. Ok síðan skar hann um endilangt með knífi, ok tók í brott tvo steina; síðan batt hann viðsmjör við sárit, ok græddi hann svo at hann varð heill«. (Bisk. I, bls. 644).

Hér hefir auðsjáanlega að eins verið að ræða um steina í þvagrásinni, en ekki í blöðrunni, og skurðurinn, sem

Rafn gerði, er að vísu lítils háttar í augum nútíðarlækna — í rauninni lítið meiri en bændur hafa stundum gert á hrútum, sem fá sams konar sjúkdóma og þann, er Marteinn hafði. En það verður að meta þessa lækningu í ljósi þess tíma, sem hún er framin á, og verður manni þá að dást að, hve Rafn hefir verið á undan sínum tíma og úrræðagóður.

Því miður er ekki ýtarlegar sagt frá lækningum Rafns, en meira um málaferli og mannvíg, sem hlutust af viðskiftum hans við einhvern mesta níðing og mannhund, sem íslenzkar sögur fara af — Þorvald í Vatnsfirði. Sagan endar á því, að þrælmennið svíkst að Rafni, brennir bæ hans og lætur hálshöggva hann.

Af öllu, sem að ofan er ritað um lækningar fornmanna, sést, að læknislistin hefir verið komin skamt hjá þeim. Og ekki batnaði, þegar kirkjan og klerkarnir höfðu fyrir alvöru fengið völdin yfir fólkinu; þá heyrist sjaldan talað um aðrar lækningar en þær, sem fengust fyrir áheit til dýrlinga og kirkna.

Trúin læknaði marga og það oft furðanlega; mörgum hefði að vísu batnað af sjálfu sér. En í heiðni læknaði trúin líka marga. En það var ekki trú á dýrlinga, heldur á rúnir, galdra og fánýt lyf. En fánýt lyf geta verið mikilsvirði í höndum góðra lækna eins og Rafns Sveinbjarnarsonar, sem var maður vitur og vænn og vakti traust og tiltrú.

Það er eins og á sama standi hvort trúað sé á guði eða menn, galdra og rúnir eða bænir og dýrlingabein til lækninga. Ef trúin er nógu sterk, batna margir kvillar.

Það er sagt, að trúin geti flutt fjöll. Þessu trúir þó líklega enginn bókstaflega. En trúin getur verið svo sterk, að hún villi mönnum sjónir, svo að fjöll sýnist flytjast úr stað, þó þau standi föstum fótum. Og öldungis eins og trúin getur valdið missýningum, svo að jafnvel svart verði hvítt og hvítt svart, eins getur trúin valdið misheyrn og margs konar öðrum skynvillum. Öll skilningar-

vit vor geta með öðrum orðum orðið fyrir blekkingum, en ekki sízt tilfinningartaugar vorar. Þetta getur oft komið sér vel og á þessu byggist lækning margra mannameina. Eins og barninu, sem meiðir sig, batnar þegar mamma kyssir á sára blettinn, af því mamma segir að við það muni því batna, eins er oft um þá, sem eldri eru. Ef þeir trúa lækninum eða treysta lyfinu, sem hann ráðleggur, þá batnar mörgum, jafnvel þó meðalið sé engu áhrifameira en blávatn, eins og t. d. mörg homöópatameðul.

Sennilega má skýra þetta þannig. Fjöldinn allur af sjúkdómum batnar af sjálfu sér, þó ekkert sé við þá gert. Líkaminn er gæddur varnartækjum gegn mesta fjölda af sóttkveikjum og öðrum sjúkdómsorsökum (sjá ritgerð mína: Sóttvarnir líkamans. Eimreiðin 1912). Nú er það gömul reynsla, að sjúkdómar og sársaukinn, sem þeim fylgir, verða verri og tilfinnanlegri því meir sem um þá er hugsað. Sé því hægt að deyfa tilfinninguna eða dreifa huganum með því að beina honum í aðra átt og koma mönnum til að gleyma sársaukanum, þá er eins og barátta líkamans gegn sjúkdómunum verði langtum sigursælli.

Til er bæði læknislist og læknisvísindi. Þessu tvennu er oft blandað saman, enda á hvorttveggja helzt að fara saman; því hvorugt nægir út af fyrir sig til að gera mann að góðum lækni. Á vorri efnishyggjuöld hafa margir viljað afneita læknislistinni og viljað telja læknisvísindin ein koma að haldi. Þetta hygg eg að sé ekki rétt. Sá sem er vel að sér í læknisvísindum getur verið skussi til að lækna.

Undir læknislistina heyrir það meðal annars að kunna að ná tiltrú fólksins og vekja hjá því traust til lyfja og læknisgerða, og það fæst ekki fyrir bókvit eingöngu. Og það er ekki nóg að vekja trú á lyfin og aðgerðirnar, heldur þarf líka trú á þau dularöfl, sem í mannslíkamanum búa og starfa í samræmi við önnur öfl utan við líkamann,

er aftur geta verkað á hann. *Sursum corda* — upp mín sál! (og taktu líkamann upp á eyrunum). Læknirinn á að vekja trú, en ekki trúleysi Þó trúin geti ekki flutt fjöll, getur hún áreiðanlega verkað dásamlega hluti Og aðalatriðið er að mönnum batni — bezt reyndar, að þeir þurfi ekki að sýkjast.

Af þeim kynnum, sem eg hefi af kaþólskum spítölum (bæði í Danmörku, Frakklandi og hér), hefir mér ætíð virzt góður andi svífa þar yfir vötnunum. En þar veita guðhræddar og góðar nunnur og prestar andlega aðstoð sjúklingunum, auk þess sem læknarnir reyna að lækna þeirra líkamlegu mein. *Nos remedia — deus salutem!* (þ. e. vér veitum lyfin, guð heilsuna) stendur þar skrifað yfir dyrum.

Andlegu öflin, sem í okkur búa og við enn ekki þekkjum, nema að litlu leyti, þau má eflaust hagnýta miklu betur en alment tíðkast og þekkist meðal lækna. Eg segi fyrir mitt leyti, að eg er skussi í þeirri læknislist og finn oft sárt til þeirrar vöntunar og óska mér aðstoðar

Rafn Sveinbjarnarson heimti til sín presta sína, er hann gerði holskurðinn á Marteini. Og hann lét þá syngja fimm sinnum pater noster á meðan. Eg hefi oft öfundað Rafn af þessum heimilisprestum hans.

Yfir skrifborðinu mínu hangir mynd af franska lækninum Ambroise Paré (d. 1597). Hann er frægur fyrir það, að hann fann upp á því að binda fyrir æðar til að stöðva blóðrás, í stað þess að brenna fyrir æðastúfana með sjóðandi olíu. Í eitt skifti gleymdist olían, en hann varð ekki ráðalaus, tók seglgarnsspotta upp úr vasa sínum og batt fyrir æðarnar. Það gekk ágætlega og langtum betur en með olíunni. Myndin er af þessum atburði. Það var í orustunni við Neapel 1536 Riddarasveit ríður fram hjá. Ambroise hefir valið sér bráðabirgðasjúkraskýli undir súlnagöngum þar við veginn. Hann er að taka fót af særðum hermanni ofan við hné. Aðstoðarlæknir þurkar upp blóð, en vikadrengur vindur blóðið úr klútunum upp úr ediksblöndu í bala og réttir þá jafnóðum. — Þetta fyrir líkam-

ann; en svo er líka hugsað um sálina. Góðlegur munkur stendur við höfðalagið, huggar sjúklinginn og klappar á koll honum (klóroform þektist ekki í þá daga). En andspænis lækninum stendur virðulegur prestur með mítur á höfði og blessar, en hjá honum standa enn tveir aðstoðarprestar; heldur annar á skrautlegu krossmarki, sem hann hefur hátt á loft, en báðir umla pater noster eða aðra góða latínu í lágum hljóðum. Myndin er eftir franska málarann Chertran.

Mér þykir vænt um þessa mynd, því hún minnir mig á Rafn kollega og mig dreymir (NB. vakandi) að eitthvað þessu líkt eigi að innleiða á ný í öllum sjúkrahúsum í framtíðinni (þegar heiðnin hverfur úr landinu). Og þá getum við læknarnir tekið okkur í munn orð þau, sem höfð eru eftir Ambroise Paré og sagt við sjúklingana eftir hverja aðgerð: »Je vous ai operé, dieu vous guerira«. (Eg hefi skorið, guð mun græða).

---

# Sannfræði íslenskra sagna.

Með »sannfræði«[1]) á jeg við það, sem annars er oft kallað áreiðanlegleiki eða trúverðugleiki, en þessi tvö orð eru bæði þunglamaleg og hið síðara ekki talið góð íslenska. »Sagna« er tvírætt og getur bæði komið af sögn og saga; í þessu máli stendur á sama, hvort heldur er. Líka hefði það mátt heita »arfsagna«, því að það eru íslenskar arfsagnir að fornu, sem jeg ætla að fara nokkurum orðum um.

Aftur og aftur hefur það verið rætt, hvort og að hve miklu leyti íslenskar sögur, hvort heldur eru Íslendingasögurnar eða konungasögurnar, væru sannar eða áreiðanlegar. Jeg hef heyrt gáfaða íslenska konu segja, að hún trýði hverju orði, sem í sögunum stæði — og svo hafa víst flestir Íslendingar gert. Þó var Árni Magnússon ekki auðtrúi á alt, einkum t. d. í Njálu, en hann var líka einstakur maður í því sem flestu öðru. Próf. B. M. Ólsen hefur viljað rengja mjög Gunnlaugssögu nú að síðustu og rýra sannfræði hennar. En einkum hafa útlendir menn gerst til þess að efast um sannfræðina, og sumir viljað gera sem minst úr henni, skipað sögunum á bekk með skáldsögum vorra tíma, krufið þær og kramið sem væru þær slíkar sem þær. Aftur hafa ekki aðrir farið svo langt, en játað, að í þeim væri sannfræði, en þar með líka skáldskapur, sona hjerumbil hálft af hvoru, enda væri ekki við öðru að búast um frásagnir er gengið hafa í munni ætt eftir ætt, öld eftir öld, og hættir þá oft þeim sömu mönnum við, að gera þennan tíma nokkuð lengri en hann var

---

[1]) Orðið er allgamalt.

eða þurfti að hafa verið. Hvorum tveggjum hættir líka við að líta á förnöldina alveg sömu augum sem á nútíðina, og ætla, að arfsagnir hafi átt við sömu kjör að búa sem t d. á 17. og 18. öld, — en á því var efalaust þó hinn mesti munur; lífið var gjörólíkt og kjörin þar með líka. Það er ein hin meinlegasta villa, sem fræðimenn vorra daga gera sig seka í, þegar þeir bera þess háttar skoðanir fram; reyndar má víst segja — og það segja þeir —, að mannsandinn sje ætíð sjálfum sjer líkur. En hinu má þó aldrei gleyma, að hann er órjúfanlega bundinn við hverrar aldar s'ði og menníngarstig og háður öllu »umhverfi«.

Því verður nú engan veginn neitað, að finna má villur í sögunum, bæði af einu og öðru tæi, og stundum er ilt að samræma stöku atriði í þeim, þegar sagt er frá því sama með ólíku móti, því ekki getur nema önnur frásögnin verið rjett, — geta báðar verið rángar. Líka sjest ekki sjaldan, að tímatal er eða hlýtur að vera ruglað nokkuð. Stundum er farið mannavilt o s. frv.

Andspænis þessu og þvílíku er aftur mart, er sannað verður að sje rjett eftir öðrum áreiðanlegum heimildum, stundum útlendum; og mart, sem eftir öllu að dæma er svo sennilegt, að ekki verður neitt haft á frásögninni. Oft ber svo til, að smávægisatriði fá alveg óvænta birtu yfir sig og sannast af nýjum rannsóknum á fornum munum og hlutum, hverju nafni sem nefnast. Ekkert getur betur sannað eða ósannað frásagnirnar en fornfræðisrannsóknir og nýir fundir eða nýjar rannsóknir eldri funda og hluta. Það er um slíkt að hjer skal farið fáeinum orðum.

Sem dæmi þess, hve varkár maður þarf að vera í dómum sínum, skal eins lítils atriðis getið. Í frásögninni um Nizarorustu milli Haralds harðráða og Sveins Úlfssonar er þess getið, að er ósigur Sveins var vís orðinn, flýði hann úr bardaganum til lands, en með tilstyrk Hákonar jarls Ívarssonar. Sveinn hitti kotbæ á landi, og var þar bóndi með konu sinni. Þar fjekk hann beina, en kerling var nokkuð skassfengin og grófyrt, og mælti háðulega til Sveins, hún vissi ekki hver hann var; hún barmaði sjer út af því, að »þau

sættu konúng (ɔ: Svein), er bæði væri h a l t u r og ragur«. Hvers vegna bregður hún Sveini um h e l t i? Nema af því að hann hafi verið haltur. Engum sögumanni á Íslandi á 12. eða 13. öld hefði dottið í hug að skrifa slíkt ef enginn fótur hefði verið fyrir því. Hver, sem trúir á þessa frásögn, verður því að halda, að Sveinn hafi haltrað — en þess er annars hvergi getið. Norskur sagnfræðingur hefur lýst alla þessa sögu um flótta Sveins og atburði þá sem henni fylgja »skáldskap« — þ. e. síðari tíma tilbúning.

En alveg um sama leyti fór fram vísindaleg rannsókn á beinum (beinagrind) Sveins konúngs, er geymd hafa verið í holri súlu í Hróarskeldu dómkirkju; var hún framin af bestu sjerfræðingum (læknum) Dana (próf. Fr. C. C. Hansen). Kom það þá upp, að önnur mjöðmin í Sveini hafði haft dálítið óreglulega lögun eða afstöðu við hin beinin, svo litla skekkju, er hlaut að valda því, að Sveinn haltraði dálítið, einkum er hann gekk með hraðara móti. Hjer var þá fengin full sönnun fyrir því, að orðið »haltur« í frásögninni svaraði til þess, sem verið hafði í raun og veru; en er þá nokkur ástæða til að halda, að orðið sje tilbúningur á 12. eða 13. öld, sem í sjálfu sjer er, eins og getið var, harla ólíklegt. En ef orðið styðst við frásögn frá þeim tímum, sem jeg hygg sjálfsagt vera, þá er líka meira satt í frásögninni en þetta eina orð. Jeg álykta: Þá er sagan að öllum líkindum sönn í öllu verulegu.

Jeg hef áður í ritgjörðum sýnt fram á, hve rjettar staðalýsingar eru, t. d. í frásögn Snorra, ekki a f þ v í, að Snorri hafi komið á staðina og lýst þeim eftir eigin sjón og reynslu, heldur þ r á t t fyrir það að hann hefur e k k i komið á þá. Það er munnmælasagan, sem hefur geymt hið rjetta; það er hún, sem hefur reynst sönn, að mestu að minsta kosti. Jeg vísa líka til greinar minnar um hinn síðasta bardaga þeirra Gunnlaugs og Hrafns (í Skírni 1915).

Andmæli gegn sannfræði sagnanna gæti sýnst rjettmætust og nærri því sjálfsögð, þegar um atburði og menn er

að ræða, er urðu og uppi voru löngu fyrir þá tíma, er sannar sögur hefjast að almennu tali, þ e. um 800, t. d. um alt það efni, er felst i Ýnglingasögu Snorra. Það er saga sem hefst á Óðni og ásum og segir frá Uppsalakonúngum hinum elstu. Þar hafa margir álitið ekki eitt orð með sögulegum sannleik. Snorri studdist mest við hið gamla kvæði Þjóðólfs úr Hvini, Ýnglíngatal, frá því um 880 eða svo. Í því kvæði voru taldir allir langfeðgar Rögnvalds heiðumhára (hann og Haraldur hárfagri voru bræðrasynir), og segir Snorri, að þar hafi verið nefndir 30 langfeðgar hans (að honum sjálfum meðtöldum) og sagt frá dauða hvers þeirra og legstað. Sjálfur tekur hann upp í söguna mestan hluta kvæðisins, en auðsjeð er, að ekki svo fáar vísur og vísnahluta vantar í kvæðið. Snorri segir og frá ýmsu, sem ekki stendur í vísunum, sem nú eru til. En sumt af þessu hefur getað staðið og hefur líklegast staðið í þeim, sem týndar eru. En þó er ekki ósennilegt að til hafi verið munnlegar frásagnir um hina fornu Ýnglínga, sem Snorri hefur þekt og notað og ekki stóðu í kvæðinu. En kvæðið byggist á arfsögnum, sem til voru í Noregi (og meðal Svía) seint á 9. öld, en þær voru þá líka margra alda gamlar, þær sem eldri voru og elstar. Fyrir því hafa menn heldur ekki getað trúað því, að í þeim væri söguleg sannindi

En nú hefur sænskur fræðimaður, *dr. Birger Nerman*, rannsakað þetta mál, og kemst hann að alt annari niðurstöðu. Það eru rannsóknir hans, sem vjer viljum skýra hjer nokkuð frá. Þær finnast sjerstaklega í ritgjörðum er svo heita: »Vilka konungar ligga i Upsala högar (1913), Ynglingasagan i arkeologisk belysning (1917), Ottar vendelkråka och Ottarshögen i Vendel (1917).

Fornu Uppsalir liggja spölkorn uppi í landi fyrir ofan bæinn Uppsali (nýju U.), sem liggur við Fýrisárós; þar eru Fýrisvellir, sljetta, sem liggur lítið eitt upp á við. Standi maður niðri við bæjinn og horfi upp til Fornu Uppsala, skilur maður þegar í stað þetta »upp« — sem er fyrri liður orðsins. Þar er nú kirkja mjög gömul, og er

það ætlun manna, að hún standi á þeim stað, þar sem hið forna og fræga hof stóð. Rjett við eru 3 miklir hólar eða haugar; þeir standa á náttúrlegum ás. Þetta eru fornmannahaugar, sem reistir hafa verið á ásnum. Hefur verið grafið í þá og þar fundist menjar grafanna með ýmsu móti. Líkin voru brend og fundust leifarnar, sem vanalegt er, í krukkum, og þar með ýmislegir munir eða hlutir af munum úr gulli og öðru.

Haugarnir liggja frá austri til vesturs og hafa verið nefndir Óðinshaugur, Freyshaugur og Þórshaugur, en þessi nöfn eru auðvitað handahófstilbúníngur frá síðari öldum.

Eftir áliti fornfræðinga er aldursmunur nokkur á þessum haugum, hinn austasti er talinn elstur og frá því um 500 hið síðasta, sá í miðið kemur þar næst og er nokkuð ýngri, svo sem 20-30 árum; ýngstur er sá vestasti og talinn frá því um 575—600, eða 2—3 mannsöldrum ýngri en hinn austasti. Það eru gripirnir og munirnir, sem fundist hafa, er þessum tímaakvæðum ráða.

Nú kemur Ýnglingatal til sögunnar. Í konúngatalinu þar koma meðal annars þessir konúngar: Aunn—Egill—Óttarr—Aðils (eldri mynd Að-gísl). Þess ber að gæta í fyrsta lagi, að þessi nöfn byrja öll á raddstaf, þau »standa í hljóðstöfum«, og kemur það heim við nafnamyndun og heiti á hinum svokölluðu þjóðflutningatímum, en það er einmitt sami tíminn sem haugarnir eru frá.

Í hinu fornenska kvæði, er Bjólfur (Beówulf) nefnist, er talað um 3 konúnga (feðga): Ongenþeow (Anganþér ɔ: Angantýr) — Ohtere (ɔ: Óttarr) — Eáðgils (ɔ: Aðils), það eru eflaust sömu konúngarnir og í kvæðinu, nema hvað Ongenþeow stendur í stað Egils, hvernig sem á því stendur. Ongenþeow er feldur af Hugleiki konúngi, en hann er allur sá sami og sá Hugleikur (Chochilaicus), er fór herferð til Fríslands og fjell þar eitthvert árið milli 515 og 520; Ongenþeow var gamall, þegar hann var drepinn og mætti því setja dauða hans um 500 eða 510 (ekki löngu fyrir fall Hugleiks). Óttarr rjeð ríki ekki ýkja lengi og hefur tæplega lifað lengur en til 530—40. Aðils hefur

rikt lengur og látist á síðasta hluta (fjórðúngi) 6. aldar. Jeg vil vekja athygli á því, að geri maður 30 ár fyrir hvern lið í ættinni frá Aðils og til Rögnvalds, sem kvæðið er um, þá verða það 11×30=330; ef reiknað er, að Rögnvaldur hafi lifað til um (880÷330) 550, og munar það minstu og það sem áður var talið. Það er því óhætt að telja ævi þeirra Óttars og Aðils eins og Nerman gerir.

Nú kemur enn eitt atriði merkilegt til greina. Snorri nefnir ekki nema 3 konúnga, er h e y g ð i r hafi verið að Uppsölum, en það eru þeir Aunn, Egill og Aðils. Um Óttar son Egils skal síðar talað. Nú ber þessu svo heim, að sú ályktun kemur svo að segja af sjálfri sjer, að þá er austasti haugurinn Aunshaugur, sá í miðið Egils og hinn vestasti Aðils. Í Ynglíngatalsvísunum um þessa konúnga er ekki sagt, hvar þeir sjeu heygðir, en það kann að hafa staðið í þeim erindum, sem týnd eru En svo mikið er víst, að kvæðið segir, að bæði Aunn og Aðils hafi dáið »at Uppsölum«, og er þess ekki getið um neina aðra af Ynglíngakonúngum.

Þess skal getið, að sumir fornfræðíngar vilja skifta um haugana og telja hinn austasta ýngstan og hinn vestasta elstan. Þetta sýnir, að aldursmerki hlutanna eru nokkuð hæpin, þegar um ekki lengri tíma er að ræða, en að eins nokkra áratigi. En það kemur öllum saman um, að haugarnir allir eru frá því tímabili, sem nefnt hefur verið.

Af þessu leiðir þá aftur — og þarf eiginlega ekki að orðast frekar —, að sannfræði sagnanna um þessa Ynglínga-konúnga styrkist, arfsögnin, hvort sem hún heldur stafar frá kvæði Þjóðólfs meðan það var fyllra til, eða hún hefur lifað á vörum manna alt til Snorra tíma, reynist sönn að vera, og má það aftur styrkja aðrar sögusagnir hans.

Hið (sann)sögulega gildi þessara fornsagna verður því stórmikið eftir þessu, og þær verður hjereftir að skoða öðruvísi en oft hefur verið gert að undanförnu. Nerman segir svo: »Rannsóknin hjer á undan hefur að mestu

fullkomlega sannað frásagnir Ýnglingasögu, að svo miklu leyti sem hægt er að rannsaka þær fornfræðislega. Efalaust mun mörgum þykja þetta furða, og sama er að segja um þá staðhæfing, að mestur hluti lángfeðgatalsins (Ýnglínga) sje sögulega rjettur, en það styrkist einmitt mjög við það sem hjer er sýnt fram á. Í sjálfu sjer er ekkert furðanlegt í þessu Að menn hafa efast um sannsögli Ýnglingasögu um grafir (hauga) og greftrun (heyging) konúnganna, kemur til af því, að menn hafa ekki í sagnarannsóknum sínum greint nógu vel þær sagnir, er ástæður voru til að finna uppá (skálda) og breytast auðveldlega (í meðferðinni), frá hinum, sem hljóta að byggjast á arfsögnum og eiga ekki svo hægt með að breytast«. Þessi ummæli eru fullkomlega rjett og óræk.

Nú víkur sögunni að Óttari, sem Snorri kallar vendilkráku. Eins og menn hafa sjeð, er Óttarr ekki talinn með þeim, er heygðir sje að Uppsölum. Snorri segir svo frá ævilokum Óttars, að hann hafi farið herferð til norðurskaga Jótlands, þ. e. Vendils (Vendilskaga). Jarlar tveir þar fóru í móti honum og feldu hann, og svo stendur orðrjett: »Danir tóku lík hans ok fluttu til lands [orustan hafði verið háð á Limafirði] ok lögðu upp á haug einn, létu þar rífa dýr ok fugla hræin. Þeir gera trékráku eina ok senda til Svíþjóðar ok segja, at eigi var meira verðr Óttarr konungr þeira. Þeir kölluðu síðan Óttar vendilkráku«. Þetta kemur heim við vísurnar í Ýnglingatali, nema hvað þar stendur ekkert um »hræin« eða »vendilkrákuna«; en Þjóðólfur hefur sömu sögnina um fall Óttars á Jótlandi. (»Fell Óttarr . . fyr Dana vápnum«).

Hjer er nú eflaust dæmi þess, hversu arfsögn getur spilst og skáldskapur komið í stað sögulegs sannleika. Það er eflaust satt, að Óttarr hafi fallið (eða dáið) »á Vendli« — eins og í vísunni stendur —, en sá Vendill var ekki á Jótlandi, heldur í Svíþjóð, og heitir enn svo hjerað á Upplöndum þar í norður frá Uppsölum. Það er dalur einn og ber vott um mikla fornaldarbyggð, þar eru mörg fornmannaleiði, stórkostlegustu grafirnar, sem til eru í

Svíþjóð. Það eru grafir með skipum (menn heygðir í skipum), 14 talsins, og frá miðri 7. öld að tali fornfræðínga. Í þesssum gröfum hafa fundist hinir mestu og ágætustu dýrindisgripir. Höfðínginn (því að það eru vitanlega höfðíngjaleiði) er í elstu leiðunum grafinn með öllum herklæðum, brynju, hjálmi, sverði og öðrum vopnum, verkfærum og alidýrum o. s. frv. En arfsagnir um þessi leiði eru ekki til. Þar í grendinni er líka einn ákaflega mikill haugur, er líkist mjög Uppsalahaugunum, og hann hefur sveitafólkið þar kallað »Óttarshaug«, svo lángt sem hægt er að rekja nú, en það er reyndar ekki lengra aftur í tímann en til 1677, en það þykir mega telja víst, að nafnið sje miklu eldra — og ævagamall arfur —, en ekki tilbúið af lærðum mönnum á 16. eða 17. öld. Og ef svo er, getur ekki verið að tala um aðra konúnga eða stórmenni en »Óttar vendilkráku«. Eftir tímatali því, sem áður var getið, ætti eða gæti Óttarr, hafa lifað á fyrri hluta 6. aldar og dáið, segjum um 530. Óttarshaugur var nú brotinn og rannsakaður 1916. Þá reyndist svo, að hann líktist mjög Uppsalahaugum að gerðinni til; lík hins hauglagða var brent, eins og í þeim, og munirnir, sem fundust, svöruðu til þeirra í Uppsalahaugunum, og engin vopn. Að stærðinni til var haugurinn mitt á milli »Freys« og »Þórs« (Egils og Aðils) hauga, enda var Óttarr milli Egils og Aðils. Í þessum haug vildi svo heppilega til að fanst austrómverskur peníngur, mótaður á dögum Basilískus keisara, en hann var keisari 476—77. Peníngurinn var slitinn talsvert. Af þessu og svo mununum, sem fundust, telja fornfræðíngar það alvíst, að haugurinn sje ekki ýngri en frá því um 550, en líklegast nokkuð eldri, með öðrum orðum: haugurinn á svo vel við dauðatíma Óttars, einsog hann hlýtur að hafa verið, sem hægt er að óska sjer.

Þetta styrkir auðvitað, að nafnið »Óttarshaugur« sje afarfornt og rjett. En hvernig á þá að skýra nafnið »vendilkráka«? Það skýrist á mjög einfaldan og skemtilegan hátt. Vendilbúar, sem nú eru, hafa auknefni í nærsveitunum og eru kallaðir »krákur«; þegar bændur þaðan

koma á vetrum með kolavagna sína um Danemorasókn, getur það komið fyrir, að gáskafullir smástrákar láta klingja í eyrum þeirra þetta erindi:

Vendils kráka
lobmjer að aka.

(»Vendels kraka | får jag åka«). Þetta gamansuppnefni ætti að vera erft alla leið úr elstu fornöld. Þess konar getur haldist ótrúlega lengi.

Nú kemur ályktunin hjá Nerman og hún er þessi. Faðir og afi Óttars og sonur hans voru heygðir »at Uppsölum«, en Óttarr á Vendli, því var hann nefndur Vendilkráka af síðari tíma mönnum, og hefur það þótt virðulegra að vera heygður við Uppsali sjálfa. Mjer finst lángeðlilegast að ætla og álykta, að Óttarr af einhverjum ástæðum hafi farið frá Uppsölum og haft aðsetur sitt á Vendli og hafi því þegar af samtímismönnum sínum (Uppsalamönnum) verið uppnefndur Vendilkráka. Og þar var hann heygður, hvort sem hann nú hefur verið feldur eða hann hefur dáið á sóttarsæng; hitt er þó líklegra.

Hjer er þó atriði, sem sýnist gersamlega rángt hjá Þjóðólfi (og eftir honum hjá Snorra). Hjer hefur arfsögnin brenglast ekki lítið. En það er líka hægt að sjá orsökina. Hjeraðið Vendill í Svíþjóð var lítt kunnugt með Norðmönnum, og var von til, þar eð það er fremur afskekt og leið Norðmanna lá þar sjaldan eða aldrei um. Aftur á móti þektu þeir Vendil á Jótlandi hverjum öðrum stað betur, má segja. Þar voru einlægir flutningar á milli. Þegar þeir nú heyrðu frjettir af Óttari, sem fallið hefði á Vendli, datt þeim ekki annað í hug en að það hlyti að vera Vendilskagi, og svo myndaðist sú skáldsögn, sem finst hjá Þjóðólfi og Snorra.

Til er annað dæmi þessu líkt.

Fornsögn ein segir frá orustu milli tveggja konúnga á Vænis ísi. Annar var Áli hinn upplenzki og hinn Aðils að Uppsölum. Snorri segir, að Áli hafi verið »úr Nóregi«. En undarlegt má það þykja að konúngur af Upp-

löndum í Noregi skuli berjast við Aðils frá Uppsölum. En alt verður skiljanlegt, þegar þess er gætt, að »Upplönd« hjetu austustu hjeruðin í Svíþjóð (hinni eiginlegu), einmitt kríngum Uppsali Þaðan var þessi Áli, hefur hann víst verið af konúngsættinni og gert kröfur til ríkis, en flúið þaðan og líklega dvalist í Gautlandi og þar fen:ið viðurnefni sitt. Norðmönnum lá næst að skilja »upplenzki« svo, sem það ætti við þeirra eigin Upplönd.[1]) Samkvæmt Bjólfi var Áli (Omla) bróðir Óttars — föðurbróðir Aðils; hann er víst sá sami og Áli upplenzki.

Eftir þessu mætti nú segja, að þá hafa þeir rjett að mæla, er segja, að sögurnar sje hvorttveggja, sannfræði og skáldskapur. Og því verður ekki neitað, að svo er rjett að orði kveðið, er um þess konar fornsögur er að ræða. En þar af leiðir engan veginn, að hið sama sje rjett um frásagnir frá síðari tímum, segjum um og eftir 900. Hjer hlýtur þó aldursmunurinn að gera töluvert til. Skilyrðin fyrir því, að frásagnirnar sjeu nú eða geti verið sannar, eru alt öðruvísi, tíminn styttri, skáldakvæðin og mart annað mætti hjer til greina. Jeg fyrir mitt leyti efast ekki fremur nú en jeg hef ætíð gert og haft ástæðu til að gera um, að mestur hluti sagna vorra er sannfræði.

*Finnur Jónsson.*

---

[1]) Sbr. P. Fahlbeck i Ant Tidskr. VIII, 61.

# Ritfregnir.

---

**The Norsemen's Route from Greenland to Wineland** by **H. P. Steensby**, Ph. D., Professor of Geography at the University of Copenhagen (Köbenhavn 1918, Henrik Koppels Forlag). 109 bls. með 2 uppdráttum og 4 myndum.

Rit þetta hefir upphaflega verið birt í »Meddelelser om Grönland, Vol. LVI. 1917«, en er nú komið út sem sérstök bók. Hafa því þegar hlotnast hin beztu meðmæli ýmsra sérfræðinga í Danmörku, og hafa Íslendingarnir próf. Finnur Jónsson og dr. Valtýr Guðmundsson fallist á rökleiðslu höfundarins.

Höf. er prófessor í landafræði við Kaupmannahafnarháskóla og lærður þjóðkynjafræðingur. Hefir hann í ritgerð sinni tekið Vínlandsmálið til nýrrar rannsóknar. Hafnar hann algerlega kenningum Friðþjófs Nansens um Vínlandsferðirnar, að sögurnar um þær séu að mestu leyti æfintýri og helber uppspuni. Kemst höf. að þeirri niðurstöðu, að Eiríks saga rauða sé í aðalatriðunum áreiðanleg og sönn saga. Aftur á móti er hann ósammála William Hovgaard um gildi Grænlendingaþáttar. Vildi Hovgaard í bók sinni »The voyages of the Norsemen to America« (New York 1915) gera báðum sögunum jafnt undir höfði, en hér heldur Steensby sér við skoðanir þeirra Gústavs Storms og Finns Jónssonar.

Aðferð Steenbys er ný. Lítur hann á söguna aðallega frá landafræðilegu sjónarmiði og jafnframt þjóðkynjafræðilegu, eins og hans líka var von. Og honum tekst á svo snildarlegan hátt að samræma lýsingar sögunnar við staði á austurströnd Ameríku, að maður verður að samsinna honum. Mun óhætt að segja, að úr málinu sé leyst og gátan ráðin.

Höf. hefir með þessu sannað áreiðanleika Eiríks sögu rauða — í aðalatriðunum — og mun það gleðja margan Íslending. Árásir ýmsra vísindamanna á áreiðanleika Íslendingasagna eru að verða að

engu. Í aðalatriðunum munu betri sögurnar reynast áreiðanlegar, þó að mörg einstök atriði séu löguð í hendi höfundanna.

En það, sem hér skiftir mest máli, er að höf. hefir tekist að staðmiða nærri því öll þau staðarheiti, sem sagan nefnir, og með því er einnig sannað, að Norðurlandabúar (Grændlendingar og Íslendingar) hafi í raun og veru fyrstir hvítra manna fundið Ameríku. Það þarf ekki að deila lengur um það, hvort Vínland sé eintómir draumórar, hvort vínberin frægu hafi verið vínber í raun og veru eða önnur ber. Hafi landkannararnir farið þá leið, sem höf. heldur fram, að þeir hafi farið — og sérhverjum, sem lítur á kortið, mun þessi leið sýnast hin eðlilegasta — hafa þeir komið að landi, þar sem vínviður vex nálægt enn í dag. Vínland er fundið aftur.

Höf. hefir ekki sjálfur komið til Vínlands, en hann er samt gagnkunnugur þeim stöðum og staðháttum, sem hann ber saman við lýsingar sögunnar. Það virðist ekki mjög sennilegt, að rannsóknir á stöðunum sjálfum mundu breyta mjög miklu af því, sem höf. þykist hafa komist að raun um. Staðalýsingar sögunnar eru bæði fáar og ekki mjög ýtarlegar og ekkert í þeim, sem á ekki mjög vel við þá staði, er höf. ber saman við þær. Það mun erfitt að véfengja staðhæfingar höf. nema með því að sanna að lýsingar hans á þeim stöðum, er hann nefnir, séu skakkar eða þá að finna aðra staði, sem koma enn þá betur heim við lýsingar sögunnar; en hvorugt mun hægt að gera.

Eg ætla þá að telja upp staði þá, sem höf. þykist hafa staðmiðað.

Fyrst er Helluland. Hér er höf. sammála Storm um að það hafi verið norðausturströnd Labradors. En þegar um næsta landið, er sagan segir frá, greinir þá Storm á. Hafði Storm leitað að því á Nýfundnalandi og kanadiskur höfundur M. F. Howley á Magdalenu-eyjum í St. Lawrence-fljótinu, en Steensby álítur, að Markland hafi verið suðausturströnd Labradors austur frá mynni Bell-Isle-sundsins að Cape Whittle. Bæði er það sennilegt, að landkannararnir hafi leitast við að sigla sem mest fram með ströndum, enda segir svo í sögunni: »Þaðan (ɔ: frá Hellulandi) sigldu þeir tvau dœgr, ok brá til landsuðrs[1]) ór suðri ok fundu land skógvaxit, ok mörg dýr á; ey lá þar undan í landsuðr; þar í drápu þeir einn björn ok kölluðu síðan Bjarney, en landit Markland. Þaðan

[1]) Höf. hefir hér skakt „to the south-west“ bls. 37; hitt handritið hefir: „Þá sigldu þeir norðan veðr tvau dœgr, ok var þá land fyrir þeim, ok var á skógr mikill ok dýr mörg“.

sigldu þeir suðr með landinu langa stund .... «, og bendir þetta einmitt til, að þeir hafi farið inn í Bell-Isle-sundið; Bjarney verður þí sennilega norðuroddi Nýfundnalands. Og í öðru lagi eru hér skógar stórir, og kemur það mætavel heim við nafnið Markland og orðin: land skógvaxit. Hafi nú Norðurlandabúar haldið áfram að sigla með fram ströndum, hafi þeir jafnan orðið að sigla beint í vestur og fylgja suðurströnd Labradors. Höf. lýsir strönd þessari (austur frá Cape Whittle að mynni Saguenay-árinnar í St. Lawrence-flóanum) þannig, að það sé löng tilbreytingalaus strönd, lítt laðandi jafnvel óvandfýsnum Norðurlandabúum, enda lítið bygð enn í dag. Sé hún lág, ýmist hrjóstrug, ýmist sendin, lítt vogskorin, en með skerjagarði. Svo segir í sögunni: »lá landit á stjórn; váru þar strandir langar og sandar .... Þeir kölluðu ok strandirnar Furðustrandir, því at langt var með at sigla«. Lýsir ekki auðnin sér hér í þessu eina orði langr, er kemur fyrir þrisvar, og jafnframt óþolinmæði sæfara? Höf. finnur ekki neitt á Nýfundnalandi, sem kemur eins vel heim við lýsinguna á Furðuströndum. Enda hafi sæfarar orðið að fara yfir hið breiða Cabotsund, hefði Markland verið á Nýfundnalandi og Furðustrandir á Cape Breton Island, eins og Storm hefir haldið. Kjalarnes hafi þá ef til vill verið Point Vaches á Norðurbakka Saguenay-ár. Straumfjörður álítur höf. enn fremur að hafi verið mynni St. Lawrence-fljótsins frá útrensli Saguenay-ár og Græney (Green Island) hinum megin suður að Orleans-ey ekki mjög langt frá Quebec, og Straumey hafi verið Héraey (Hare Island), og þar bjuggust þeir um.

Þegar hér var komið, mjókkaði fjörðurinn eða fljótið svo mikið, að Karlsefni gat eins vel farið með fram suðurbakkanum eins og hitt. Hér á suðurbakka St. Lawrence-fljótsins er því eðlilegast að leita að eyrum þeim og hópi því, sem sagan talar um (»þeir fóru lengi ok alt þar til er þeir komu at á einni, er fell af landi ofan ok í vatn eitt til sjóvar; eyrar váru þar miklar, ok mátti eigi komast í ána utan at hálfflæðum. Þeir Karlsefni sigldu í ósinn, ok kölluðu í Hópi«). Líkt landslag og þetta finnur höf. við mynni árinnar Riviére du Sud fyrir utan bæinn St. Thomas. Hér eru miklar sandgrynningar og fyrir innan þær eins konar vatnsþró, sem vel má kalla hóp. Sjálfsána hveitið álítur höf. að hafi verið maís, vatnsrís (zizania aquatica) eða önnur tegund af villigrasi, sem þeir Karlsefni hafi haldið að væri sjálfsjáið hveiti, alveg eins og nýrri evrópiskir landkannarar tali um »villikorn« á ýmsum stöðum kringum St. Lawrence-flóann. Villivínviður vex enn á Orleans-eynni og hefir

að öllum líkindum vaxið nálægt Hópi, þar sem landkostir eru engu lakari, síður en svo. Vínland hefir því að áliti höf. verið Nýja-Brúnsvík, en ekki skaginn Nýja Skotland (Nova Scotia). Landslagið hér er ekki líkt því, sem sagan greinir frá; hér er enginn vínviður og getur ekki vaxið. Krossanes hefir ef til vill verið nálægt Hópi og nes það, þar sem þau hin mörgu dýr lágu um næturnar, sennilega Orignaux Point á suðurbakka St. Lawrence-fljóts, miðja vegu milli St. Thomas og Straumeyjar (Héraeyjar).

Höf. heldur, að Vínlandsferðirnar hafi verið fleiri en þær tvær, er sögurnar tilgreina, en þær hafi bráðlega fallið niður sökum hættu þeirrar, sem stafaði frá þarlendra manna hálfu, enda hafi nýlendurnar á Grænlandi (og bygðirnar á Íslandi) verið of magnlitlar til þess að sigrast á örðugleikunum á Vínlandi. Þessir Skrælingar, sem sagan segir frá, álítur höf. helzt, að hafi verið Rauðskinnar, enda komu þeir samkvæmt sögunni að sunnan. Þeir fóru ekki lengra en að Hópi og því gátu »Vesturfararnir« setið í friði á Straumey. Hins vegar sé það hugsanlegt, að Skrælingjar þeir, sem þeir Karlsefni fundu á Marklandi, hafi verið Eskimóar. Annars er það skoðun höf., að endir sögunnar sé mjög svo ruglaður og með innskotsköflum. Það sé þannig árangurslaust að leita að Hvítramannalandi eða Íslandi hinu mikla í Ameríku. Eins hlýtur að vera eitthvað bogið við Einfætinginn og Einfætingaland, sem gefur að skilja.

Er ritgerðin hin fróðlegasta og ætti skilið að vera þýdd á íslenzku. Einnig væri vel til fallið að gera út Íslending(a) til þess að gera rannsóknir á þeim stöðum, sem höf. hefir tiltekið.

**Holger Wiehe.**

**Stefán frá Hvítadal: Söngvar förumannsins.** Reykjavík. Prentsmiðjan Gutenberg. MDCCCCXVIII.

Ljóðabók þessi er bæði hið ytra og innra með nokkuð öðrum hætti, en venjulegast gerist hér á landi. Hún er prentuð í 290 tölusettum eintökum að eins, á þykkan og vandaðan pappír, og prentun er prýðileg, en frágangur ágætur. Blaðsíðutal fyrirfinst ekki, en stærð bókarinnar er 6 arkir (94 bls.); kostar hvert eintak 10,00 kr.

Og þá er innihald bókarinnar ekki síður einkennilegt. Er óhætt að segja, að hér er upp risinn »nýr spámaður á meðal vor«, eða með venjulegri orðum, að nýtt skáld er fram komið, sem ekki er neinn eftirómur annarra, heldur ber glögg séreinkenni. Bragsnillingur er Stefán mikill. Hann reynir ekkki að yrkja dýrt á

kostnað máls og hugsana, eins og oft hefir brunnið við um íslenzk skáld, og rímið er t. d. stundum að eins í hálfri vísu, en bragsnildin brýzt ósjálfrátt fram. Rímið er nákvæmt og bragliðir mjög reglubundnir, en á það hefir einatt skort með oss. Málið er óaðfinnanlegt, lítið um óvanaleg orð eða sérstök skáldamálsorð, en alt mjög blátt áfram. Sem dæmi um meðferð skáldsins á máli og rími tek eg kvæðið Eg vil burt:

Yfir djúpin breið og blá
báti litlum sigl' eg á.
Mörg er bylgjan fleyi flá,
fækka engu segli má.
Austur vil eg sigla' um sjá,
svala minni dýpstu þrá.
Mig dreymdi', að eg í sænum sá
sólskinsland þar austur frá.

Formið, í víðari merkingu þessa orðs, er einnig mjög einfalt, yfirleitt, og lítið um líkingar, nema þá helzt dregnar saman í eitt orð eða tvö, ekki ósvipað kenningunum fornu. Má þar t. d. nefna, að hann talar um »bernskunnar heiðríkju-hlátra« (Seytjándi maí). Skáldleg er og myndin »rökkur í hjartað rennur«, en öllu síðra er það, sem á eftir kemur: »rignir í hugans blóði«, þótt vel megi það vera. En þrátt fyrir líkingafæðina tekst Stefáni að skapa svo skáldleg kvæði, að aðrir gera ekki betur með öllu líkingaskrúði. Ber til þess tilfinningarafl, sálarlega glöggskygni og snildarlegar myndir, sem hann bregður upp með frábæru orðavali, sbr. afbragðskvæðið Seytjándi maí. Af öðrum kvæðum, þar sem góðar líkingar koma fyrir, má nefna Fyrir dyrum úti, þar sem gleðin er persónugerð og Farandskáld, sem er með beztu kvæðum í bókinni. Þar er t. d. þessi vísa, sem, auk þess að vera fögur, sver sig í ættina við rímur þær og alþýðuvísur, sem beztar hafa kveðnar verið, eins og raunar alt það kvæði:

Skyndilega skaut mér fram
úr skuggans kafi,
í sólskinið á Sónarhafi.

Eitt kvæðið, Aðfangadagskvöld jóla 1912, hefir það skraut í búnaði sínum, að höfuðstafir eru engir, en stuðlar í hverri línu (eins og í finskum ljóðum, t. d. Kalevala). Fer það prýðilega og hefir höf. með því náð ágætlega því, sem tilefnið gaf, að hann kvað með þeim hætti, — hann heyrði tvennar kirkjuklukkur hljóma. Eg tek upp eina vísu til skýringar:

Hvílík fingra-för.
Alt með spotti spilt.
Tungan eitur-ör.
Eg fór vega vilt.
Innra brennur bál,
lífsins dagur dvín.
Eg er syndug sál.
Herra, minstu mín.

Efnið er, í stuttu máli sagt, persónuleg reynsla skáldsins, líf hans, séð að innan — en ekki yfirborðsmas né aðfengin speki. Áhrifa annarra skálda gætir lítt eða ekki, hvorki íslenzkra né norskra, en norskan skáldskap þekkir Stefán vel og ann honum. — Þar eð höf. hefir lengi átt við alvarlegt heilsuleysi að stríða, er þess öll von, að mikið beri á skuggum yfir sálaröldum hans, og tónarnir sé ekki svo fjölbreyttir, sem sumir myndi æskja. En hann slær vel þá strengi, sem harpa hans á, og mikið ber og á lífsgleði, þrátt fyrir alt, og bjart er yfir kvæðunum, jafnvel þeim, er um harma fjalla eða sjúkdóma — morgunljómi yfir orðum og myndum, t. d. í kvæðinu Vorsól:

Seztu, æsku-von til valda,
vorsins bláa himni lík.
Eg á öllum gott að gjalda,
gleði mín er djúp og rík.

Einu einkenni skáldsins tekur nákvæmur lesari eftir, nfl. þeirri forngrísku ró og takmörkun, sem fram kemur í frásögninni um nepjunæðinga lífsins — skáldið vill forðast öfgar og ekki gefa sig á vald viðnámslausum harmi; sjá t. d. kvæðin Það er ekki ljótt og Förumannsóð.

Ástakvæðin eru mörg fögur og þar að auki má nefna hið gullfallega vögguljóð, Erlu.

Aðfangadagskvöld jóla 1912, er eg gat um áðan, er snildarlegt að efni og orðfæri. Það er þrungið trúarlegri alvöru, hróp um hjálp og gleði til frumvalds tilverunnar, sem skáldið sér speglast í persónu Krists, en í reyndinni liggur kvæðið miklu dýpra, en öll ágreiningsatriði trúarbragðanna. Í því er meiri trú, meiri »religio«, en í hálfri sálmabókinni. Það er ódauðlegt eins og Passíusálmarnir.

En þrátt fyrir alla alvöruna finnur hann einnig, að

. . . . . lífið var stundum leikur
og ljómandi ríkt af vonum.

Það gaf mér sitt bezta: Æskunnar ilm
og ylinn frá nöktum konum.

Þetta ætti ekki að þurfa að hneyksla neinn. Hér er fegurð og djúp tilfinning um einingu tilverunnar, um guðdómleik náttúrunnar — og »hinum hreina er alt hreint«.

Það er auðvitað, að ekki eru öll kvæðin jafngóð, en ekki hefi eg orðið var við smekkleysur neinar og hika eg ekki við að telja meiri hluta þeirra snildarverk — jafngild þeim kvæðum, sem bezt hafa verið ort á íslenzku.

Það sýnir þroska og smekk sumra íslenzkra blaðstjóra og útgefenda, — þótt sumstaðar sé e. t. v. fullnægar afsakanir fyrir hendi —, að Stefán hefir hvergi fengið rúm fyrir kvæði frá sér, nema hjá Bjarna frá Vogi, og er þessa getið til verðugs lofs Bjarna. En ýmsir aðrir meiri — og minni — háttar spámenn hafa fengið lítt takmarkað rúm.

Af Stefáni má mikils vænta, og hefði víst flestum þótt sjálfsagt, að hann fengi nú skáldlaun, en þess var ekki kostur fyrir úthlutunarnefndina, þar eð ekki var umsókn fyrir hendi. En í sjálfu sér virðist réttara, að nefndin þyrfti ekki að taka tillit til umsókna, en veitti þeim styrk, er henni þætti þess verðir, hvað sem öllum umsóknum líður.

Þess er óskandi, að unt verði að gefa Söngva förumannsins út bráðlega aftur, á þann hátt, að almenningi gefist færi á að kaupa hana.

**Jakob Jóh. Smári.**

**Hulda: Tvær sögur.** Reykjavík. Bókaverzlun Arinbjarnar Sveinbjarnarsonar. 1918.

Þessar sögur heita Þegar mamma deyr ung og Átthagar. Báðar eru þær nokkuð langar (bókin alls 130 bls.). Áður hafa komið út eftir sama höfund »Kvæði«, smásögurnar »Æskuástir« og kvæðabálkurinn »Syngi, syngi svanir mínir«.

Það eru misjafnar tilfinningar, sem menn bera í brjósti til skáldanna, jafnvel þeirra, sem mjög eru lesin og mikinn orðstír hafa hlotið. Menn dást að speki og djúpristu sumra, ýmist með eldfjöri eða kuldalegri viðurkenningu — gleðjast yfir ádeilum eða mannhatri annarra — hrífast af orðskrúði og hnittinyrðum, — eða fyllast gremju yfir lífsskoðun skáldsins og meðferð þess á efninu. En Hulda er ein þeirra, sem manni þykir vænt um. Hún bregður á sálina sólskini göfugrar gleði, þótt geislarnir brotni stundum í tár-

um. Og varla getur hollari lestur en rit hennar. Í þeim ríkir móðureðlið gagnvart lífinu — eins og lífið á að vera —, gagnvart öllu göfugu, fögru og góðu.

Og sjálf eru þau fögur. Málið á sögum þessum er mjög gott, blæfallegt, mjúkt og íslenzkt. Og stíllinn vefst utan um atburðina, eins og síðkveldsbjarminn um fjöllin á vorin — sveipar alt í tindrandi móðu, sem sléttar hið óslétta, mýkir hið harða og göfgar jafnvel hið illa . . . . .

Þótt farið væri í saumnálarleit að málvillum, myndi lítið fénast — svo er málið vandað. Er það sannarlegt gleðiefni, ekki sízt nú, er þeim virðist fara fækkandi, sem ritað geta nokkra íslenzku, er svo megi nefna með réttu. En svo að ekki megi segja, að undan sé dregið það, sem miður má fara, skal eg nú telja þau atriði upp, sem eg hygg vera miður rétt: Bls. 16. o. v. »honum fanst jafnan, að hann geta fundið muninn á réttu og röngu« (samblöndun úr: »h. f. j., að hann gæti fundið« — og »h. f. j. hann geta fundið«). Þessu að er ofaukið í nafnhætti með nefnifalli, eins og t. d. hér. Bls. 17. og 60. »nema að« (f. nema — að er ofaukið). Bls. 22. »að Sesselju gömlu undanskildri« (f. undanskilinni). Bls. 34. o. v. »hendi« (nf. og þf., f. hönd). Bls. 96. »Þ. A. fanst, sem hún hafa heyrt« (f. »Þ. A. fanst hún hafa heyrt« — eða »fanst, sem hún hefði heyrt«). Og þar með búið. En alt er þetta mjög smávægilegt, og málið annars prýðilegt.

Sem dæmi þess, hve fallegar setningar Hulda segir, vil eg nefna hér nokkrar, þótt þær njóti sín ekki algerlega, þegar þær eru rifnar út úr samhengi.

»Nú hrifu sterkar tilfinningar hana til skiftis — auðmýkt, gleði og sorg. Hún var eins og smáfugl, sem djúpar öldur vagga í sterku ljósi og blæ«. (bls. 28).

»Hún var komin með hugann í kirkjugarðinn, þar sem móðir hennar og gamla konan hvíldu undir grænfölum leiðum og mjúku haustljósi mánans«. (bls. 38).

Þá er þess að minnast, að Hulda fer vel með frásögnina og lipurt, en persónulýsingar hennar eru margar mjög góðar. Mér líður seint úr minni Þorgerður húsfreyja í Hamarhlíð, stórmenska hennar, rausn og sálargöfgi, eða Gunnar ráðsmaður og húsbóndahollusta hans. Og í fyrri sögunni má m. a. nefna söguhetjuna, Guðnýju, og föður hennar og stjúpu. Öllum er þeim vel lýst og þá ekki sízt ungu stúlkunum og hjali þeirra (bls. 39. og áfram). Það er alt náttúrlegt og satt. Og til þess að koma í veg fyrir

misskilning, vil eg hér segja aftur það, sem eg hef sagt um Huldu annarstaðar fyrir mörgum árum, að við lestur rita hennar mega menn ekki gleyma því, að sólargeislinn er jafn-sannur og jafnraunverulegur, sem regnskúrir eða renningskóf. Eða eru vorar beztu og göfgustu hugsanir og tilfinningar ósannari, en hrossaprang það og sölutorgsháváði, sem oft vill bera mest á í daglegu lífi? Má ekki jafnt lýsa hinu fyrra, sem hinu síðara?

Og eg minnist orða Lao-tse, hins óviðjafnanlega, að hið mjúka og þýða er í vexti og hefir lífið fyrir sér, en harka og stirðleiki eru einkenni elli og dauða.

Hulda er lífsins megin.

**Jakob Jóh. Smári.**

**Udvalgte islandske Digte** fra det nittende Aarhundrede; indledede, oversatte og forsynede med Noter af **Olaf Hansen**; udgivet af Dansk Islandsk Samfund. Gyldendalske Boghandel Nordisk Forlag. Kbh. og Kria 1919.

Bilið er oft svo örskamt milli leirs og listar, að ekki þarf að hagga orðalaginu nema sáralítið, svo að blærinn verði allur annar og gullfagrar línur að markleysu einni. Svo harfínt og innilegt er sambandið milli máls og efnis, orðs og anda í fögrum ljóðum.

Það þarf þýtt og varfærið handbragð, orðauðgi og næman smekk til þess að þýða kvæði. Og sérstaklega verður þýðarinn að hafa andlegan skyldleika við frumskáldið, ef hann á að geta tekið hugsun listaljóðsins, losað af henni formið, sem snillingshöndin hefir felt um hana, búið hana að nýju og skilað henni heilli og frjálsri, með sama svip og sömu tign, yfir á annað, oft fjarskylt mál. Þýðarinn verður að geta samstilt sál sína því skapi, sem hefir fylt skáldið á fæðingarstund ljóðsins, — andi kvæðisins verður að koma yfir þýðarann. Því mark hans er að finna hvernig skáldið myndi hafa ort ljóðið, ef tunga þýðarans hefði verið mál þess.

Danska skáldið Olaf Hansen hefir unnið djarft og vandamikið verk með þýðingum sínum. Hann hefir unnið það af ást til íslenzkra bókmenta, og löngun til þess að sýna frændþjóðum vorum nokkuð af dýrustu auðæfum íslenzks anda. Þjóð vor hefði vart getað óskað sér betri greiða af útlendum andans manni.

Það væri ranglátt að búast við þýðingunum gallalausum. Þær eru milli 60 og 70 og eftir mörg skáld og ólík. Það er hægðarleikur að finna dæmi þess, hve hætt er við að hugsun ljóðsins, þótt

henni sé í engu viljandi breytt, týni fegurð sinni og hljómi á leiðinni frá máli til máls.

Allir kunna þessar yndislegu línur úr Gunnarshólma:

Við austur gnæfir sú hin mikla mynd
— hátt yfir sveit, og höfði björtu svalar
í himinblámans fagurtærri lind!

Hrifni skáldsins vex með hverri línu, þær eru þrungnar fegurðarilotningu heitrar listamannssálar. Þær eru sungnar, en ekki sagðar, — hæstu og tærustu tónar tungunnar hljóma í þeim. — En þýðingin er svona:

I Öst den knejser, denne Kæmpekrop,
og Himlens Hav dens klare Isse svaler,
höjt i det rene Blaa den rager op.

Þó að margt megi þannig að þýðingunum finna, þá eru þær þó yfirleitt vel af hendi leystar, sumar ágætlega, t. d. þýðingin á Skarphéðni í brennunni. Vandvirkni þýðarans, smekkur hans og skáldleg tilfinning hafa hjálpast að um að gera þýðingarnar að góðu sýnishorni margs hins bezta, sem til er í ný íslenzkri ljóðagerð. Allir þeir, sem unna heiðri Íslands út á við, bera því hlýjan þakkarhug til hins danska skálds fyrir þrekvirki hans.

Bókinni fylgir vel ritaður inngangur eftir þýðarann, þar sem hann segir nokkuð frá bókmentum vorum á 19. öld, og enn fremur þær skýringar á kvæðunum, sem eru útlendum lesendum nauðsynlegar. Dansk-íslenzka félagið á þakkir skildar fyrir útgáfuna, sem er hin prýðilegasta.

**Kristján Albertsson.**

**Jónas Guðlaugsson: Breiðfirðingar.** Guðm. G. Hagalín þýddi. Reykjavík 1919. Bókaverz'un Guðm. Gamalíelssonar.

Í bók þessari eru 5 smásögur, og kom út á dönsku árið 1915. Hún er hið síðasta, sem Jónas heitinn Guðlaugsson skrifaði, og hefir nú verið þýdd á íslenzku af manni, sem hvorki skilur dönsku né kann að rita íslenzku svo sem til hefði þurft að þýða hana sómasamlega.

Þó að J. G. hafi ekki verið mikið söguskáld, hefir hann þó dottið ofan á góð efni. Fyrsta sagan, »Fórn árinnar«, hefði getað orðið átakanleg, sígild mynd af íslenzkri eymd, af aflleysi mannverunnar gegn kúgun harðrar náttúru. Síðasta sagan, »Gömul saga«, hefði getað orðið sönn og hugnæm lýsing á mætti íslenzkrar þjóðtrúar, af tökum dulsagnanna á náttúrubörnunum, — hvernig þær

í senn seiða og laða hug þeirra og slá hann ógn og þungri alvöru. Viðburðir og hugmyndir beggja sagnanna eru svo, að snillingi hefði orðið að perlum. En J. G. hefir skort vald yfir formi smásögunnar, föst tök á kjarnanum, innsýni í mannssálina, ímyndunar- og frásagnagáfu til þess að láta atvikin gerast ljós og með lífsblæ.

Það er því óvíst, hvort sögurnar ættu það skilið, að upplagið að bókinni væri brent og hún þýdd að nýju af einhverjum, sem til þess væri fær.

Þýðaranum hefir á einum stað í danska frumritinu mislesist »sort« fyrir »stor«. Í ísl. þýðingunni er því höfuðið á einum sögumanni alt í einu orðið »svart« (bls. 27), þó að á næstu bls. á undan standi að andlit hans hafi verið »bleikt og skinið« og hár og skegg »silfurgrátt«. Svona meinloka getur ekki komið fyrir hjá þýðara, sem er með vakandi hugsun að verki sínu, eða sem yfirleitt reynir að beita sínum miklu eða litlu hæfileikum til þess að leysa það vel af hendi. — Á sömu bls. og »svarta höfuðið« er þessi setning: »Sólin var þá komin hátt á loft, og skuggalaust orðið í hinu þröngva herbergi«. Hvernig getur herbergi verið skuggalaust í glaðasólskini, þar sem það er »fult af skinnum, verkfærum og ýmsu rusli«, auk þess sem rúm er í því og önnur húsgögn? Í frumritinu er setningin svona: »Lyset var da blevet mere roligt og fyldigt og bredte sig jævnt over det trange Rum«. — Þá er þetta í sögubyrjun (bls. 41): »Dagsbirtan var að byrja að gægjast inn um litla fjögrarúðu gaflgluggann á hinni lágu og fátæklegu baðstofu. Hún var svo dauf, að hinn myrkvi skuggi hlöðunnar, sem stóð beint á móti baðstofunni, sást enn þá«. Setningarnar eru báðar ljótar og rangþýddar og hin síðari svo, að hún verður hreint og beint að vitleysu. Á dönsku er hún á þessa leið: »Det (ɔ: Dagskæret) var endnu saa svagt, at kun den mörke Silhouet af Laden lige overfor lod sig skimte«. — Á bls. 51 stendur þetta setningarskrípi: »Það logaði dauft á lýsislampanum, og rýmdi ljósið því lítt brott hinu gráleita húmi«. Á dönskunni stendur: »Tranlampens spæde Flammetunge lyste kun mat i det graalige Halvmörke«. Setningaskipun er víða smekklaus og dönskuleg: »En á enginu meðfram ánni, er rennur eftir dalnum svo silfurtær, að hægt er að greina steinana á botninum, er fólkið að vinnu sinni« (bls. 65). »Í hinu skuggalega herbergi, sem fult var af skinnum, verkfærum og ýmsu rusli, léku geislarnir sér« (bls. 25). »Hrærðir af hinum hryggilegu endurminningum störðu menn niður fyrir sig, og hristu höfuðið alvarlegir og angurværir á svip« (bls. 8). Það er

danska orðið »bekymret« (þungbúinn, áhyggjufullur), sem hér er þýtt með »angurvær«. Á sömu bls. kemur þessi setning fyrir: »Bóndinn í Langholti þagnaði og þagði um stund«. Loks eru málleysur eins og »alt kvöldið út í gegn«, »sólkringlan«, »gamaldags« o. s. frv. Fjöllin »báru við himin« (fyrir: bar við himin) »með skörpum og skýrum takmörkum« (fyrir: brúnum).

Þýðandinn hefir engan veginn verið fær um verk sitt, hvorki að smekk, þekkingu og vandvirki né yfirleitt þroska og viti.

**Kristján Albertsson.**

**Skólablaðið.** Útgefandi Helgi Hjörvar. XI. ár. 1919.

Svo sem kunnugt er, var útgáfu Skólablaðsins frestað við áramótin 1916—'17. Síðastliðið nýár hóf það göngu sína á ný, og hefir Helgi Hjörvar gerst eigandi þess og útgefandi. Hann hefir og keypt blaðið »Vörð«, er Hallgrímur Jónsson kennari tók að gefa út, er Skólablaðið féll niður, og loks hefir Skólablaðið erft fyrirhugað tímarit um uppeldismál, er koma átti út á Akureyri. Er það skynsamlegt, að sameina þannig kraftana, heldur en að hver bauki í sínu horni. Skólablaðið kemur út einu sinni á mánuði, ein örk lesmáls hvert blað, 12 arkir á ári. Kostar 3 kr. árgangurinn. Ræðir einkum uppeldismál og alþýðumenning. Ytri frágangur góður.

Af þessum nýja árgangi eru komin 5 hefti, og virðist mér ritið fara myndarlega af stað, enda er ritstjórinn prýðisvel ritfær og hugsjónamaður. Beztu greinarnar sem komnar eru, eru eftir hann og síra Magnús Helgason skólastjóra. Væri óskandi, að sem flestir kennarar, foreldrar og alþingismenn læsu ritið, því að það ræðir þau málefnin, er ekki verður hrundið í viðunanlegt horf, nema með samvinnu þeirra aðila allra. Og aldrei verður það of oft sagt, að uppeldismálið er mikilvægasta verkefni hverrar þjóðar, og hin mesta nauðsyn að taka það nú til rækilegrar meðferðar.

**G. F.**

**Frederick W. H. Myers: Páll postuli. Kvæði. Jakob Jóh. Smári** sneri á íslenzku. Rvík. Bókav. Ársæls Árnasonar 1918.

Kvæði þetta er eftir sálarrannsóknamanninn fræga, sem líka var skáld gott. Er það kveðið af postullegum anda og krafti. Mér virðist þýðingin mjög myndarlega af hendi leyst, á stöku stað stirðkveðin nokkuð, en orðbragðið mergjað og skörulegt. Las eg kvæðið með ánægju.

**G. F.**

---

# Árferði á Íslandi.

---

Í Skírni 1919 bls. 79—81 er stutt grein eða ritdómur um bók mína »Árferði á Íslandi í þúsund ár. Efni greinarinnar er aðallega að auka smáatriðum við Árferðisannálinn, og væri það í alla staði lofsvert, ef athugasemdir þessar væri réttar og á rökum bygðar, en því miður hefir greinarhöfundurinn hvorki skilið stefnu né tilgang bókarinnar og he'dur ekki haft næga dómgreind til að vinsa hismið frá kjarnanum. Viðaukarnir verða því flestir út á þekju og koma ekkert málinu við. Eg verð því að mótmæla staðhæfingum greinarinnar, sem hvergi eiga heima, og geta því verið villandi fyrir þá, sem ekki hafa séð eða lesið bókina.

Það er víða tekið fram í árferðisbók minni, að þar sé að eins getið hins allra helzta, sem snertir veðráttufar og annað alment árferði, en það var alls ekki tilgangurinn að tína saman alls konar smámuni um húsbruna, skipbrot og þess konar, enda sér hver maður að slíkt kemur ekki árferðinu við. Það verður líka að takmarka efnið, svo það ekki flæði út yfir allar stíflur. Um einsamalt veðráttufarið væri hægðarleikur að safna réttmætum viðaukum í eitt eða tvö jafnstór bindi, ef frá öllum öldum væri safnað. Það mætti því ætla að herra Tr. Þ. hefði veitt létt að tína saman nokkra nytsama viðauka í árferðisannálinn, og hefði það verið þakkarvert. En því miður kemur flest, sem hann nefnir, ekkert málinu við. Tilvitnanir í konungsbréf 1294 og 1320 um skreið og mjöl, snerta ekkert árferði nokkurs einstaks árs, það eru að eins orðatiltæki í lagafyrirmælum, sem eiga alstaðar við og hvergi, enda tekin beint úr norskum lögum og eru þar látin eiga við Noreg. Skipbrotin 1430 og 1512 koma heldur ekkert árferði við; hvers vegna tekur höf. þá ekki líka öll hin mörgu skipbrot, sem getið er í fornum annálum, sem ekki eru nefnd í bók minni. Í árferðisbókinni er skipbrota sjaldan getið, nema þegar þau gefa einhverja bendingu um hafís. Þá eru kirkjubrunar 1514 og 1530 árferðinu einnig óvið-

komandi; hefði árferðisannállinn átt að telja alla slíka viðburði, hefði hann hæglega getað orðið á stærð við Árbækur Espólíns. Tilgátan um eldgos 1514 er ekki á neinum sýnilegum rökum bygð.

Hinn eini réttmæti viðauki, sem höf. hefir getað fundið, er greinin um harðindin 1543; játa eg það fúslega, að það hefir láðst að geta hennar í ísaskýrslunni, en sá hluti árferðisannálsins, þar sem hún átti við, var prentaður áður en það hefti af Fornbréfasafninu kom hingað. Bæði eg og margir aðrir hafa hvað eftir annað minst á það, hve dýrmætur fjársjóður Fornbréfasafnið er fyrir sögu Íslands og verður það aldrei of oft endurtekið. Höf. gefur í skyn, að eg hafi ekki notað Dipl. isl. við samning bókar minnar, en hið sanna er, að alt, sem nokkra sögulega þýðingu hefir um árferði í níu fyrstu bindunum hefir verið tínt saman í árferðisannálinn og er vitnað til Fornbréfasafnsins á 14 stöðum í bók minni. Tíunda og ellefta bindi eru enn registurslaus, og hver sem þau vill nota, verður að pæla gegnum þau frá orði til orðs. Um árferði er annars lítið að græða í Fornbréfasafninu, þó það sé gullnáma í mörgum öðrum greinum; ef höf. þóknast að líta í »Landbúnaðarsögu« mína (Lýsing Íslands III. og IV. b.) mun hann sjá hve mikið eg hefi notað það.

Um 17. öld segir höf., að aðalheimildir mínar séu Annálar Björns á Skarðsá og Árbækur Espólíns. Ef höf. hefir lesið bók mína fer hann vísvitandi með rangt mál; aðalheimildir mínar fyrir þá öld eru hinir óprentuðu annálar í Landsbókasafninu og eru ellefu þeirra taldir í innganginum (bls. 8—9) og auk þess alstaðar vitnað í hina einstöku annála neðanmáls. Þá gefur greinarhöf. í skyn, að mér hafi yfirsést að nota Alþingisbækur Íslands fyrir fyrstu ár 17. aldar, en Alþ. b. þessar komu út *eftir* að Árferði Íslands var prentað. Eru slíkar aðdróttanir erlendis kallaðar óhlutvendni í rithætti. Í fyrstu tveim bindunum af Alþingisbókum Íslands (pr. 1912—16) er ekkert um árferði sem þýðingu hefir. Annars eru hinar svokölluðu »nákvæmu frásögur um árferði« í 3. bindi Alþ. b. mjög lítils virði, þar fæst því nær engin staðreynd fræðsla um veðráttufar framan af 17. öld. Eg mundi því lítt hafa notað þessar skýrslur, þó bindið hefði verið komið út á undan bók minni; þar eru að eins hallæriskvartanir í almennu orðalagi, alveg af sama tæi eins og kvörtunar- og volæðisbréfin, sem til eru í Ríkisskjalasafni Dana, sem eg ekki hefi notað, af því þau eru ekki nærri eins góðar heimildir eins og annálarnir. Þá hefði verið nær að prenta eitthvað af hallæriskvæðum og heimsósómum hinnar 17.

aldar, en það gat ekki komið til mála rúmsins vegna, enda hefði eftirtekjan orðið lítil um árferði hinna einstöku ára. Í 3. bindi Alþ.b. er þó ýmislegt er snertir almenna bjargræðissögu þjóðarinnar og hefi eg notað það í Landbúnaðarsögu minni.

Höf. kemst að þeirri niðurstöðu, að bók mín sé »næsta ófullkomin, því að höf. hefir látið hjá líða að nota til fulls sum áreiðanlegustu heimildarritin, sem mjög mikið var á að græða«. Eg skal fúslega játa, að bókin er ekki fullkomin fremur en önnur mannaverk, en hinum seinna sleggjudómi mótmæli eg harðlega; hann er alveg ósannur og órökstuddur; eg hefi einmitt um hinar fyrri aldir því nær til hlítar notað allar heimildir, sem verulega þýðingu höfðu. Hin fáu dæmi, sem höf. nefnir máli sínu til stuðnings, eru öll, með einni undantekningu, tómur hégómi. Eðlilega mætti þó eitthvað finna, ef vel væri leitað, sérstaklega ef nýjar heimildir koma í ljós, og mér væri það sönn ánægja, ef einhver vildi taka rögg á sig og safna viðaukum við hinar fyrri aldir í árferðisannál mínum, en sá maður þarf eðlilega að vera fróður í sögu Íslands og hafa nóga dómgreind til þess að vinsa úr hið verulega.

Frederiksberg 24. maí 1919.

*Þ. Th.*

---

## Vit og strit.

Út af ummælum Steingríms læknis Matthíassonar í Skírnisgrein hans »Benrögn« kvað eg þetta:

Vegið var með v i t i
af víkinga lýð,
en stútað með s t r i t i
á Sturlungatíð. J. J.

---

# Skáldskaparmál.

(Athugasemd).

Í Skáldskaparmálum, 17. kap. (sögu Hrungnis), segir svo í útgáfu Finns Jónssonar af Snorra Eddu, Kbh. 1900: [jötnum] »var illz ván af Þór, ef Hrungnir léti, fyrir því at hann var þeira sterkastr«.

Væri þá þetta þannig að skilja (þó að »Hrungnir« sé ekki rétt þolfallsmynd): Jötnum var ills von af Þór, ef þeir mistu Hrungni, af því að hann o. s. frv.

Í eldri útgáfum af Eddu þeim sem eg hefi séð (Rasks, Árna Magnússonar nefndarinnar, Sveinbj. Egilssonar, Þorleifs Jónssonar) stendur: ef Hrungnir létizt, fyrir því (hjá Svb. E.: firir) o. s. frv.

Líklega er þetta hvorugt rétt. Þannig mún eiga að rita: þeim [jötnum] var illz ván af Þór, ef Hrungnir léti fyrir, því at hann var þeira sterkastr. Eða með öðrum orðum, eins og prófessor Finnur hefir prenta látið, að undanteknu greinarmerkinu, sem mun vera rangt sett. Og orðin »ef Hrungnir léti fyrir« þýða: ef Hrungnir biði ósigur; sbr. að láta undan. Til stuðnings máli mínu get eg vitnað í það, hvernig Snorri notar orðtæki þetta í öðrum stöðum. Í Ólafs sögu Tryggvasonar (Heimskringla, útg. Finns Jónssonar, Kbh. 1911) 92. kap. segir svo: »aldri skal ek hræddr fara fyrir Sveini konungi bróður þínum, ok ef okrir fundir verða, þá skal hann fyrir láta«. Og í Hákonar sögu Herðibreiðs 5. kap. (áðurnefnd útg. bls. 599) segir Gregoríus Dagsson svo: »því at ek ætla enn, sem fyrr hefir verit, at þeir myni fyrir verða láta, ef vér leggjum skeleggliga at« o. s. frv.

Einnig má hér biðja menn að íhuga orðið »ófyrirlátssamur«.

Það er að vísu að eins smáatriði, sem hér ræðir um, en þó er ekki alveg þýðingarlaust, að þetta sé rétt haft, og í engu spilt frásögn snillingsins.

*Helgi Pjeturss.*

# Jón Thoroddsen.

Fáir íslenzkir rithöfundar hafa betur skemt lesendum sínum en Jón Thoroddsen. Margir hafa notið listar hans, dáðst að eftirhermum hans, sogað í sig íslenzku-ilminn af orðfæri hans. Enginn rithöfunda vorra á 19. og 20. öld hefir ritað íslenzkari íslenzku en hann, hvorki »snillingur snillinganna«, Sveinbjörn Egilsson, Jónas Hallgrímsson né höfundar þjóðsagna vorra, er margir skrifa þó ósvikið íslenzkt mál. Og afstaða hans í bókmentum vorum er hin merkilegasta. Hann má þar fortakslaust kalla frumherja. Sveinbjörn Egilsson hefir þau áhrif með þýðingum sínum, kenslu og ómetanlegum tilstyrk merkismannsins Hallgríms Schevings, að móðurmál vort var ritað stórum fegurra og hreinna eftir daga hans en áður. Ljóð Bjarna og — einkum — Jónasar hrífa svo, að síðan var betur ort á Íslandi en áður, bæði að máli, braglist og anda. Um Jón Thoroddsen verður ekki sagt, að hann hafi ritað skáldsögur þannig, að þær hafi verið gerðar af meiri list eftir en áður að »Piltur og stúlka« og »Maður og kona« birtust. Engin frumsamin skáldsaga hafði birzt á vora tungu á undan »Pilti og stúlku«, nema sögukafli Jónasar, »Grasaferðin«, sem varð aldrei nema brot.[1]) Jón

[1]) Jón Sigurðsson segir í æfisögu Jóns Thoroddsens, að „ýmsar tilrannir hafi áður verið gerðar á voru landi til að semja skáldsögur, eftir því sem tíðkast í útlöndum nú á síðari tímum“ — — — en „Piltur og stúlka“ sé hin „atkvæðamesta“, og „því er hún alment talin hin fyrsta nýsaga, sem samin sé á íslenzku“. Einhver hinn lærðasti maður í íslenzkum bókfræðum, dr. Jón Þorkelsson, kveður ekki aðra íslenzka

Thoroddsen brýtur hér á landi ísinn fyrir íþrótt sína. Afstöðu Jónasar í bókmentasögu vorri svipar til iðnrekanda, er endurskapar iðngrein sína svo, að afrek það markar tímamót í iðnaðarsögu þjóðar hans. Jón Thoroddsen byrjar iðnað, er áður var varla stundaður á fósturjörð hans, og hepnast þannig, að vara hans þykir hvarvetna góð í sinni röð. Og engum þeirra, er leikið hafa síðan sömu list hér á landi, hefir — að sumu leyti — betur tekist.

Jón Thoroddsen er því sá merkismaður, að aldarafmælis hans hefði átt að minnast með nokkurri viðhöfn, semja rækilega ritgerð um æfi hans og skáldskap, rekja þar sundur böndin milli lífsreynslu hans og sagna, lestrar og listar, marka á minnisskjöld auðkenni hans, meta gildi rita hans og ljóða. En því miður hefir enginn kennifeðra vorra orðið til þess að sýna skáldinu þá sæmd, er maklegt var. Eftirfarandi athugasemdir eru eingöngu látnar fjúka af því, að viðfeldnara þykir, að slíks merkismanns sé að nokkru getið á fyrsta aldarafmæli hans.

I.

Fágæt fyrirbrigði espa í oss forvitnina. Ekkert á jörðu er girnilegra til fróðleiks en andlegir landnámsmenn. Oss leikur hugur á að vita um svo skemtilegan íþróttamann sem Jón Thoroddsen, hvaðan honum kom sú tign og virðing. En vit vort hrekkur því miður ekki til, er ráða á slíkar rúnir. Vér getum, er bezt lætur, rakið ætt snillinga eða andlegra heljarmenna til atgervismanna, eða sýnt, að afburða-hæfileikar hafi sprottið hingað og þangað í ættum þeirra. Slíkur fróðleikur er samt ekki einkis virði, styrkir trúna fornu, að »sjaldan komi dúfa úr hrafnsegginu«, getur orðið örlítið tillag til skilnings á þeim jarðvegi, er hinn furðulegasti mannblómi og manndómur vex í, þótt

---

skáldsögu en „Grasaferðina“ hafa birzt á prenti á undan „Pilti og stúlku“. Vafalaust hefir þó slíkur maður sem Jón Sigurðsson haft eitthvað fyrir sér í þessu efni. En tilraunir þær, er hann getur, hafa ekki komist lengra en á skrifpappír.

vér getum eigi hér, fremur en annarstaðar, grafið fyrir rætur rannsóknarefna vorra. Frumlegir hæfileikamenn verða víst löngum næsta »dularfult fyrirbrigði«.

Jón Thoroddsen er í báðar ættir af atgervismönnum kominn. Föðurföður hans, Þóroddi á Vatneyri, hefir ekki verið fisjað saman. Þótt hafði honum sopinn óþarflega góður, eignaðist 14 börn með konu sinni, og komust 11 þeirra til til fullorðins ára, 8 synir og 3 dætur, og sigldu 7 synir hans og lærðu sína handiðnina hver. Mér virðist þessi smíðahneigð og smíðshendur föður-frænda skáldsins eftirtektaverðar, bera vitni um hugkvæmni í ættinni, því að það er öndin, sem stýrir hendinni. Hvað getur höndin án höfuðsins? Aðalhetja skáldsins í »Pilti og stúlku«, Indriði, sver sig því í föðurætt hans, er hann er smiður góður. Í æsku var það mesta yndi hans að vera eitthvað að tálga. Er mjög sennilegt, að skáldinu hafi verið sögð slík saga af bernsku einhvers föðurfrænda sinna. — Móðir Jóns Thoroddsens var prestsdóttir úr Skagafirði. Tel eg líklegt, að af því stafi það, að skáldið lætur andlega dóttur sína, Sigríði, ástmey Indriða, ráðast unga norður í Skagafjörð til frænku sinnar, er þar bjó og skáldið átti móðurfrændur. Mikið prestablóð rann i æðum Jóns Thoroddsens, þótt ekki væri hann prestssonur, eins og ýmsir ágætustu menn sögu vorrar á seinustu öldum. Má finna bæði skáld og fræðimenn í hinni klerklegu álmu ættar hans, t. d. Gunnar prófast Pálsson í Hjarðarholti, hinn merkilegasta mann og bróður Bjarna landlæknis Pálssonar. Jón Thoroddsen var því í móðurætt sína í frændsemi við Bjarna Thorarensen, skáld, er var dóttursonur Bjarna landlæknis. Þeir voru og frændur, Jón Thoroddsen og Þorsteinn smiður Danielsson á Skipalóni, stórmerkilegur og hálfskringilegur hugsjóna- og framkvæmdamaður, sem óskráð er um mikil saga.

Skáld og listamenn eru ólíkir guði almáttugum í því, að þeir skapa ekki af engu. Og efnið kemur þeim ekki eingöngu innan úr hugskoti þeirra. Þeir verða líka að fá það að utan, í margvíslegum skiftum við samtíð sína, anda

Hákon Finnsson, bóndi, Arnaldsstöðum '17.
Ísfe'd, Eir. G., Hesteyri '19.
Ísfeld, Jón, veitingam., Norðfirði '19
Lestrarfélag Mjófirðinga, '18.
Lestrarfélag Stöðfirðinga '19.
Magnús Blöndal Jónsson, prestur, Vallanesi '19.
Magnús Stefánsson, búfræðingur, Eiðum '17.
Ólafur B. Jónsson, Egilsstöðum '17
Sig. Þorsteinsson, kennari, Reyðarfirði '18.
Sveinn Jónsson, Egilsstöðum '17
Sveinn Ólafsson, alþm., Firði '19.
Þórhallur Helgason, trésmiður, Eiðum '19.

Norðfjarðar umboð.
(Umboðsm. Þorbergur Guðmundsson, búfræðingur) [1])
Bergur Eiríksson, trésm.
Björn Björnsson, verz'm.
Helgi Jónsson, skósmiður.
Hjálmar Ólafsson, verz'm.
Ingibjörg Sveinsdóttir, kensluk.
Ingvar Pálmason, útvegsbóndi.
Jónas Andrésson, kaupfélagsstj.
Jón Benjamínsson, útvegsbóndi.
Jón Sveinsson, cand. phil.
Lúðvíg Sigurðsson, kaupm.
Páll Guttormsson, kaupm.
Sigurjón Magnússon.
Sigurjón Stefánsson, sjómaður.
Stefán Halldórsson, verzlm.
Sveinn Arnason, trésm.
Thoroddsen, Pétur, læknir.
Valdemar Valvesson, kennari.
Vigfús Sigurðsson, trésmiður.
Zoëga, Tómas J., verzlm.
Þorbergur Guðmundsson, búfræðingur.

Eskifjarðar-umboð.
(Umboðsm. Stefán Stefánsson, bóksali á Eskifirði).[1])
Árni Jóhannsson, útbússtj., Eskifirði.
Arnesen, J. C. F., konsúll, Eskifirði.
Arnfinnur Jónsson, Eskifirði.
Björn Brynjólfsson, Eskifirði.
Björn R. Stefánsson, verzl.stjóri á Reyðarfirði.
Einar Guðmundsson, Reyðarfirði.
Einar Hálfdánarson, Eskifirði.
Eiríkur Bjarnason Eskifirði.
Ferd. Magnússon, Teigagerði.
Figved, Jens, Eskifirði.
Friðrik Steinsson, Eskifirði.
Guðm. Ásbjörnsson, Eskifirði.
Gunnar Bóasson, Teigagerði.
Hallgrímur Bóasson, Reyðarfirði.
Hallgrímur Guðnason, Eskifirði.
Jensen, Markús, Eskifirði.
Jón Björnsson, Seljateigi, Reyðarfirði.
Jón Valdemarsson, gagnfræðingur, Eskifirði.
Lárus Stefánsson, Eskifirði.
Sigurður Hjörleifsson Kvaran, læknir, Eskifirði.
Sigurður Vigfússon, kennari, Eskifirði.
Sigurjón Markússon, sýslumaður, Eskifirði.
Stefán Björnsson, prestur, Hólmum.
Sveinbjörn P. Guðmundsson, Hólmum í Reyðarfirði.

Fáskrúðsfjarðar-umboð
(Umboðsm. Marteinn Þorsteinsson, bókhaldari) [1])
Björgvin Þorsteinsson, verzlm., Fáskrúðsfirði.
Georg Georgsson, læknir, Fáskrúðsfirði.
Guðm. Jónsson, útvegsb., Búðum.

[1]) Skilagrein komin fyrir 1918.

Guðni Björnsson, útv.b., Búðum.
Halldór Pálsson, búfr., Tungu.
Haraldur Jónasson, prestur, Kolfreyjustað.
Höskuldur Stefánsson, bóndi, Dölum.
Jóhannes Þórðarson, vm., Dölum.
Jón Davíðsson, verzlm. Fáskrúðsfirði.
Jón Stefánsson, verzlm. Fáskrúðsfirði.
Lestrarfélag Búðaþorps.
Magnús Steinsson, Fögrueyri.
Marteinn Þorsteinsson, bókhaldari, Fáskrúðsfirði.
Páll Benjamínsson, verzlm., Fáskrúðsfirði.
Stefán Gíslason, Kolfreyjustað.
Stefán Guðmundsson, verzlfulltr., Fáskrúðsfirði.

Djúpavogs-umboð.

(Umboðsm. Ingim. Steingrímsson, póstafgr.m. Djúpavogi).[1])

Björn Jónsson, bóndi, Múla í Álftafirði.
Elís Jónsson, verzlstj., Djúpavogi.
Helgi Einarsson, bóndi, Melrakkanesi.
Ingim. Steingrímsson, póstafgr.m., Djúpavogi.
Jón Arnason, óðalsbóndi í Múla í Alftafirði.
Jón Finnsson, prestur, Hrauni við Djúpavog.
Jón Jónsson, lausam., Geithellum.
Jón Stefánsson, kennari, Hákoti.
Stefán Einarsson, stud. art., Höskuldsstöðum.
Sveinn Sveinsson, bóndi, Hofi.
Thorlacius, Ólafur, læknir, Búlandsnesi.

Skaftafellssýsla.

Ari Hálfdánarson, hreppstj., Fagurhólsmýri, Öræfum, '19.

Hornafjarðar-umboð.

(Umboðsm. Þórhallur Daníelsson, kaupm., Höfn í Hornafirði).[1])

Bjarni Guðmundsson, bókhaldari, Höfn í Hornafirði.
Gísli Sigurjónsson, Fornustekkjum.
Guðm. Sigurðsson, söðlasm., Höfn í Hornafirði.
Jón Guðmundsson, kennari, Höfn.
Lestrarfélag Lónsmanna.
Lestrarfélag Mýrahrepps.
Lestrarfélag Suðursveitar.
Pétur Jónsson, prestur, Kálfafellsstað.
Sigurður Sigurðsson, kennari, Hoffelli.
Þorleifur Jónsson, alþm., Hólum.
Þórhallur Daníelsson, kaupmaður, Hornafirði.

Víkur-umboð.

(Umboðsm. Jón Ólafsson, kennari, Vík í Mýrdal).[1])

Anna Jónsdóttir, læknisfrú, Vík.
Ársæll Sigurðsson, vm., Skammadal.
Bjarni Ásgr. Eyjólfsson, Syðri-Steinsmýri.
Bjarni Einarsson, præp. hon., Vík.
Bjarni Kjartansson, kaupm., Vík.
Bjarni Loftsson, Hörgslandi.
Björn Runólfsson, hreppstj., Holti.
Brynjólfur Einarsson, búfr., Reyni.
Einar Erlendsson, verzlunarm.
Elías Eyjólfsson, kennari, Hörgslandi á Síðu.
Elimar Tómasson, vinnumaður, Skammadal.
Eyjólfur Guðmundsson, hreppstj., Hvoli í Mýrdal.
Gísli Sveinsson, sýslum., Vík.
Guðgeir Jóhannsson, kennari, Vík.
Guðlaugur Br. Jónsson, kaupm., Vík.
Jóel Sigurðsson, búfr., Bakkakoti.

[1]) Skilagrein komin fyrir 1918.

Jóhann Sigurðsson, búfræðingur, Breiðabólsstað.
Jón Ólafsson, kennari, Vík.
Lestrarfélag Dyrhólahrepps.
Ólafur J. Halldórsson, verzlm., Vík.
Páll Sigurðsson, Skammadal.
Sigurjón Kjartansson, kennari, Vík.
Sveinn Einarsson, gagnfr., Reyni.
Ungmennafél. »Bláfjall« í Skaftártungu.
Þorsteinn Einarsson, verz'm., Vík.
Þorst Þorsteinsson, kaupm., Vík.
Þorv. Þorvarðarson, prestur í Vík.
Þórður Stefánsson, vm., Norður-Vík.

## Rangárvallasýsla.

Árni Ingvarsson, Núpi '17.
Björgvin Vigfússon, sýslumaður, Efra-Hvoli '17.
Einar Jónsson, hreppstj., Kálfsstöðum '18.
Einar Jónsson, Holti undir Eyjafjöllum '19.
Erlendur Guðjónsson, Hamragörðum '18.
Guðm. Guðfinnsson, læknir, Stórólfhvoli '17.
Ingibergur Runólfsson, Snjallsteinshöfðahjáleigu.
Ingimundur Benediktsson, Kaldárholti '17.
Ingimundur Jónsson, búfr., Hala '18.
Jakob Lárusson, prestur, Holti '17.
Jón Guðmundsson, bóndi, Ægissíðu '18.
Jón Jónsson, bóndi, Sumarliðabæ, '18.
Lestrarfélag Ásahrepps '18
Lestrarfélag Landmanna '18.
Magnús Kristjánsson, Drangshlíð '18.

Ólafur Finnsson, prestur, Kálfholti '17.
Páll Jónsson, málari, Ægissíðu.
Sveinn J. Sveinsson, Dalskoti '17.
Thorarensen, Grímur, hreppstj., Kirkjubæ '18.
Thorarensen, Skúli, Móeiðarhvoli '18.
Tómas Sigurðsson, hreppstjóri, Barkarstöðum '19.
Ungmennafélagið »Hekla« '18.
Vigfús Bergsteinsson, Brúnum '19
Þorsteinn Benediktsson, prestur, Lundi '17.
Þorst. Jónsson, oddviti, Meiritungu '18.

## Árnessýsla.

Ágúst Helgason, bóndi, Birtingaholti '18.
Briem, Þorst., prestur, Mosfelli.
Böðvar Magnússon, hreppsstjóri, Laugavatni '19.
Eggert Benediktsson, hreppstj., Laugardælum '17.
Eir. Einarsson, útbússtj., Selfossi.
Gísli Gestsson, Hæli.
Gísli Jónsson, Stóru Reykjum '18.
Gísli Pétursson, læknir, Eyrarbakka '17.
Guðjón Rögnvaldsson, Tjörn í Biskupstungum '18.
Guðm. Guðmundsson, bóksali, Eyrarbakka '18.
Guðm. Guðmundsson, Efri-Brú '17
Guðm. Helgason, præp. hon., Selfossi '18.
Guðm. Lýðsson, bóndi á Fjalli á Skeiðum '18
Hermann Eyjólfsson, kennari, Grímslæk '19.
Jóhanna Eiríksdóttir, Haga 19.
Jónas Halldórsson, hreppstjóri, Hrauntúni '18.
Jón Sigurðsson, cand. phil., Kallaðarnesi '17.

[1]) Skilagrein komin fyrir 1918.

Jörundur Brynjólfsson, alþm., Múla '18.
Kjartan Helgason, prófastur, Hruna '17.
Kjartan Ólafsson, Bræðraborg við Stokkseyri '18.
Lestrarfél. Baldur, Hraungerðis hr. '17.
Lestrarfél. Gnúpverja '16.
Lestrarfél. »Mímir«, Ölvesi '17.
Lestrarfél. Stokkseyrar '18.
Páll Lýðsson, hreppstj., Hlíð í Gnúpverjahr. '18.
Páll Stefánsson, Ásólfsstöðum '16.
Sigurður Ólafsson, fv. sýslum., Kallaðarnesi '18.
Sveinn Guðmundsson, járnsm., Eyrarbakka '17.
Thorsteinsson, Jón, prestur, Þingvelli '16.
Ungmennafél. »Hvöt«, Grímsnesi '18.
Þorsteinn Þórarinsson, Drumboddsstöðum '18.
Þórður Jónsson, bóksali, Stokkseyri '18.
Þórður Ólafsson, Ásgarði '18.

**Vestmannaeyjasýsla.**

Vestmannaeyja-umboð.
(Umboðsm. Jón Sighvatsson, bóksali).[1])
Árni Sigfússon, kaupm.
Björn Jónsson, kennari.
Dal, Sita, verlunarmær.
Einar Lárusson.
Finnur Sigmundsson.
Guðný Guðjónsdóttir.
Gunnar Ólafsson, kaupm.
Jóhann Þ. Jósefsson, kaupm.
Johnsen, Árni J., verzlm.
Johnsen, Gísli J., konsúll.
Johnsen, Lárus J., verz'm.
Jón Einarsson, kaupfélagsstjóri.
Jón Jónsson, útvegsbóndi.
Magnús Stefánsson, sýsluskrifari.
Nikulás Friðriksson.
Páll Oddgeirsson, kaupm.
Sigurður Sigurðsson, lyfsali.
Sigurjón Högnason, gagnfr.
Sigurlaug Guðmundsdóttir, húsfrú.
Sýslubókasafn Vestmannaeyja.
Þorbjörn Guðjónsson.

## B. Í Vesturheimi.

**Kanada og Bandaríkin.**

Andrews, A. le Roy, Ithaka N. Y. '17.
Cornell University Library, Ithaca N. Y. '18.
Halldór Hermannsson, bókavörður, Ithaca N. Y. '15.
Hollander, Dr. Lee M., Madison, Wis. '15.
Newberry Library, Chicago '18.
Þorbergur Þorvaldsson, próf. dr., Saskatoon, Saskatchewan '16.

Vesturheims-umboð.
(Umboðsm. Finnur Johnson, 668 Mc Dermot Ave, Winnipeg).[2])
Albert Jónsson, Winnipeg.
Arason, W. B, Husawich.
Árni Eggertsson, Winnipeg.
Árni Sveinsson, Glenboro.
Askdal, K. S., Minneota, Minn.
Bandalag Pembinasafnaðar, N.-Dak.
Bergmann, Jonas S., Gardar, Pembina.

[1]) Skilagrein komin fyrir 1918.

[2]) Skilagrein ókomin fyrir 1918.

Bjarnason, J. M., Bismarhave, Van.
Björnsson, A. J., Deer Horn, Man.
Björnsson, G. B., Minneota, Minn.
Björn Sveinsson, Svold N. D.
Blöndahl, A. J., Wynyard.
Bókasafn Tjaldbúðarsafn., Winnipeg.
Borgfjörð, Th. S., Vancouver.
Christopherson, Hernit, Brú, Man.
Davidsson, Charles G., St. Paul, Minn.
Eggert Jóhannesson, Winnipeg.
Eggertsson, J., Winnipeg.
Egill Erlendsson, Winnipeg.
Einar Gíslason, Gimli.
Einar Sigvaldason, Baldur.
Eyjólfur S. Guðmundsson, Jacoma. Wash.
Friðrik Hallgrímsson, prestur, Baldur, Man.
Geirmundur B. Olgeirsson, Edinburgh, N. D.
Gestur Jóhannesson, Poplar Park.
Gíslason, Anna, Winnipeg.
Gísli Egilsson, Logberg, Sask., Can.
Goodman, G. G., Wynyard, Sask.
Goodman, Gísli, Winnipeg.
Gould, Chester N., prófessor, Chicago.
Guðmundur Arnason, prestur, Winnipeg.
Guðni Þorsteinsson, Gimli, Man.
Gunnar Sveinsson, Seattle, Wash.
Gunnlaugur Tr. Jónsson, ritstj. Winnipeg.
Guttormur Guttormsson, prestur, Churchbridge.
Guttormsson, Thorst., Winnipeg.
Halldórsson, M. B., dr., Souris, N. Dak.
Henderson, Joh., Winnipeg.
Hjálmar F. Daníelsson, Otto, Man.
Högni Einarsson, Winnipeg.
Icelandic Library »Mímir«, Pembina, N. Dak.
Jakob Guðmundsson, South Hill, Van.
Jóhannes Sigurðsson, Seattle.
Johann O. Björnsson, Wynyard, Sask.
Jóhann Pálsson, Clarkleigh, Man.
Johnson, Arthur A., Mozart, Sask.
Johnson, Baldur, B. A., Langenburg.
Johnson, Hallgrímur, B. A., Winnipeg.
Johnson, Kristján, Duluth.
Johnson, Magnús, Lundar, Man., Can.
Johnson, St. E., Otto P. O., Man.
Jón Arnason, B. A., Wynyard.
Jón Einarsson, Winnipeg.
Jón J. Hallsson, Hólar, Sask.
Jónas Daníelsson, Winnipeg.
Jónsson, B. B., prestur, Winnipeg.
Klemens Jónasson, Selkirk.
Kristinn Þorfinnsson, Gardar, N. D.
Kristinsson, Kr. Fr., Framnes, Man.
Kristján Sigurðsson, ritstjóri, Winnipeg.
Kristján Stefánsson, Winnipeg.
Lestrarfél. Árgalinn, Wild Oak, Man.
Lestrarfél. Dagsbrún, Lundar, Man.
Lestrarfél. Dagsbrún, Vidir, Man.
Lestrarfél. Fjólan, Nes, Can.
Lestrarfél. Fram, Arnes, Man.
Lestrarfél Fróðleikshvöt, Árborg.
Lestrarfél. Gangleri, Gardar.
Lestrarfél. Gimlé.
Lestrarfél. Hafstjarnan, Pt. Roberts, Wash.
Lestrarfél. Harpa, Blaine, Wash.
Lestrarfél. Herðubreið, Narrows, Man.
Lestrarfél. Iðunn, Markerville, Alberta.
Lestrarfél. Ingólfur, Van cuver.

Lestrarfél. Ísland, Baldur, Man.
Lestrarfél. Íslendinga í Cypressveit, Glenboro.
Lestrarfél. Íslendinga í Reykjavík, Reykjavík P. O.
Lestrarfél. Leifar, Candahar S.
Lestrarfél. Mentahvöt, Otto, Man.
Lestrarfél. Mentun, Anthler S.
Lestrarfél. Mikleyinga, Hekla, Can.
Lestrarfél. Mímir, Wynyard.
Lestrarfél. Morgunstjarnan, Hólar.
Lestrarfél. Skjaldbreið.
Lestrarfél. Stjarnan, Selkirk, Man.
Lestrarfél. Tilraunin, Keewatin, Ont.
Lestrarfél. Verðandi, Mozart. Sask.
Lestrarfél. Vestri, Seattle, Wash.
Lestrarfél. Þjóðernið, Winnipeg Beach.
Lestrarfél. Þörfin, Kristnes, Sask.
Lestrarfél. Æskan Dakota.
Long, S. M., Winnipeg.
Magnús Hindrikss., Churchbridge.
Magnús S., Duluth.
Markerville, Jón, Atla.
Mæri, Jon, Svold, N. Dak.
Norman, Jakob, Leslie, Sask.
Oddsson, Th., Winnipeg.
Olson, A. B., Gimli, Man.
Ólafsson, K. K., prestur, N.Dak.
Ólafur Kjartansson, Winnipeg.
Pétur Hjálmsson, prestur, Markerville, Alberta.
Pétur Ó. Hallgrímsson, Seattle.
Pétursson, P. V., Ivanhoe.
Runólfur Marteinsson, Winnipeg.
Scheving, S. P., Victoria B C.
Sigtryggur Jónasson, Arborg.
Sigurðsson, Job, Mrs., Upham, N. Dak.
Sigurður Ólafsson, prestur, Baine, Wash.
Símon Símonarson, Winnipeg.
Skaftason, M. J., prestur, Winnipeg.
Snæbjörn Einarsson, Lundar, Man.
Stefán Guttormsson, Winnipeg.
Steingrímur Þorláksson, prestur, Selkirk.
Styrkár Vesteinn Helgason, Leslie Sask.
Sveinn Arnason, Seattle, Wash.
Swanson, Fred., Winnipeg.
Thorarensen, Ch., Icel. River.
Thordarson, Ch., verksmiðjueigandi, Chicago
Thordarson, Thordur, dr., Minneota, Minn.
Thorgeirsson Mart, Akra, N. Dak.
Thorlacius, B. Ninith, Man.
Thorsteinsson, Oddur, Icel. River, Man.
Toronto University Library, Toronto.
Tómas Jónasson, Icel. River, Man.
University of North Dak.
Vídal, Sig. J., Hnausar, Man.
Victor Eyjólfsson, Icel. River, Man.
Wilhelm Kristjanson, Otto P. O., Man., Can.
Þorgerður Þórðardóttir, Winnipeg.
Þorgils Þorgeirsson, Winnipeg.
Þórður Arnason, Mozart, Sask.
Þórir Björnsson, Duluth, Minn.

## C. Í öðrum löndum.

(Bóksölu-umboð hefir Gyldendalske Boghandel Nordisk Forlag, Klareboderne 3, Kaupmannahöfn)[1].

### Færeyjar.

Dahl, Jakob, prófastur, Þórshöfn '18.
Hallur Hallsson, tannlæknir, Þórshöfn '18.
Paterson, Joannes, kongsbóndi, Kirkjubæ '18.
Símun av Skarði, lýðháskólastj., Fagrahlíðar-háskóli '18.
S. P. úr Konoy, kennari, Götu '18.
Thorshavns literære Samfund, Þórshöfn '18.

### Danmörk.

Albrectsen, Hans, adj., Prins Chrg. 5, Randers.
Bartels, Martin, Walthersg. 6, Kh. '18.
Björn Björnsson, bókb., Kh. '17.
Blöndal, Sigfús, bókavörður, Amagerbrog. 153, Kh. '18.
Gad, G. E. C., bóksali, Vimmelsk. 32, Kh. '18.
Gísli Brynjólfsson, læknir, Dannebrogsg. 1, Kh. '19.
Guðjón Eiríksson, búfr., Vilhelmsdal, Mörköv St. '18.
Gunnar Gunnarsson, rithöf., Gl. Kongev. 141[3], Kh. '18.
Hafsteinn Pétursson, prestur, Fiolstr. 28, Kh. '18.
Halldór Kristjánsson, cand. med., Frederiksbergs hospital '18.
Hammerich, M., málaflutningsm., Stege '18.
Haraldur Sigurðsson, tannlæknir, Österbrog. 35, Kh. '18.
Jakob Gunnlögsson, stórkaupm., Amagerbrog. 18., Kh. '18.
Johansen, J., Landbrugsskolelærer, Ladelund, pr. Vejen 18.
Jónas Lárusson, veitingam., Personbg. Restauration, Kh. '18.
Jón Sveinbjörnsson, kgl. kabinetsekretær, kmjr., Paludan Müllersvej 3, Kh. '18.
Kristján Albertsson, cand phil., Kh. '18.
Kristján Björnsson, cand. med., Amtsygehuset, Hjörring '18.
Magnús Jochumsson, stud. mag., Ravnsbg. 5 B St. Kh. '18.
Magnús Magnússon, prestur, Bregninge '18.
Melsted, Bogi Th., mag. art., Ole Suhrsg. 18, Kh. 18.
Möller, J. V., prentari, Hestemöllestr. 5, Kh. '18.
Nielsen, Chr. Hein, cand. mag., Bergthorasg. 1[1] Kh. B. '18.
Oddur Gíslason, málaflm., Kh. '18.
Pétur Bogason, læknir, Faxinge Sanat. pr. Præstö '18.
Sigurður Sigtryggsson, cand.mag., Viborg '18.
Sóreyjarskóla bókasafn, Sorö '18.
Stefán Stefánsson, cand. jur., Gl. Torv. 8, Kh. '18.
Sveinbjörn Sveinbjörnsson, yfirkennari, Aarhus '18.
Thomsen, Ditlev, konsúll, Overg. o. V. 90, Kh. '18.
Tulinius, Thor E., stórkaupm., Ryvangs Alle 44, Hellerup '18.
Valtýr Guðmundsson, dócent, dr. phil., Amagerbrogade 151, Kh. '18.

### Noregur.

Bugge, Alexander, fv. prófessor, dr. phil., Fyresdal, Telemarken '18.

---

[1]) Skilagrein ókomin fyrir 1918.

Háskólabókasafnið, Kristiania '17.
Hövik, Ivar, ritstjóri, Stavanger '18.
Katedralskolens Bibliotek, Kristiania '18.
Kolsrud, Oluf, docent, Kristiania '18.
Kolsrud, Sigurd, arkivar, Kristiania '18.
Skásheim, Anders, bókhaldari, Bergen '18.
Stórþingisbókasafnið í Kristjaníu '18.
Vísindafélagið í Þrándheimi '18.

**Svíþjóð.**

Göteborgs stadsbibliotek '18.
Lunds Universitets Nord. Seminarium '18.
Söderwall, K. F., prófessor, Lund '18.
Zadig, Viggo, cand. phil., Malmö '18.

**Þýzkaland.**

Anderson, Ernst, godsegare, Allenstein, Preussen '13.
Blankenstein, M. v., litt. dr., Berlin '13.
Erkes, Heinrich, kaupm., Köln '16.
Gotzen, Jos., dr. phil, Köln '13.
Gruner, Max, dr. phil., Berlin '13.
HerderscheVerlagshandlung,Freiburg im Breisgau, Baden '18.
Heydenrich, W., dr. phil, Eisenach '13.
Mayer, E., prof., dr. phil., Würtzburg '15.
Meissner, R., prófessor, dr. phil. Bonn '15.
Staatsbibliothek, München '13.
Stadtbibliothek, Hamburg '13.
Universitetsbibliothek, Kiel '17.

**England.**

(Umboðsm. The Viking Society, Chelsea, London).
Banks, Mrs. M. M., London '18.
Björn Sigurðsson, London.
Gray, John, prestur, St. Peters, Falcon ave., Edinburgh '18.
Hight, Geo. Ainslie, Oxford '18.
Johnston, A. W., Chelsea, London '16.
Lúðvík Jónsson, búfr., London '18.
Olsen, O. T., dr., Grimsby '18.
Phillpotts, Miss Bertha S., Somerville College '16.

**Holland, Belgía, Frakkland, Austurríki og Rússland.**

Austin, C. K., læknir, París '19.
Cahen, Maurice, agrégé de l' Université, París '19.
Hoogt, J. M. van der, litt. cand., Wageningen, Nederl. '18.
Jon Svensson, prestur, Feldkirch, Stella m., Vorarlberg, Osterrich '17.
Krijn, Sophie A., Amsterdam '18.
Lascaronsky, Bas. Greg., próf., Kiew '14.
de Vries, J. P. M. L., litt. n. doct., Waatergraafsmeer bei Amsterdam '18.

Reykjavík, 17. júní 1919.

*Matthías Þórðarson*,
bókav. félagsins.

# SKÍRNIR

TÍMARIT HINS ÍSLENZKA BÓKMENTAFÉLAGS

XCIV. ÁR

RITSTJÓRI
GUÐM. FINNBOGASON



REYKJAVÍK — 1920
ÍSAFOLDARPRENTSMIÐJA H.F.

# Jóhann Sigurjónsson.

---

Jóhann Sigurjónsson var einn þeirra fáu, sem hafa aukið veg vorn með öðrum þjóðum. Þess vegna unnu honum allir Íslendingar, fyrst og fremst þeir, sem verk hans þektu, en líka hinir, sem þektu nafn hans eitt.

Hann var fyrsta íslenzkt nútíma-skáld, sem gat sér orð erlendis. Undir eins bættust fleiri við. Hann reit verk sín á erlendri tungu, hann var höfundur hreyfingar sem á að deyja, en sem þó er öllum þeim, sem þora að skilja, fyrirheit um nýja heimsfrægð íslenzkra bókmenta.

## I.

Tvö fyrstu rit Jóhanns Sigurjónssonar eru sigur fyrir skáldið, ósigur fyrir leikskáldið. Dr. Rung og Bóndinn á Hrauni sýna glögt takmörk frumgáfu hans. Bæði eru skáldleg að efni og samtölin ljóma af ljóðrænni orðlist og fegurð í hugsun og tilfinningu. Hvorugt stenzt dóm sinn sem sjónleikir, bæði eru gölluð og ótraust að byggingu.

Dr. Rung er yndislegt skáldverk, en leiksagan svo fábreytt og viðburðalítil, að það gegnir furðu, að skáldið skuli ekki hafa séð það frá upphafi, að hún gat ekki risið undir dramatisku formi.

Í Bóndanum á Hrauni eru tilþrifin engu minni, en þó virðist svo sem höfundur hans hafi varla getað þekt sum af frumlögmálum dramatiskrar listar. Eg vil taka til dæmis höfuðsamtalið í fyrsta þætti. Sveinungi

og kona hans vilja fá dóttur sína til þess að lofast Hálfdáni, efnilegum bóndasyni, og móðirin fær loks talið hana á það, — síðar í leiknum snýst henni hugur og hún bregður orði sínu. Samtalið greinist í sókn og vörn, og nær engum tökum á hugum manna fyrir það að önnur hlið þess er afllaus með öllu. Eg tek hér upp öll svör dótturinnar eftir að faðir hennar hefir stungið upp á gjaforði hennar: — Mér finst eg ekki geta tekið við þeirri gæfu. — Eg er svo ung, pabbi. — En eg þekki hann næstum ekki neitt. — (Hann segist hafa bundið giftingu hennar fastmælum við föður Hálfdánar). — Það hefðirðu ekki átt að gera, áður en þú hafðir talað við mig. — (Faðirinn fer, móðirin kemur og spyr hvað á milli hafi farið). — Hann vildi fá mig til þess að giftast manni, sem eg þekki ekki. — Eg hefi aldrei talað aukatekið orð við hann. — Pabbi hefir lofað honum mér, áður en hann talaði við mig. — Hann hefir ekki leyfi til þess. — (Móðirin spyr, hvort hún sé lofuð öðrum; hún neitar því). — En mér þykir ekki vænt um hann. Þú vilt þó víst ekki, að eg giftist manni, sem mér þykir ekki vænt um. — Mér finst þið bæði vera á móti mér, þú og pabbi. — (Móðirin segist ung hafa unnað manni, foreldrar hennar vildu gifta hana Sveinunga. Hún lét undan og varð ánægð í hjónabandinu. Eins geti farið fyrir henni). — Eg vil fara að ósk þinni.

Listin í samtali þessa eðlis er fólgin í því, að gæða sókn og vörn jöfnum, vaxandi krafti, úrslitin falla ekki fyr en báðir aðilar hafa lagt síðasta spilið á borðið. Og skáldið má aldrei láta öll spilin vera á annari hendi, þá drepur hann áhuga áhorfandans.

Svör dótturinnar eru svo alvanaleg, að áhorfandinn kann þau utan að áður en hann heyrir þau. Það er eins og þau séu töluð gegnum nefið af dauflyndri ungmeyju, hún á hvorki til fjör í hugsun eða hita og þrótt í tilfinningu. Hún er ekki hæf til þess að vera höfuðpersóna í sjónleik, og hefði orðið alt önnur hjá skáldi, sem hefði verið í ríki sínu, þegar hann stefndi saman sterkum og

óvægnum viljum, sem urðu að taka á sér öllum áður en annar fékk hinn beygt.

II.

Fjalla-Eyvindur Jóhanns Sigurjónssonar minnir lítið á sagnirnar um Höllu og Eyvind. Hann hefir stuðst við þær í ytri sögu leiksins, en eins og skáldi sæmir notað þær með fullu frelsi, valið og hafnað, breytt og aukið, — alt eftir því, sem meginhugsanir leiksins kröfðust.

Í þjóðsögunum er Halla hin mesta norn, »svipill og ógeðsleg«. Hún á mörg börn, sum með látnum manni sínum, sum með Arnesi. Eftir að þau Arnes hafa drekt pilti nokkrum niður um ís, strjúka þau til fjalla. Í för með þeim er Eyvindur, lánleysingi, sem hafði sezt að hjá Höllu, og með honum flækist hún svo víða um landið. Þau eru oft handsömuð, en ganga bygðarmönnum jafnan úr greipum.

Jóhann hefir gert söguna einfaldari og miklu fegurri. Halla er í leiksbyrjun ung og falleg ekkja, barnlaus, glaðlynd og blíðlynd, undir niðri þóttafull og heit í skapi. Þau Eyvindur fella ást hvort til annars, og þegar hann fær ekki lengur haldist í bygðum, sakir gamalla afbrota, flýr hún með honum til fjalla.

Jóhann hefir í Höllu sýnt hina miklu konu. Elskhugi hennar er breyskur, útskúfaður ógæfumaður; hún ann honum af sál sinni allri og þekkir engin takmörk fórnar sinnar. Orði sínu og efnum, öllu kastar hún frá sér og flýr með þjófnum, sem hún elskar, upp á öræfin, út úr mannfélaginu, upp í einveruna og óvissuna, þar sem hungur og hrellingar vofa yfir faðmlögum þeirra, þar sem ljár dauðans hangir á þræði yfir beði þeirra. Það, sem guð hefir sameinað, fá mennirnir ekki aðskilið. Kofi þeirra stendur í auðninni, hvítar jökulbungur rísa á alla vegu, en yfir hvelfist kaldur norðurhiminn. Jafnt hið ytra sem innra eru örlög þeirra þrungin ógn og fegurð.

Fjalla-Eyvindur er fremsta verk Jóhanns —

ekkert efni gat legið betur við glæsilegustu skáldkostum hans en einmitt þetta. Hann átti ekki höfuðstyrk sinn í óvenjulegum vitsmunum, frumlegri og djúpri hugsun, heldur ekki í máttugum dramatískum tökum á efninu. Hann náði hæð sinni í óbundnum mansöngvum og náttúruljóðum, oft höfgum af skáldlegri fegurð. Hann var ekki raunsæisskáld, og það sýnir misskilning á eðli gáfu hans, að honum hefir verið lagt það til lýta, að persónur hans tala öðruvísi en hversdagsmönnum er títt. Ástarjátningar Höllu og Eyvindar falla í ljóðfleygum líkingum, lyftast yfir jörðina á hvítum vængjum. En það er rangt að telja þetta tilgerð eða halda því fram að skáldskapur hans verði þar fyrir ósannur. Því að funinn í samtölunum á sér loga að baki, tilfinningarnar eru alstaðar ríkar og sannar. Halla og Eyvindur hafa lifað og elskað í sál skáldsins og mannlegt hjarta slær í hverju orði, sem hann leggur þeim í munn.

Áður en Jóhann skóp Fjalla-Eyvind gekk hann Kjalveg, frá norðri til suðurs yfir ríki útilegumannsins. Verk hans ber þess vott að hann hefir litið skáldsaugum hálendi Íslands, hugfanginn af stórsýn þess og æfintýralegri fegurð. Í samtölum leiksins bregður fyrir tilkomumiklum öræfamyndum, þær eru dregnar í fáum, hreinum línum og það andar í þeim kaldur, bjartur hájöklablær.

Meistaralegur er 4. þáttur leiksins, síðasta stund Höllu og Eyvindar. Þau hafa setið ein og soltið í kofa sínum dögum saman. Stórhríðin hamast úti fyrir. Eyvindur er sjúkur af hungri, talar um hrúta, sem geti ekki gengið fyrir fitu, — hann gæti orðið saddur af lyktinni af heitu kjöti. Höllu er þungt í skapi, hún svarar stutt og kuldalega, biður hann að tala ekki um mat, sér verði ilt af því. Eyvindur fer að hugsa um dauðann og hinn mikla dómara. »Eg á blóðdrefjar af fótunum á mér á mörgum steini í öræfunum; þeim safnar þú og sýnir honum — þá fæ eg vægari dóm«, segir hann við Höllu. »Viltu ekki fara að skæla«, svarar hún. »Eg skal safna tárunum og sýna hinum mikla dómara«. Hví svarar hún honum háði

og sáryrðum, hví hallar hún sér ekki að brjósti hans í ógæfunni? Eyvindur tekur hörku í sig, segist vilja freista þess að ná til bygða og sækja björg. Halla biður hann að yfirgefa sig ekki, hún fái ekki afborið það, — hann sinnir því engu. Hún minnir hann á ást þeirra. »Manstu allar þær nætur, sem við sváfum saman undir beru lofti? Var það ekki unaður, að finna morguninn strjúkast yfir andlitið — opna augun og horfa inn í heiðan himininn. Þá kystirðu mig og sagðir að þú elskaðir mig«. En orð hennar fá engu ráðið. Hún biður hann að deyja heldur með sér: »Þú byrgir strompinn og eg fylli kofann með reyk. Svo göngum við til hvílu — eg tek í hendina á þér — og okkur dreymir að við séum úti í sandroki«. Hann biður hana að láta sig vera í friði og býst til ferðar. Hún segir honum að drepa sig áður en hann fari: »Þú getur stungið sveðjunni undir vinstra brjóstið — eg skal hvorki hljóða né hvika; eg geri mér í hugarlund, að eg sé að gefa barninu mínu brjóst, og það bíti mig«. Eyvindur stendst hana ekki lengur. »Eg hefi gert mig sekan í mörgu illu athæfi«, svarar hann. »En miskunnarlaus veit eg aldrei til, að eg hafi verið«. Hann hættir við að fara. Verður Halla glöð, þakkar hún honum? Nei, grunur hennar hefir breyzt í vissu, ást hans til hennar er kulnuð. »Hefðir þú faðmað mig að þér og sagt að þér þætti vænt um mig, þó eg sé orðin ljót og þrátt fyrir alla mína eymd, þá hefði eg orðið glöð. En það gerðir þú ekki«. »Þú veizt þó, að eg hætti við ferðina þín vegna«, svarar Eyvindur. »Ertu viss um það?« spyr Halla. »Varstu ekki hræddur um að gera þig sekan í nýjum glæp? Þú hefir víst hugsað meira um hinn mikla dómara en um mig«. Geðsmunir hennar bólgna upp, hún afneitar guði og fyllist heipt til mannanna. Eyvindur les Faðir vor, Halla felur andlitið í höndum sér og grætur sárt og hljóðlega: »Áðan, þegar þú ætlaðir að yfirgefa mig, kallaði eg til þín í síðasta sinn. Eg vildi ekki bíða ósigur. Eg særði þig við allar þær endurminningar, sem eg hélt að þér væru hjartfólgnar. Það snart þig ekki. Eg lítillækkaði

mig og játaði að eg væri hrædd. Eg lítillækkaði mig svo mikið, að eg ætlaði að láta mér nægja með vesæla meðaumkun, hún var þó ef til vill endurskin af ást þinni. En þú áttir enga meðaumkun. Þú settist aftur af þeirri einu ástæðu, að þú varst hræddur um að glata sálu þinni«. Hefir Halla rétt fyrir sér, er ást Eyvindar sloknuð? »Eg elska þig og hefi altaf elskað þig«, segir hann. »Þegar eg er að heiman, þó ekki sé nema einn dag, þá hlakka eg til að sjá þig. Eg þrái rödd þína eins sárt og eg þrái lækjarnið, þegar eg er að deyja úr þorsta. Altaf, þegar eg er á veiðum og verð fyrir einhverju happi, hvarflar huguriun til þín. Þegar eg hugsa um, hvað þú verðir glöð, gleymi eg þreytunni«. En hún trúir honum ekki, sendir hann út í viðarkofann að sækja sprek í eldinn og á meðan kastar hún sér út í fönnina og lætur bylinn breiða yfir sig.

Ást Höllu er allur heimur hennar, það eina sem fyllir hug hennar og líf. Hugsanir Eyvindar um dómarann mikla vekja afbrýðisemi hennar, hún þolir ekki að sál hans rúmi neitt annað en ástina til sín. Skáldið hefir hér með afli og snild sýnt eilífar andstæður í ástarlífi karls og konu. Þátturinn er bygður af óskeikulli list og sýnir djúpt innsýni í mannlega sál.

## III.

Það, sem hrífur í Galdra-Lofti, er ekki hið dulræna efni leiksins, heldur ástarsaga hans. Skáldinu hefir orðið lítið úr galdramanninum, hann hefir búið hann nokkrum vísdómslegum orðum, nokkrum einkennilegum óskum og hugmyndum, sumt er fallegt eða hugnæmt, sumt er úr sögunni, annað úr nútímadulspeki. En galdramaðurinn Loftur nær engum tökum á manni, hann er allur í brotum. Hann segist vilja »beizla myrkrið«, þetta nær hvorki hjarta eða hugsun nokkurs manns. Beizla myrkrið? Áhorfandanum finst koma þoka inn á leiksviðið.

Leikurinn stendur og fellur með lýsingunni á ástum Lofts, og hún er sönn, mannleg og víða hrífandi.

Hér eru aftur sömu andstæður á ferðinni og í síðasta þætti Fjalla-Eyvindar. Ást Steinunnar er henni alt og námshugur Lofts vekur afbrýðisemi hennar, — hún hatar bækurnar hans, vildi helzt geta brent þeim. »Þú heimtar, að eg hugsi sí og æ um þig og framtíðina, allar stundir dagsins«, segir Loftur við hana. »Eg verð þess var, þó þú ekki nema lítir inn í stofuna. Það er næstum því orðið eins og ákæra, nú upp á síðkastið. Eg get naumast risið undir því lengur. Hugsanir mínar verða að vera frjálsar«. Aftur er hér sá munur, að Loftur hefir aldrei elskað Steinunni, aðeins girnst líkama hennar. »Ekki var það endurminningin um sál þína, sem hélt mér andvaka á nóttunum«, segir hann.

Loftur er ungur og metnaðarríkur, hann brennur af lærdómsþorsta. Kvöld eitt kemur hann að Steinunni þar sem hún stendur nakin úti í ánni fyrir neðan Hóla, og eys yfir sig vatninu. »Eg hefi aldrei séð neitt, sem hefir haft jafn-djúp áhrif á mig«, segir hann. »Eg skalf af hræðslu«. Í holdlegum bruna nær hann tökum á henni og ginnir hana til ásta við sig. »Þú hefir kent mér að njóta gleði syndarinnar«, segir Steinunn við hann. »Hræðslan var eins og þoka í kringum mig — hún stækkaði þig og hamingju mína. Ástaratlot þín voru herskarar gegn samvizku minni. Þegar eg hugsaði til móður minnar, roðnaði eg af blygðun og í sömu andránni gat eg grátið af hamingju«.

Þetta er forsaga leiksins. Þegar hann hefst, er Loftur orðinn þreyttur á Steinunni og þegar í fyrsta samtali þeirra sést, hve sorgarefni leiksins er átakanlegt. Steinunn er þunglynd og stórlynd, fátæk og ein síns liðs. Hún hefir gefist Lofti og nú heldur hún dauðahaldi í hann. Hún er ein af þeim konum, sem elska aðeins einu sinni og sem með ást sinni hreppa gæfuna eða glata henni. En um leið og ást Steinunnar vaknaði, varð Lofti byrði að henni, þyngri og þyngri með degi hverjum. Ástríða hans kólnar, hann fjarlægist hana, sekkur sér niður í bækurnar, flýr út í einveru námsins. Hann gerist harður við Steinunni og er albúinn þess að hrekja hana frá sér, — þá er dyr-

unum að vinnustofu hans alt í einu hrundið upp, ung stúlka stendur þar og segir: Eg er komin!

Það er Dísa, dóttir biskupsins, leiksystir og æskuvina Lofts. Hún hefir verið í burtu í heilt ár og nú er hún komin. Hefir »riðið í háa lofti á undan samferðafólkinu« heim á staðinn. Hún var barn, þegar hún fór, og nú er hún frumvaxta, fögur eins og nýsprungin rós. Loftur verður gagntekinn. »Sjá þig, hvernig þú gónir«, segir hún. Skáldinu hefir tekist vel með Dísu. Alt sem hún segir er einfalt og látlaust, en í hverri setningu finnur maður þennan barnslega unað, þennan hreina, ljósa ungmeyjarblæ, sem er yfir henni allri, þetta létta, káta í fari hennar. »Því hefi eg ekki hugsað oftar um þig!« segir Loftur, dapur og hugfanginn í senn. Hann langar til þess að geta varpað öllum áhyggjum sínum, óskar þess að þau væru bæði orðin börn aftur. Og loks gleymir hann öllu nema Dísu, á flugklæðinu vaggast sálir þeirra á öldum draumanna, inn í heim æfintýranna, og hann tekur hana í faðm sinn og kyssir hana.

Það, sem laðaði Loft að Steinunni, var blindur losti: ást hans til Dísu er hin fagra, funheita ástríða ungs hjarta. Hann krýpur fyrir æsku hennar og sakleysi, hún vekur alt fínt í eðli hans og andar heilnæmi og birtu inn í sál hans, hann gerist afhuga myrkrafræðum sínum og hugsanir hans streyma til hennar í blíðu og aðdáun.

Sennan milli Lofts og Steinunnar, þar sem hann heggur á strenginn og bæði berjast af öllum mætti sálar sinnar gegn ógæfunni, er ásamt 4. þætti í Fjalla-Eyvindi hið tilkomumesta í leikritum Jóhanns.

Steinunn lofar að reynast honum góð kona, ef hann kvænist sér, hún ákallar meðaumkun hans »Þú getur ekki óskað þess, að eg giftist þér af meðaumkun«, segir Loftur. »Það yrði þér ekki til neinnar gæfu«. »Sýnist þér eg líta út, eins og eg sé að hugsa um gæfu«, svarar Steinunn — alt þunglyndi og vonleysi sálar hennar rúmast í þessum orðum. Hann segir henni frá ást sinni til Dísu. Sambúð þeirra Steinunnar myndi verða báðum til

kvalar, þau yrðu vondar manneskjur. Hann ætlar að yfirgefa hana, en nú segir hún honum frá því, að hún sé barnshafandi, hún krýpur fyrir honum og grætur sárt og hljóðlega. Regnið lemur rúðurnar. »Eg vildi óska, að þú værir ókunnug manneskja, sem eg gæti huggað«, segir Loftur. »Eg hefi vitað það í rúman mánuð«, segir Steinunn, »en eg gat ekki fengið mig til að segja þér frá því. Eg beið eftir þeim degi, að þér þætti svo vænt um mig, að eg gæti ímyndað mér, að þetta væri okkur báðum gleðiefni«.

En vorkunn Lofts varir aðeins augnablik, hann gerist harður, einbeittur, orð hans falla sem valdboð: »Við verðum að vera sterk«, segir hann. »Hættu þessum gráti!« Hún verður að fara burt af staðnum, halda barni sínu leyndu, hann skuli sjá fyrir peningum. »Það örðugasta er, hvernig þú getur komist héðan í burt, án þess það veki eftirtekt«. »Er það örðugast?« spyr Steinunn. Hvílík dýpt beiskju og sársauka í þessu einfalda svari! »Já, það er það örðugasta«, svarar hann hranalega og heldur áfram bollaleggingum sínum. En hann veit að hann er að hugsa um sjálfan sig og ekki um hana. Ef þetta kemst upp verður hann rekinn úr skóla, missir Dísu og verður föður sínum til vansæmdar og hrygðar. »Þú ætlar að ógna mér til þess að giftast þér«, segir Loftur. Steinunn svarar: »Það stendur skrifað, að konan eigi að vera manni sínum undirgefin. Það stendur hvergi skrifað að frilla hans eigi að vera það«. »Sæmd þín og framtíðarvonir eru heimanmundur minn«. En Loftur fær nú megnustu andstygð á henni. Og líkt og Halla umhverfist Steinunn í örvæntingu sinni, fyllist æðislegri grimd, — hún hótar að ala barn hans upp í hatri: »Ef til vill get eg ekki truflað einveru þína — en eg get auðgað þig ljótum draumi. Á efsta degi skaltu mæta andliti, sem er alveg eins og þitt, nema afskræmt af syndum og ástríðum. Það andlit heimtar af þér sál sína!«

Loftur yfirgefur hana, hún finnur að hún getur ekki lifað án hans, gengur út og drekkir sér í ánni. Hann

kemur aftur inn þegar hún er farin, ákallar þann, sem býr í myrkrinu, óskar henni dauða, heitir honum sál sinni að launum, — og hnígur niður í angist og gráti.

Galdra-Loftur er annað rit Jóhanns frá Bóndanum á Hrauni. Þessi senna sýnir hve gífurlega hann hafði þroskast í list sinni.

Fyrri þættirnir tveir eru blóðríkir, blæmiklir, renna fram í hröðum, vaxandi lífstraumi. Þriðji þáttur er fölur eins og tunglskinið í Hólakirkju.

Loftur heldur að helbæn sín hafi valdið Steinunni dauða. Hann sturlast af skelfingu og örvæntingu og vill nú freista þess að særa fram Gottskálk hinn grimma og knýja bók máttarins úr höndum hans. Hann vill lengra inn í myrkrið, hann vill ná svo miklu valdi að hann geti beygt hinn illa. Særingarnar og vitfirringin yfirbuga hann, hann steypist fram á ásjónu sína og deyr.

Í Reykjavík lék Jens B. Waage Galdra-Loft af þeirri snild, að leikurinn hélt tökum sínum á áhorfendunum til síðustu stundar. Á Dagmarleikhúsinu í Kaupmannahöfn féll leikurinn til jarðar á þriðja þætti.

— Sýningar Fjalla-Eyvindar og Galdra-Lofts í Reykjavík eru í röð hins tilkomumesta sem sést hefir á íslenzku leiksviði. Engin leikskálda vorra hafa fengið meiri tilþrif fram hjá beztu leikurum vorum en Jóhann Sigurjónsson, engin íslenzk leikrit haft meira gildi fyrir íslenzka leiklist en þessi tvö höfuðverk hans.

## IV.

Mér er óskiljanlegt það lof, sem merkir ísl. og danskir ritdómarar hafa borið á síðasta rit Jóhanns, *Mörð Valgarðsson (Løgneren)*. Eg fæ ekki betur séð en að hann hafi þegið of mikið af Njálu í þetta rit sitt til þess að það geti yfirleitt talist sjálfstætt skáldverk. Hann hefir hér tekið fullskapað meistaraverk annars höfundar, varpað formi þess og gert úr því leikrit. Hann hefir skreytt efnið nokkrum ljóðperlum (sem annars eru sízt í fortíðaranda), aukið það

nokkrum viðburðum með skáldlegri hugkvæmni, gert sumar persónurnar skýrari og fyllri (t. d. Mörð), stórspilt öðrum (Skarphéðinn leikritsins, leiðitamur, treggáfaður fauti, er hvorki að tungutaki né skapferli neitt í ætt við Skarphéðin sögunnar). En sem heild er leikritið Njála í öðru formi og ekki sjálfstæð sköpun Jóhanns Sigurjónssonar.

Framan við dönsku útgáfu leiksins stendur: »Handlingen er bygget over et Motiv fra Njals Saga«. Þó að staðið hefði: »Handlingen taget fra Njals Saga« hefði það samt naumast verið rétt skýring á sambandi leiksins og sögunnar. Skáldið hefir sótt svo að segja alskapaðar dramatiskar sennur í Njálu (Heimsókn Flosa til Hildigunnar eftir víg Höskuldar, brennuna á Bergþórshvoli) og sumt, það sem fegurst er í orðskiftum leiksins, skrifað upp úr sögunni (Vel má ek gera þat til skaps föður míns at brenna inni með honum. — Ek var ung gefin Njáli o. s. frv.).

Það verður að gera glögga grein á leikriti eins og þessu, og svo sögulegum leikritum eins og t. d. *Sigurði Slembi Björnson's*. Það er ekki snillingurinn heldur sagnaritarinn Snorri, sem hefir skráð þessa fátæklegu, slitróttu frásögu af Sigurði slembidjákna í Heimskringlu. Stórskáldið hefir hér blásið lífsanda í dauðar sagnir og skapað meistaraverk sitt svo að segja af engu.

Allir vita hverjir hafa samið *Oliwer Twist* og *The Picture of Dorian Grey*, engir þekkja þá, sem hafa gert sjónleiki úr þessum frægu sögum. Venjulega er slíkt gert af einhverjum, sem standa leikhúsunum nærri, sem hafa smekk og lag á að koma öllu vel fyrir á leiksviði. En það er víst fádæmi, að þeir, sem geta skapað af sjálfum sér finni fullnægingu í því, að sníða verkum annara skálda nýtt form.

---

Að mínum dómi hefir Jóhann Sigurjónsson oft verið ofmetinn, bæði á Íslandi og í Danmörku. Merkir ritdómarar hafa jafnað verkum hans til leikrita *Björnson's* og

*Ibsens* frá yngri árum þeirra. Ekkert af ritum hans þolir neinn samjöfnuð við *Sigurð Slembi* eða *Kongsemnerne*.

Hið bezta, sem hann hefir skapað, er fylt skáldlegri glóð og klætt undurfögrum, litmiklum búnaði. Ljóðgáfa hans var frá uppphafi augljós og frjó og vald hans yfir formi sjónleiksins fór vaxandi með hverju nýju riti. Óðal hins dramatiska skálds er barátta mannanna við örlög og ástæður, líf þeirra í flækjum og andstreymi. Styrkur þess sést ef til vill bezt á þeim samtölum og atburðum, þar sem stríðið er þreytt, viljarnir takast á, hugirnir komast í uppnám og birtast, andstæðurnar opinberast — í stórum og blæríkum sennum, sem eru lífið í viðburðunum og bera rás þeirra fram til úrslita. Jóhann hefir að minsta kosti skapað tvo þætti þessa eðlis, sem sýna óvenjulega dramatiska gáfu.

Fjalla-Eyvindur og Galdra-Loftur eiga eflaust langt líf fyrir sér á íslenzku leiksviði. Og þegar meta skal Jóhann Sigurjónsson mun því aldrei verða gleymt, að hann er ekki einasta merkur af ritum sínum, heldur engu síður af hinu, að í kjölfar hans sigldu nýíslenzkar bókmentir yfir hafið.

*Kristján Albertsson.*

---

# Dr. Paul Carus.

Eftir *Matth. Jochumsson.*

Af ræktarskyldu við þennan nýlátna fræðimannaskörung og fjölvitring, vildi eg biðja yður, herra ritstjóri, að ljá mér rúm fyrir litla grein.

Tildrög viðkynningar minnar við þann mikla mann voru þau, að eg kyntist við vin minn, Bertel sál. Gunnlögsen í Lundúnum árið 1876. (Hefi eg annarstaðar drepið á viðkynningu mína við Gunnlögsen).

Þetta sama ár fluttist dr. Carus til Chicagoborgar. Hann var sonur erkibiskupsins í Prússaveldi, var orðinn kennari í heimspeki í Dresden og doktor frá hinum fræga Tübingenháskóla, en þótti heldur frjálslyndur og misti embætti sitt. Hefir Carus sjálfur sagt svo frá, að sú eldraun hafi verið heit, er hann þóttist sjá að trúfræði föður hans og landsmanna var svo úr sér gengin, að hann örvænti þess, að hún væri lengur fær um að vera þungamiðja mannkynsmenningarinnar. Í Chicago mægðist hann við auðmanninn Hegeler, er var merkismaður og lærður vel. En er hann hafði kvongast einkadóttur hans Mariu, og fengið auð í hendur, sýndi hann brátt hvað í honum bjó og stofnaði félagið Open Court Publishing Co. til útbreiðslu þýðverskrar menningar og bóka.

Kaus hann sér brátt menn að sínu skapi að sjá um þýðingar, prentun og útgáfur allskonar þýzkra fræðibóka. Einn af hans ritdómendum um þær mundir varð Bertel H. Gunnlögsen, er lengi skrifaði sig með grískum stöfum »Gulu«, og leið ekki á löngu áður en hann kom mér í félagið og í kynni við dr. Carus skriflega. Honum var

það einnig upprunalega að þakka, að mér voru send gefins tímarit félagsins, og flest hin merkustu heimspekisrit, sem það gaf út á enskri tungu. Árið 1893 leiddist Bertel vistin í Chicago og þótti húsbóndinn heldur vinnuharður, en játaði þó lærdóm hans og dugnað. Stóð þá til hin mikla veraldarsýning í Chicago og segir Bertel í bréfi til mín, að nú sé hann á förum vestur að Kyrrahafi, til að flýja bansetta fordild og hégóma veraldarinnar, er hann daglega horfi á grindahjallana og tyldrið út í Jackson Park. En hvort hann eða aðrir hafa ráðið því, veit eg ekki, að eg var kjörinn til að mæta á þinginu, sem »Folklorist« — þjóðsagnafræðingur. Í Chicago kyntist eg dr. Carusi, en þó bréflega, því sjálfan fann eg hann aldrei; við þektumst aðeins af bréfum og myndum. Eg kom upp til hans einn dag þar sem hann bjó í einu turnhúsinu á 17. lofti, og hugði að hitta hann heima, en sá þar ekkert annað merkilegra en blekbyttu þá, sem Lúther varpaði á móti kölska í Wartburg forðum. Carus gerði gaman að því í bréfi til mín, og þótti ilt að hafa ekki fundið mig, og gat þess sem var, að Gunnlögsen hefði mjög vakið forvitni sína gagnvart eyjunni elds og sögu, er Ísland héti, hafði og B. G. birt nokkrar greinar um Ísland og bókmentir vorar í Open Court. Æ síðan eftir ferð mína vestur hélt Carus trygð við mig og land vort, og skrifaði eg honum aldrei svo línu að hann ekki svaraði því með mestu mannúð, og nú á eg töluvert safn af völdum bókum frá honum.

Dr. Carus andaðist snemma á þessu sumri 67 ára gamall og þau minningarorð, sem hér fara á eftir, hefi eg eftir blaðinu »Dial«, er samið hefir yfirlit yfir æfi Carusar og lýst persónu hans, og heitir höfundurinn prófessor Leonard, eftirmaður hins alkunna prófessors William James. Lýsir hann dr. Carusi yfirleitt á þennan hátt:

Dr. Carus var hinn drengilegasti maður ásýndum, göfuglyndur og vinfastur og svo mikill fræðimaður, að hann má vel kalla hinn síðasta »polyhistor.« Mátti svo segja, að hann væri alstaðar heima og jafnvígur á alt.

Heima fyrir var hann allra manna skemtilegastur og lék þá á alls oddi með konu sinni, börnum og vinum og kryddaði allar sínar ræður á svo margvíslegan hátt, skjótan og skarplegan, að hver maður undraðist, sem heyrði. Hann gat sagt menningarsögu Evrópu á einkennilega skrítinn og frumlegan hátt á 5—10 mínútum. Skólabörnum heyrði eg hann útlista á jafnstuttum tíma heimspeki Kants, er þyngst þykir allra fræða, svo hvert barn mátti skilja. — Skarpleiki og orðfæri hélzt í hendur við lærdóm hans og kunnáttu. Hann var og stærðfræðingur með afbrigðum, sem hér er erfitt að lýsa, og skáld, þegar hann vildi það við hafa. Enska tungu ritaði hann með meiri snild en flestir innfæddir menn.

## Heimspeki Carusar.

Carus helgaði »Open Court« og nálega öll rit sín trúarbrögðum vísinda (Religion of Science), en heimspeki sína yfirleitt kallaði hann ýmist »monisma« eða »meliorisma.« Aldrei náði þó kenning hans að því leyti, sem hún var frábrugðin skoðunum annara »positivista«, miklu fylgi, hvorki hjá trúleysingjum né trúmönnum. Trúleysingjar kváðu hann p r e d i k a, en ekki filosofera eða rökræða, en kirkjumenn kváðu það illa fara saman hjá heimspekingi að trúa á guð, en neita þó tilveru sálar og ódauðleika, og flestir kváðu monistann Carus enda á tvískifting tilverunnar, sögðu og, að hans *meliorismi* (ɔ: batnandi heimur) yrði að bölheimi. Rök þessara andstæðu kenninga Carusar þykja vera þau, að hann framfylgdi einstrengingslega náttúruspeki kennara síns, vinar síns hins fræga Haeckels, er var 20 árum eldri, en þó ekki lengra en vísindin náðu. Guðstrúnni slepti Carus aldrei. — Guð er, sagði hann, í öllu og yfir öllu, en þó ekki sama og náttúran; hann er ekki persónulegur, heldur y f i r p e r s ó n u l e g u r; hann er alveldið, sem gerir vart við sig hjá illum sem góðum, röddin eilífa ofar öllu lögmáli, er segir: »sursum corda« (upp hjörtu).

Þegar Carus sendi mér sína merkilegu bók *The Soul of Man*, og eg fann hvergi sálina í henni, fór mér líkt og sagt er um Napoleon, er hann spurði Laplace, hvar guð væri á stjörnukortinu, og spurði Carus hvort engin sál væri þá til. Hann svaraði: Ekki svo vísindalega verði séð eða sannað. Vér vísindamenn þekkjum ekki annað en lífskerfin og þeirra afkomu, en engan substans. Guðshugsjón mín er líka vísindaleg, hún er *synthesis*, eining og inntak hins gjörvalla. . . . .

Í öðru bréfi segir hann: »Þér eruð á mínum gömlu vegamótum og trúið mjög á hið dulræna; það er gott fyrir sig, en vér þekkjum ekkert þess konar vísindalega og annað megum vér ekki kenna, fyrir oss sýnist alt vera relativt eða hvað öðru háð á einhvern hátt . . . Eg sendi yður nú samt þýðing mína af »Silesiusi« (hinum þýzka mystiker). — — Hér sem víðar bólar á því, sem dr. Carusi var stundum borið á brýn, að hann hefði aðra trú sem prívatmaður og aðra sem vísindamaður; var þá og materialisminn í almætti sínu. Hver veit nema hann, eins og svo margir aðrir, hafi vilst og borist lengra en þeir vildu eða vissu sakir hins mikla vísindahroka Þjóðverja á öldinni, sem leið. — — Carus trúði þó fast á *telos* (tilgang eða markmið), en ekki man eg til að hafa séð þá kenningu hjá Haeckel (í veraldargátu hans). Ekki heldur frjálsræði (libera voluntas), sem Carus gerir glögga grein fyrir, þar sem hann bendir á hvatir og uppeldi, sem breyti mönnum og framkomu þeirra svo gjörsamlega.

Carus virtist hvergi vera blindur fylgismaður nokkurra heimspekinga; samtíðamenn sína mat hann oft ekki mikils, og sízt hinn marglofaða Herbert Spencer, sem hann segir að hvorki hafi lesið né skilið Kritik Kants né Prolegomena. Vin sinn William James þótti honum vænt um, en þó vildi hann ekki fallast á hans pragmatismus og því síður hans pluralismus. Hann fylgdi fast fram Kants heimspeki í sumum greinum, en setti vissan formalismus móti Kants idealisma eða númenalisma. Form og eiginleik

setti hann í staðinn fyrir Kants *»Ding an sich«*. Hann aðgreindi uppruna og orsök[1]) *ratio* og *causa*.

Um »Monistan« og önnur rit Carusar sleppi eg að tala sérstaklega. Rit hans stór og smá komast á þriðja hundrað að tölu og varð hann þó aðeins 67 ára gamall.

Síðasta bréf til mín frá dr. Carusi var ritað í júní 1917 og hljóðar þannig:

»Mig gleður í hvert sinni, sem eg fæ línu eða fréttir frá yður. — Aldrei heyri eg Ísland svo nefnt, að eg minnist yðar ekki, í yðar afskekta, kalda landi; eg vildi óska að þér gætuð enn skroppið út og komið vestur til okkar, þegar ófriðnum loks er lokið. Hér er alt í ógurlegum óróa og vafningi, enda stendur yfir herskyldu útboðið, og hvað af því muni leiða er nú ekki unt að sjá. — Hér í ríkjunum búa ótölulegur fjöldi Þjóðverja, og frábitnir hernaði og sama eða ennfremur eru vorir sosialistar og vinnulýður. — Hvernig sem fer, finst oss sem vorir æskumenn sem til slátrunar leiddir að skotgröfum Frakklands, og til hvers? — Til einskis — því ekki búumst vér við að þeir ráði þeim vogarskálum, sem sýni leikslok þessa hildarleiks, þótt hundruð þúsunda séu sendir. Rússland er fallið í valinn, Frakkland á heljarþröminni, og svo er æskulýð vorum ætlað að fylla eyðuna. — Hvar alt lendir veit enginn.

Eg sé af bréfi yðar að þér haldið fullri heilsu og í annan stað vöktu skoðanir yðar um ófriðinn mikla eftirtekt mína. — Hitt kom mér þó á óvart að þér virðist ekki sjá hið sanna gegnum dylgjur pressunnar og undirferli, sem miðar Íslandi sem öðrum löndum til óhamingju. — Eg veit að alúð hefir verið lögð á að eitra hvervetna almenningsálitið, að sem flestir skyldu leggja upphaf ófriðarins á herðar Austurríki og Þýzkalandi og kenna þeim um glæp, sem er gersamlega gagnstæður þeirra hugsunarhætti og vilja. Þjóðir Þýzkalands, og ekki síður stjórnir þeirra, eru heimsins friðsömustu þjóðir! — Séu þær neyddar til að verja hendur sínar, kostar það blóð þeirra eigin barna; styrjöld er hræðileg, og jafnvel þeim, sem sigur vinnur (eins og Moltke komst að orði). En vélabrögð Rússa í Austurríki og um leið vonbrigði af hálfu Angelsaxa í verzlun og

---

[1]) Grikkir kölluðu *rök* eða upphaf *arke*, en orsök aitia, sbr. ratio og causa hjá Rómverjum. En þessu rugla margir saman, einkum enskir fræðimenn.

viðskiftum um heim allan, gerði allsherjarófrið óumflýjanlegan. En það er rétt, sem þér segið, að í viðskiftamálum eru Þjóðverjar áleitnir, og fara eins langt og þeir komast, til að efla atvinnu sína, enda er þeim nauðugur einn kostur; voru þeir og orðnir Bretum svo nærgöngulir í nýlendum þeirra, að varla var lengur við vært. — Og þá var að lokum tólfunum kastað hjá Englendingum. — Eg ámæli ekki Englandi fyrir það, og ef þér skiljið rétt, hvað var í veði, sjáið þér að Bretum var einsætt annaðhvort að hrökkva eða stökkva, berjast eða falla — í friði, því að í friði sóttu Þjóðverjar svo á, að forræði Breta á höfunum var búið tjón og glötun. Þetta sá og sagði fyrir Sir Edward Grey og fleiri, að ef Bretar biðu þangað til Þjóðverjar gætu boðið Englendingum byrginn, með herflota sínum, væri þeirra veraldarríki lokið. — Hér er óþarfi að fleiri sökum að spyrja; tildrögin voru raunveruleg og hvorirtveggja sáu, að eigi yrði síðar vænna; tveim stórveldum hafði lent saman í allsherjar samkepni, og þegar svo er, fer sigurinn æfinlega svo, að sá hefir betur að leikslokum, sem siðmentaðri er, þótt liðfærri sé. Og þó er styrjöld þessi heimskuleg. Bretar og Þjóðverjar eru frændþjóðir að ætt og uppruna, og spurningin er hvor þjóðin skuli meiru ráða í heiminum. — Hefðu þessir voldugu aðilar ekki getað jafnað málin í friði? — En ef hvorir tveggja skyldu verða að bráð Mongólunum í Kína, eða þá slavnesku þjóðunum. — Reyndar liggja Rússar sem stendur flatir í óstjórn og uppnámi; en alt er óðum að umbreytast, og fávizku hins ógurlega ófriðar sjá nú allir — en um seinan.

Með beztu kveðju til yðar, ástvina yðar, og ættjarðar.«

*P. Carus.*

kennir þeim að þagna á því. Ef ympraö er á nokkurri tilslökun, verða Hafnarbúar ókvæða við, þeir mega ekki missa einokunina. Jafnvel þó að útgerðin verði engin féþúfa þeim, er reka hana, þá veitir hún fjölda borgarbúa atvinnu og lífsuppeldi. Afurðir Íslands eru aðalvörurnar, ef ekki þær einu, sem Höfn hefir að selja til annara landa um þær mundir. Því er jafnan barið við, að meira frelsi í verzlunarefnum sé beinn voði Íslendingum, og eina hjálpraðið lengi vel er að herða á fjötrunum. Undir lok 17. aldar er komið í líkt horf og verið hefir á Grænlandi. Kaupmenn hafa þá fengið í viðbót allar konungstekjur að léni og umsjón með innheimtu og útgerð, og eru þannig orðnir einráðir að mestu um stjórn landsins. Það er eins og Kristján III. sé genginn aftur. Í þeim hörmungum er Gottrup lögmaður sendur á konungs fund, og hvað sem annars er um hann að segja, þá virðist hann flytja mál Íslendinga af fullri alúð, enda var þá við vitran konung um að eiga og góðviljaðan, þar sem var Friðrik IV. Og litlu síðar fær Ísland ótrauðan talsmann, einarðan og vitran, þar sem var Árni Magnússon. Meðan hann endist til, stendur hann af alefli á verði fyrir ættjörð sína »det ved mangfoldige Uretfærdigheder elendiggjorte Island,« svo sem orð hans hljóða, sönn og sár, í brjefi til konungs ($^5/_{12}$ 1705). Enginn veit hvað vér kunnum að eiga Árna að þakka þar eins og víðar. Svo mikið er víst, að þá verða straumhvörf í afskiftum stjórnarinnar af verzluninni Íslendingum í vil, sem kalla má að haldist þaðan í frá, til þess er hin mikla tilslökun fæst 1787.

Þá er eg hafði lesið til enda þennan þáttinn, saknaði eg þess að hafa ekki fengið meira að vita um störf og tillögur nefndarinnar, sem síðast fjallaði um verzlunarmálið og réð því til lykta. Mér fanst þar um of hlaupið á einu merkasta atriðinu og skildi ekki í fyrstu, hvernig á því stæði. Ef öðrum skyldi fara þar líkt og mér, þá vil eg láta þess getið, að nú veit eg ástæðuna og tel hana góða og gilda. Höfundurinn ætlar ekki að láta staðar nema við 1787. Ef honum endist líf og heilsa, eigum vér von á framhaldi verzlunarsögunnar frá hans hendi, og með því að ástand og fyrirkomulag verzlunarinnar frá 1787 byggist á áliti og tillögum nefndar þeirrar, hefir honum þótt betur hlýða að skýra frá störfum hennar nákvæmlega í upphafi þess rits, er um það tímabil á að fjalla. Það tekur bæði tíma og fé að safna til þess, því að þá mun einnig verða að leita til Englands um heimildir. Munu allir þeir, er þetta rit lesa, óska að höfundinn bresti hvorugt.

Annar þáttur verzlunarhættirnir, er miklu meiri hluti bókarinnar (bls. 259—616). Er þar saman kominn feikna mikill og margvíslegur fróðleikur um ástandið hér á landi um þessar mundir. Þó að þátturinn sé aðallega lýsing á verzlunarháttunum yfirleitt, er þar krökt af frásögnum, er snerta einstaka menn og sérstök bygðarlög eða kaupstaði. Koma þær að líkum notum og myndir, til að gera lýsingarnar á ástandinu öllu saman skýrari og átakanlegri.

Það er auðsætt, eins og höf. minnist á í formálanum, að það hefir ekki verið lítill vandi að skipa svo niður öllu þessu efni, að vel færi á. Ekki get eg þó betur séð en að það hafi tekist prýðilega. Efnið er svo vaxið, sagan sjálf, að ekki er unt að komast hjá endurtekningum. Sagan endurtekst hvað eftir annað: Sömu misfellurnar, vandræðin, kærurnar o. s. frv. En svo er með efnið farið, að endurtekningarnar urðu mér ekki til leiðinda, þó að eg læsi bókina alla í stryklotu, og svo er því niður skipað, að mér finst auðvelt að fletta upp í bókinni, til að leita fræðslu um einstök atriði. Til þess hjálpar og ágætlega registur aftan við bókina yfir nöfn manna, staða og hluta.

Þættinum er skift í 10 kafla, og kann eg eigi betra ráð til að gefa hugmynd um efnið í stuttu máli en að setja hér fyrirsagnir þeirra:

1. Hafnirnar og kaupsviðin.
2. Verzlunarhúsin og verzlunarþjónarnir.
3. Skipastóllinn og skipshafnirnar. Farþegaflutningur og flutningshlunnindi.
4. Kaupstefnur og kaupsetningar.
5. Mynt, alin, vog og mælir. Gilding. Skuldaskifti.
6. Útlenzkur varningur.
7. Íslenzkur varningur.
8. Viðskifti einokunarkaupmanna og Íslendinga.
9. Innanlandsverzlun.
10. Launverzlun.

Þar sem getið er ferjustaða á stórvötnum, er það lítils háttar ónákvæmni, að Tunga og Spóastaðir eru taldir ferjustaðir við Ölfusá, en eru við Sogið og Brúará, sem í hana falla.

Þegar lokið er öðrum þætti, kemur niðurlag (bls. 619—658). Er þar litið yfir einokunina frá sjónarmiði beggja aðilja og umbótaviðleitnina, sem endar með því að verzlunin er gefin frjáls við alla þegna Danakonungs. Og að lyktum eru nokkur fylgi-

skjöl í heilu líki (661—719). Gefur þar að líta samþyktir elzta verzlunarfélagsins (1620) og hörmangarafélagsins (1748) og ýmsar mjög fróðlegar skýrslur um verzlunina, innfl. vörur og útfluttar, gróða og tap á hverri höfn, og að lyktum leigugjald í konungssjóð á hverju ári alt tímabilið 1602—1787. — Þetta stutta yfirlit yfir efni bókarinnar verður að nægja. Þá er fýsi Íslendinga í söguleg-an fróðleik aftur farið, ef ekki langar margan manninn til að lesa hana. Flestir þekkja áður að nokkru fleiri eða færri manna þeirra, er við þessa sögu koma; og skyldi þeim ekki vera forvitni á að komast í nánari kynni við þá, með því að lesa bókina? Og þá mun einnig mörgum þeim, sem þykir gaman að fræðast um sögu héraðs síns á liðnum öldum, geta orðið matur úr að fá hana handa á milli. En auðvitað er bókin ekki skemtibók. Það getur fyrst og fremst aldrei verið skemtilegt að lesa um eymd og volæði ætt-jarðarinnar, og bókin er ekki heldur í því skyni rituð. Hún er vísindarit, samin til þess að leiða í ljós sannleikann um það mikil-væga efni, er hún fjallar um. Til þess að geta það, hefir höfund-urinn varið miklum tíma árum saman til að rannsaka skjalasöfn og handrita, bæði hér og í Kaupmannahöfn, og leita þar að skil-ríkjum og heimildum, er á megi byggja. Bókin er að mestu leyti bygð á slíkum óprentuðum skilríkjum. Mun það trauðla annara manna en þeirra, er slíkum hnútum eru kunnugir, að gera sér í hugarlund, hvílíkt erfiði og vandaverk slík rannsókn er. Einkum kvað það eiga heima um fyrra hluta tímabilsins, því að þá eru bréfaskifti slitróttari og meðferð stjórnmála öll óskipulegri en þá er kemur fram um 1700. Höf. hefir hér dregið saman í eina bók alt, sem hann hefir getað fundið og þótt máli skifta um einokun Dana hér á landi, raðað efninu niður og skýrt frá því ljóst og skipulega, getið nákvæmlega heimilda sinna og tekið orð þeirra inn í frásögnina, þar sem honum hefir þótt þörf á, eða til bóta. En hann hefir lítið við að kveða upp dóma um menn og mála-vöxtu, og fer ekki út í rannsókn á hinum banvænu áhrifum ein-okunarinnar á atvinnuvegi Íslendinga, skapferli og hugsunarhátt. Hann hefir búið þeim í hendur, er um það alt kunna að rita síð-ar, hvort sem verða sjálfur hann eða aðrir. Hann hefir lagt sak-argögnin fram, svo rækilega, að ekki virðist líklegt, að mörg séu eftir, sem máli skifta.

Í fyrri söguritum höfundarins hefir frásögnin stundum þótt bera nokkurn keim af því, hvernig honum sjálfum er gefið um menn og atburði, er hann segir frá. Slíkt getur bæði verið kostur

og galli. Það gerir frásögnina áhrifameiri, gefur henni líf og litu, er lesendur finna hjartaslög höfundarins í orðunum, en vísindalegt gildi hennar rýrnar, sé hún ekki alveg óhlutdræg. Það er hægara að segja en gera, að varast slíkt, en ekki skil eg, að neinn geti brugðið höfundinum um hlutdrægni í þessari bók. Eg get dást að óhlutdrægni hans í frásögu um svo viðkvæmt efni sem þetta hlýtur að vera hverjum Íslendingi. En alt fyrir það er frásögnin röksamleg, skorinorð og sköruleg. Listfengi hans í að segja sögu nýtur sín eðlilega ekki eins vel í vísindariti með aragrúa af tilvitnunum og röksemdum, eins og þar sem hann segir sögu blátt áfram. En þegar öllu er á botninn hvolft, mundi eg þó taka að mér, byggi eg enn þá uppi í sveit, að lesa bókina frá upphafi til enda fyrir fólkinu á vökunni og láta því ekki leiðast.

Málið er ljóst, látlaust og yfirleitt hreint. Mér þykir fyrir því, að inn í svona merkilega bók hefir samt einhvern veginn komist nýtízku málvillan að »bera e–u við« í staðinn fyrir að berja e–u við. Það er ekki langt síðan eg hef fyrst séð hana í ritmáli, en henni hafa óðum vaxið vængir, og nú prýðir hún blöðin á hverjum degi. Í mæltu máli hefi eg ekki enn orðið hennar var. Líklega hafa hér ruglast saman orðatiltækin að »bera fyrir« og »berja við«. Bæði eru um vörn. Menn báru fyrir sig skjöldinn, en slógu honum líka stundum flötum við. Í afleiddu merkingunni, er menn verjast með orðum, ósönnum eða lítt merkum, er svo notuð sögnin að berja við í staðinn fyrir að slá við; annaðhvort af því að það orð þykir óvirðulegra, eða það felur í sér þrálæti, að slegið er við hinu sama aftur og aftur. Einhver rithöfundurinn, sem ekki hefir skilið talsháttinn, hefir svo ætlað að lagfæra alþýðumálið og leitt málleysuna í kór. Slík eigum við mörg dæmin, þó að ekki sé nema í bæjanöfnunum. Eg nota hér tækifærið til að benda á þessa villu, ef menn kynnu þá fremur að hætta að taka hana hver eftir öðrum í hugsunarleysi og spilla svo tungunni.

Verzlunarráð Íslands hefir gefið út bókina. Það var myndarlega gert og átti vel við. Vandað er til útgáfunnar, sem vænta mátti. Ekki las eg bókina til að leita að prentvillum, en rakst þó á nokkrar. Eg get einungis þriggja, sem kynnu að villa á sér heimild og sýnast annars konar villur og verri. Á bls. 549, 8. l. a. o. er nafnvilla »Hofferja« fyrir Kotferja, og á bls. 635, 2. l. a. o. ártalsvilla »1829« fyrir 1729. En á bls. 349, 2. l. a. n. hefir orðið »um« skotist inn í setningu, svo að úr verður málvilla. Mér þykir vissara að geta um þessa síðustu villu, ef nýir rithöfundar-

kynnu þá síður að henda hana á lofti til eftirbreytni, er þeir vita, að það er prentvilla.

Ekki veldur sá, er varar.

M. H.

**Páll Eggert Ólason: Menn og menntir siðskiftaaldarinnar á Íslandi.** — I. Jón Arason. Reykjavík 1919.

Það má vera öllum þeim, sem fást við íslenzk fræði, mikið gleðiefni, þegar nýjir menn bætast í hópinn og leggja hönd á plóginn, ekki sízt þegar svo myndarlega er af stað farið sem hér. Margir þættir sögu vorrar, alt ofan úr forneskju og fram á þennan dag, bíða enn gagngerðrar rannsóknar, og er skylt að taka með þakklæti hverjum skerf, sem lagður er til þess, ef hann á annað borð leiðir eitthvað nýtt í ljós. En þetta sögurannsóknarstarf er ekkert áhlaupaverk. Það útheimtir fyrst og fremst óþreytandi elju og kostgæfni í að leita fyrir sér um gögn og heimildir og viða þær að sér, og þar næst samvizkusemi, dómgreind og skarpskygni í að bera þær saman, meta þær og nota svo að vel sé. Á sumum köflum sögu vorrar er svo fátt um heimildir, að líkja má við slitróttan veg, er naumast grillir í nema stuttan spöl annað veifið. En önnur tímabilin eru svo sagnauðug, að líkja má einna helzt við þéttan skóg, sem eigi er ratljóst í fyrir eintómum trjám. Á báðum stöðunum þarf jafnt að ryðja veg, og það er eins og allir vita örðugt verk. En sá er mismunurinn á verklagi og vinnubrögðum eftir því hvort um er að ræða sagnasnauð eða sagnauðug tímabil, að annars vegar verður að leggja mesta áherzlu á aðdrættina og að gera sér sem mestan mat úr efninu, en hins vegar er meira komið undir því, að ryðja frá sér og vinsa úr, og er það engu vandaminna, eða jafnvel enn þá vandameira. En hvorttveggja er jafn nauðsynlegt.

Ef nefna skyldi eitt tímabil öðru framar í sögu vorri, sem þörf væri á að rannsaka til hlítar, þá mundu víst flestir benda á 14. og 15. öldina, því enginn af fræðimönnum vorum hefir enn fengist við það. Hér hefði því verið langmest þörf á ítarlegri og gagngerðri rannsókn. Verð eg að telja það miður farið, að höf. bókar þessarar skuli eigi hafa séð sér fært, að leggja út í þá rannsókn, því eg þykist mega ráða það af þessu riti hans, að hann skorti hvorki elju, starfsþrek eða dómgreind til að takast þann vanda á hendur. En um það tjáir eigi að fást. Eg veit það af eigin reynslu, að höfundar eru ekki æfinlega sjálfráðir um efnisval.

það er oftar undir atvikum komið en hitt, hvað þeir sökkva sér helzt niður í, og svo mun vera um þetta rit höf. Það stendur auðsjáanlega í nánu sambandi við bókmentarannsóknir hans, enda þótt það snúist aðallega um mann, sem var mikið riðinn við hina pólitísku sögu þessa lands á sínum tíma, og geri mest grein fyrir athöfnum hans og ytri starfsemi. Að því leytinu til var minni þörf á að taka þetta efni til meðferðar en hitt, sem áður var getið, að saga Jóns Arasonar var sæmilega kunn áður. En þá kemur hitt til greina, að sagnir þær, er gengið hafa um Jón Arason, eru svo margar og misjafnar og sundurleitar, að ekki er auðhlaupið að því að greiða úr þeim og vita, hvað sannast og réttast er í því máli. Þetta hefir höf. tekið sér fyrir hendur að rannsaka og stuðst þar meðal annars við bréf og gjörninga, sem áður voru lítt kunnir sumir hverir, en nú eru fram komnir í Fornbréfasafninu. Hefir höf. krufið það alt til mergjar, sem lýtur að Jóni Arasyni og athöfnum hans, og tekist að leiðrétta ýmsar missagnir, greiða úr ýmsum flækjum eða vafaatriðum og bregða nýju ljósi yfir suma viðburðina. Var það því í alla staði maklegt, að höf. gæfist kostur á að verja þetta rit sitt til doktorsnafnbótar við Háskóla Íslands.

Þó að rit þetta beri vott um mikla vandvirkni og þroska, þá má samt af ýmsu marka, að það er frumsmíð og að höf. hefir eigi fyr tamið sér að handleika umfangsmikil söguefni. Hefir honum sumstaðar orðið það á, að taka meira með, en nauðsyn bar til, og íþyngt með því riti sínu um skör fram, gert það þurrara, óaðgengilegra og staglsamara en þörf var á. Má þar sérstaklega til nefna kaflann um fjárafla Jóns biskups og jarðakaup hans í VII. kap. Höf. ver 16 bls. (bls. 137—152) til þess að gera grein fyrir öllum jarðakaupum og jarðaskiftum Jóns biskups í eigin þágu, án þess að séð verði, að það hafi nokkra verulega þýðingu. Það var engin nýlunda um biskupa hér á landi í fyrri tíð, að þeir stæði í jarðabraski, svo að þetta er ekkert sérstaklega einkennilegt fyrir Jón Arason. Slíkar upptalningar geta verið réttmætar þegar um menn er að ræða, sem litlar sögur fara af, því þá verða höfundar stundum að lúta að öllu til þess að fylla eyðurnar og færa sönnur á, að mennirnir hafi þó að minsta kosti verið uppi á þessum og þessum tíma og átt skifti við þessa og þessa menn, eða þá að þess er getið í einhverjum sérstökum tilgangi öðrum eða sambandi. En söguheimildirnar eru hér svo auðugar, að óþarft var að fara nákvæmlega út í þetta, og mundi engum hafa komið til hugar að rengja það, að Jón Arason hefði verið hinn mesti búhöldur og

fjáraflamaður, þó að höf. hefði að eins getið þess í stuttu máli og að öðru leyti vísað til heimilda neðanmáls um þetta jarðabrask. Með því að taka það alt saman upp í meginmálið, hefir hann gert ritið staglsamara en þörf var á, án þess þó að auka vísindalegt gildi þess að nokkrum mun. Svipuðu máli er að gegna um VIII. kap., er segir frá biskupsstjórn Jóns Arasonar og veraldarvöldum. Hann er óþarflega breiður og staglsamur, en leiðir þó fátt eða ekkert nýtt í ljós. Hefði að líkindum farið miklu betur á, að steypa þessum tveim köflum saman, draga í eitt merginn málsins úr þeim báðum og styðja það síðan með rækilegum tilvitnunum neðanmáls.

Annar annmarki á ritinu, sem á þó að nokkru leyti skylt við þennan, er sá, að höf. slítur stundum efnið í sundur að óþörfu og heldur eigi nógu fast utan að því í þeim köflum, sem það á helzt heima í. Hefir hann þó auðsjáanlega ætlast til þess, að hver kapítuli væri sem mest samkynja að efni og eins konar heild út af fyrir sig, enda þykir jafnan fara bezt á því, að svo sé, að svo miklu leyti sem unt er. En sumstaðar hefir brugðið út af þessu hjá höf., og mætti þar sérstaklega taka dæmi af Teitsmálum. — Höf. segir frá þeim meira og minna á fjórum stöðum í bókinni og gerir með því frásögnina miklu slitróttari, ruglingslegri og óaðgengilegri en ástæða var til. Fyrst segir hann frá aðdraganda þeirra og upptökum í II. kap. á bls. 32—39 saman með óskyldu efni, sem sé deilum Jóns við Ögmund biskup út af Hólastól og biskupskosningu nyrðra. Það er að vísu svo, að upptök þeirra mála voru um líkt leyti, en það gefur enga ástæðu til að slíta þetta efni út úr sambandi við V. kap., þar sem sagt er frá framhaldi Teitsmála og öðru skyldu efni, því þar átti það réttilega heima og hefði orðið til þess að gera frásögnina alla skýrari og heildarlegri. Þá er enn glefsa úr Teitsmálum í VI. kap. á bls. 112, sem betur ætti við, þar sem sagt er frá lyktum þeirra í VII. kap., bls. 155—171. Annað dæmi þessu líkt er það, hvernig höf. í III. kap. bls. 59—61 slítur að óþörfu þjark þeirra Ögmundar biskups og sr. Jóns Einarssonar um Oddastað út úr sambandi við önnur viðskifti þeirra, er hann segir frá í IX. kap. bls. 207—212, þar sem það virðist eftir atvikum eiga betur heima.

Höf. hefir dregið mikinn fróðleik saman í riti sínu og tekist að mörgu leyti prýðisvel að brjóta hann til mergjar og leiða með því tímabil það, er hann fjallar um, sem ljósast fram fyrir sjónir vorar. Þannig gerir hann í IV. kap., bls. 64—74 grein fyrir eign-

um biskupsstólanna, sérstaklega Hólastóls, og tekjum biskupanna hér á landi í lok páfadómsins, og hefir enginn mér vitanlega orðið til þess fyrri. En þetta er allmiklum vanda bundið, og hefir höf. því miður ekki treyst sér til að fara svo nákvæmlega út í þá sálma, sem æskilegt hefði verið, enda hygg eg, að niðurstaða sú, sem hann kemst að, sé ekki sem ábyggilegust í öllum greinum. En samt sem áður er viðleitni hans í því efni góðra gjalda verð, og væri æskilegt, að hann eða aðrir fyndi hvöt hjá sér til þess að taka það og ýmislegt fleira, sem þar að lýtur, til sérstakrar rannsóknar seinna meir, því það er næsta mikilvægt atriði.

Engan þarf á því að furða, þó að menn séu misjafnrar skoðunar um einstök atriði í lífsferli Jóns biskups og sona hans, eða kunni að líta nokkuð öðrum augum á þau en höf., enda eru sum þeirra svo vaxin, að eigi er unt að komast fyrir hið sanna. Mætti þar sérstaklega benda á kaflann um börn Jóns biskups og frama þeirra (VI. kap.). Er hann mjög svo fróðlegur og merkilegur að mörgu leyti, en sumar af fullyrðingum höf. hygg eg þó að orki tvímælis. Munu að líkindum flestir ljúka upp einum munni um það, að Jón biskup hafi helzti freklega dregið börn sín fram til valda og virðingar á unga aldri, og farið þar stundum lengra en góðu hófi gegndi. Þannig leikur meira en lítill grunur á því, að kjörbréfi Þorleifs Pálssonar til lögmannsembættis hafi verið stungið undir stól í þágu Jóns biskups og í því skyni, að koma Ara syni hans að, og ekki tekst höf. að mínum dómi að sanna það til fullnustu, að alt hafi verið með feldu um arfstilkallið eftir Rafn lögmann. Segir hann á bls. 108, að Jón próf. Halldórsson í Hítardal hafi fyrstur manna dróttað því að Jóni biskupi, að hann hafi farið með rangt mál um barn þeirra Rafns og Þórunnar, og að þetta sé ekki nefnt á nafn í elztu og beztu heimildunum, Skarðsárannál og Æfisögu Jóns biskups Arasonar og barna hans, er hann sjálfsagt með réttu eignar sr. Þórði Jónssyni í Hítardal. En þetta er ekki rétt hjá höf., því sr. Þórður tilgreinir einmitt söguna fyrstur manna, og er auðsætt af orðalaginu á báðum stöðunum, að Jón próf. hefur hana eftir sr. Þórði. Öll atvik benda til þess, að eitthvað hafi þótt grunsamt og bogið við þetta mál.

Fleiri atriði mætti tilnefna, sem ástæða væri til að fara nánar út í, en það yrði of langt mál. Skal því að lokum að eins farið nokkrum orðum um skoðun höf. á Jóni biskupi Arasyni og baráttu hans. Því mun aldrei verða neitað, að Jón biskup hafi verið stórvel gefinn maður og mikilmenni á marga lund, einlægur trúmaður

á sína vísu og góður Íslendingur, sem kallað er. En skuggahliðarnar voru heldur ekki smáar, og mætti þar einkum til nefna ásælni hans og valdafíkn, sem hvorttveggja keyrði fram úr hofi. Þetta kemur ljóslega fram í riti höf., og virðist hann gera sér alt far um að lýsa Jóni Arasyni hlutdrægnislaust, enda tekst honum það allvel, að minsta kosti fram til þess, er Gizur biskup andaðist. En upp frá því virðist heldur vilja renna út í fyrir höf., og í síðustu þáttunum er eins og hann vilji draga fjöður yfir allar eigingjarnar hvatir hjá Jóni biskupi og líta svo á, sem hann hafi í úrslitabaráttu sinni æfinlega staðið föstum fótum á grundvelli trúarbragðanna, kirkjunnar og landsréttindanna, en mótstöðumenn hans æfinlega haft meira eða minna rangt fyrir sér. Sannleikurinn er nú sá, að það mun reynast mjög erfitt að greina á milli eigingjarnra og óeigingjarnra hvata í hinni síðustu baráttu Jóns biskups, og verð eg að telja það mjög vafasamt, að Jóni biskupi hafi sjálfum verið það jafnljóst og höf., hvað honum gekk til. En enda þótt hvatirnar kunni að hafa verið hreinar og góðar, þá verður hitt eigi úr skafið, að hann fór í þessari baráttu sinni oft og einatt fram með hinum mesta ofstopa og ójöfnuði, virti lög og rétt að vettugi, ef það kom í bága við hagsmuni hans, og óð yfir landið með herflokka, til þess að koma vilja sínum fram. Hér var sýnilega komið í hið mesta óefni, því ekkert framkvæmdarvald var til í landinu, er gæti skakkað leikinn. Verður konungi og mótstöðumönnum Jóns biskups tæplega legið á hálsi fyrir það, þótt þeir leituðust við að reisa rönd við þessum ójöfnuði og handsama Jón biskup og sonu hans, því þeir höfðu í rauninni unnið sér til óhelgi með athæfi sínu, og vonlaust um óvilhalla gerð eða úrskurð í málunum, meðan þeir léku lausum hala. En hitt er annað mál og óverjandi í alla staði, hvernig að þeir feðgar voru leiknir eftir að þeir komu í hendur fjandmönnum sínum.

Þrátt fyrir þessar aðfinslur skal það fúslega játað, að ritið í heild sinni er mjög svo myndarlegt og merkilegt í marga staði. Málið er gott og kjarnyrt, einfalt og látlaust og með alveg sérstaklega viðfeldnum íslenzkublæ. Höf. hefir glögt auga fyrir gildi heimilda sinna og dómgreind til að meta þær, en það er eitt af aðalskilyrðunum fyrir vísindalegri sögurannsókn. Auk þess ber ritið vott um, að höf. er mjög vel fróður um sögu vora og bókmentir á þessum öldum. Er það ósk og von allra þeirra, sem unna íslenskum fræðum, að honum auðnist að ljúka sem fyrst því mikla ritverki, sem þetta er upphaf að. **Jón J. Aðils.**

**Einar H. Kvaran: Trú og sannanir.** Hugleiðingar um eilífðarmálin. Reykjavík. Útgefandi Þorsteinn Gíslason. 1919.

Fyrsta ritgerðin í bókinni heitir »Trú og sannanir« og birtist í Skírni 1905. Önnur, »Máttur mannsandans«, er þrjú erindi flutt í Reykjavík 1909 og er um hugsanaflutning, fjarskynjan, lækningu líkamlegra meina með andlegum áhrifum og um huglækningar. Þriðja er »Draumar«, alþýðuerindi prentað í Skírni 1914. Fjórða heitir »Dularfylsta fyrirbrigðið«, erindi flutt í Reykjavík 1915, og er um fyrirboða alment og sérstaklega fyrirboða úr lífi W. T. Steads. Fimta heitir »Mikilvægasta málið í heimi«, erindi flutt víðsvegar 1918, og er um kenningar spíritismans. Sjötta, »Sálarrannsóknarfélag Íslands«, inngangsræða á stofnfundi þess 19. des. 1918. Sjöunda »Um sannanir«, erindi á janúarfundi S. R. F. Í. 1919, um sannanir fyrir öðrum ósýnilegum heimi. Áttunda og síðasta er erindi flutt í S. R. F. Í. 8. maí 1919, »Spiritisminn og kirkjan«.

Varla þarf að taka það fram, að öll þessi erindi bera vanaleg merki um ritsnild höfundarins og brennandi áhuga á viðfangsefninu. En allmikill munur þykir mér á fyrstu fjórum erindunum og hinum síðari. Höf. er sér munarins sjálfur meðvitandi, því að hann segir í formálanum: »Eg geri ráð fyrir að menn veiti því eftirtekt, að vitnisburður minn um árangur sálarrannsóknanna er ákveðnari í síðari hluta þessarar bókar en í fyrri hlutanum«. Í fyrri hlutanum hefir höf. að jafnaði þá aðferð, að lýsa fyrirbrigðunum, draga fram vel valin dæmi, benda á skýringatilraunirnar og vekja lesandann til sjálfstæðrar íhugunar á úrlausnarefnunum. Sama á að nokkru leyti við um erindið »Um sannanir«. Alstaðar þar sem þessari aðferð er haldið, las eg með mikilli ánægju, og eg vildi óska að höf. hefði gert sömu skil þeim fyrirbrigðum er sérstaklega virðast benda á annað líf. Mikið er satt í því, að heild fyrirbrigðanna kemur ekki síður til greina en hvert einstakt dæmi út af fyrir sig, en heildin gagnar því að eins, að eitthvað sé að græða á hverju einstöku atriði hennar. Heildin verður því að eins sönnunargagn, að þar komi fram, hvernig eitt dæmið hjálpar til þar sem annað brestur. Og þó að ekki sé hægt í stuttum erindum að gera grein fyrir öllu því, sem benda virðist á annað líf og hvernig það styður hvað annað, þá mundi eflaust mega koma þar að nógu mörgum samvöldum dæmum til þess að sýna, hvers eðlis sönnunargögnin eru í þessu máli og hver er styrkur þeirra.

Eg get ekki neitað því, að mér varð undarlega þungt um andardráttinn meðan eg var að lesa »Mikilvægasta málið í heimi«. Eg

var þar kominn í andrúmsloft, sem átti eitthvað illa við mig. Ekki var það fyrir þá sök, að eg sé andhverfur trúnni á annað líf eða finnist neitt »óvísindalegt« við það að trúa á framhald einstaklingslífsins. Eg skil mjög vel þá vísindamenn, er finst það sennilegasta skýringin á sumum fyrirbrigðum, að þau stafi frá framliðnum mönnum, svo þegar menn segja: »Líf er til eftir þetta líf«, þá liggur mér við að svara: »Veit eg það, Sveinki«. Og hvað sem »sönnunum« líður, þá er það að trúa að maður lifi áfram langöruggasta skoðunin, fyrir þá sök, að hún verður aldrei að eilífu rekin ofan í mann. Sé til annað líf, þá segir maður hróðugur, þegar þar kemur: »Vissi eg ekki!« Sé ekkert hinumegin, þá er sókn og vörn í málinu sjálfdauð, þegar þar kemur.

Það, sem eg kunni illa við í þessu erindi, sem eg nú ræði um, var fyrst og fremst boðunartónninn í því. »Mér væri ekki til neins að fara að reyna að sanna ykkur spiritismann á þeirri stuttu stund, sem eg get við ykkur talað. Sannanirnar eru í miklum sæg af bókum. Og þær verða ekki lagðar fram nema í mörgum bókum — að minsta kosti svo, að fullu haldi komi. Málið er svo víðtækt, og það er að ýmsu leyti svo flókið. Hér er orðið um heila vísindagrein að tefla«, segir höf. bls. 241—2. Hann velur því þann kostinn að boða kenningar spiritismans sem mikilvægasta málið í heimi og styðja þær með því að benda á hve merkir þeir vísindamenn og rithöfundar séu, sem haldi þessum kenningum fram og telji þær mikilvægasta málið í heimi, og hve hávísindaleg tímaritin séu, sem flytji þær. Það sé fjarri mér að gera lítið úr þeim vísindamönnum, sem vitnað er til. En tilvitnun til álits vísindamannanna er sorglega tvíeggjað sverð. Saga vísindanna sannar það margfaldlega, að skýringar á fyrirbrigðum, sem sjálf eru óyggjandi, hafa oft um skeið verið taldar óefandi af »skarpskygnustu mönnum jarðarinnar«, og þó síðar orðið að þoka fyrir öðrum, er betur komu heim við nýja reynslu. Og undarlegt er það að vilja styðjast við vísindin og hafa þó horn í síðu þeirra manna, er ríkast ganga eftir því að tryggilega sé um alla hnúta búið, eins og t. d. Mrs Sidgwick, sem enginn getur þó vænt um, að hafa ekki kynt sér þessi mál. (Sjá bls. 331). Um leið og sérstakar skoðanir eru gerðar að mælikvarða á vísindamensku manna, getur hún ekki verið mælikvarði á gildi þeirra skoðana. Það væri svikamylna.

Mér virðist að skýring spiritista eigi að standa að vígi eins og hver önnur vísindaleg tilgáta. Eitt eru fyrirbrigðin, annað tilgáturnar um orsakir þeirra. Allar tilgátur þurfa sannana, en oft er

ákaflega erfitt að vita hvenær telja má fullsannað, og ekki sízt í þessum efnum. Þeim, sem kynna sér fyrirbrigðin samvizkusamlega, og eru þó á báðum áttum um það hvort skoðun spiritista um framhald lífsins sé fullsönnuð, eða telja aðra skoðun líklegri, á að vera það frjálst og ámælislaust. Það er ekki siður, að æðrast út af því, þó menn greini á í vísindalegum efnum. Þar sem sannanir eru ekki fullnægjandi fyrir einhvern, velur hann þá skoðunina, sem honum fellur bezt, og það á að vera nóg. Mér finst eitthvað bogið við það, að geta ekki siglt ótrauður lífsins sjó, jafnvel þó maður fengi »enga ábyrgð keypt í eilífðarsjóð«. Höf. skilur slíka menn auðsjáanlega ekki vel. Lesi menn t. d. það sem hann ritar um áhugaleysi Huxleys á rannsókn dularfullra fyrirbrigða, bls. 183—187. Hann kallar það »mótþróa gegn rannsókn dularfullra fyrirbrigða«. En Huxley bannar engum að fást við þær. Hann segir: — »en sannleikurinn er sá, að eg get ekki fengið mig til þess að láta mér ekki standa á sama um þetta mál«. Hann var hreinskilinn. Svona var hann nú gerður. Og eflaust var það skaði fyrir rannsóknirnar, að svo ágætur liðsmaður bættist ekki í hópinn. En á að ámæla honum fyrir það? Eru allir vísindamenn skyldir að fást við öll viðfangsefni, sem vinir þeirra telja mikilsverð, hvort sem þeir hafa áhuga á þeim eða ekki? Slíkt er fjarstæða. Vísindunum er það hollast og mannkyninu í heild sinni, að hver vinni að því, sem hann hefir mestan áhuga á. Og mér finst það ætti ekki að vera svo örðugt að átta sig á því, sem raun gefur vitni, að upplag manna er mismunandi, svo að ekki verður sami áhugi á öllu heimtaður af öllum. Eg fyrir mitt leyti efast ekki um, að Huxley »með sínum skörpu og sólbjörtu vitsmunum« hefir verið fljótur að átta sig, þegar hann kom yfir um, og að hann hefir verið talinn hlutgengur þar, eftir alt, sem hann hafði afrekað hérna megin.

Eins og mér finst það ósanngjarnt að heimta af mönnum, að þeir rannsaki það, sem þeir hafa engan áhuga á, eins finst mér það fjarri lagi, að heimta af öllum, sem eru t. d. sannfærðir um annað líf, að þeir gerist postular og gangi í skrokk á hverjum Tómasi er þeir ná til (sbr. bls. 259). Eg veit ekki til að slíkt sé heimtað í nafni vísindanna alment, eða ætti að heimta. Postular finst mér þeir einir eiga að vera, er finna til þess köllun, og þó heldur færri en fleiri, því að þeir gefast misjafnlega. En óþolinmæði höf. og sumra skoðanabræðra hans, sem sumstaðar kemur fram í garð þeirra, sem eru hálfvolgir gagnvart spiritismanum, eða á annari skoðun, mun koma af því, að spiritisminn er ekki óblandin vís-

indi eða sálarrannsókn, heldur nokkuð af hvoru, vísindum og trúarbrögðum, og afarörðugt að halda þeim tveimur þáttum sundur, svo að ekki komi snurða á. Það er einkenni flestra trúarbragða, að hverir um sig þykjast eini beini vegurinn til sálubjálpar og sannrar tímanlegrar velgengni, og því er ekki að furða, þó þeim þyki mikið undir því komið, að allir »séu með«. En hvað sem þessu líður, þá telur höf., að með spiritismanum sé komið »að þungamiðju siðfræðinnar, sem hlýtur að grundvallast á þekkingunni á öðrum heimi, ef hún á ekki a5 svífa alveg í lausu lofti (bls. 273). Og á öðrum stað segir hann: »Okkur er ekkert undanfæri þess, að fara að miða atferli okkar við annan heim, leggja stund á það, sem þar hefir gildi, venja okkur af áfergjunni eftir því, sem þar hefir ekkert gildi, forðast það, sem þar hefir minna en ekkert gildi« (bls. 269).

Margar spurningar vakna.

Gerum ráð fyrir að grundvöllur spiritismans, framhald lífs vors í öðrum heimi, væri óyggjandi og allir sannfærðir um hann. Gerum enn fremur ráð fyrir, að fá megi samband við framliðna menn, með þeim hætti, er þess er nú almennast leitað, með aðstoð miðla. Fræðsluna um það, hvað gildi hefir í öðrum heimi, fengjum vér þá þessa leið frá framliðnum mönnum. Auðsætt er, að erfiðara er að sanna, að sú fræðsla sé sannleikur, heldur en það er fyrir framliðinn mann að sanna að hann sé sá, sem hann segist vera, því að framburð hans um það má bera saman við staðreyndir hérna megin. Um hitt er ekki því að heilsa, það liggur í hlutarins eðli. Þar er ekki önnur trygging en sögumaður sjálfur og, þegar vel vill, samræmi hans við aðra hinumegin, er samband næst við. En allir játa, að sambandið sjálft sé oft óáreiðanlegt, og að margt geti blandast málum sökum miðilsins. Og þó því væri rétt skilað, hafa þá sögumennirnir rétt fyrir sér, geta þeir ekki hafa misskilið, þar eins og hér, úr því að »mennirnir koma inn í annan heim nákvæmlega eins og þeir fara héðan, að undanteknum hinum jarðneska líkama«? (bls. 283). Alt þetta sýnir, hve nauðsynlegt það er að hugsa sig vel um áður en frásagnir um annan heim, sem komnar eru þessa leið, eru taldar óyggjandi vísindi. Gerum nú ráð fyrir að fregnir bærust frá mörgum framliðnum mönnum um það, að t. d. eitthvert neyzlumeðal, sem menn alment neyta hér, væri óholt fyrir framtíð vora í öðrum heimi. Þessar fregnir væru eftir vandlega prófun taldar óbrjálaðar af miðilsins hálfu. Eigum vér þá undir eins að taka þær gildar og haga oss þar eftir?

Ef vér gerum það, þá verður það að vera í trausti til óskeik-

ulleiks þeirra, sem sambandið er við hinumegin. Vér erum þá búnir að kasta vísindakuflinum og lifum í trú en ekki í skoðun.

Slíkt tel eg hverjum manni frjálst, að því er til sjálfs hans kemur. En eg tel hitt jafnfrjálst, að krefjast annarar prófunar, áður en þetta neyzlumeðal verður bannfært, svo að eg haldi mér við dæmið, er eg tók. Eg mundi vilja láta beztu vísindamenn hérna megin prófa svo vandlega sem unt er áhrif þessa neyzlumeðals á andlega og líkamlega heilbrigði manna. Reynist það holt og styrkjandi fyrir andlega og líkamlega heilbrigði manna hér, þá tel eg sjálfsagt að halda áfram að neyta þess, hvað sem þeir segja hinumegin, því að eg trúi því ekki fyr en eg tek á, að það, sem skilar mér andlega heilbrigðum á lífsins land, geti reynst mér skaðlegt þar, eða mundi sjálf andleg heilbrigðin vera þar skaðleg? Eg hefi tekið þetta dæmi af því að það er svo einfalt, en líkt er um hin önnur siðferðisatriðin. Siðfræðin er í mínum augum, eða ætti að minsta kosti að vera, andleg heilbrigðisfræði. Að réttlæti, sannleiksást og kærleikur hafi gildi í þessu lífi, sannast af áhrifum þeirra á andlega heilbrigði manna og þroska. Að breytni manna er oft því lík sem þeir teldu þetta alt einskisvirði, kemur ekki af því að þeir viti ekki betur, heldur miklu fremur af því, að þeir hafa ekki verið tamdir við það frá blautu barnsbeini, að prófa þessdygðir í lífi sínu og meta áhrif þeirra. Og eg efast um að þær verði meiri kraftur í lífi sumra manna fyrir það eitt, að víst væri að þær giltu líka í öðru lífi, eða hví mundi sá, er veit að breytni hans í dag hefir illar afleiðingar á morgun og heldur áfram engu að síður — hví mundi hann hirða meira um afleiðingarnar í öðru lífi, þó hann ætti þær vísar? Bendingar frá öðrum heimi gæti eflaust oft orðið til að vekja menn til prófunar á hlutum, sem þeir hefðu ekki nægilega vel athugað. En til þess mun oss gefin skynsemin, að vér prófum alt og höldum því, sem gott er. Áður var sú stefna ríkjandi í uppeldismálum, að miða alla meðferð barna við fullorðinsárin. Nú er það af mörgum kölluð kerlingarvilla. Svo er Rousseau fyrir að þakka, að flestir viðurkenna nú að barnsaldurinn eigi líka sinn rétt á sér, og að sá verði að öðru jöfnu bezt þroskaður á fullorðins aldri, er bezt fekk þörfum barnsins fullnægt. Mundi ekki vera líkt um æfina »í þvísa ljósi og öðru!« Skyldi þeim ekki farnast bezt í öðru lífi, sem bezt gæta andlegrar heilbrigði sinnar hér, »að beztu manna yfirsýn«? Á það þori eg vel að hætta fyrir sjálfan mig. En ráði aðrir hvað þeir gera.

Þessar athugasemdir eru áður en eg veit af orðnar langt mál,

og er þó margt enn, sem vert væri á að minnast, þó það verði ekki að sinni. Eg get ekki betur endað en með því að þakka höf. fyrir bókina. Eg virði starf hans mikils og tel hann og þá, sem hófu sálarrannsóknir hér á landi, eiga miklar þakkir fyrir áhuga sinn á þessum málum, því að vissulega eru sálarrannsóknirnar mikilvægt viðfangsefni og eiga sjálfsagt eftir að verða það enn meir. Eg veit að höf. þekkir mig of vel til þess, að hann væni mig um mótþróa eða illvilja í garð sálarrannsóknanna. Eg hefi haft mikla trú á verkefni þeirra frá byrjun og reynt að fylgjast nokkuð með þeim, þó að önnur viðfangsefni hafi valdið, að eg hefi ekki enn getað gefið mig svo rækilega við þeim sem eg taldi mér skylt áður eg legði þar mörg orð í belg. Hver veit nema mér auðnist það, ef eg lifi lengi — hérna megin. G. F.

**Ljóðmæli** eftir **Hjálmar Jónsson í Bólu**. Jón Þorkelsson hefir búið undir prentun. I og II. Á kostnað Hjálmars Lárussonar. Reykjavík 1915—19. Félagsprentsmiðjan. I. LXXVI + 256 bls. II. 340 bls.

Fyrsta heftis útgáfu þessarar var getið í Skírni 1916, bls. 95. Nú er hún komin öll og taka ljóðmælin sjálf yfir nær 550 blaðsíður. Framan við eru sýnishorn af rithönd Hjálmars, formáli er gerir grein fyrir útgáfunni, og æfiágrip. Kvæðunum fylgja nokkur bréf Hjálmars, efnisyfirlit og upphöf kvæðanna. Hefir það, eins og Dr. Jón Þorkelsson gerir grein fyrir í formálanum, verið tilgangur útgefanda, að kveðskapur Hjálmars kæmi hér »fullkomlega fram í öllum greinum, svo sem föng væri á og fært væri, til þess að menn gæti þekt og metið skáldið sem réttast frá öllum hliðum«. Hjálmar kemur því hér til dyranna eins og hann var klæddur í hvert skiftið við ljóðaönnina, og mun þá engan furða, þó hann sé stundum óþveginn og farist eigi ávalt jafnfimlega, enda mætti benda á ýmislegt í bókinni, sem ekki mundi gefið út, ef nútíðarmaður ætti í hlut. Má lengi um það deila, hvað út skuli gefa af kvæðum látinna merkisskálda. Hjá oss hefir löngum sú stefnan ráðið, að gefa út alt það, er með nokkru móti þótti prentandi. Hún hefir þann kost, að þá verður hægra að skilja gáfnafar og þróunarsögu skáldsins, því að mistökin í eina átt eru oft ranghverfan á hæfð í aðra átt, og sé að eins gefið út það, sem skáldinu tókst bezt, er eftir að vita um hitt, sem undan er dregið. Oft má í ófullkomnu kvæði finna fyrstu fálmandi gripin eftir því, sem skáldið síðar fékk fulla handfestu á, og getur það alt orðið

fróðlegt fyrir þá er skilja vilja skáldin til hlítar, svo sem bókmentafræðinga. Heildarútgáfur spara slíkum mönnum mikið erfiði, er þeir að öðrum kosti mundu hafa við að leita af sér grun á handritasöfnum, því að meðan ekki er alt gefið út, sem eftir skáldið liggur, þá þykist enginn öruggur um, að ekki leynist eitthvað eftir, sem þó væri vert að athuga. Þar trúir hver sjálfum sér bezt. Þetta eru kostirnir. Ókosturinn er sá, að miklu meira þarf fyrir að hafa að finna það, sem bezt er eftir skáldið innan um alt hitt, sem lakara er, og því hættara við, að höfðingjabragurinn dyljist sýn. Þess vegna ætti af hverju góðskáldi einnig að gefa út úrval, þar sem að eins sé tekið það, sem hefir varanlegt bókmentagildi og sýnir skáldið í brúðkaupsklæðum. —

Útgáfa sú, er hér ræðir um, hefir þá kosti og lesti, er eg nú gat um, að heildarútgáfum fylgi. Áður var, svo sem kunnugt er, til gott úrval af kvæðum Hjálmars, er Hannes Hafstein hafði gert. En það var fyrir löngu orðið ófáanlegt og því full þörf á nýrri útgáfu af ljóðum skáldsins. Í þessari útgáfu eru ýms ágæt kvæði, sem ekki voru í úrvalinu, og sýna sum þeirra hliðar á kveðskap Hjálmars, er eigi komu þar eins skýrt fram. Mundu þau ein nægja til að margur vildi eignast bókina. Það eykur og stórum gildi hennar, að framan við er prýðilega ritað æfiágrip og lýsing Hjálmars eftir Dr. Jón Þorkelsson. Eru þar dregin fram beztu gögn, sem fyrir hendi eru, til að gera sér sem ljósasta mynd af Hjálmari, og ýmislegt leiðrétt, er áður var rangt haft, svo sem um fæðingardag og dánardægur skáldsins. Telur Dr. Jón fæðingardag hans Mikkjálsmessu, 24. fimtudag í sumri, hinn 29. september 1796, en dánardægur 25. júlí 1875. Þá er og Hjálmar hér í fyrsta sinni ættfærður, svo að skiljanlegt verður, hvaðan honum kom sú hin mikla andans atgjörvi, er hver maður hlýtur að dást að. Dregur Dr. Jón fyrst rammar líkur að því, að Hjálmar hafi verið rétt feðraður og sonur Jóns Benediktssonar, þrátt fyrir kvæðið um »Getnaðarhreppinn«, og sýnir því næst, hvernig að honum standa í föðurætt »á báðar hendur ættbálkar gáfaðra, lærðra og mikilhæfra manna á 17. og 18. öld«, er sumir voru merkustu skáld sinnar tíðar, og að móðir hans var líka vel ættuð.

»Heyrði eg geyja glópskan mann,
sig gildi slíkt að einu,
en aldrei dúfan koma kann
úr krumma eggi neinu«,

kvað Hjálmar, og sannast það enn á honum sjálfum.

Vel tekst Dr. Jóni að hreinsa minningu Hjálmars af hinni hraklegu málsókn, er kastaði svo þungum skugga á armæðulíf hans. Virðist mér »Morgunsöngur« Hjálmars, er Dr. Jón bendir á, vera þar ekki sízta sýknunargagnið. Svo mundi enginn menskur maður biðja til drottins, er sjálfur vissi sig sekan. Er æfiágripið í heild sinni stórra þakka vert og mun lengi verða aðalheimild um líf og lunderni Hjálmars. Undir niðurlagið mun margur taka: »Og ljós finst oss nú brenna yfir býli Hjálmars skálds, er vér rennum þangað hugskotsaugum, og frá afli þeim, er þar var kyndur, munu sindra bjartar síur langt í aldir fram til komandi kynslóða«. G. F.

**Sigurður Nordal**: **Fornar ástir**. Reykjavík 1919.

Eg hefi heyrt menn kasta því fram, að þessi bók væri óíslenzk. Sá dómur er ekki viturlegur, en hitt er satt, að bókin er óvenjuleg og nýstárleg. Hún er hugsuð og samin á suðurvegum, og yfir beztu köflum hennar leikur hreinn og svalandi andblær erlendrar menningar. En óíslenzk verður hún ekki fyrir það. Íslenzk menning og erlend eru af einni rót runnar, og af erlendri menning höfum vér altaf auðgast og hljótum vér altaf að auðgast. Það er útlend ómenning gróðursett í íslenzkar apasálir, sem andlegu lífi voru stendur háski af. En hér kemur utan úr heimi íslenzkur rithöfundur, sem hefir kunnað að læra, og þess vegna kann frá mörgu að segja. Nálega hver setning í bók hans er mótuð af sjálfstæðri, persónulegri hugsun og þar að auki rituð af varkárri og nákvæmri alúð við íslenzkuna. Engin sú hugsun, sem Íslendingur getur hugsað og sagt á móðurmáli sínu, er óíslenzk.

Höfundurinn hefir hér safnað saman í eitt smásögum og ljóðabrotum í sundurlausu máli, sem hann hefir samið á ýmsum tímum. Yngst eru ljóðabrotin. Þau eru miklu veigameiri en smásögurnar, og verður bókin því nokkuð afturhlaðin. En þó eru allar sögurnar samdar af manni, sem bersýnilega hefir litast víða um í mannheimi með forvitnum augum, og kann óvenjulega vel að koma orðum að því, sem hann hefir séð og heyrt.

»Kolufell« er rýrasta sagan og höf. tæpast samboðin. Hvað varðar mann um þetta »Stryk-skot«? Lesandinn sér af enda sögunnar, að »þau náðu saman«, en um það stendur honum alveg á sama, og það kennir hann höfundinum, en ekki sjálfum sér. — Þá er fyrsta sagan, »Síðasta fullið«, úr öðrum málmi. Lýsingin á hinum hámentaða, gamla og ósjálfbjarga drykkjumanni, sem hefir

lent á moðgjöf hjá ruddalegum búra, er snildarlega gerð. Eg spái að Þórir gamli Ketilsson verði langlífur í endurminningunni. Ó-gæfumaður var hann, og þó var ekki sú ógæfan minst, að hann virðist hafa tekið mark á bannlögunum En ef til vill hefir hann lifað fram á suðuspríttsöld, — ef til vill lifir hann enn þá, og mundi þá mörgum hugleikið, að höfundurinn kæmi saman fundum hans og lesandanna í annað sinn. — »Lognöldur« eru frumdrættir að sögu um »hámenning« Reykjavíkur, — lognöldurnar á þessum þröngu og grunna stöðupolli eru síðustu endurminningarnar um óveðrið, sem einu sinni geysaði um hafið, áður en þeir, sem sagan segir frá, leituðu þangað inn og lögðust við stjóra.

»Spekingurinn« er síðasta sagan, og hygg eg að það verði tvímælalaust, að þar hafi höf. sýnt mesta hæfileika sem söguskáld. Veslings Benjamín spekingur hefir aldrei átt því láni að fagna, að heimurinn vildi líta við honum. En hann hatast ekki við heiminn fyrir það; hann ætlar sér þvert á móti að reyna að gera hann betri, reyndar ekki allan heiminn, heldur aðeins eitt heimili eða sambúðina milli hjóna á einu heimili. Og hann fer þangað fótgangandi um langan veg með alvæpni hugsunar sinnar og þekkingar. En þá tekst ekki betur til en svo, að heimurinn réttir honum hendina í fyrsta sinn, og þá breytist afstaðan þegar í stað. Húsfreyjan, lítt mentuð og hamstola kona, sem fyrir happ eða óhapp hefir hafist upp í yfirstéttina og orðið læknisfrú, nær fyrst valdi yfir honum og er næstum því búin að gera hann að hjónadjöfli, enda hefir hann elskað hana fyrir löngu. En þá birtist heimurinn í annari mynd, — Halldór læknir er alt í einu kominn inn í stofuna og stendur þar all-vígalegur »í ferðafötum og reiðstígvélum«. Veslings spekingurinn fær glóðarauga, og svo hröklast hann í burtu, riddarinn og rolan, sem ekkert getur og ekkert kann annað en að hugsa rétt og vilja vel. Sagan er ein hin meistaralegasta smásaga, sem samin hefir verið á vora tungu, og hefir þar að auki það sér til ágætis, að þar er móðursjúkur kvenmaður í fyrsta sinni leiddur fram á sjónarsviðið í íslenzkum bókmentum.

En þó eru það ekki smásögurnar, heldur ljóðabrotin um Álf frá Vindhæli, sem munu halda orðstír þessarar bókar á lofti um langan aldur.

Álfur er útlendingur og flóttamaður í tilverunni, maður, sem leitar að einhverju, sem hann geti leitað að, maður, sem tvístrast sundur milli endurminninga og vona, en nær ekki einu einasta

augnabliki fullkomlega á sitt vald. »Aldan, sem er dauð, ef hún nemur staðar, er samborin systir mín«. Hann þráir gæfuna hamslaust, — en »gæfan er ekki ein, heldur í ótal brotum, og gæfan er að eiga kost á öllum þessum brotum«. Hvenær sem hann eignast eitt brotið, kastar hann því burtu til þess að geta farið að leita allra hinna. Og svo þyrlast lífið áfram hvíldarlaust. »Augnablikin þjóta fram hjá mér eins og visin strá, sem vindurinn feykir. Og ekkert þeirra vil eg biðja að dvelja hjá mér. Öll eru þau ófullkomin«. »Reyndu ekki að ná handfestu eða fótfestu í lífinu. Þér færi þá eins og manni, sem er að hrapa fyrir björg og grípur eftir snösunum, sem hann dettur framhjá. Þær rífa hendur hans og tæta sundur. Ekkert nema aukin harmkvæli. Þú verður ekki stöðvaður. Fallið er í þér. Og endirinn er ykkur jafnvís báðum: dauðinn. — Hann bíður«.

Ástarþráin er meginstraumurinn í sál Álfs. Hann seiðist að eðli kvenmannsins og leggur á flótta undan því; hann tilbiður konuna og honum stendur stuggur af henni. Hann yrkir lofsöngva um hana, ástaljóð sem svella af þunga tilfinningarinnar, en öll þau ljóð streyma úr lind, sem er grugguð af heilabrotum og draumórum. Honum nægir ekki að eignast ást kvenmanns, — hann krefst þess að geta tileinkað sér hina leyndustu hugarhræring hennar, honum finst að hann eigi hana ekki, nema hann skilji og skynji eðli hennar niður til neðstu grunna. »Við skiljum ekki hvort annað, Dísa af Skaganum! . . . Millum okkar eru gil og gjár, sem enginn fær brúað. . . . Hvernig sér þú heiminn með þessum gráblán augum? . . . Hvað finnur þú til, þegar þú hvílir í örmum mínum? . . . Varir okkar geta runnið saman, en hugir okkar aldrei. Við getum haldist í hendur, og sálir okkar verið sín í hvorum heimi«. Hann veit þó vel, að þessari þrá verður aldrei fullnægt, og hann veit ennfremur, að fullnægingin yrði eintóm vonbrigði. »Því hylurinn er ekki framar hylur, þegar hann hefir verið kafaður til botns«. »Þú átt að fyrirlíta viðleitni mína að hugsa og skilja, að kynnast þér og tala við þig. Þú átt að ganga leiðar þinnar róleg og þögul, og geyma í djúpi sálar þinnar hið frjósama myrkur, sem enginn geisli hugsunarinnar hefir rofið, — hið dularfulla upphaf alls«.

Öll ástarævintýri Álfs fara á eina leið. Margar konur gefast honum á vald, hann kann að sigra, en hins er honum varnað, að njóta sigursins. »Látum konur kvarta yfir sviknum heitum og rofnum ástum. Eg kvarta yfir vonum, sem rættust, ástum, sem voru

ofgefnar og of lengi haldið«. Hann segir um eina af unnustum sínum, að »inst í skapi hennar liggi ófrjótt sandkorn«. Það sandkorn er inst í sjálfs hans sál. Líf hans sprengist sundur í brot og mola vegna þess, að inst í skapi hans býr krafa, sem er ófrjó, krafa, sem aldrei verður fullnægt, af því að lífið kannast ekki við hana. Bókin endar með draumi, sólskinsdraumi, um nýtt líf og nýtt land, »þar sem von og minning eru ekki aðskildar, heldur lykja eins og tvær skeljar um perlu augnabliksins«.

Þetta er þá yrkisefnið, eða öllu heldur aðalyrkisefnið, því að furðu margt ber á góma í ljóðum þessum. Þar skiftast á skarplegar athugasemdir, andrík spakmæli og skáldlegar, djúphugsaðar samlíkingar. En mér er markað svo þröngt rúm, að ekki eru föng til að lýsa bókinni nánar, en nú hefir verið gert. Það er skrumlaust mál, að eg hygg að það yrði löng leit að bók í hinum nýrri bókmentum vorum, þar sem meira fyndist af mannviti og skáldskap. Höf. hefir verið á ferð um hin myrku meginlönd sálarlífsins og síðan tekið sér fyrir hendur að lýsa því, sem hann hefir orðið áskynja. En það hefir ekki verið vandalaust verk, því að vitanlega veit meginþorri lesandanna lítið um þær heimsálfur, og mun telja flest lygilegt, sem þaðan er sagt. Í huga höfundarins er sviði og órói af þungum grun og erfiðum draumum, sem fáa menn dreymir, og væri því ekki furða, þótt honum reyndist tvorvelt að ná eyra fólksins. Í eftirmálanum lætur hann í ljós nokkurn efa um það, að allir lesendurnir muni hafa þolinmæði til þess að lesa ljóð þessi sér til gagns. Eg er hræddur um, að sá efi sé ekki ástæðulaus. Því verður ekki heldur neitað, að sumstaðar er talsverður höfgi og myrkvi yfir ljóðunum, manni finst full-bratt undir fæti og sýnist jafnvel, að höf. reyni of mikið á sjálfan sig. En slíkt er ekki umtalsmál, og hitt er meiri furða, að í öllum þesum langa ljóðabálk finst tæpast ein einasta dauð lína. **Árni Pálsson.**

**Einar H. Kvaran: Sögur Rannveigar I.** Rvík 1919.
**Guðm. Friðjónsson: Úr öllum áttum.** Átta sögur. Rvík 1919.
**Halldór frá Laxnesi: Barn náttúrunnar.** Ástarsaga. Rvík 1919.
**Hulda: Æskuástir.** Smásögur. II. hefti. Rvík 1919.
**Sig. Heiðdal: Hræður II.** Rvík 1919.
**Sigurjón Jónsson: Öræfagróður.** Rvík 1919.
**Jakob Thorarensen: Sprettir.** Kvæði. Rvík MCMXIX.

Það er ekki til þess að hneyksla fólkið, að eg hefi sett alla þessa titla skáldsagna og kvæða saman i eina runu, þótt vel megi-

vera, að einhver hugsi með sér: En þau kynstur af skáldskap! Nú er það, eins og kunnugt er, orðið alsiða, a. m. k. meðal sumra ritdómara, að falla í stafi yfir því, hve mikið sé ort hér, bæði í sundurlausum orðum og samföstum — sbr. skáldin í Mentaskólanum, sem sögð eru 12 eða 14, til mikillar skelfingar fyrir þessa yfirmatsmenn bókmentanna. Þessi aðstaða þeirra á víst að vera sprottin af því, að þeim þyki bókmentirnar verða nokkuð einlitar með þessu lagi, því að fleira sé nú matur en magálar — að of lítið sé framleitt af nauðsynlegri andlegri fæðu af öðru tæi.

Á þessu ári hafa nú raunar komið út tvö stórmerkileg vísindarit, nfl. Verzlunarsagan eftir Jón Aðils og Jón Arason eftir Pál E. Ólason. En hitt er satt, að þjóðina vantar tilfinnanlega góðar fræðibækur fyrir almenning í ýmsum fræðum, t. d. náttúruvísindum allskonar. En á því verður ekki bót ráðin á þann hátt, að kefla skáldin, því að efasamt er t. d., hvort þjóðin eignaðist einni fræðibókinni fleira fyrir það, þótt aldrei kæmi stafur á prent eftir skáldatylft Mentaskólans. Af góðum skáldskap fær þjóðin varla meira í bráð, en hún getur torgað — og auðvitað er aldrei unt að forðast það, að eitthvað lélegt slæðist með, nema sett væri á stofn alvitur ritskoðun. Nei — það er e. t. v. vit í því, að skamma fræðimennina fyrir það, að þeir ávaxti ekki pund sitt, en ekkert vit í því, að skamma skáldin fyrir þá sök eina, að þau reyna að ávaxta sitt.

Sögur Rannveigar eru þættir úr lífi ungrar stúlku. Er þeim ekki lokið, en þetta bindi myndar þó heild fyrir sig. Rauði þráðurinn er hinn sami, sem í undanförnum sögum höfundarins — andi kærleiks og samúðar. Frásögnin er liðug og skemtileg og samtölin eðlileg. Skiftist þar á alvara lífs og dauða — ástarraunir ungmennanna og einstæðingsskapur öldungssálarinnar gagnvart samvizkunni, dauðanum og guði — við hálfgert glens og hlægilega atburði (einkum í síðasta þættinum, þar sem lýst er uppnáminu í Kvennaskólanum). Persónulýsingarnar eru og sumar ágætar. Einkum standa þeir skýrt fyrir augum lesandans, karlarnir, feður elskendanna, bæði á meðan að þeir eru í fullu fjöri og sífeldum málaferlum, og þegar þeir eru báðir beygðir af erfiði og þrautum lífsins. Vel er og lýst Ásvaldi, elskhuga Rannveigar, og síðast en ekki sízt frú Hardal, forstöðukonu kvennaskólans. Skáldið lætur Ásvald segja, að hún sé »haustsál«, altaf að búa sig undir einhver hret og illviðri, full vandlætingar og velsæmismetnaðar. En

þó leynist móðureðlið á bak við þenna siðavendnisskráp og kemur í ljós, þegar óvenjulegir atburðir rífa gat á skrápinn.

Rannveig sjálf er aftur á móti »vorsál« — ein þeirra, sem trúa öllu, vona alt, umbera alt, eins og postulinn segir. Hún hikar ekki, þegar á á að herða, heldur fylgir ótrauð bendingum síns insta eðlis — siglir glöð út í lönd æfintýranna og hirðir ekki, hvort þau muni verða sólroðin eða skuggaleg.

Það leynir sér ekki, að samúð höf. fylgir Rannveigu í þá siglingu. Og orsökin til þess er trú hans á manneðlið — að það sé þannig vaxið, þegar dýpst er grafið og lengst er leitað, að óhætt sé að fylgja þrám hjarta síns. Hann hyggur það hvorki örugt né ráðlegt, að breyta á móti þeim boðum, hvaða dýrindi sem álfar heimshyggjunnar og veraldargæðanna kunna að hafa á boðstólum, jafnvel þótt þeir bjóði flotskjöld auðs og allsnægta.

Latneska orðið »vates« merkir skáld, spámann og snilling. — Einar er alt þetta. Hann er »medicinæ vates miranda arte«, eins og sagt var um lækninn Herophilus; að eins er sú læknislist andlegs en ekki líkamlegs eðlis. Við það mun íslenzka þjóðin kannast, þegar hann er horfinn héðan — hún mun varla skilja það fyllilega fyr, ef að vanda lætur.

Ú r ö l l u m á t t u m eru átta sögur. Allar lýsa þær íslenzku sveitalífi í ýmsum myndum. Það er víst, að sögur Guðmundar Friðjónssonar eru og munu verða ein hin allra-fróðlegasta og ólygnasta uppspretta þekkingar á högum og háttum, starfi og striti, trú og hjátrú bændastéttarinnar hér á landi sem til er. Þær sýna umhverfi og æfikjör sveitafólksins og þær bregða blæjunni frá sálarlífi þess. Lesandinn kynnist fjölda manna, stórbændum, kotungum, ekkjum og aumingjum, og finst hann hafa þekt það frá blautu barnsbeini. — Einkum verður hug skáldsins tíðreikað til þeirra, sem eiga við óblíðust kjörin að búa. Olnbogabörn lífsins, marghraktir lánleysingjar, einyrkjar og einyrkjakonur, uppgefnar af erfiði, vökum og basli — alt á þetta skilningsríkan og ástúðlegan málsvara, þar sem Guðmundur er. Og það virðist honum fegursta sjónin, að sjá mann eða konu, sem altaf hefur gjört skyldu sína í raunum og veikindum, horfast í augu við dauðann með óbuganda þreki — horfa inn á land þeirra vona, sem hér geta ekki ræzt, inn yfir landamærin lítt kunnu, þar sem »vatnar yfir láglendið, en tíbrá og móða sveipa hæðirnar og láta altsaman blána það hið ókunna landið í fjarlægðinni nálægu«, eins og hann kemst að orði í einni sögunni. — Og þegar Lilja förukona deyr úti

á víðavangi af völdum sjálfrar sín, stendur steinstorkan í skútanum á öndinni og bíður þess, »að förukonu verði saknað — sem enginn saknar«. En »hersing himnanna deplar augunum og eilífðin kinkar kolli«.

Þessi setning, sem nú var rituð síðast, er ljóst dæmi orðsnildar Guðmundar og myndgnóttar. Með henni vekur hann hjá lesandanum tilfinningu um eitthvað óendanlega kyrlátt, mikilfenglegt og háleitt — eitthvert djúp undir ölduróti lífsins, sem þreytt báran hnígur í til óendanlegrar hvíldar, takmarkalauss friðar, sem yfirgengur allan skilning.

Þrátt fyrir þau þrengsli æfikjaranna, sem persónurnar í sögum Guðmundar eiga við að búa, er sjónhringurinn rúmur. Og trú hans hefir víðan faðm. Hann veit, að fleira er vatn en það, sem kemur beint úr skýjunum, og að guð hefir ekki skuldbundið sig til að tala að eins við mennina gegnum einhver sérstök sakramenti eða ákveðnar kenningar. Hann veit, að alt lífið getur verið sakramenti (sbr. Sigurveig í Austurhlíð og Rannveig á Bakka).

Sem að líkindum lætur, eru ekki allar sögurnar jafngóðar. Sumar eru ef til vill nokkuð losaralegar í gerðinni. En hver hugsar um mosaþúfuna, þegar fjallahringurinn blasir við á alla vegu, víður og fagur, þótt hvorttveggja sé á sama landinu? —

B a r n n á t t ú r u n n a r eftir Halldór Guðjónsson frá Laxnesi er ástarsaga, en kemur þó víðar við. Höf. er kornungur, og er því öll von til, að smíðagallar séu ærnir á verkinu, enda má margt að sögunni finna, ósamræmar sálarlífslýsingar og ósennilega atburði. En samt getur engum dulizt það, að hér er um að ræða efni í skáld, sem líklegt er til góðra afreka, er þroski vex og lífsreynsla. Höf. er létt um að skrifa, dettur margt í hug og er stál-duglegur. Nú er hann farinn til útlanda til að þroska sig og menta. Er full ástæða til að óska honum góðs gengis, og grunar mig, að hann eigi eftir að auðga íslenzkar bókmentir að góðum skáldskap, ef honum endist aldur og heilsa.

Viðfangsefnin eru ekki stórvægileg að ytra áliti í smásögunum hennar Huldu. Það eru æ s k u á s t i r, eins og nafnið bendir á. En á þeim er tekið mjúkum höndum, og eg verð að játa, að strengir þeir, sem Hulda slær, heilla mig, þótt þeir sé ekki háværir. Og mér finst henni takast ljómandi vel með þetta efni, sem hún hefir valið sér. Sögur þessar standa fyllilega jafnfætis fyrri sögum hennar. Hitt er annað mál, að það væri e. t. v. gaman að sjá hana reyna sig við önnur efni, þótt eg sjái ekki neina ástæðu til

að neyða hana til þess, frekar en henni leikur sjálfri hugur á. Það er betra, að slá einn streng vel, en marga illa. Og sérhvert skáld verður að yrkja samkvæmt því, sem eðli þess býður.

Fyrra bindið af Hræðum þótti mér gott. En þetta er miklu síðra. Aðalpersónan, Karl Hildálf, er þó all-merkilegur maður, sem vert er að kynnast, umbrotamaður með eldmóð í huga, en ekki mjög stöðugur í rásinni. En hinar persónurnar eru fremur daufar, og ekki er gerð nægileg grein fyrir ýmsum viðburðum og sumu framferði söguhetjanna. Má þar til nefna einn aðalþráðinn í sögunni, ástir þeirra Karls og Alfhildar. Þar að auki er frásögnin stundum óþarflega reyfaraleg, stíllinn of órólegur og hraður sumsstaðar, en heimspekileg langloka í endanum. Það lítur út fyrir, að höf. hafi beitt við söguna svo mikilli hraðvirkni, að úr hafi orðið hroðvirkni. Er það leitt um jafn-efnilegt skáld, sem Sig. Heiðdal annars er. En eg efast ekki um, að hann muni ná sér betur niðri í næstu bók.

Loks vil eg geta þess, þótt ekki ætli eg að reikna höf. það til lasts, að eg skil ekki nafnið »Hræður — finst það vera alveg út í hött. Sennilega hafa þó ráðið því einhver hugsanasambönd hjá höf., sem eg kann ekki að rekja.

Sigurjón Jónsson lætur lítið yfir sér — hann nefnir bók sína Öræfagróður. Af gróðri þessum er rúmur helmingur æfintýri, en hitt ljóð. Ekki man eg til þess, að eg hafi séð neitt fyr eftir þennan höfund, og mun þetta vera fyrsta bókin eftir hann, sem út kemur á prenti.

Æfintýrin eru flest trúarlegs eðlis og spegla kenningar guðspekinnar. Eru flest þeirra ljómandi falleg og hollur og góður lestur. Ef eg ætti að finna nokkuð að sumum þeirra, mætti helzt segja, að höf. sé stundum óþarflega nákvæmur með það, að koma í veg fyrir allan mögulegan misskilning lesandans. En slíkt eru smámunir, og það er einsætt, að höf. er gæddur góðri skáldgáfu. Vil eg t. d. benda á æfintýrin »Efnaleysi« (bls. 85) og »Brúna« (bls. 88), sem bæði eru gripin beint út úr daglegu lífi, ágætlega samin og auðskilin.

Kvæðin þykja mér yfirleitt síðri að skáldskapargildi en æfintýrin, þótt mörg þeirra séu snotur. Má þar til nefna »Vetur í Víking« (áherzlugalli í 3. vísu: Víkingur: syngur); »Dyrnar«, mjög fallegar vísur; »Vögguvísur«, »Stökur« o. fl. —

Allar þessar bækur, sem eg hefi nú minzt á, eiga að því leyti sammerkt, að þær vilja koma einhverju til leiðar. Takmarkið er

ekki fyrst og fremst það, að »lýsa örlögum hversdagsmanna á hversdagslegan hátt«, heldur að greiða götu einhverra hugsjóna, er fyrir skáldinu vaka. Tel eg það vel farið, því að þótt það sé eðli skáldanna að syngja innihald sjálfra sín út í heiminn, og ekki megi heimta neina stefnuskrá af þeim, þá er allur munur á því, hvert það innihald er. Það getur verið annaðhvort holt eða óholt andlegum vexti lesendanna. Og eg fyrir mitt leyti tel bækur þessar yfirleitt hollar. En auðvitað má ekki gleyma því, að »góð meining« er ekki einhlít — það sem fyrst og fremst þarf að heimta af skáldskapnum, er list. Sum atriði hennar eru mönnum gefin »að ofan«, en önnur má læra, og geta því skáldin sjaldan verið of kröfuhörð við sjálf sig um elju í því, að þroska verk sín og fullkomna — því að æfin er stutt, eins og allir vita, en listin löng. —

Fyrri kvæðabók Jakobs Thorarensens, »Snæljós«, bar þess greinileg merki, að höfundurinn væri skáld. Sumum þótti hann full-þur á manninn og hryssingslegur, og smekkvísin ekki að sama skapi, sem hugkvæmnin, en aðrir töldu þessa eiginleika lítt spilla, heldur væri hér upp risinn væntanlegur arftaki Gríms Thomsens eða Hjálmars. Um eitt var ekki unt að deila — kraftur var í kvæðunum og orðhepni víða. Og það var ekki þorrabylurinn einn, sem þrumaði í þeim, — slegið var á fleiri strengi, strengi vors og vonbrigða, ásta og íslenzkra þjóðsagna. Mátti því gera sér ýmsar hugmyndir um feril höfundarins, er hann þroskaðist.

Nú er komin út eftir hann önnur bók, er nefnist »Sprettir«. Er því ekki að neita, að framfarir hafa á orðið frá Snæljósum; skáldinu hefir vaxið orðkyngi og samanþjappað afl í ádeilum og lýsingum. En um leið hefir einhæfnin aukist; nú fer skáldið varla af baki éljafáknum, og stendur hagl um hann alla vega. Slíkar ádeilur þarf ekki að lasta, ef vel eru gerðar, og kuldanæðingurinn hefir sama rétt á sér, sem vorblíðan. Jakobi er nú einusinni þannig farið, að honum er sýnna um að láta skoðanir sínar og áhugamál uppi á neikvæðan en jákvæðan hátt. Hann hellir úr skálum reiði sinnar yfir það, sem honum finst aflaga fara eða ilt vera, þar sem sumir aðrir snúa hug og máli frekar til þess, sem þeir telja gott og fagurt. Báðar aðferðirnar eru í raun og veru eins og tvær hliðar á sama hlutnum.

Jakob bregður upp mörgum myndum. Þar má líta »son þokunnar«, dimmleitan og þungan á brún,

sem einskonar örlaga mölvun,
— ættliðsins níunda bölvun
træði hans lífdaga tún.

Eldabuskan horfir í glæðurnar, gömul og farin, lætur sig dreyma um forna sælu og svik, unz súpan brennur við, og húsfreyja rífur hana harkalega upp úr minningunum. Barnlaus hjón sitja saman, horfast sjaldan í augu, því að hugina er »tekið að fenna«. Ágæt kvæði eru og »Ásdís á Bjargi«, erfiljóðin eftir Skúla S. Thoroddsen alþm. og »Faraldur« (um inflúenzuna 1918).

En smekkvísin er ekki alveg áreiðanleg hjá skáldinu. Stundum spillir það góðum kvæðum með óþörfum vísum eða óviðkunnanlegum orðatiltækjum. Kvæðið »Hvað gefur þú?« er t. d. ágætt, ef síðustu vísunni er slept. Sama mætti e. t. v. segja um »Ásdísi á Bjargi«, að betra væri að sleppa seinustu vísunni, þótt hún sé góð út af fyrir sig; hún er óþarfur hali. »Umhleypingar« væri og betri, ef þar væri einnig feld burt seinasta vísan; þá heldur kvæðið þeirri »hundakæti«, sem í því á að vera, óskemdri af allri viðkvæmni. »Voðaskelfir vændiskvenna«, »hundsuð heit« o. fl. er líka all-ósnoturt. En eg ætla ekki í neina lúsarleit að slíku — vildi að eins benda á það, að höf. er mest þörf á að þroska smekkvísi sína — að öðru leyti hefir hann flest til þess að vera gott skáld.

**Jakob Jóh. Smári.**

**Jóhann Skjoldborg: Ný kynslóð.** Sveitasaga frá Jótlandi. Þýtt hefir Björg Þ. Blöndal. Rvík 1918.

Þýðing þessi er einn liðurinn í tilraunum síðustu ára til nánari kynningar með Íslendingum og hinum Norðurlandaþjóðunum. Er það mjög gott og lofsvert. Sagan er góð, enda höfundurinn alþekt skáld í Danmörku. Þýðingin virðist yfirleitt vel af hendi leyst. Trúi eg ekki öðru, en íslenzkum bændum þyki gaman að lesa um stéttarbræður sína í Danmörku, þótt lífskjörin sé að mörgu leyti ólík, sem von er. Og fyrir alla þá, sem sinna nokkuð kirkju eða trúmálum, er fróðlegt að lesa bókina, þótt höf. sé e. t. v. nokkuð einhliða í lýsingum sínum á heimatrúboðsfólkinu danska.

**Jakob J. Smári.**

**Prestafélagsritið.** Tímarit fyrir kristindóms- og kirkjumál. Ritstjóri Sigurður P. Sívertsen. Fyrsta ár 1919. Gefið út af Prestafélagi Íslands. Rvík 1919.

Riti þessu má fagna. Það er gleðilegt lífsmark frá prestastétt-

inni. Og nafn ritstjórans er full trygging fyrir því, að þar verði ekki vísvitandi blásið að neinum sundrungareldi, heldur reynt að sameina alla krafta, og ekki verið með óbilgjarna dóma, þótt einhver fari aðrar brautir, en hinar troðnu — eins og hann segir í ávarpi framan við ritið.

Ritgerðirnar eru eftir helztu guðfræðinga vora og auðsjáanlega til þeirra vandað. Þær eru þessar: Fremst er Ávarp ritstjórans, og síðan Sjálfvitund Jesú, eftir dr. theol. Jón Helgason biskup, Jóhannesarguðspjall, eftir Magnús Jónsson dósent, Prestarnir og æskan eftir síra Friðrik Friðriksson, Mannssonurinn, eftir Sigurð P. Sívertsen, Leitið fyrst guðsríkis, eftir síra Ásmund Guðmundsson, Um nokkur siðferðisboð Jesú, eftir sama, Hvernig verðum vér betri prestar?, eftir síra Bjarna Jónsson, Altarissakramentið eftir síra Gísla Skúlason, Rannsóknir trúarlífsins, eftir Sigurð P. Sívertsen, Sænska kirkjan, eftir Ásgeir kennara Ásgeirsson, Erlendar bækur, Prestafélagið, eftir Magnús Jónsson dósent, og loks Íslenzka kirkjan og samdrátturinn með þjóðkirkjum Norðurlanda, eftir Jón biskup Helgason.

**Jakob J. Smári.**

**Ordbog over det danske Sprog**, grundlagt af Verner Dahlerup. Med Understöttelse af Undervisningsministeriet og Carlsbergfondet udgivet af Det danske Sprog- og Litteraturselskab. I. Bd. (A-Basalt.) Kbhvn. 1919.

Þetta er fyrsta bindið af þeirri stóru orðabók yfir nýdanskt mál, sem próf. Verner Dahlerup byrjaði að safna til árið 1901, en var afhent Bókmentafélaginu danska til umsjónar og útgáfu árið 1915. Á hún að sýna rithátt orðanna, framburð þeirra í ríkismáli, beygingu, sögu og uppruna — og ennfremur merkingar þeirra og starfsvið, skýrt með tilvitnunum í allar greinir bókmentanna. Starfa við hana einir sjö fastir ritstjórar, auk margra hjálparmanna, og er gert ráð fyrir, að samning og útgáfu hennar geti ekki orðið lokið fyr en að sautján árum liðnum.

Danir eiga ýmsar eldri orðabækur yfir mál sitt (t. d. Molbech's orðabók, útg. 1859, orðabók Vísindafélagsins, 1793—1905, o. fl.), en þær þykja nú úreltar og samsvara ekki kröfum tímans, eða þær ná aðeins yfir sérstök svið málsins, t. d. götumálið, mál lægri stéttanna í borgunum. Þeir eiga og ágæta alþýðlega orðabók, þar

sem er Dahl og Hammer: Dansk Ordbog I—II (1907—14). En þá vantaði vísindalega orðabók, er væri nokkurskonar fjársjóður eða forðabúr málsins nú á tímum, í líkingu við hinar stóru og góðu orðabækur, sem nágrannaþjóðirnar eru að gefa út.

Eftir þessu bindi að dæma er orðabókin mjög góð og frágangur allur hinn prýðilegasti, innra og ytra. Á að koma út eitt bindi á ári, og kostar hvert þeirra 12 krónur. Er það ákaflega ódýrt, sem sjá má af því, að þetta fyrsta bindi, sem út er komið, er 592 tvídálkaðar blaðsíður í stóru broti, auk formála, sem nær yfir 52 síður.

Jakob Jóh. Smári.

**Arne Möller: Sönderjylland efter 1864.** Udgivet af Dansk-islandsk Samfund. Khöfn 1919.

Vér Íslendingar höfum því miður ekki gefið hinni suðurjózku þjóðernisbaráttu þann gaum sem skylt er. Og þeir munu fáir vera á meðal vor, sem hafa haft áhuga á að kynna sér hana til hlítar. Vor eigin stjórnmálabarátta á að líkindum sök á samúðarleysinu, sem í því birtist; því að annars brestur oss Íslendinga sízt samúð með þeim bræðrum vorum úti um heiminn, sem eiga við ófrelsi og kúgun að stríða. En hafi nokkur þjóðflokkur verið hart leikinn í því tilliti, þá eru það Suðurjótar. Frá þeim degi er hertogadæmin Slésvík og Holtsetaland fyrir örlaganna rás gengu undan Dönum árið 1864 og voru seld Prússanum á vald með Pragarfriðnum, hefir öll meðferð prússnesku stjórnarinnar á þeim miðað að því, að bæla niður hið danska þjóðernið, sem bjó með hinum aldanska hluta íbúanna, og allar menjar þess, er geymdust hjá hinum eftir margra alda sambúð þeirra við Dani. Í 5. gr. friðarsamninganna í Prag var ákvæði þess efnis, að hinum aldönsku íbúum norðurhéraðanna í Slésvík skyldi gefinn kostur á að láta í ljósi með atkvæðagreiðslu hvort fylgja vildu Dönum eða Þjóðverjum. En það ákvæði var að engu haft og loks, móti guðs og manna lögum, felt úr gildi af Þjóðverjum 1878. Eftir það var svo unnið enn ósleitilegar að útrýmingu danska þjóðernisins, og dönsku íbúarnir þar syðra beittir allskonar kúgun og misrétti, og það einatt með þeim hætti, sem blátt áfram gegnir furðu á vorum »mannúðar-tímum«.

Frá öllu þessu er skýrt ljóst og greinilega í þessari ágætu bók prestsins Arne Möller, sem er rituð af honum með sérstakri hliðsjón á íslenzkum lesendum, þeim er dönsku lesa og skilja. En þar er ekki síður ágætlega lýst þrautseigju og þoli, stefnufestu og sigurvonum Suðurjóta í þessari baráttu þeirra, órjúfanlegri trygð

þeirra við þjóðerni sitt og tungu og óbifanlegri trú þeirra á sigur góðs málstaðar áður lýkur. Manni getur ekki annað en hitnað um hjartaræturnar við að kynnast þessum ósveigjanlegu mönnum, sem engar tálsnörur eða freistingar geta fengið til að hverfa af réttri braut. Frásagan er einkar lifandi, en þó látlaus. Höfundur kostar kapps um, að láta staðreyndirnar sjálfar tala og við það eykst bókinni mikillega sannfæringarvald. En það sem öllu öðru fremur gerir bókina svo aðlaðandi og grípur mest hug lesendannna, það eru lýsingarnar á þeim forvígismönnum Suðurjótanna, sem þar eru leiddir fram á sjónarsviðið. Sæl er sú þjóð, sem slíka forvígismenn á sem Suðurjótar hafa átt í baráttu sinni! Það hefir verið þeirra mikla hamingja í öllum þrengingum þeirra að geta fylkt sér utan um aðra eins ágætismenn eins og gamla Hans Krüger frá Bevtoft, Åhlmann og Junggren, Gustav Johansen, Flensborgar-Jessen og Hansen-Nörremölle. Enda reyndust þeir samlöndum sínum hinir ágætustu forvígismenn í einu og öllu, hver á sinn hátt. Það eitt út af fyrir sig að maður kynnist lífi og starfi sumra þessara manna í bók Möllers gefur henni hið mesta gildi.

Þegar þetta er ritað, stendur hin eftirþráða atkvæðagreiðsla fyrir dyrum þar syðra. Skoðanir manna hafa að vísu verið ærið skiftar um, hvar heppilegast væri fyrir Dani, að hin nýja landamæralína yrði dregin. Um það má ávalt deila. Aðalatriðið er að línan verði dregin svo, að Dönum verði endursameiningin eigi hefndargjöf og fagnaðarspillir. Því að fögnuður þeirra er mikill yfir þeirri von, sem nú hefir, fyrir viðburðanna rás, snúist í svo fulla vissu. En um fram alt eru það þó Suðurjótarnir sjálfir, sem með fögnuði hugsa til þess að sameinast aftur bræðrum sínum fyrir norðan ána, en á þeim fögnuði furðar sig enginn, sem les hina ágætu frásögu Arne Möllers í bók hans, er nú verður ókeypis dreift út yfir landið til allra félagsmanna dansk-íslenzka félagsins.

Dr. J. H.

---

# Ísland 1919.

Á þessu ári hefir fátt gerst þeirra stórtíðinda, er skapi því nokkra verulega sérstöðu í innra eða ytra lífi þjóðarinnar, eða skeri það að mun úr flokki annara meðalára. Að vísu má þetta ár, eins og alt yfirstandandi tímabil yfirleitt, að ýmsu leyti teljast tímamótaár hérlendis sem annarstaðar, þó ekki komi það beinlínis fram á ytra borði sögunnar. — Ýms gömul höft og illar aðstæður ófriðaráranna eru smámsaman að leysast og hverfa og nýtt ástand að skapast í þess stað. Og nýr skriður hefir komið á ýms mál, eða málaflokka, sem í framtíðinni getur haft djúptæk áhrif, hver svo sem þau verða.

Tíðarfar á árinu hafir verið í meðallagi. Fyrst eftir áramótin var allmikið frost víðast, 10—15 stig austanfjalls, oftast nær — en annars gott veður. Í öndverðum febrúar tók þó aftur að hitna í veðri sunnanlands, og var þá oft 6—10 stiga hiti í Reykjavík. Á Norðurlandi voru þá hins vegar frost og kuldar, oft upp undir 20 stig, og að áliðnum febrúar fór einnig að kólna á Suðurlandi, og gerði þar þá mikla snjókomu. Hélzt svo þessi tíð um skeið, eða þangað til í miðjum marz, að hláku gerði um land alt. Voru þá víða þrumuveður nokkur og meiri en að jafnaði er venja til, svo að orð var á gert. En ekki urðu skemdir teljandi. Upp úr þessu fór aftur að snjóa og kyngdi niður snjónum þungt og þétt, einkum í öndverðum apríl. Féllu þá snjóflóð allvíða um land; á Austfjörðum runnu flóð úr fjöllum bæði í Reyðarfirði og Eskifirði og urðu þau að fjörtjóni einni stúlku á fyrra staðnum. Í Seyðisfirði féll flóð rétt utan við Búðareyri, og færði á kaf íbúðarhús eitt, sem þó var mannlaust í þann svipinn. Fluttist þá fólk um tíma úr þeim húsum kaupstaðarins, sem talin voru í mestri hættu. Í Skutilsfirði hljóp líka snjóskriða, úr fjallinu andspænis Ísafjarðarkaupstað, eyddi þar smáhúsi við ströndina og drap eitthvað af fé í fjörunum. Mesta snjóflóðið hljóp þó úr Staðarhólsfjalli, við

Siglufjörð austanverðan, aðfaranótt hins 12. apríl. Var þá blindhríð í firðinum og hafði dengt niður fönninni dögum saman og hlaðið hengisköflum í fjallbrúnirnar. En þeir hröpuðu um nóttina, sem áður var nefnd, og veltust yfir ströndina andspænis kaupstaðnum og út á sjó. Á ströndinni sópaði flóðið burtu með sér níu húsum einnar síldarstöðvarinnar og þurrabúð þar í nánd, en eitt hús lítið stóð eftir. Þá fór flóðið yfir bæinn Neðri-Skúta og færði hann í kaf. En þó tókst samdægurs að bjarga heimilisfólkinu, 7 manns, úr flóðhrönninni. En í hinum húsunum fórust 9 manns. Þegar skriðan kom á sjó út af ströndinni, gerði hún þar mikla flóðbylgju og þunga, og veltist hún yfir þveran fjörðinn, og skall með svo miklu afli á ströndina kaupstaðarmegin, að margar bryggjurnar þar brotnuðu, en flestar löskuðust eitthvað. — Snjóflóð féllu einnig víðar um þetta leyti, og gerðu allmikinn usla á löndum og fénaði, en manntjón varð ekki að. T. d. féll flóð að Leikskálum í Dölum á annan í páskum. Um páskaleytið hafði líka gert hláku um land alt ofan í fannburðinn. Þó fór fljótt að kólna aftur, og í apríllok varð vart við hafís nokkurn undan Sléttu. Í maíbyrjun var kuldi um land alt, en smáhlýnaði eftir því sem á leið mánuðinn, og um miðjan maí fór jörð að grænka, og í mánaðarlokin var sæmilegt gróðrarveður um land alt. Í miðjum júní gerði rigningar sunnanlands, en annars voru þurkar, og síðari hluta júlímánaðar var víðast hvar, einkum sunnanlands, bezta sumarveðrátta, en tók aftur að rigna í öndverðum ágúst, nema austanlands. Mögnuðust síðan rigningarnar og urðu mestar um miðjan ágúst. Féll þá t. d. aurskriða í Öxnafellslandi í Eyjafirði og eyddi allmiklu engi. Um 20. ágúst hættu rigningarnar og rauk hann þá upp í rok og kulda. Fuku þá víða hey til skemda. Hausttíðinni skifti nokkuð í tvö horn. Um Suðurland var hún sæmileg, um Vestur- og Norðvesturland »óslitin gæðatíð«, en eystra var haustið sagt »óhemju leiðinlegt og óstilt«. Um miðjan nóvember gerði allmiklar hlákur um Suðurland, og hélzt síðan skapleg veðrátta, það sem eftir var ársins. Þó gerði garra og stórviðrishrynur nokkrum sinnum, en varð ekki langætt né að stórtjóni, nema á Ísafirði um miðjan nóvember. Þá brotnaði þar skipabryggja í stormviðri og tók út um 500 síldartunnur fullar. En þær munu hafa náðst aftur. Skiptapar nokkrir urðu í ýmsum þessum veðrum, og verða þeir taldir síðar.

Eins og vænta mátti af þessu veðráttufari voru búnaðarhorfur ekki ýkja glæsilegar á árinu, og þó ekki verri víðast en á horfðist,

því að ýmsu leyti átti búnaður við ramman reip að draga, þar sem voru eftirköst frá síðasta ári. Á Suðurlandi víðast var alveg haglaust fyrst framan af árinu. Oft var líka kvartað undan því að aska væri í rótinni og innanum grasið, og bar nokkuð á tannskemdum á fénaði þess vegna. Kalskellur voru einnig all-algengar í túnum, og sneggjusamt víða, t. d. í Borgarfirði. Var því heyfengur fremur lítill um þær slóðir og nýttist ekki vel allstaðar. Þá hrakti hey allmikið víða og fauk, eins og fyr segir. En nokkuð hefir það bætt úr þessu, að fleiri bændur tóku nú upp votheysgerð en áður var. Um norðvesturland var grasspretta fremur rýr fram eftir sumri. Rættist þó úr túnasprettu vonum framar er á leið júlímánuð, og mun töðufengur bænda víðast um þær slóðir hafa orðið rétt rösklega hálfdrættingur á við sæmileg góðæri. Engjaspretta var aftur minni, en þó kjarngóð heyin, það sem þau voru, víðast. Á Austurlandi varð heyafli aftur á móti góður, og garðauppskera sæmileg. Var þar gerð mikil aukning garðræktarinnar og fullnægir nú heimauppskeran víðast þörfum manna.

Kvefpest nokkur gerði sumstaðar vart við sig á sauðfé og einhverskonar kúasýki kom upp í Vestmannaeyjum, en mikið tjón varð ekki að.

Að öðru leyti hefir aðstaða landbúnaðarins verið svipuð og árinu áður. Kostnaður við vinnufólkshald og verð á afurðum hefir yfirleitt lítið breyzt frá því í fyrra, en skýrslur um þetta í einstökum atriðum eða fjárreiður landbúnaðarins í heild, eru enn ekki til fyrir þetta ár, sem hér ræðir um.

Sama er að segja um verzlun landsins og sjávarútveg, að nákvæmar og sundurliðaðar upplýsingar um hag hans og ástand á árinu er enn ekki unt að fá, enda er skamt liðið ársins. En yfirleitt koma allar slíkar skýrslugerðir svo seint og silalega á þessu landi, að þær hljóta að tapa töluvert hagnýtu gildi sínu í daglegu viðskiftalífi. Og sumar koma svo seint, að manni flýgur nærri fyrst í hug, að þær ættu fremur heima í Fornbréfasafninu en Hagskýrslunum.

Á þessu ári hefir skipulag verzlunarinnar meira og meira verið að færast í sama horfið og var áður en ófriðurinn skall á. Landsverzlunin hefir verið að færa saman kvíarnar, og takmarkanir eða eftirlit með inn- og útflutningi að hverfa. Þannig var frá 1. júlí frjáls útflutningur á öllu, nema hrossum. En hrossasöluna tók atvinnumalastjórnin í sínar hendur, og lét útflutningsnefndina sjá um hana, og voru hrossin seld til Danmerkur. Þá tók stjórnin

einkasölu á kolum í janúarmánuði og á korni í febrúar, en að öðru leyti hafði stjórnin ekki lengur bein afskifti af verzluninni. Einnig má það teljast með bættum ástæðum verzlunar og viðskifta, að illræmdri skeytaskoðun Breta var létt af 23. júlí.

Um siglingar og sjávarútveg er það að segja fyrst, að floti landsmanna var svipaður á þessu ári og árið áður og samgöngur álíka, og beindust siglingarnar og þar með viðskiftin í sömu áttir og fyr, sem sé til Danmerkur og Ameríku. Farmgjöld voru lækkuð hjá Eimskipafélaginu á öndverðu árinu, og nam sú lækkun um 37—47 kr. á hverja smálest.

Aflabrögð hafa verið sæmileg víðast. Í janúar var góður afli sunnanlands og í aprílbyrjun komu flest seglskipin við Faxaflóa með ágætisafla, 30—50 þúsund á skip, og í nóvember var mokafli við Vestfirði. En töluvert hefir þorskurinn nú snúið á sjómenn og fiskifræðinga, því nú lætur hann draga sig sílspikaðan við Vestfirði, þegar menn bjuggust sízt við honum um þær slóðir.

Botnvörpungaflotinn hefir aukist á árinu um 3 skip og 14 önnur eru í smíðum, 11 í Englandi og 3 í Þýzkalandi, og yfirleitt aflað sæmilega, en sala fiskjarins gengið misjafnlega. Í janúar seldi Víðir afla sinn fyrir 7199 sterlingspund, og mun það hæsta verð, sem fengist hafði til þess tíma. Í febrúar gekk salan miklu ver, og fengu botnvörpungarnir, sem þá fóru, að eins um hálft verð, og kom það af verkföllum og þar af leiðandi samgönguteppu þar sem selja átti fiskinn, sem sé í Englandi. Þá horfðist einnig illa með fisksöluna eftir brezku samningunum.—Bretar vildu, þegar til átti að taka, að eins kaupa þann fisk, sem samið hafði verið um með lægra verðinu. Megnið af því, sem eftir var, var þó að lokum selt einum manni í Rvík fyrir 272 kr. skippundið.

Síldveiðin gekk heldur treglega. Í maí—júní varð nokkuð vart síldar í Faxaflóa, og var höfð útgerð úr Reykjavík í fyrsta skifti í því skyni, og munu hafa aflast um 6 þúsund tunnur. En síldin þótti rýr, og talið tap á útgerðinni. Annars var síldveiðin rekin á fyrri veiðistöðvum við Norður- og Norðvesturland, og telja margir að síldin muni vera að færast vestur og suður með landinu. Nokkur verkafólksekla var um tíma í veiðistöðvunum, og var sumstaðar um tíma boðið 5 kr. í kaup um tímann, ef fólk fengist. — Áreiðanlegar skýrslur um aflann eru ekki til, en í vertíðarlok var talið svo, að aflast hefði á Siglufirði 77 þúsund tunnur, á Vestfjörðum 28 þúsund tunnur, á Ströndum 25 þúsund tunnur og á Eyjafirði 40 þúsund tunnur. Auk þess kváðu Norðmenn hafa

tekið utan landhelgi um 45 þúsund tunnur. Ekki hefir þó sala síldarinnar gengið vel, því megnið af henni er óselt enn. Manna á milli er það þó haft fyrir satt, að útgerðarmenn hafi átt kost á því að losast við síldina fyrir sæmilegt verð, en flestir hafnað því, í von um annað verð enn sæmilegra. Er t. d. sagt, að á einni útgerðinni, sem þó er hvergi nærri stærst, hefði gróðinn á þessari sölu getað orðið um 400 þúsund krónur, en þótti full-lítið.

Í sambandi við sjávarútveginn má einnig minnast á það, að stofnað var á árinu innlent sjóvátryggingafélag með 1 milj. kr. höfuðstól.

Kaupgjaldskjör við botnvörpungaveiðarnar voru ákveðin með samningi verkmanna og vinnuveitenda í ársbyrjun þannig: stundi skip ísfiski og sigli til útlanda, er kaupið 75 kr. á mánuði og 50 kr. í dýrtíðaruppbót. Ef skip stundar saltfiski er fasta kaupið sama, að viðbættum alls 40 kr. fyrir hvert lifrarfat, og ef síldveiðar eru stundaðar, að auki 5 aurar fyrir hverja fullpakkaða tunnu. Sömuleiðis voru skipaeigendur skyldir til að tryggja sjómenn sína gegn stríðshættu.

Nokkurt skarð hefir einnig höggvist í skipaflotann á árinu og mannskaðar orðið. 21. janúar fórst vélbáturinn Hersir frá Sandgerði með 5 mönnum, og seinast í janúar fórst bátur úr Eyrarsveit á Snæfellsnesi, einnig með 5 mönnum. 5. febrúar fórst bátur úr Vestmannaeyjum og druknuðu 5 menn. Var þá stórviðri svo mikið í Eyjunum að eitthvað brotnaði af símastaurnm. 17. apríl strandaði enskur botnvörpuugur á Bakkafjöru. 24. ágúst sökk enskur botnvörpuugur við Öndverðarnes. 2. október fórst vélbáturinn Alfa út af Dalatanga. Sama dag fórst bátur frá Norðfirði með 4 mönnum. 9. október strandaði seglskipið Ása við Hvalsnes. 23. október fórst timburskipið Activ hjá Knararnesi á Mýrum. 18. desember strandaði Valkyrien á Skerjafirði. Í desemberlok sökk vélbáturinn Sigurfari í stórviðri á legunni á Akranesi.

Verkakaup hefir hækkað mikið á árinu. Í janúar fengu daglaunamenn tímakaup hækkað upp í 90 aura og í 1.15 fyrir helgidagavinnu og næturvinnu, og var það talin 200% hækkun frá því fyrir stríð. En í októberlok hækkaði tímakaup enn meira, sem sé upp í 1.16. Múrarar höfðu 1.25 um tímann og 2.00 fyrir eftirvinnutíma.

Á þessu ári kom alþingi saman í júlí og sat þangað til síðast í september. Það hafði til meðferðar alls 127 lagafrumvörp og 37 þingsályktunartillögur, en afgreiddi 67 lög og 19 þingsályktunar-

tillögur. Flokka-afstaðan á þessu þingi var sú sama og á þinginu á undan, nema að langsummenn voru ekki í kosningabandalagi við heimastjórnarmenn, heldur sérstakir, ásamt þremur flokksleysingjum. Heimastjórnarmenn voru því 15, sjálfstæðismenn 9, framsóknarflokksmenn 8, langsum-menn 4 og flokksleysingjar 4.

Af málum, sem fyrir þinginu lágu, voru, auk fjárlaganna, þessi helzt: stjórnarskrárbreyting, launamál, fossamál og berklaveikismál. Á stjórnarskránni voru gerðar ýmsar breytingar, sem nauðsynlegar þóttu vegna breyttrar aðstöðu landsins fyrir nýja sáttmála frá 1. desember f. á. Launamálin voru mikið rædd fram og aftur og voru laun langflestra opinberra starfsmanna hækkuð nokkuð.

Hæstaréttardómstjóri hefir nú 10 þús. kr. á ári en aðrir dómarar hæstaréttar 8. þús. Sýslumenn og bæjafógetar hafa að byrjunarlaunum 4200 upp í 5000 kr. á ári, sem smáhækka svo upp í 5200 til 6000 kr. Jafnframt eru þó teknar af þeim allar aukatekjur. Landlæknir hefir að byrjunarlaunum 6 þús. kr., sem smáhækka upp í 7 þús. kr. á ári. Héraðslæknar hafa í föst laun frá 2500 kr. upp í 3500 kr. hækkandi upp í alt að 4800 kr. Biskupinn hefir sömu launakjör og landlæknir, en prestar hafa 2000 kr. að byrjunarlaunum, sem hækka um 200 kr. á þriggja ára fresti upp í 3000 kr. Háskólaprófessorarnir hafa að byrjunarlaunum 4500 kr., hækkandi upp í 6000. Landsbókavörðurinn hefir 4500 kr., hækkandi upp í 5500 kr. og sömu laun hafa ríkisskjalavörður og þjóðmenjavörður. Auk þess fá allir embættis og sýslanamenn landsins dýrtíðaruppbót, fyrst um sinn til ársloka 1925, þó svo, að laun og dýrtíðaruppbót má ekki nema meiru samanlagt en 9500 kr. á ári, nema hjá hæstarjettardómurum 10500.

Fossamálin eru alkunn og höfðu verið rannsökuð af milliþinganefnd, en hún klofnað, og þingið afgreiddi ekki heldur málin til fullnustu nú. Sérleyfislagafrumvarp hafði komið fram og var því vísað til stjórnarinnar til nánari athugunar, og sömuleiðis till. um, að ríkið næmi vatnsorku í Sogi. Í berklaveikismálinu var samþykt að fela stjórninni að skipa nefnd til að rannsaka útbreiðslu berklaveikinnar og gera tillögur um varnir gegn henni. Síðar á árinu voru skipaðir í þessa nefnd þeir Sig. Magnússon yfirlæknir, Magnús Pétursson héraðslæknir og prófessor Guðm. Magnússon. Í miðjum ágúst bað forsætisráðherra Jón Magnússon konung um lausn fyrir alt ráðuneytið, en tók þó að sér að gegna embætti samkvæmt þingvenju og beiðni, unz ný stjórn væri mynduð. En sú

stjórnarmyndun tókst ekki og situr því gamla stjórnin. Í desember fóru fram nýjar kosningar, og varð þá allmikil breyting á skipun þingsætanna.

Af öðru því, sem á árinu gerðist, má geta þess, að stofnað var í Reykjavík félag til að halda uppi samvinnu og samúð milli Íslendinga austan hafs og vestan. Er annað slíkt félag einnig stofnað meðal Vestur-Íslendinga. Veitti Alþingi félaginu nokkurn styrk og var síðan maður fenginn héðan til fyrirlestrahalds í Íslendingabygðum vestra.

Þá má geta þess, að í septemberbyrjun var opnuð í Reykjavík fyrsta almenna, íslenzka listsýningin. Voru þar sýnd 90 verk, eftir 15 höfunda, þar af 1 Vestur-Íslending: 67 málverk og teikningar, 22 líkneski og 1 hústeikning.

Ennfremur má taka það fram, að í Reykjavík var komið upp á þessu ári Radíumstofnun, og söfnuðust til þess með samskotum um 150 þúsund kr. og fekk stofnunin um 200 milligr. af radium.

Á þessa ári var einnig fyrsta doktorspróf haldið við háskólann. Varði þar cand. jur. Páll E. Ólason rit um Jón Arason og hlaut doktorsnafnbót í heimspekilegum fræðum. Sama nafnbót var um leið veitt prófessor Jóni J. Aðils í heiðurskyni.

Einn atburður var og á þessu ári, sem nýlunda þótti. Var þá fyrst flutt flugvél til Reykjavíkur, af nýstofnuðu flugfélagi. Voru nokkrar flugsýningar hafðar og flogið með farþega um nágrenni bæjarins.

Á þessu ári var landsyfirrétturinn lagður niður lögum samkvæmt, og er stofnaður hæstiréttur í hans stað. 31. marz var haldinn í Fredensborg fyrsti alíslenzki ríkisráðsfundurinn, og voru þar bæði forsætisráðherra og fjármálaráðherra, og báru þeir upp fyrir konungi stjórnarfrumvörpin.

Bókaútgáfa hefir aukist mikið aftur á þessu ári, en hún hafði minkað mikið undanfarin ófriðarár.

Að lokum ber að geta þess, þó slíkt sé nú ekki talið með stórviðburðum hjá »mentuðu fólki«, að á þessu ári varð dómsdagur, þ. e. a. s. reykvíksku dagblöðin höfðu það eftir »mjög merkum« amerískum stjörnufræðing, að heimsendir yrði 17. des. Greip þá ótti og angist margan mann, sem ekki þóttist hafa sinn innra mann í þeim sparifötum, sem hæfði slíkum hátíðisdegi. Þó urðu fá stórtíðindi um daginn, nema að hið mesta stórviðri gekk þá yfir að minsta kosti Suðurland víðast. Og þegar þetta er skrifað, er það haft »eftir áreiðanlegum heimildum« að dómsdegi sé frestað »um óákveðinn tíma«.

Nokkuð hefir verið kvillasamt, en þó ekki gengið neinar stórplágur. Í Reykjavík gekk taugaveiki í janúar, en þó fremur væg. Í febrúar höfðu þó um 60 manns lagst og í október gaus hún aftur upp.

Af mannalátum á árinu skal getið þessara: Prófessor, dr. litt. isl. et. phil. Björn M. Ólsen 16. jan., frú Þrúður Thorarensen og frú Halla Guðmundsdóttir 10. jan., Edward Runólfsson 18. jan., Guðmundur Hjaltason 26. jan., frú Jakobína Thomsen 30. janúar, Jakob Hálfdánarson 30. janúar, Guðrún Guðmundsdóttir Brautarholti 14. febr., Jóhannes Zoega 19. febr., Bjarni Ögmundsson Miðengi 20. febr., Haraldur Ólafsson Briem í febr., Oddur Ögmundsson Rvík 24. febr., frú Steinunn Sívertsen 4. febr., Páll Halldórsson 11. marz, síra Pétur Þorsteinsson Heydölum 11. marz, Guðmundur skáld Guðmundsson 19. marz, frú Sigríður Thordersen 30. marz, Valborg E. Þorvaldsdóttir á Auðshaugi 15. apríl, frú Thora Melsted 21. apríl, Jónína Þorkelsdóttir Rvík 26. apríl, Dagmar Tómasdóttir Rvík 8. maí, frú Kristín Blöndal Siglufirði 11. maí, frú Jóhanne Jónsson Rvík 23. maí, frú Jófríður Guðmundsdóttir Rvík 22. maí, Guðrún Snæbjörnsdóttir Siglufirði 25. maí, Ólafur Björnsson ritstjóri 10. júní, Ólafur Amundason kaupm. 1. júlí, Helgi Helgason Blönduósi 12. júlí, Lárus Pálsson prakt. læknir 16. ág., Jóhann Sigurjónsson skáld 31. ág., frú Sigríður Árnadóttir Rvík 22. ág., Jónas Árnason Reynifelli 28. ág., Guðrún Brynjólfsdóttir Vestmannaeyjum 14. sept., Margrét Eiríksdóttir Lækjamóti 17. ág., frk. Lovísa Ólafsdóttir Fáskrúðsfirði 22. ág., Pétur Pétursson Bollastöðum 17. sept., Grímur Jónsson Ísafirði 29. seft., frú Helga Árnadóttir 11. okt., Eyþór T. Kjaran Rvík 25. okt., Páll V. Jónsson frá Akureyri 28. okt., Sigurður Gamalíelsson frá Skorradal 22. okt., Arni Jónsson kaupm. Ísaf. 9. nóv., Kristján Jónsson Marteinstungu í nóv., Sveinn Sveinsson Rvík 23. nóv., Grímur Guðnason 29. nóv., Björn Oddsson frá Vopnafirði 5. des., frú Anna Gudmundsen Vestmannaeyjum 2. des., Aðalsteinn Magnússon frá Grund í des., Jón Norðmann 11. des., Sig. Sigurðsson læknir Búðardal 9. des., Hjálmar Sigurðsson kaupm. Stykkishólmi 11. des., Anton Arnason skipstjóri 27. des., Þorv. Sívertsen Stykkishólmi 21. des., frú Sigrún Jónsdóttir Kolfreyjustað 23. des.

Í jan. 1920.

V. Þ. G.

---

# Vizka hefndarinnar.

Það var þriðja júlí 1917, dag, sem bar oss ein þeirra tíðinda, sem eru svo hörmuleg og svo grimm, að þau fjötra tungu vora og sýkja hjarta vort. Þessi tíðindi eru eins og sjúkdómur, sem fær hjartanu langt of mikið að starfa, af því að hann hefir gert önnur líffæri verkvana. Með sínu eigin ofboði kæfa þau um stundar sakir uppreist vora gegn ofboði þeirra.

Eg var staddur í skjótustu hraðlest heimsins — *The Flier* milli Chicago og New-York. Eg man enn, að þarna í salnum, sem var um nóttina ekki annað en löng göng af tjölduðum lokrekkjum og snemma morguns snúið upp í notalega dagstofu, var eg að hugsa um, að það væri alls ekki þessi dagstofa, hvað þá heldur hraðinn, sem mér þótti stinga mest í stúf við járnbrautarlestirnar í Evrópu. Það var miklu minni hégómi. Það var Pullmans-bikarinn: innsigluð, vatnsheld, heilnæm drykkjuumslög.

Förunautar mínir voru að lesa eða spila *póker*. Eg gerði hvorugt. Eg tapa alt af í póker, og nærgætni mín við konur er þeirrar tegundar, að eg les ógjarnan í járnbrautarlest. Eg sit í járnbrautarlest eins og eg sit í kirkju: með hugann fastan við, hve nær eg eigi að standa upp.

Eg tók eftir að það var ef til vill einn maður í salnum, sem líkt var farið, fríður maður sýnum, aldraður, alhvítur á hár. Við sátum andspænis hvor öðrum með borðið á milli okkar. Við tveir einir höfðum setið svo lengi þögulir, að lengri þögn hefði orðið að kvalræði. En það eitt vissi eg um hann, þegar lestin stöðvaði, að hann var biskup frá New-York.

Lestin stöðvaðist í Pittsburg.

Blaðasveinarnir þyrptust inn í vagnana og hrópuðu upp hver í kapp við annan, hrópuðu eins og amerískir blaðasveinar einir geta hrópað, hrópuðu með cent-hljómi í hverri samstöfu: KVÖLDBLÖÐIN . . . LÝÐVELDIS-STRÁDRÁP Í EAST ST. LOUIS . . . ENGINN SVERTINGI EFTIR Í BORGINNI . . . ALLIR DREPNIR . . . BRENDIR, SKOTNIR, GRÝTTIR . . . EAST ST. LOUIS FLÝTUR Í BLÓÐI . . . EITT CENT . . .

Þeir hrópuðu ekki upp nöfnin á blöðunum. Það eitt sem raddir þeirra virtust tjá, var þetta: — »Hvert hróp, sem veitir mér ekki eitt cent, er hrópað til einskis«. Þeir höfðu inn eitt cent fyrir hvert hróp.

Lestin rann af stað, hljóðlaust, gaumlaust. Stöfunum í nafnbrík stöðvarinnar fækkaði; það var alt, sem við tókum eftir. Lestin rann af stað.

Blaðasveinarnir voru horfnir. Enginn sá þá hverfa, en horfnir voru þeir. Lestin rann af stað.

Hrópin voru þögnuð, það var enginn lengur, sem hrópaði. Við héldum á blöðunum í höndunum. Þeir, sem lásu, voru hættir að lesa. Þeir, sem spiluðu, voru hættir að spila. Lestin rann af stað.

Við héldum á blöðunum í höndunum . . .

Það var eins og orðin, sem við lásum, tæki stökk upp úr pappírnum og þrýsti að kverkum okkar:

East St. Louis hefði í gærkveldi — 2. júlí — verið einn blóðbeður, þar sem hundruð saklausra negra höfðu verið skotnir, brendir, grýttir og á annan hátt píndir til bana af hvítum borgarbúum; þar sem hvítir menn gintu eða rændu marghleypu hvers svertingja úr höndum hans, til þess að skjóta hann með henni á eftir; þar sem hvítt fólk kveikti eld í húsum svertingjanna hundruðum saman; þar sem hvítir menn ráku hóp af svertingjum út í vík fyrir utan borgina og stjökuðu niður hverju höfði, sem upp kom, unz allir voru druknaðir; þar sem hvítar konur hrifsuðu úr faðmi blakkra mæðra smábörnin, sem þær vildu bjarga úr logandi húsunum, snöruðu barninu lifandi

inn í eldinn og héldu tryltri móðurinni með valdi, þangað til óp barnsins voru hætt — og hrundu svo móðurinni á bálið. Þessum grimdarverkum létu blöðin enga aðra skýring fylgja en þá, að hinir hvítu borgarbúar hefði alt í einu orðið helteknir af æðislegu kynhatri, og að þeir ætluðu sér að hreinsa borgina að svertingjum.

Við lestur þessara fregna hafði hver einstakur í hópnum litið upp í byrjun, alveg ósjálfrátt, til að inna hinum samferðamönnunum frá þessum hryllilegu nýjungum. en það leið ekki á löngu áður en hvern okkar, sem upp leit, setti hljóðan við að sjá á svip hinna, að við höfðum ekkert nýtt að inna. Það hafði slegið sama óhug á alla.

Jafnvel eftir að við höfðum lagt frá okkur blöðin, fylgdi löng þögn. En svo þegar einn byrjaði að tala, töluðum við allir. Við reyndum að gera okkur grein fyrir einhverri dýpri ástæðu til þessa skyndilega samblásturs, og hver kom með sína getgátu. En við gátum ekki skilið orsök hans, við gátum að eins harmað afleiðingar hans.

. Það var að eins einn maður í hópnum, ungur lögmaður, sem virtist ekki snortinn minstu vitund af lestri þessara fregna. Hann hélt áfram að handleika spilin á borðinu, eins og hann biði þess með óþreyju að geta farið aftur að spila.

Annar af sessunautum hans, sem hafði auðsjáanlega tekið eftir hátterni hans, sneri sér nú rakleitt að lögmanni:

— Það, sem undrar mig mest, sagði hann, er, að þessi grimdarverk virðast vera framin, ef ekki beinlínis undir vernd yfirvaldanna í East St. Louis, þá að minsta kosti án nokkurrar íhlutunar af þeirra hendi.

Ungi lögmaðurinn tók loksins spilin saman á borðinu, stakk þeim í vasa sinn og mælti:

— Við lásum í blöðunum fyrir fáeinum mánuðum, að *Aluminum Ore Packing Company* hefði flutt inn svertingja *en masse* frá Suðurríkjum, til að hnekkja verkfalli hvítra manna. Það er ekki ólíklegt, að það hafi blásið að kolunum. En hvort sem þessi gremja hvítu íbúa borgar-

innar er makleg eða ómakleg, er það sannfæring mín, að endurminningin um 2. júlí í East St. Louis muni þjóta eins og stormviðri yfir ríkin og verða negrunum að geigvænlegri áminningu um það, að þetta land er áskilið hvítri menning og ekki svartri villimensku. Já, það er merguririnn málsins, bætti hann við: Það, sem missist við þetta uppþot, er að eins nokkur hundruð svertingja líf; það, sem ávinst, er einmitt alment skelkunarfordæmi fyrir svarta skrílinn, sem getur orðið háskalegur lýðveldismenning okkar.

Mér blöskraði kynhatrið, sem lýsti sér í orðum hans. En eg ályktaði, að úr því að heil borg gat gripið til slíkra hryðjuverka, sem eg hafði lesið um, var ekkert undarlegt, að einn af kynbræðrum þeirra gæti tjáð sig á þennan veg.

Eg var reiðubúinn til svars, þegar eg sá að biskup færði sig ofurlítið nær lögmanni. Biskup hafði hingað til lítinn sem engan þátt tekið í umræðunum. Hann hafði lesið blað sitt allan tímann og lagði það fyrst frá sér nú, þegar hann heyrði ályktunarorð lögmannsins unga.

— Eg heyrði, ungi vinur minn, sagði hann með rólegu brosi og sneri sér að lögmanni, að þér töluðuð um skelkun í sambandi við þessi nýfrömdu hryðjuverk í Illinois. Eg heyri aldrei það orð svo, að það veki ekki hjá mér endurminningu um ógleymanlegasta atvik lífs míns. Ef þér hafið ekki á móti því, eg segi yður frá því.

— Með ánægju, greip lögmaður fram í. Og við hinir fluttum okkur allir einu sæti nær sæti biskups.

Biskup sat hljóður eitt andartak, eins og til að meta þá eftirvænting, sem við biðum með frásagnar hans, líkt og íþróttamaðurinn hnitmiðar hæðina áður en hann tekur stökkið. Og þegar hann tók til máls, var frásögn hans skipuleg, reiprennandi, með vandlega völdum orðum. Það var auðheyrt að þetta var atburður, sem hann hafði margoft sagt frá áður:

— Eg var ekki nema tíu ára gamall drengur og átti heima í Suður-Virginíu, þar sem faðir minn átti stórar

baðmullarekrur. Það voru átta mílur inn til bæjarins, og eg fekk oft að aka með föður mínum, þegar hann fór þangað í verzlunarerindum. Einn sumardag, um nónbil, þegar við höfðum ekið af stað úr bænum, heyrðum við alt í einu að vagn með tveim hestum fyrir kom í Lendingskasti á eftir okkur á veginum. Það leið ekki á löngu áður en vagninn dró okkur uppi, og við sáum að ökumaður hafði svarta grímu fyrir andlitinu. Þegar Sam, blakkur vagnstjóri, sem var hjá okkur, sá þennan grímubúna stallbróður sinn, rak hann upp hátt óp, og fór allur að skjálfa. Í sama vetfangi þaut vagninn framhjá, með sjö mönnum í, öllum með grímu, og höfðu í milli sín ungan svertingja í böndum, sem var afskræmdur í framan af hræðslu.

Eg sat við hliðina á föður mínum, og þegar eg hafði séð þennan grímubúna hóp, hafði eg ósjálfrátt falið hönd mína í hans hendi. Undir eins og eg var viss um að þeir gæti ekki heyrt til mín, spurði eg hvaða menn þetta hefði verið. Faðir minn vissi það ekki En hann vissi hver bandinginn var.

Það var morðinginn Jack Miller.

Þessi ungi svertingi hafði fyrir nokkrum kvöldum framið hryllilegt morð á hvítri stúlku, ekki langt þaðan, sem við nú vorum staddir. Hann hafði mætt henni þar seint um kvöld þegar hann kom frá vinnu með skóflu á öxlinni. Hann hafði misþyrmt henni, og síðan drepið hana og grafið hana niður.

Þetta ódæði hafði vakið hyldjúpa andstygð allrar sveitarinnar, ekki að eins á morðingjanum, heldur á kynbræðrum hans yfirleitt. Í augum allrar sveitarinnar var svertinginn, sem mætti hvítu stúlkunni þetta kvöld, ekki annað en dýr, sem slepti öllu sínu villieðli lausu, þegar það kom auga á bráð sína. Hann réðst á hana af grimd og drap hana af mannvonsku.

Eg hafði vitanlega á þeim aldri engan skilning á slíkum hlutum. En síðan hefi eg oft reynt að ráða fram úr rúnum þeirra tilfinninga, sem báru manninn ofurliði

þetta kvöld, og eg hefi fundið að þær voru ekki síður mannlegar, þó að þær væri ægilegar. Hvíta stúlkan, sem kemur þarna á móti honum, hún er ekki að eins mannleg vera, hún er freistingin í mannlegri mynd. Hún er freistingin á göngu. Hún ber með sér það gjald, sem hefir verið lagt til höfuðs honum og hans kynbræðrum. Þetta hvíta hörund, einn koss af þessum vörum, eitt faðmlag við þennan líkama — það er h n o s s i ð, s e m v e r ð u r e k k i h ö n d l a ð Og þarna gengur hún. Enginn sá þau. Nú eða aldrei á hann kost á að kanna þann unað, sem er metinn svo dýrt, að fullnæging þess unaðar heimtar blóð hans. . . . Hörundið hvíta verður hvítara; hann stenzt ekki freistinguna. Hann tekur konuna í faðm sér. Og þegar hann sleppir henni, flýtir hún sér burt. Hingað til hefir athöfn hans verir stjórnað af tilfinningunni einni, nú vaknar hugsun hans. Konan, sem hleypur frá honum, hleypur með dauðadóm hans í hverju fótmáli. Ef hún kemst burt og segir frá — hann nemur staðar í miðri hugsun, hann strýkur hendinni um hnakkann, hann finnur þegar til reipisins um háls sér. Ef hann á að geta bjargað lífi sínu, verður hún að deyja. Hann á dauðann vísan, ef hún lifir. Það eru líkur til hann lifi, ef hún deyr. Hann treystir þessum líkum. Og hann þýtur á eftir henni, leggur rýting sínum í hjarta hennar og grefur lík hennar.

En eins og eg sagði áðan: svona hugsaði eg ekki þar sem eg sat í vagninum, tíu ára gamall, við hliðina á föður mínum. Þá var »morðingi« óttalegasta orðið í málinu, og barnshugurinn reyndi örvona og árangurslaust að samrýma þá hugmynd við allar þær mannlegu þjáningar, sem eg hafði lesið í ásjónu hans.

Við höfðum naumast ekið helminginn af leiðinni, þegar við komum auga á stóra mannþyrpingu framundan okkur, ekki meira en steinsnar frá veginum. Faðir minn vildi vita, hvað um var að vera, og við stigum út úr vagninum og gengum inn í hópinn. Einn af kunningjum föður míns, sem þar var staddur, vatt sér að honum og

flýtti sér að segja honum nýjungarnar: Þetta var staðurinn, þar sem morðið hafði verið framið. Fanginn hafði verið ákaflega þrjózkur og ekki viljað viðganga, en þennan sama morgun hafði lögreglan tekið hann með sér hingað út, og þá fyrst er hann kom á vettvanginn og sá grófina, þar sem líkið hafði legið, hafði honum fallið allur ketill í eld og hann játað á sig glæpinn. Lögreglan hafði svo flutt hann með sér á næstu járnbrautarstöð til að senda hann í varðhaldið. En rétt í því er lestin átti að fara, höfðu átta grímubúnir menn, hver með sína marghleypu í hendinni, ruðst inn í brautarklefann, þar sem fanginn sat í handjárnum milli tveggja lögregluþjóna, fjötrað gæzluverðina, tekið fangann með sér, og ekið í hendingskasti út úr bænum . . .

Eg heyrði ekki meira af því, sem hann sagði; því öll mín athygli dróst að hárri járnstöng, sem hafði verið rekin niður á miðri flötinni, og stórum sæg af blökkum piltum, sem stóðu í hvirfing kring um stöngina.

Rétt í þessu var fanginn leiddur fram, allsnakinn, ókennanlegur, altjargaður í gljáandi biki frá hvirfli til ilja. Hann var bundinn við staurinn með járnfestum á þrem stöðum: öklum, mitti og herðum. Svo lutu fjórir menn niður að fótum hans, og í sama bili kvað við angistaróp svo sárt, að það sneið sig eins og lagvopn gegnum múginn. Óp og hræðsla og grátur barnanna blandaðist við þetta kvalahróp, og þegar fyrsta glóandi bálbogann lagði upp um þennan tjargaða kveinandi líkama, urðu grátstafir barnanna að einradda sogandi öldu, sem reis og hneig með hverju kvalahljóði bandingjans.

Að lokum, þegar allir kveinstafir voru hljóðnaðir, gekk fram hvíthærður öldungur, staðnæmdist frammi fyrir börnunum, dró athygli hvers þeirra að sér með því að hefja upp vísifingurinn, og mælti:

»Þér sveinar af blökku blóði! Þér hafið verið gerðir sjónarvottar að þessum atburði hér í dag til þess að minna yður á, að svona mun fara fyrir hverjum yðar eða yðar niðja, sem ásælist hvíta konu«.

Eftir þetta var lostið upp merki, og mannfjöldinn þusti af stað, og var horfinn á svipstundu. En líkami svertingjans hélt áfram að brenna. Þegar lögreglan kom á staðinn, var ekki eftir nema sviðin beinagrind. Það var ekki fyr en þeir lutu niður að lélegri fatahrúgu, að þeir gátu sanngreint fórnardýrið. — — —

Biskup þagnaði og strauk hendinni snögt yfir augun eins og til að flæma burt skuggann af svo hryllilegri bernskuminning.

Þá sagði lögmaður, um leið og hann rankaði við upptökunum að frásögn hans:

— Það er ekki sennilegt, að nein af þessum börnum hafi gert sig sek í sama glæpnum. Það er afar-sennilegt, að þessi atburður hafi orðið þeim langt of minnisstæður til þess.

— Hann varð þeim minnisstæður, svaraði biskup fljótt og rólega, eins og hann hefði búist við þessari ályktun. Það er einmitt sá hluti frásagnar minnar, sem eg á eftir.

Og hann hélt áfram máli sínu:

— Það eru nú liðin um þrjátíu ár síðan eitthvert flóknasta og illkynjaðasta samsæris-mál í glæpa-annálum þessa lands kom fyrir dómstólana í New-York

— Þér eigið við Ben Lawson-illþýðið, greip lögmaður fram í.

— Já, eg á við það. Þá hafið þér ekki verið fæddur. Jú, eg á við þetta stóra, svarta, ósýnilega samsærisfélag, sem virtist hafa gert fáránlegar og ástæðulausar ofsóknir gegn hvítum mönnum, konum og börnum að sínu eina markmiði. Þetta félag, sem leit út fyrir að hafa teygt hramm sinn út yfir gervöll ríkin, og aldrei lét nein vegsummerki eftir sig önnur en svarta grímu yfir andliti líksins. Og svo var foringinn hneptur. Eg var viðstaddur mestalla málsviðureignina. Ben Lawson var ungur svertingi úr minni sveit, sem eg hafði oft séð í æsku. Hann vissi, að hann var dauðadæmdur og hafði ekkert lengur að dylja. Hann sagði frá þessum sama atburði, sem eg hefi lýst fyrir ykkur og lauk máli sínu á þessum

orðum: »Eg var einn af þessum hundrað saklausu blökkubörnum, sem hvítu þorpararnir höfðu kvatt saman til að horfa á þennan djöfullega sjónleik. Frá þeim degi sór eg kyni ykkar eilífa hefnd«.

Já, það mætti halda, hélt biskup áfram, að svo átakanlegt fordæmi hlyti að brenna sig inn í sál hvers sjónarvottar og verða honum að æfilangri viðvörun, æfilangri skelkun. Það komst upp við Lawson-málið, að nítján af samsæris-félögum hans voru úr hóp þeirra hundrað barna, sem horfðu á Jack Miller vera brendan. Það var ekki viðvörun, ekki skelkun, það var hatur og hefnd, sem brendi þennan dag mark sitt inn í sál þeirra. Og trúið mér, kæri ungi vinur minn, öldurnar af Ben Lawson-kölluninni eru ekki hjaðnaðar enn.

Biskup hallaði sér aftur í sætinu. Svo veik hann sér skyndilega aftur að lögmanni og spurði:

— Eruð þér úr Suðurríkjunum?

— Eg er úr Suðurríkjunum.

— Einmitt það . . . Og þetta villibál hatursins frá East St. Louis, virtist hann spyrja sjálfan sig, hver slekkur það?

Hann dró Pullmans-bikar upp úr vasa sínum, lauk upp innsiglis-röndinni, stóð á fætur og gekk inn í handlaugina. Þegar hann kom inn aftur, lásu menn aftur og spiluðu þar til lestin stöðvaði í New-York, og við áttum að hverfa inn í borgina, þar sem ljósið er bjartast og myrkrið dimmast.

*Guðmundur Kamban.*

---

# Elías Lönnrot og Kalevala.

Eftir dr. theol. *Jón Helgason* biskup.

---

Nl.

Vorið 1831 hafði Lönnrot fyrir áeggjan bókmentafélagsins lagt af stað í nýja könnunarferð. En áður en hálfnuð var leiðin, barst honum skipun frá heilbrigðisráðinu í Helsingfors þess efnis að hverfa tafarlaust heim aftur, því að Asíu-kóleran væri komin til landsins. Hlýddi Lönnrot þeirri skipun samstundis, en ógeðfelt var honum að hætta við ferð sína. Gerðist hann nú nokkra mánuði kóleru-læknir á sjúkrahúsi í Helsingfors og kóleru-vörður í Borgå og sveitunum þar umhverfis. Gekk hann fram með hinum mesta dugnaði og ósérhlífni, sýktist jafnvel sjálfur og sveif vikutíma milli heims og helju, en líkamlegur hraustleiki hans varð, sem betur fór, dauðanum hér yfirsterkari. En þegar hægði um og sóttin leið úr landi, var orðið of áliðið sumars til að takast ferð á hendur á nýjan leik.

En hið næsta vor lagði Lönnrot af stað jafnskjótt og ísa leysti af vötnum. Fór hann sem fyrri fótgangandi víðsvegar um norður og austur hluta landsins og komst nú alla leið til Kyrjálalands, finska hlutans. Varð árangurinn af ferðinni með afbrigðum góður — meiri en hann hafði nokkuru sinni getað dreymt um. Nú barst upp í hendurnar á honum fjöldi áður óþektra hetjukvæða og kendarljóða, en auk þess afarmikill fróðleikur annar af ýmsu tæi um líf og háttu Kyrjála, bæði í félagslegu tilliti, trúarlegu, þjóðfræðilegu og þjóðmenjalegu. Þá um haustið 1832 losnaði héraðslæknisembætti eitt langt norður í landi,

í Kajana við Ouloujärvi-vatn. Sótti Lönnrot um embættið og fékk það. Mörgum þótti þetta undarlega af sér vikið. En Lönnrot hafði sinn ákveðna tilgang með þessu. Honum þótti það bagalegt að eiga heima suður í Helsingfors, svo mikill tími sem í það fór að ná þaðan til þeirra héraða, þar sem helzt var eftir því gulli að grafa, sem honum lék hugur á að ná úr þjóðar-jarðveginum En í Kajana var hann námunda við Kyrjála sína, bæði hina finsku og rússnesku, er bjuggu í sveitunum suður af Hvítahafinu, og hjá þeim vænti hann sér mestu kvæðauppskerunnar. Að öðru leyti hafði Kajana ærið fátt til síns ágætis. Það var óþrifalegt húsahverfi, sem naumast verðskuldaði bæjarnafn, þótt bær ætti að heita Svo var bænum lýst af kunnugum: »Í Kajana eru götur tvær; aðra þeirra fara svinin þegar rignir, hina borgararnir þegar fært þykir«. Þetta voru höfuðgöturnar og má þá nærri geta hvernig hinar smærri hafi verið.

Hér settist Lönnrot að og kunni þar brátt hið bezta við sig, enda var næði hér hið bezta til að stunda þá iðju, sem honum var ljúfust Þótt verkahringurinn væri víðáttumikill, var tiltölulega litið um ferðalög — þyrftu menn að finna lækni, þá var farið til hans eftir hollum ráðum og læknandi lyfjum. Annars voru Finnar menn til að hjálpa sér sjálfir í ótal tilfellum með heimagerðum lyfjum, yfirlestri, signingum og særingum. Væri Lönnrot hins vegar sóttur út um sveitirnar, þá gátu læknisferðirnar orðið honum bezta leið til að vinna jafnframt fyrir hugðarefni sín. Hann gat altaf búist við að hitta á þeim ferðum þá menn, sem hann helzt vildi hitta menn sem þrátt fyrir þröng í búi og mikla fátækt bjuggu þó við þann auð, sem hann vænti svo mikils af fyrir alt menningarlíf þjóðar sinnar á komandi tíð. Hér við bættist svo, að í Kajana var aðalverzlunar-miðstöð þessa landshluta Þangað komu bændur norðan úr sveitum í verzlunarerindum á kauptíðinni og gat þá Lönnrot fyrirhafnarlítið náð tali þeirra, fræðst af þeim, og skrifað upp eftir þeim ef svo heppilega vildi til, að þeir voru góðir kvæðamenn. Enda

auðgaðist Lönnrot þegar á fyrsta ári dvalar sinnar í Kajana að fjölda kvæða og kvæðabrota, og gat þegar tekið að vinna úr því, sem að honum barst. Við vini sína í Helsingfors stóð hann í bréfasambandi og skýrði þeim frá öllu sínu starfi, en þeir biðu óþolinmóðir eftir að sjá árangurinn af því.

Á öðru ári dvalar sinnar í Kajana sýktist Lönnrot mjög hættulega. Barst sú fregn jafnvel suður til Helsingfors, að hann væri dáinn. Vinum hans var það að vonum hin mesta sorgarfregn, og skáldkona ein orti erfiljóð eftir »finska söngva-svaninn«.[1]) En svo komu nýjar fréttir norðan frá Kajana, er sögðu Lönnrot vera orðinn albata, og þóttu það gleðitíðindi hin mestu. Á þessum árum óx nú og margfaldaðist safn Lönnrots af hetjukvæðum, kendarljóðum, gátum og leikjum, og dag frá degi fullkomnaðist þekking hans á tungu, lífi og háttum þessara barna eyðiskóganna miklu, sem svo trúlega höfðu haldið fast við siðu og lífsvenjur forfeðra sinna frá elztu tímum. Og heima var hinn ungi læknir vakinn og sofinn í að rannsaka allan þennan fræðaforða, sem hann safnaði saman á sumarferðum sínum, raða niður hinum margháttuðu kvæðabrotum og skeyta saman það er saman heyrði, sérstaklega að reyna að koma því í samstæða heild, sem kveðið hafði verið um hverja aðalhetju, þannig að viðburðirnir rækju hvor annan í sem eðlilegastri röð. Þegar árið 1833 var hetjukvæða-safn hans orðið 5000 ljóðlína kvæðabálkur í 16 flokkum. Finska bókmentafélagið gerði

---

[1]) „Erfiljóðin“ voru svo hljóðandi (og bera þau fagran vott um, hvert álit menn þá þegar höfðu á Lönnrot):

„Väinämöinen hängde i din krona
sjelf sin lyra opp,
bjöd dess stränger öfver nejden tona
från din friska topp.

Men dess toner fingo ej i gruset
länge stanna quar,
därför kallade dig upp till ljuset
sångens Himla-far.“

honum þá tilboð um að prenta á sinn kostnað það, er þegar væri safnað. En Lönnrot færðist undan að taka því boði, því að ætlun sín væri að reyna að »koma öllum þessum hetjukvæðum sínum í eina samfelda heild ef takast mætti að skapa úr því eitthvað í líkingu við Eddu Íslendinga«.

Þess er áður getið, að von Becker hefði fyrstum hugkvæmst að safna öllum kvæðabrotum, sem hann þekti um Väinämöinen í eina söguljóðaheild. Lönnrot færist nú í fang það, sem meira er, sem sé að koma öllum þessum hetjukvæðum um »sonu Kalevu« í eitt samfelt hetjuljóðakerfi í líkingu við kvæði Hómers og Eddu Íslendinga. Við starf sitt, að útgáfu »Kantele« ljóðanna, hafði hann fengið góða æfingu í að bræða saman mismunandi útgáfur sama kvæðisins eða að vinna úr þeim með þeim hætti að leggja sameiginlegan stofn þeirra allra til grundvallar, skeyta svo inn í hann, því er ein útgáfan hafði fram yfir aðra og skapa þann veg nýja kvæða-heild, þar sem alt komst að, er samrýmst gat meginstofninum, og þeir leshættir, sem sennilegastir þóttu, þar sem um fleiri var að velja, voru teknir upp. En jafnframt hafði hann á ýmsa vegu heflað kvæðin, bæði að máli og kveðandi svo sem honum þótti bezt fara á.

Þessari sömu aðferð beitir hann nú líka við hetjukvæðin. Hve seinlegt verk þetta var og fyrirhafnarmikið, er auðráðið af því, að hver nýr rannsóknarleiðangur, sem hann tókst á hendur, gerði óumflýjanlegt, er heim kom, að umsteypa á ýmsa vegu því, er áður var búið að ganga frá, vegna nýrra ljóðafunda í hverri ferð. Með öðrum orðum: hver ný ljóðaleitar-ferð kostaði hann einatt margra mánaða endurritunarstarf. En vandvirknin og vinnuþrekið var hvorttveggja rétt takmarkalaust.

Í apríl 1835 er hann þó búinn að ganga svo frá öllu, að hann áræðir að senda finska bókmentafélaginu hetjuljóða-handrit sitt. Hefir hann valið safninu heitið »*Kalevala* eða karelskir söngvar um fornöld

Finna«. En »Kalevala« nefndist landið, þar sem helztu söguhetjurnar áttu heima.

Þessi fyrsta útgáfa finska hetjuljóðasafnsins er venjulega nefnd »Gamla Kalevala«, til aðgreiningar frá næstu útgáfunni, er birtist mjög aukin og umbætt 14 árum síðar (»Nýja Kalevala«). Hún hafði inni að halda 32 kvæði, samtals 12078 ljóðlínur. Var útkomu þessa safns tekið með hinum mesta fögnuði svo sem einhverjum mesta stórviðburði í sögu finskra bókmenta Margir, og þá fyrst og fremst finskir bókmentafélagsmenn hugðust þar sjá fagran vísi merkilegrar þjóðlegrar þróunar, sem verða mundi, er tímar liðu fram, fegursta blaðið í sögu finskrar menningar, sem og varð.

En Lönnrot áleit sizt sínu mikla verki lokið með þessu. Svo víða sem hann hafði farið um bygðir Finnlands hafði honum þó enn ekki unnist tími til að komast í samband við ýmsa kvæðamenn, sem hann hafði haft spurnir af; auk þess átti hann enn eftir að ferðast um rússneska hlutann af Kyrjálalandi; en þar hafði hann mjög sterkt hugboð um, að geymdust ljóða-fjársjóðir enn dýrmætari en þeir, er til þessa hafði tekist að grafa upp. Þess vegna hélt hann starfi sínu áfram hin næstu ár og kom þá margt í leitirnar — fleira jafnvel en hann hafði nokkuru sinni gert sér vonir um. Nú höfðu honum líka vakist upp ýmsir áhugasamir aðstoðarmenn, er fóru um bygðirnar eftir því sem hann lagði fyrir, og var honum hinn mesti stuðningur að því. Það leið þá ekki heldur á löngu áður en kvæðasafn hans hafði aukist svo að nýjum ljóðum og ljóðabrotum, að fylsta þörf varð á nýrri, aukinni og endurbættri. útgáfu og það þess heldur sem fyrsta útgáfan mátti heita uppgengin. En svo mörg járn hafði Lönnrot í eldinum, að hin nýja úgáfa dróst til 1849. Lönnrot hafði sem sé ekki einskorðað sig við hetjuljóðin sögulegu, heldur hafði hann jafnframt verið að vinna úr hinu mikla safni sínu af kendarljóðum, orðskviðum og gátum. Árið 1840 lét hann birtast á prenti afarmikið safn finskra kendarljóða, er hann nefndi *»Kanteletar«* (þ. e.

dóttir kantelunnar) eða fornir söngvar og kvæði finsku þjóðarinnar«, samtals 21007 ljóðlínur. Er það safn næst Kalevala frægast talið allra hinna þjóðlegu ritverka Lönnrots. Tveim árum síðar birtist »finska orðskviðasafnið« (Suomen kansan sananlaskuja) 5000 spakmæli og orðskviðir — og enn tveim árum síðar þriðja safnið »Gátur hinnar finsku þjóðar« (Suomen kansan arvojtuksia) — 1200 gátur, þjóðsögur o. fl. — Sést á þessu hver dæmalaus elju- og afkastamaður Lönnrot var, þar sem hann jafnframt þessu hafði embætti að gegna sem læknir, samdi og gaf út á þessum árum allstóra lækningabók handa alþýðu og hélt út blaði — »Mehilainen« — sem hann að mestu ritaði sjálfur. Og þó varði hann hverju sumri að meira og minna leyti til ferðalaga í þarfir þeirrar hugsjónar, sem hafði altekið hann. Hve mikið hafði safnast á þessum árum, frá því er fyrsta útgáfan birtist á prenti, sést bezt á stærðarmun útgáfnanna. Í n ý j u Kalevala, sem birtist árið 1849, eru kvæðaflokkarnir orðnir 50 samtals í 22805 ljóðlínum. Hið merkasta af því, er þessi nýja útgáfa hefir fram yfir hina eldri, eru svonefndir *Kullervó*-söngvar. Til þeirra hafði einn af ötulustu aðstoðendum Lönnrots, Daniel Evropæus, safnað og sent kvæðameistaranum alt það safn til afnota við hina nýju útgáfu ljóðanna.

Áhugi alls almennings á þessum þjóðlegu fræðum var nú orðinn það meiri en áður, að Nýja Kalevala fékk þegar mikla og skjóta útbreiðslu bæði meðal lærðra manna og leikra. Henni var fagnað sem hinni mestu þjóðargersemi, er mundi á komandi tíð bera frægð Finnlands út yfir löndin, eins og líka kom fram. Finska bókmentafélagið hafði falið ágætismanninum M. A. Castrén að þýða gömlu Kalevala á sænsku (1841), en nýju Kalevala þýddi á sænsku K. Collan og kom sú þýðing út á árunum 1864—65. Jafnframt komu út þýðingar hennar á þýzku, frakknesku, ensku, ungversku, estnisku, rússnesku og tjekkisku, ásamt brotum á norsku og ítölsku. Úrvalskaflar hafa fyrir nokkurum árum verið gefnir út á dönsku í óbundnu máli (»Fra Kalevalas Lunde« eftir Evu Moltesen, Khöfn 1908).

Hvervetna hefir þessum fornkvæðum verið tekið með fögnuði og aðdáun og þeim verið skipað til sætis við hliðina á Hómersljóðum Grikkja og Eddukvæðum Íslendinga. Ameríku skáldið Longfellow hefir notað þau sem fyrirmynd, er hann orti »The Song of Hiawatha« út af þjóðsögum rauðskinna og yrkir það meira að segja undir sama bragarhætti. Bragfræðilegt höfuðeinkenni þessara finsku fornkvæða er, að hver ljóðlína er í átta samstöfum með fjórum tvíliðum (trocheum). Finska nafnið á slíkum kvæðum — »*runot*«, fleirtala af »*runo*« —, er skylt okkar »rúnir«. Flutningur kvæðanna var með þeim hætti að tveir kváðust á; sátu kvæðamenn (runolainer) hvor andspænis öðrum, héldust í hendur og réru fram og aftur eftir hljóðfalli söngsins. Var hér því um einskonar tvísöng að ræða. Sönglagið sjálft var í fimmskiftum deildum (töktum) og í fimmtónaröð (pentatonisk scala). Við hátíðleg tækifæri var svo leikið undir á kantelu. Hljóðstafir í hverju vísuorði skapa ljóðunum sérkennilegan hreim, sem hvergi ætti betur að geta náðst en á íslenzku. Auk þess einkennast ljóð þessi af hliðstæðum, þar sem sama hugsunin er endurtekin í tveimur — stundum fleiri — vísuorðum, að eins með öðrum orðum.

— — —

Hér hafði þá Lönnrot tekist að ganga svo frá þessum merka og mikla hyrningarsteini finsku bókmentanna, sem allir máttu vel við una og hann sjálfur ekki sízt; enda hefir engin breyting verið gerð á Kalevala síðan er þessi seinni útgáfa birtist, svo oft sem hún þó hefir verið útgefin rýnd og rannsökuð af hæfustu mönnum til þeirra hluta.

Skal nú stuttlega rakið meginefni þessa finska fornljóðasafns. En áður en eg sný mér að því skal tekið fram til skilningsauka, að viðburðirnir sem kveðið er um, gerast aðallega í tveimur löndum, suðurlandinu, er nefnist Kalevala, og norðurlandinu Pohjóla.[1]). En milli þessara

---

[1]) Lönnrot áleit, að Pohjóla væri það sem kallað er Bjarmaland í sögum vorum.

tveggja landshluta er ófriður mikill og um þann ófrið er sagan sögð. Helztu söguhetjurnar eru annars vegar þeir þrír »synir Kalevu« er byggja Kalevala: hinn spakvitri Väinämöinen, hinn léttúðgi Lemminkäinen og hinn listhagi Ilmarinen. Hins vegar kvenhetjan Louhi, drotning Pohjólalands, og dóttir hennar Pohjóla-mærin væna, sem synir Kalevu fella ástarhug til og keppa að ná í hvor eftir annan. Loks er að nefna hinn ólánssama Kullervó Kalervóson og meyna Ainó, sem bæði eru raunasálir sögunnar

Kvæðabálkur þessi eins og Lönnrot hefir frá honum gengið til fullnustu, hefst með því að sagt er frá sköpun veraldar og fæðingu aðalsöguhetjunnar, sjáandans og söngvarans ágæta Väinämöinens, frá upphafi jurta og dýralífs og fyrstu tilraunum hetjunnar til að rækta jörðina og gera sér hana undirgefna (1—2). Í næstu söngvunum segir frá því er hin aldraða hetja leitar sér kvonfangs, en mærin Ainó vill ekki taka honum eða þýðast hann, þrátt fyrir stuðning ættmanna hennar, og fyrirfer sér í bylgjum hafsins í örvænting sinni, til þess að hún verði ekki neydd til að eiga hann. Þvínæst er í 20 kvæðum skýrt frá tilraunum hetjanna þriggja frá Kalevala til að festa sér þann ágæta kvenkost, Pohjólu-meyna, dóttur Louhi drotningar Pohjólalands. Fyrst leggur Väinämöinen af stað til að freista gæfu sinnar, en verður sár í þrautum þeim, sem honum er boðið að vinna til þess að geta fengið meyjarinnar. Þá fer hinn listhagi Ilmarinen af stað í sömu erindum. Hann smíðar hina miklu töfravél Sampó, einskonar kvörn, sem malar eiganda sínum gæfu og gengi, auð og allsnægtir, en það hefir Louhi gert að skilyrði fyrir giftingunni. Þegar vélin er fullger og afhent drotningunni svíkur hún öll sín loforð og Ilmarinen hverfur tómhentur heim aftur. En kvörnin verður eftir og malar nú Pohjólalandi auð og allsnægtir. Nú reynir þriðja hetjan fyrir sér, hinn léttúðgi Lemminkäinen, en förin misheppnast hrapallega. Þrautinni, sem honum er boðið að vinna, að skjóta svan einn á Tuonelaelfu í undirheimum,

lýkur svo, að hann bíður sjálfur bana; en seinna tekst þó móður hans með afli kærleika síns að lífga hann aftur (11—15). Nokkru síðar halda þeir á nýjan leik til norðurlands, Väinämöinen og Ilmarinen, til þess að freista gæfunnar, ef betur mætti takast en áður. Lýkur þeirri för svo, að hinn listhagi Ilmarinen verður hinum vitra söngvara Väinämöinen hlutskarpari og fær meyjarinnar, eftir að hafa unnið þrjár miklar þrautir og ægilegar (16—19). Er þá slegið upp veizlu og brúðkaup haldið með miklum glaum og frábærum fögnuði, en hinn góðláti, vitri öldungur Väinämöinen eykur á fögnuð manna með dillandi sætum söng, er heillar alla, sem hlusta á (20—25). Í brúðkaupsveizlulok kemur Lemminkäinen norður þangað. Er hann sárgramur yfir, að sér hafi ekki verið boðið til brúðkaupsins, og þykir honum sér hafa verið stórlega misboðið með því. Hefnir hann nú harma sinna með því að vega húsbóndann. Það hermdarverk verður ógæfa hinnar léttúðgu hetju; því að upp frá þessu verður hann árum saman að fara huldu höfði um ókunna staði og ratar þar í ótal raunir. Þegar hann svo loks saddur rauna og svaðilfara kemur aftur heim til ættjarðar sinnar, hafa féndur hans tekið eigur hans, brent upp bæ hans og hrakið mædda móður hans allslausa út í óbygðir og eyðiskóga. Vill hann nú þegar koma hefndum fram vegna þessara hermdarverka, en nístandi kuldar og frosthörkur tálma fyriræetlun hans í bili (26—30).

Þá er um stund slitinn söguþráðurinn og í sex söngvum skýrt frá nýrri hetju, sem ekki hefir áður við sögu komið. Er það hinn ólánssami Kullervó Kalervóson, sem er fæddur til hefnda og sáir frækornum ófriðar og illinda, hvar sem hann kemur. Að því leyti til er hann viðkomandi sögu þeirra Kalevu-sona, að hann hefir ungur vistast hjá Ilmarinen og orðið valdur að dauða eiginkonu hans. Upp frá því eltir ólánið hann, hvar sem hann fer, og að síðustu gerist hann — óafvitandi þó — sekur um sifjaspell við systur sína. Þegar hann verður þess vísari hvern glæp

hann hefir framið, fær það honum þeirrar örvæntingar, að hann fyrirfer sér (31—36).

Upp frá þessu er efni allra söngvanna, nema hins síðasta, ófriður milli landanna Kalevala og Pohjóla. Þeir frændur, synir Kalevu, efna til mikillar herferðar aðallega í þeim tilgangi að ná töfravélinni Sampó, því að þeim blæðir í augum uppgangur Pohjóla-búa, sem vélin hefir flutt nægtir allra hluta, svo að þeir geta lifað áhyggjulausu lífi í hversdagslegum fagnaði. Á þeirri herferð smíðar hinn vitri söngvari Väinämöinen fyrstu »kanteluna« úr geddu-kjálka. Leikur hann á hana af slíkri fádæma list, að hreimur tónanna hrífur alla. Hin lifandi náttúra heillast af yndisleik þeirra, mennirnir komast við, svo að þeir fá ekki tára bundist, og jafnvel guðirnir verða frá sér numdir af fögnuði. Svo fara leikar um síðir, að þeir Kalevu-synir ná Sampó á vald sitt og halda með hana heim á leið. En Louhi drotning veitir þeim eftirför í arnarlíki og ræðst á þá; sekkur þá Sampó í sjávardjúp og mölbrotnar á mararbotni. Að eins örlitlum brotum úr henni skola öldur hafs upp að ströndum Kalevalalands, og verður það upphaf eilífs gengis og gæfu Suomíu (þ. e. Finnlands). Með óumræðilegum vísdómi sínum og styrkleika tekst Väinämöinen upp frá þessu að verja land sitt gegn öllum féndaárásum, svo að velferð þess er borgið um aldur og æfi. (37—49).

Í síðasta kvæðinu (50) vottar fyrir baráttu kristnu trúarinnar og heiðinna hugmynda landsins barna: Mærin Mariatta verður þunguð af því að eta týtuber í skógi og elur son. Väinämöinen dæmir sveininn til dauða, en fær ekki fram komið vilja sínum. Í stað þess er sveinninn skírður til konungs yfir Kyrjálalandi. Í sárri gremju yfir því að sjá öll ráð tekin úr höndum sér, fer hinn gamli vitri sjáandi af landi burt alfari, en skilur þó eftir kantelu sína og söngva, Finnlandi til ævarandi fagnaðar.

Svo einstakt er söguljóða-kerfi þetta í sinni röð, og svo aðdáanleg á köflum skáldleg fegurð þess, að engin

þjóðkvæði veraldarinnar munu í því tilliti taka því fram. Engin þjóðkvæði endurspegla betur lunderni þjóðarinnar, sem þau hefir framleitt, en Kalevala. Höfuðpersónan í kvæðunum sá vitri gamli Väinämöinen er persónugerving hins bezta og dýpsta í þjóðarlund og þjóðareinkunn Finna.

Meginyrkisefni ljóða þessara er smíði töfravélarinnar Sampó, hernám hennar og flutningur frá Pohjóla til Kalevala. Sennilega hafa a l l a r Pohjóla-ferðir þeirra Kalevusona — bónorðsfarirnar ekki síður en aðrar ferðir þeirra norður þangað — upphaflega verið farnar, að minsta kosti meðfram, í sama megintilgangi og sjálf hernámsförin: að ná þessum töfragrip úr höndum Pohjóla-búa, þótt það liggi ekki opið fyrir alstaðar. Meira að segja er útfærsla þessa meginyrkisefnis tiltölulega styttri en útfærsla ýmsra aukaatriða eða viðburða, sem í fljótu bragði virðast meginyrkisefninu óviðkomandi. Af þessu leiðir, að frá strangfagurfræðilegu sjónarmiði er ýmislegt út á Kalevalaljóðin að setja þegar á heildina er litið. En það sem þeim má til foráttu finna, þegar sá mælikvarði er á þau lagður, verður þó ærið léttvægt, þegar litið er á skáldlega fegurð þeirra og yfirburði og til hinnar frumlegu og sjálfstæðu meðferðar efnisins. Hugsanlegt er, að vísindalegar samanburðarrannsóknir eigi fyrir hendi að uppgötva — eins og þegar hefir tekist að uppgötva — ýmis atriði söguefnisins í Kalevala, er ekki verði þar upprunaleg talin, heldur aðfengin. Hitt verður þó altaf jafn ómótmælanlegt, að þjóðin, sem framleitt hefir þetta mikla ljóðakerfi, hefir til fulls tileinkað sér hið aðfengna og mótað það svo sem sína eigin eign.

Höfuðeinkenni Kalevalaljóðanna, eins og svo margra annara þjóðkvæða, er annars vegar hve einföld þau eru og ljós, en þó hins vegar þróttmikil. Eins og tekið var fram, endurspegla þau fagurlega þjóðarlund Finna. Angurblíðan er einn höfuðþáttur hennar. Hið hrikalega og stórfelda er finsku ljóðadísinni, eins og hún birtist í Kalevala, fremur ógeðfelt. Þegar hún segir frá blóðsúthell-

ingum eða hryðjuverkum gerir hún það í sem fæstum orðum, eins og flýtir sér að hverfa frá því aftur. En höfuðyndi hennar er aftur að útmála það, sem fegurst er í manneðlinu, t. d. móðurástina í ýmsum myndum hennar. Í nánu sambandi við það er lotningin fyrir heimilinu, sem skín fram hvervetna í ljóðunum. Kemur þetta bezt fram þar sem verið er að lýsa viðkvæmum tilfinningum brúðarinnar, sem er að kveðja heimili sitt, til þess sjálf að setja nýtt heimili á stofn, eða foreldra hennar og aðstandenda, sem keppast hvor við annan að gefa henni góð og holl ráð, til þess að heimilið nýja, sem hún nú á að skapa sjálfri sér og manni sínum, geti sem bezt bætt henni upp missi æskuheimilisins í foreldrahúsunum og orðið sem sönnust eftirmynd þess í flestum greinum.

Sem vikið var að, er finska ljóðadísin lítt elsk að blóðsúthellingum. Fyrir því er það sjaldnast með sverðinu, sem finsku hetjurnar vinna afreksverk sín. Venjulega vinna þeir þau með krafti orðsins, sérstaklega í söng. Vitur er sá, sem hefir »upprunaorðið« á valdi sínu — og með því sigrar hann allar þrautir. Í því var þá líka fólginn styrkleiki Väinämöinens, að hann þekti upprunaorð flestra hluta. Og þegar hann, sem fyrir gat komið, bíður lægra hlut í einhverri viðureign við fjandmenn sína, þá er ástæðan venjulega sú, að hann vantar eitthvert upprunaorðið. Því að svo vitur sem hann er, þá er hann ekki alvitur.

Loks er eitt megineinkenni þessara ljóða hið afarnána samband náttúrunnar og mannanna. Öll náttúran tekur innilega þátt í kjörum mannanna, »fagnar með fagnendum og grætur með grátendum«, ef svo mætti segja.

Því miður leyfir rúmið mér ekki að orðlengja frekar um þetta stórmerka og nú heimsfræga ljóðasafn Finna. Aðalatriðið fyrir mér var það, að gefa mönnum lítilsháttar hugmynd um ljóð þessi og það afreksverk, sem Lönnrot hefir unnið með því að safna öllu þessu og skeyta það saman í jafndásamlega heild og það birtist í hér, og

þá um leið að sýna, hvaða þakkarskuld þjóðin finska er í við þennan sinn ágæta son, fyrir starf hans að því að skapa annað eins ritverk. Hér skal ekki heldur út í þá sálma farið, hverjum beri að réttu lagi að eigna Kalevala, sjálfum safnandanum, eða finsku þjóðinni. Sjálfur hefir Lönnrot svarað þeirri spurningu á þá leið, að hann hafi að eins verið »penni hinnar syngjandi þjóðar«, þar sem hann sjálfur ætti ekki svo mikið sem tvær ljóðlínur í hinu geysimikla safni. Hið eina, sem sér bæri heiður fyrir, væri að hafa safnað efninu saman úr ýmsum áttum, skeytt saman, það er saman ætti, og myndað heildarverk úr þeim mörgu þúsundum kvæðabrota. Mætti segja að þjóðin sjálf hefði verið tekin að semja Kalevala áður en Lönnrot kemur til sögunnar, þar sem ýmsir kvæðamenn höfðu þegar á undan honum skeytt saman í minni sínu á margan hátt það er þeir höfðu numið af öðrum. Lönnrot fullkomnar svo verk þessara mörgu kvæðamanna, sem hann ritar upp eftir. Hann verður sjálfur fjölfróðasti og mesti kvæðamaður Finna við það að tileinka sér það, er allir þeir mörgu kvæðamenn áttu, sem hann og aðrir náðu til. »Þegar eg var kominn svo langt í kvæðakunnáttu minni, segir hann, að enginn gat við mig jafnast í þeirri grein, þá áleit eg mér ekki síður heimilt en öðrum finskum kvæðamönnum að raða niður kvæðunum eins og mér þótti bezt fara á því, eða eins og segir í þjóðkvæðinu:

»Själf begynte jag besvärja
själf jag började att sjunga« —

þ. e. eg áleit mig vera engu lakari kvæðamann en hina«.

Kalevala er þannig verk finsku þjóðarinnar, en Lönnrot sá, er skapar ljóðunum það heildarsnið, sem þau birtast í. Hann var að vísu góðskáld sjálfur, en hér hefir hann alveg samlífað sig kveðskap þjóðar sinnar og leiddur af næmri fegurðartilfinning sinni skapað honum þann búning, er efninu sómdi, er berast skyldi alheimi lista og menta til eyrna. Og með þessu hefir hann smíðað þjóð sinni þá Sampó, sem er og verður enn dásamlegri en sú,

er hinn listhagi Ilmarinen smíðaði, og aldrei mun sökkva í sjávardjúp gleymskunnar, meðan finsk tunga er töluð.

Úr Kalevala hefir hin unga finska þjóð ausið sér andlegan þrótt, og hin unga finska menning nýja krafta til vaxtar og þjóðlegrar þróunar. Hún hefir innblásið listamenn þjóðarinnar, skáld hennar og rithöfunda, og er því sann-nefnd grundvöllur hinnar finsku nútímamenningar. Og þótt svo færi, sem vonandi aldrei verður, að finska þjóðin hyrfi úr tölu þjóðanna og finskt þjóðerni liði undir lok, þá mun Kalevala standa eftir sem fagurt og óbrotgjarnt minnismerki andans kraftar hinnar finsku þjóðar og gera nafn hennar ódauðlegt meðal þjóðanna, og þá um leið nafn hans, sem gaf heiminum Kalevala-söngvana, til ævarandi gleði þeim, er slíkt kunna að meta.

Saga Lönnrots, eftir að hann hafði lokið þessu afreksverki sínu, er fljótsögð, að minsta kosti skal hér fljótt yfir sögu farið.

Árið eftir að nýja Kalevala kom út, var Lönnrot boðin kennarastaða í finskri tungu og þjóðlegum fræðum við Helsingfors-háskóla. En ekki þáði hann það boð. Mælti hann í þess stað sterklega með einum lærisveina sinna og vina til þeirrar stöðu, og fékk sá hana. Það var Castrén, er áður var nefndur sem þýðandi gömlu Kalevala á sænska tungu. En Castrén andaðist tveim árum síðar, og nú var ekkert undanfæri fyrir Lönnrot. »Öll þjóðin« heimtaði Lönnrot í þessa stöðu. Háskólastúdentar sem einn maður sendu honum áskorun. Vinir hans og dáendur í hóp lærðustu manna þjóðarinnar lögðu mjög fast að honum. »Lækna eigum vér marga betri en þig, en engan sem við þig jafnast í þekkingu finskrar tungu og þjóðlegra fræða«. Varð Lönnrot loks undan að láta. 1854 fluttist hann til Helsingfors sem kennari við háskólann þar. Þær vonir, sem menn höfðu gert sér til hans í því tilliti, urðu sér sízt til skammar, því að hér mátti með sanni tala um réttan mann á réttum stað.

Hann naut þá líka óskorað ástar og virðingar allra lærisveina sinna, þau átta ár sem hann skipaði þann sess.

Alt kenslustarf hans miðaði í fremstu röð að því að samþýða finska tungu sem bezt allri hugsun nútímans og kenna námsmönnum að nota það í hverri grein. Þess vegna einskorðaði hann sig ekki við þær sérstöku fræðigreinar, sem hann var kallaður til að kenna. Hann vildi ná til sem allra flestra af háskólanámsmönnum með þjóðleg áhrif sín. Hann heldur t. a. m. eitt árið fyrirlestra í grasafræði, sem hann var prýðilega að sér í, en tilgangurinn var sá einn, að vekja athygli námsmanna á finskum grasa heitum. Hann þýðir á finska tungu sænska kenslubók í náttúrufræði, til þess að sýna mönnum, hve öldungis óþarft sé þar að nota útlend vísindaleg nöfn á hlutunum. Finskan sjálf eigi þar gnóttir orða, en menn viti það ekki og grípi því til einatt verri orða útlendra. Einnig tekur hann lagamálið fyrir, og tekst á skömmum tíma að hafa mikil áhrif á það, hreinsandi og umbætandi.

Í þjóðernisbaráttunni, sem einmitt nú magnaðist ár frá ári, stóð Lönnrot í broddi fylkingar þeirra manna, sem heimtuðu finskuna svo sem menningartungu þjóðarinnar í stað sænskunnar, sem til þessa hafði þar ráðið lögum og lofum. Í ræðu, sem hann flutti við afhjúpun eirlíkans hins mikla Portans árið 1864, farast honum orð á þessa leið: »Menningin er styrkasta stoð þjóðernisins, en menning, sem mælir á framandi tungu, er dauðadæmd. Um samband þjóðernis og tungu hefir margt verið skráð og skrafað á nálægum tímum, en um þann hlut ætti sízt ágreiningur að eiga sér stað, að finskt þjóðerni er nú á tímum blátt áfram óhugsandi án finskrar tungu«.

En þótt Lönnrot léki alt í lyndi þar í höfuðborginni og menn bæru hann á höndum sér í öllu tilliti, þá kunni hann aldrei vel við sig þar. Hann þráði rósamt líf, þar sem ekkert glepur fyrir, til þess að geta gefið sig allan og óskiftan við vísindunum, en það fanst honum hann ekki geta í Helsingfors. Hann hafði árum saman verið að safna til orðabókar hinnar finsku tungu, en fanst því verki miða

of lítið áfram og sér gefast of lítið næði til þess að full-gera það meðan hann dveldist í höfuðborginni og enginn vissi nema æfideginum hallaði fyr en varði. Árið 1862 beiddist hann því lausnar frá embætti sínu og fékk hana. Fluttist hann þá jafnskjótt burt úr borginni og settist að í Sammattisókn, þar sem hann var borinn og barnfæddur, því »þar væri loftið bezt og þar yrði næðið mest«. Tók hann nú til óspiltra málanna með orðabók sína, sem finska bókmentafélagið auðvitað hafði boðist til að kosta að öllu leyti. Fyrsta heftið birtist árið 1866. Að 8 árum liðnum var alt fyrra bindið (bókstafirnir A—M) fullprentað og 6 árum síðar var öllu verkinu lokið. Öll var orðabókin 2203 þéttprentaðar tveggja dálka blaðsíður stórar og tók yfir alls 160 þúsund orð. Það sem hann leggur megin áherzluna á í orðabók sinni, er að ná sem allra mestu af orðaforða finskrar tungu inn í hana. Um hitt hugsaði hann minna að ganga svo frá skýringum hvers orðs, að stæðist alla gagnrýni sérfræðinga, því að með því vinnu-lagi hefði hann aldrei fengið lokið verkinu. Tekur hann sjálfur fram í formálanum, að hann hafi fundið sig knúð-an til að taka þetta verk að sér, ekki af því, að hann hafi álitið sig manna færastan til þess, heldur af því að hinir, sem færari væru, þættust ekki hafa tíma til þess!

En svo var farið vinnulagi Lönnrots lengst af, að hann varð að hafa fleiri járn í eldinum en eitt. Honum var það hvíld og hressing að skifta sér milli verka. Svo var og meðan hann vann að orðabók sinni. Daglega helgaði hann þá öðru verki nokkrar stundir, verki, sem hann áleit miklu skifta menningarlega. Það verk var endurskoðun og umbætur hinnar finsku sálmabókar og var honum það mjög ljúft verk, sem hann gekk að með sömu eljunni og áhuganum sem hverju öðru því er hann tók sér fyrir hendur. Jafnóðum og hann hafði lokið við einhvern sálminn las hann hann upphátt fyrir guðhræddri konu sinni (því að 49 ára gamall hafði Lönnrot staðfest ráð sitt, fyr hafði hann »ekki haft tíma til slíkra hluta«!) eða söng hann og lék undir á Kantelu sína. Oft fór hann til guð-

hræddS alþýðufólks og las fyrir því sálma sína, til þess að fá vitneskju um hvernig þeir féllu því í geð; og til athugasemda, sem gerðar voru af slíku fólki, tók hann feginsamlega alt tillit. Árið 1883 birtist sálmabók Lönnrots á prenti innihaldandi 500 sálma; af þeim hafði hann sjálfur frumort eða þýtt 136, en marga hinna endursamið úr eldri sálmum og fullkomnað á ýmsa vegu.

Sóknarkirkja Sammattibúa var útkirkja, þar sem embættað var einu sinni, en stundum tvisvar, á mánuði hverjum, en presturinn bjó í margra mílna fjarlægð í höfuðsókninni. Þetta fyrirkomulag var Lönnrot ekki að skapi og fanst honum Sammattibúar vera ærið afskiftir með þessu lagi á tíðaflutningi. Þegar það nú ekki fékst, sem farið var fram á, að þangað væri skipaður sérstakur prestur, þá sótti hann, læknirinn og þjóðfræðafrömuðurinn, um leyfi dómkapítulans í Åbo til þess sjálfur að mega flytja guðsþjónustu í Sammatti-kirkju þá helgidagana, sem prests væri ekki von þangað. Var það leyfi ekki torsótt hjá dómkapítulanum og notaði hann það trúlega meðan á þurfti að halda, og þurfti ekki að kvarta yfir slæmri kirkjusókn. Þó var ræðuflutningurinn oftar í því fólginn að lesa upp ræðu úr prentaðri postillu en frumsamda, þótt það kæmi líka fyrir. En þetta varð til þess að kirkjustjórnin heyrði bænir Sammattibúa um sérstakan sóknarprest og lagði Lönnrot þá niður »prestskapinn«.

Heilsuhraustur var Elías Lönnrot alla æfi, og áttu ferðalög hans á yngri árum ekki minstan þátt í því og afar óbreyttir lifnaðarhættir. Hann var göngugarpur hinn mesti, sundmaður ágætur og skíðamaður með afbrigðum góður. Hafði þetta komið sér vel eins og æfi hans var háttað fram yfir fimtugt. Tæplega áttræður var hann enn frár til göngu sem fimtugur væri. Þá fór hann fótgangandi margar dagleiðir norður til Kajana »til þess að lifa upp aftur gamlar endurminningar«. En hið sanna tilefni þeirrar ferðar var þó annað. Hann hafði komist að því, að til stæði að halda 50 ára minningarhátíð finska bókmentafélagsins og að sér mundi eiga að bjóða þangað. En

til þess að þurfa ekki að láta Helsingforsarana »glápa á sig sem annan apakött« flýtti hann sér af stað norður. Boðsbréfið náði honum að vísu, en hann svaraði því á þá leið, að því miður væri sér ekki hægt að þiggja boðið, en ljúft skyldi sér vera að taka þátt í 100 ára minningarhátíð félagsins er þar að kæmi.

Þegar hann varð áttræður voru haldnar Lönnrots-hátíðir um land alt og mikið um dýrðir. Varð hann þá að dveljast í Helsingfors nokkurn tíma og »láta dekra fyrir sér«, þótt hátíðahöldin þreyttu hann mjög og hann yrði þeirri stundu fegnastur að komast burtu þaðan aftur En sönn voru orðin og úr hug margra mælt, sem skáldið Zachris Topelius mælti í ræðu sinni á borgarahátíð, þeirri er haldin var þá Lönnrot til heiðurs á sænska leikhúsinu í Helsingfors: »Hver sinti fyrir 50 árum lækninum unga, sem þá fór fram og aftur um strjálar bygðir Finnlands til þess í fátækum bændabýlum að leita uppi og færa í letur ljóð, sem voru komin fast að því að deyja út? Nú skiljum vér öll tilgang þeirra ferðalaga hans. Nú er enginn drengur í nokkurri skólastofu þessa lands, naumast nokkur smalastúlka á heiðum þess, er ekki kunni að nefna nafn hans. Ekkert nafn er nú jafnþekt af öllum, jafnelskað af öllum um Finnland þvert og endilangt sem nafnið Elías Lönnrot«.

Tveim árum síðar andaðist Lönnrot í Sammatti 19. marz 1884. Þegar hann fann dauða sinn nálgast bað hann dóttur sína að sjá um, að hann yrði jarðaður í kyrrþey og fregnin um andlát hans ekki látin berast suður til Helsingfors fyr en að afstaðinni útför sinni. En þar varð honum ekki að ósk sinni. Fregnin um andlát hans barst með hraða út um landið og útfarar-daginn þustu sendinefndir úr öllum áttum, múgur og margmenni til Sammattí, til þess að heiðra látinn þennan frægasta son finsku þjóðarinnar.

Það sem ávann Lönnrot jafn óskorað elsku og virðingu samlanda sinna var ekki eingöngu hið mikla og ógleymanlega afrek æfi hans, heldur og meðfram alt líf

hans og fyrirmyndar-framkoma, eins og það hafði mótast af óvenju göfugum anda hans. Hann var í hverri grein maður af andans aðal, sannarlegt mikilmenni. Í honum lítur finska þjóðin sjálfa sig, beztu eiginleika sína alla sameinaða hjá einum manni. »Hann var sannur Finnlendingur, lifandi ímynd finska þjóðernisins, sá höfuðbiskup (patríarki) þjóðar sinnar, sem allir tímar geta lært af og tekið sér til fyrirmyndar. Finska þjóðin hefir reist Lönnrot fagurt líkan af eiri; þó er það minnismerkið enn fegurra og fastara en eirinn, sem hann hefir sjálfur reist sér með lífi sínu og starfi í hjörtum þakklátra samlanda sinna«.

---

## *Sólarljóð úr Kalevala.*

(Myrkravættir höfðu byrgt sól og mána inni í klettum. Loks urðu þær þó hræddar og létu þau laus. Þá heilsar Wäinämöinen þeim með þessu kvæði):

„Heill þér, máni, að mátt þú skína,
mátt nú ásýnd þína birta,
heill þér, gullinn heilladagur,
heill þér sól, er rís nú aftur.

Máni, gullinn gekstu úr bjargi,
glóey, fögur steigstu úr hamri,
eins og gullfugl hófstu á himin,
hækkaðir sem silfurdúfa.

Máttig hverjan morgin stíga
munt þú upp frá þessum degi,
hvert sinn, er þú hingað kemur,
heilsu góða munt þú færa,
hlaða munt þú eign á eignir,
önglum vorum happdrátt flytja,
afla fingrum vorum veiði.

Far með þrótti þinnar leiðar,
þínar brautir örugg farðu,
gjör þinn boga furðu fagran,
far til hvíldar svo með aftni.“

*Kalevala*, öfversat af M. A. Castrén, Helsingfors 1841, bls. 155—156. (Tjugusjunde Runan).

*Bjarni Jónsson frá Vogi* íslenzkaði

---

# Ráðningastofur.

Vinnuveitendur þurfa verkamanna, verkamenn vinnuveitenda. Atvinnurekandi án verkafólks, verkafólk án atvinnu —

»það er sama og sjálegt skaft,
sem að vantar blaðið«

Þar sem atvinnulíf er heilbrigt, veita því hvorir þessir aðilar atvinnunnar öðrum »slíkt sem hönd hendi, eða fótur fæti«. En fyrst verða þeir að finnast, og því greiðlegar sem hvorir finna aðra, vinnuveitendur og verkamenn, því minni tími, áreynsla og fé fer forgörðum í árangurslausa leit og bið. Leitin verður með ýmsu móti eftir því hvernig til hagar á hverjum stað Menn leita fyrir sér sjálfir um atvinnu eða verkafólk með því að ganga manna á milli og spyrjast fyrir, eða fá kunningja sína til þess, eða auglýsa í blöðunum. Slíkar aðferðir verða þó oft þreytandi skollablinda. Því er það að ráðningastofur hafa verið settar á fót víða um lönd, til þess að vera milliliður milli vinnuveitenda og verkamanna — útvega verkamönnum atvinnu og vinnuveitendum verkafólk. Stundum reka einstakir menn slíkar ráðningastofur fyrir sjálfs sín reikning og taka borgun fyrir að ráða menn í vinnu. En ekki hafa slíkar stofur altaf þótt fara vel að ráði sínu, og því hafa sumstaðar verið gefin lög um þessa atvinnu. Í Þýzkalandi voru t. d. 1910 gefin út lög, er kváðu svo á, að til þess að hafa ráðningu verkafólks að atvinnu þurfi sérstakt leyfi. Slíkt leyfi fæst ekki 1) ef umsækjandinn er sannur að því að hafa reynst óáreiðanlegur í ráðningastarfi eða öðrum efnum, 2) ef ekki

er þörf á slíkri ráðningastofu. En óþörf er hún talin, sé á staðnum eða í héraðinu nægilega öflug ráðningastofa rekin af opinberu fé. Sá sem hefir ráðningastarf með höndum má ekki jafnframt vera gestgjafi eða veitingamaður né hafa smáverzlun með áfengi, ekki hafa atvinnu af því að leigja út íbúðarherbergi né svefnherbergi, ekki verzla með föt né farangur, matvörur né munaðarvörur, né skotnaðarseðla (lotteríseðla), og eigi má hann vera víxlari né veðmangari eða láta aðra reka þá atvinnu fyrir sína hönd. — Þessi ákvæði gefa í skyn á hvern hátt þessar ráðningastofur hafa stundum notað aðstöðu sína til að hafa fé af þeim er til þeirra leituðu. — Ráðningargjaldið er ákveðið af yfivöldunum og greiðist ekki fyr en ráðning er fullgerð og þá að hálfu af hvorum aðila, ef báðir hafa leitað til ráðningastofunnar. Háar sektir eða atvinnumissir liggja við broti á lögum þessum.

Þá hafa og iðnsveinafélög og verkamannafélög oft haft það starf með höndum að útvega meðlimum sínum vinnu. Er auðsætt, að hverju félagi, er styrkir atvinnulausa meðlimi sína, er það mikill hagur, að þeir séu sem skemst án atvinnu. Sumstaðar er það siður, að jafnskjótt og einhver félagsmaður verður atvinnulaus, þá ritar hann nafn sitt í sérstaka bók á fundarstað félagsins, en félagsmenn telja það þá skyldu sína að skygnast um eftir atvinnu handa honum, þar sem þeir þekkja til, og láta skrifara félagsins vita jafnskjótt og þeir finna atvinnu. Stundum er heitið verðlaunum fyrir að tæma bókina.

Þá hafa og vinnuveitendafélög stundum sjálf sett ráðningastofur á stofn. Enn aðrar hafa verið reknar sameiginlega af báðum aðilum, vinnuveitendum og verkamönnum. Er það helzt í þeim atvinnugreinum, þar sem félög beggja aðila hafa komið beztu skipulagi á alla samninga og samvinnu sín á milli.

Loks hafa í ýmsum löndum ráðningastofur verið settar á stofn af bæjarfélögum eða ríkinu, á þeirra kostnað, og hafa þær veitt aðstoð sína ókeypis. Hefir þá reynst bezt að láta stjórn þeirra vera í höndum nefndar, er í

sætu jafnmargir kjörnir fulltrúar hvorra, vinnuveitenda og verkamanna, og óvilhallur oddviti. Þessar ráðningastofur hafa síðan gengið í sambönd á stórum svæðum til þess að geta unnið saman og beint vinnukraftinum þaðan sem of mikið var af honum í svipinn, þangað sem hans var þörf. Bezt þykir að ráðningastofur láti sig engu skifta verkföll, né verkbönn, en að báðum aðilum sé heimilt að auglýsa á ráðningastofunum, hvar verkfall sé eða verkbann í svipinn.

Hér á landi er á síðari tímum svo mikil ekla á mönnum til ýmsra starfa, að almennara mun, að vinnuveitendur leiti að verkamönnum, heldur en að verkamenn leiti að atvinnu. Þeir sem ráða vilja hjú í vist, háseta á skip eða verkamenn í einhverja vinnu um lengri eða skemri tíma, leita auðvitað fyrst fyrir sér meðal þeirra er þeir þekkja, eða setja aðra út til þess. Þá er geysimikið auglýst eftir verkafólki og hjúum í blöðunum. Hér í Reykjavík hafa einstöku menn haft það fyrir aukaatvinnu að ráða fólk í vistir, en lítið hefir kveðið að því.

Alþýðusambandið í Reykjavík hafði hér ráðningastofu sumarið 1918 frá miðjum maí til miðs júlímánaðar. Hún réð menn í allskonar vinnu til lands og sjávar. Var hún styrkt af bæjarsjóði og hafði ókeypis húsnæði og einhvern styrk af landssjóði. Hefir sá er veitti henni forstöðu sagt mér, að eftirspurn hefði verið geysimikil, og teldi hann slíka stofnun bráðnauðsynlega, eftir reynslu sinni þá.

Þá má geta um tilraun, er Búnaðarfélag Íslands gerði með ráðningastofu hér í Reykjavík. Var hún ætluð til þess eingöngu að útvega fólk til alls konar vinnu í sveit. Hún var auglýst og byrjaði 1. janúar 1906 og starfaði það ár til maíloka. Á þeim tíma komu 98 beiðnir, bréflegar og munnlegar, um útvegun á verkafólki, 150 alls. Á sama tíma buðu sig fram eða föluðust eftir vinnu, einkum kaupavinnu, 21 maður, karlar og konur, og voru 19 af þeim ráðnir, þar af 2 í jarðabótarvinnu, 2 stúlkur til að starfa á smjörbúum og hitt í kaupavinnu. — Næsta ár starfaði ráðningastofan frá 1. febrúar til 15. maí. Þá voru

beiðnirnar um útvegun á verkafólki 56, en þeir sem föluðust eftir vinnu 22, og af þeim réðust 16, karlar og konur. Þessi tvö ár annaðist Sigurður Sigurðsson ráðunautur ráðninguna. — Þriðja árið, 1908, hafði Einar Helgason garðyrkjumaður hana á hendi. Þá komu 30 beiðnir, 9 um ársfólk og 21 um kaupafólk. Þeir sem báðu um ársfólk fengu ekkert, af 16 kaupakonum, sem beðið var um, fengust 9 og af 5 kaupamönnum 3. Af þeim sem buðu sig fram voru allir ráðnir nema 2, sem settu of hátt kaup.

Svona fór um þá tilraun. Ástæðuna til þess, að með hverju ári komu færri beiðnir, telja forstöðumennirnir meðfram hafa verið þá, að ráðningastofan gat ekki fullnægt eftirspurninni, en að svo fáir verkamenn leituðu til hennar muni hafa verið af því, að þeir sem á annað borð vildu ráða sig í sveit hefðu flestir haft nógan kunningsskap til að koma sér þar fyrir án milligöngu ráðningastofunnar. Auk þess mundu bændur kjósa að þekkja þá, er þeir réðu til sín í vist eða kaupavinnu.

Alþingi 1918 hafði til meðferðar frumvarp til laga um fólksráðningaskrifstofu í Reykjavík og um vald landsstjórnarinnar til að ráðstafa atvinnulausu fólki (og bjargarvana). Það fekk síðan nafnið »Frumvarp til laga um fólksráðningar«. Það kom frá bjargráðanefnd Ed., gekk í gegnum báðar deildir og upp í Ed. aftur, en var þar felt með 8 : 6 atkv., og munu ekki ákvæðin um ráðningastofuna hafa orðið því að falli, heldur ákvæðin um vald landsstjórnar, bæjarstjórna og sveitastjórna til að ráðstafa vinnufæru, atvinnulausu fólki 1. og 2. gr. frumvarpsins voru um ráðningastofu og hljóðuðu þannig eftir 3. umr. í Nd.:

*1. gr.* Landsstjórninni heimilast að setja fólksráðningastofu í Reykjavík, eftir samráði við Búnaðarfélag Íslands og Fiskifélag Íslands til fyrirgreiðslu vinnuviðskiftum í landinu. Laun forstöðumanns ákveður landsstjórnin.

*2. gr.* Hver sá, sem verkafólks er vant, getur snúið sér til hlutaðeigandi sveitarstjórnar eða bæjarstjórnar, og

þær síðan til fólksráðningarstofunnar, með fyrirspurnir og boð í verkafólk. Sömu leið getur sá farið, sem vinnukraft hefir að bjóða. Samningur, sem sveitarstjórn eða bæjarstjórn gerir samkvæmt framkomnum tilmælum vinnuveitanda og vinnuþiggjanda við fólksráðningarstofuna, er bindandi fyrir hlutaðeigandi einstaklinga. —

Í umræðunum um ráðningastofuna á þinginu var það helzt fundið að hugmyndinni, að slík stofa mundi ekki svara kostnaði. Vinnuveitendur og verkamenn mundu vilja þekkjast áður en þeir gerðu samninga með sér.

Þá þótti og sumum það krókaleið, að snúa sér fyrst til bæjarstjórnar eða sveitarstjórnar, en ekki beint til ráðningastofunnar. Bjarni Jónsson frá Vogi vildi heimila stjórninni að hafa ráðningastofur í kaupstöðum, eða þar sem tiltækilegt virðist út um land, eða þó fremur að fela bæjar- og sveitafélögum ráðninguna. — Annars virtust umræðurnar bera það með sér, að málið hafði lítið verið hugsað.

Þessi er þá í sem styztu máli saga málsins hér á landi. Ef til vill virðist sú litla reynsla sem hér er fengin og umræðurnar um málið ekki benda á, að ráðningastofur séu hér tímabærar enn þá, en eg hygg að það mál verði að athugast betur, áður en nokkrar ályktanir verða dregnar um það, og það því fremur sem einmitt nú er verið að setja á stofn ráðningastofu hér í Reykjavík.

Reynsla Búnaðarfélagsins sannar lítið, því að bæði hefir margt breyzt í atvinnulífi voru síðan 1906—'08, og hins vegar var ráðningastofa Búnaðarfélagsins eingöngu miðuð við sveitabændur, og sannar því ekkert um það, hvað almenn ráðningastofa mundi geta. Skulum vér nú athuga málið frá ýmsum hliðum.

Ef vér þá lítum fyrst á sveitirnar, þá mun meginþorri bænda fyrst leita fyrir sér um vinnufólk í nágrenni sínu, hvort heldur er ársfólk eða kaupafólk. Menn reyna að ná í þá sem þeir þekkja, og hafa þar enga milligöngu, eða þá kunnugra manna, sérstaklega um hjú. Og það fólk, sem heima á í sveitum og ætlar að ráðast þar í

vist eða kaupamensku, fær efalaust að jafnaði nógar fyrirspurnir af þarbygðarmönnum, og þyrfti því eigi að bjóða sig á ráðningastofu. Eins munu bændur að jafnaði svo kunnugir í smákauptúnum er þeir sækja til, að þeir geti ráðið sér það fólk, sem þar er að hafa, milligöngulaust, eða með aðstoð kunningja sinna. Þá fyrst, er þessar lindir þrjóta og leita verður í aðrar sýslur, til kaupstaðanna, eða hinna stærri kauptúna, eða út fyrir landsfjórðunginn, mundi ráðningastofa verða athvarfið. Ætla má að í kaupstöðunum sé stundum eitthvert fólk er fara vilji í sveit, að minsta kosti í kaupavinnu, og þekki þó ekki þá staði, sem þar væru í boði. Þar kæmi ráðningastofa að haldi. Og þegar fólk vill ráðast í aðra landsfjórðunga til ársvistar eða um skemri tíma, eins og stundum er um ungt fólk, laust og liðugt, þá getur það naumast orðið án einhverrar milligöngu. Virðist því einfaldast, að í fjölmennasta stað hvers landsfjórðungs væri ein ráðningastofa, er gæti verið milliliður milli þeirra vinnuveitenda og verkamanna, er eigi ná beint hver til annars, hvort sem er innan fjórðungsins eða utan. Þörfin á fólki til ýmsra starfa getur verið mismunandi sama árið í ýmsum landsfjórðungum, eftir því hvernig árar og framkvæmdum hagar á hverjum stað, og er þá eðlilegt að vinnukrafturinn streymi þaðan sem þörfin er minni þangað sem hún er meiri. En til þess að þeir straumar verði ekki í blindni, er nauðsyn að vita sem nákvæmlegast um framboð og eftirspurn á vinnukrafti í hverjum landsfjórðungi samtímis. Þar kæmu ráðningastofurnar að liði. Samvinna við þær væri nú á tímum tiltölulega hæg, þar sem símar ganga svo víða, að flestir gætu með litlum tilkostnaði náð símleiðis til fjórðungsstofu. En hér er svo sem ekki eingöngu um sveitamenn að ræða, heldur og um sjávarútvegsmenn, er vantar menn á róðrarbáta, mótorbáta, togara eða önnur þilskip, eða fólk til fiskvinnu í landi. Þá eru og húsbændur í kaupstöðum og kauptúnum, er vantar hjú, og í raun og veru væri það eðlilegast að ráðningastofurnar réðu menn í hvaða atvinnu sem væri,

aðra en þá sem heyrir undir veitingavald landsstjórnarinnar.

Í Reykjavík virðist þörfin á ráðningastofu bersýnilegust. Blöðin eru full af auglýsingum eftir fólki í allskonar atvinnu, á þeim tímum sem fólk er helzt ráðið. Útgerðarmenn t. d. auglýsa sjálfir eða einhver fyrir þá svo og svo lengi í blöðunum eftir fólki, hver í kapp við annan, og er auðsætt að í það gengur mikið fé, mikill tími og umstang. Líkt er um auglýsingar eftir vinnukonum á haustin, og er þó mörgum óljúft að auglýsa eftir hjúum. —

Gerum þá sem snöggvast ráð fyrir, að settar væru á stofn 4 ráðningastofur hér á landi. Aðalstofan væri í Reykjavík og svo ein á Ísafirði, önnur á Akureyri, þriðja á Seyðisfirði. Ráðningastofunni hér stjórnaði fimm manna nefnd; væru tveir nefndarmanna kosnir af félögum vinnuveitenda, tveir af félögum verkamanna, en saman kysu þessir fjórir sér óvilhallan oddvita. Þessi nefnd hefði yfirumsjón ráðningastofunnar, réði starfsmenn hennar og skæri úr öllum ágreiningsmálum er fyrir kæmu um ráðningar. Eðlilegt væri að ráðningastofurnar væru kostaðar af bæjarsjóðum og ríkissjóði; af bæjarsjóði fyrir þá sök, að bæjarbúum væru hægust heimatökin að nota ráðningastofuna, en af landssjóði vegna þess, að hún á líka að þjóna mönnum víðsvegar um land. Réttast mundi að stofurnar störfuðu endurgjaldslaust fyrir alla, en ráðningar þær er stofurnar framkvæma samkvæmt tilmælum vinnuveitanda og vinnuþiggjanda væru bindandi fyrir báða.

Ráðningastofurnar hefðu allar samband með sér. Þeir Norðlendingar t. d., er vantaði fólk, sneru sér fyrst til ráðningastofunnar á Akureyri, og gæti hún ekki veitt úrlausn, þá leitaði hún til hinna stöðvanna. Þeir er vildu fá vinnu í öðrum landsfjórðungum, sneru sér hins vegar hver beint til ráðningastofu þess fjórðungs, er hann vildi ráðast í. Líklega þyrfti hver ráðningastofa að hafa fyrir fulltrúa að minsta kosti einn mann í hverjum hreppi síns fjórðungs, til þess að geta aflað sér frekari vitneskju um

þá menn, er leita hennar, ef þess væri þörf. Til slíks mundu hreppstjórar eða hreppsnefndaroddvitar vel fallnir, en oft mundi verða að velja fulltrúa með hliðsjón af því, hve auðvelt væri að fá símasamband við hann, því að bréfaskriftir yrðu að jafnaði of seinfærar í þessum efnum.

Eitt hið helzta lífsskilyrði slíkrar ráðningastofu væri nú það, að þeir sem til hennar leituðu yrðu yfirleitt ánægðir með áranguriun, en það verða menn því að eins, að þeir fái fólk eða vist greiðlegar og ódýrar með þessum hætti en öðrum, og að hvorttveggja reynist sem líkast því sem gert var ráð fyrir, þegar samningar tókust, eða enn betur. Það er mjög eðlilegt, að hver kjósi helzt að þekkja sjálfur þann er hann ræður til sín eða ræðst til, og þegar þess er ekki kostur, að hann þá reyni að afla sér beztu vitneskju sem fáanleg er hjá öðrum. Öllum er ójúft að kaupa köttinn í sekknum. Ráðningastofurnar yrðu því að hafa sem bezt skilríki, bæði um þá menn og þær vistir sem í boði væru.

Það er nú ekkert nýmæli, að þeir sem ráða sér starfsfólk, heimti af þeim, er starfa vilja fá, nákvæma skýrslu um allan hag þeirra, að minsta kosti tíðkast það mjög í öðrum löndum um ýmsar verzlanir. Sem dæmi þess skal eg nefna fyrirmyndarverzlun eina í Boston, *Wm Filene's Sons Company*, er eg kyntist á vesturför minni. Hver sem sækir þar um starf, fær í hendur eyðublað, sem hann á að fylla. Þar eru spurningar um nafn hans, heimilisfang, símanúmer, starfið sem hann sækir um, þjóðerni, trúarbrögð, hvort hann er kvongaður, ókvongaður eða fráskilinn, hve gamall, hve marga hann framfærir að öllu leyti og að nokkru leyti og hve skyldir þeir eru honum, hvort hann eða nokkurt skyldmenni hans hafi eða hafi haft tæringu, hvort hann hafi nokkra líkamsgalla, hvort hann sé heilbrigður nú, hvaða próf hann hafi tekið, hvort hann hafi þá fengið laun sín goldin eða eigi þau inni, hvort hann hafi áður starfað við þessa verzlun, ef hann vilji fást við sölu, um hvaða sölu hann hafi þá mesta reynslu. Auk þess á umsækjandi að

skrifa nöfn og heimilisfang þeirra, sem hann hefir starfað hjá (eyða fyrir 6 nöfn), starf sitt, laun og tíma hjá hverjum, og hvort hann fór frá þeim af eigin hvötum eða var sagt upp, og loks tilgreina nöfn og heimilisfang sér óskyldra verzlunarmanna eða embættismanna, sem þekki hann. Helzt tilgreina prest, heimilislækni, eða húseiganda, er hann hafi búið hjá. — Verzlunin hefir síðan prentuð eyðubréf til þess að senda til þeirra manna, er umsækjandinn hefir tilgreint, vinnuveitenda, skólastjóra eða annara, og biðja þá að svara spurningum þeim sem þar eru um það, hvernig umsækjandinn hafi reynst þeim og hvað þeir kynnu að hafa um hann að segja. Sést af þessu, að gert er ráð fyrir að hver slík stofnun haldi nákvæma skýrslu um hvern mann í þjónustu hennar, svo að ekki þurfi annað en slá nafni hans upp til að finna það sem að er spurt.

Hverra skírteina menn mundu óska um óþekta menn, er þeir réðu til starfa, fer auðvitað eftir því hvert starfið er og hvernig til hagar. Þó er sumt sem hvervetna þætti gott að vita. Vér skulum fyrst líta á, hvað menn mundu hér á landi almennast vilja vita um þá sem þeir réðu í vist eða til algengrar vinnu.

Menn mundu spyrja um nafn og heimilisfang, enda væri því fljótsvarað. Sömuleiðis um aldurinn, því að jafnan má ýmislegt af honum ráða, sérstaklega ef menn eru mjög ungir eða gamlir. Þá mundi og margur spyrja um líkamsburði, og gæfi hæð manns og þyngd nokkra hugmynd um þá, og væri líklega eina bending, sem alment væri hægt að fá um það efni. Suma mundi fýsa að vita hvaðan maðurinn væri upprunninn, og gæfi fæðingarstaðurinn nokkra vitneskju um það, oftast nær. Fróðlegt mundi og þykja að vita um mentun hans, og mætti þar tilgreina hvaða fræðslu hann hefði notið, skólagöngu o. s. frv. Mikils mundi þykja vert um heilsufarið, sérstaklega að maðurinn væri ekki haldinn næmum sjúkdómi. Læknisvottorð um góða heilsu væru því mikil meðmæli. Þá væri og fróð-

legt að vita um aðalatvinnu mannsins, því að gera má ráð fyrir að hver sé bezt að sér í því sem hann hefir lagt mesta stund á, og hins vegar mótar atvinnan hvern mann nokkuð. Þá mundi hver maður kjósa að vita um ástundun og hegðun þess er hann ræður til sín. Oft væri nauðsyn að vita hvort persónan væri gift eða ógift eða hefði barn í eftirdragi, einkum þegar um vist eða kaupavinnu væri að ræða.

Nafn, heimilisfang, aldur, hæð, þyngd, fæðingarstaður, skólaganga, aðalatvinna, hjúskaparstétt, börn — eru alt atriði, sem auðvelt ætti að vera fyrir hvern mann að setja á skýrslu. Aftur á móti kynni að verða erfiðara að fá vottorð um heilsufar, ástundun og hegðun. Þar dugir ekki dómur þess, er sjálfur á hlut að máli. Í umræðunum á alþingi um »Frv. til laga um fólksráðningar« tók Bjarni Jónsson frá Vogi það réttilega fram, að það ætti að skylda alla sem í vist fara að hafa læknisvottorð um heilsufar sitt, eða að minsta kosti vottorð frá þeim, er þeir áður unnu hjá, þar sem erfitt væri að ná í lækni, og virðist það í alla staði réttlát krafa. Vottorð um ástundun og hegðun ætti að koma frá síðustu húsbændum þess er hlut á að máli. Eru fordæmi til slíkra vottorða hér á landi. Á eg þar ekki aðeins við meðmæli, er menn kunna að gefa hjúum sínum eða starfsmönnum, er þeir fara að leita sér atvinnu annarstaðar, heldur er svo fyrir mælt, að hver sem lögskráður er á skip, skuli hafa sjóferðabók, og er maður ræðst af skipi, skal skipstjóri láta þess getið í bókinni, hvernig hegðun hans og framferði hafi verið þann tíma er hann var á skipinu og af hvaða. ástæðum hann fari af því. Hefir skipstjóri einn sagt mér, að sumir hafi um það fengið slíkan vitnisburð, að þeim mundi ganga illa að ráða sig á skip aftur. Sé slíkt réttlátt um sjomenn, að þeir fái þann vitnisburð er þeir hafa til unnið með hegðan sinni og verði að sýna hann þeim er þeir hyggja að ráðast til næst, þá ætti það að vera jafnréttlátt um aðrar stéttir starfsmanna. Sjóferðabókin mun vera eina starfsbókin er þekkist hér á

landi. Hún sýnir meðal annars í hvaða siglingum, hvenær og með hvaða skipstjóra sjómaðurinn hefir verið og hvaða stöðu hann hefir haft á skipinu. Á botnvörpungunum er sú verkaskifting að komast á, að sumir eru flatningsmenn, aðrir saltarar, en sumir eru fullgildir hásetar, þ. e. kunna jafnt að fletja, salta, gera að netjum o. s. frv. Einn af útgerðarmönnum hefir sagt mér, að komið hefði til orða að fara að færa það inn í sjóferðabækurnar, hvort menn væru ráðnir sem flatningsmenn, eða saltarar o. s. frv. — Hér er þá byrjun að því fyrirkomulagi, er eg hygg að taka ætti upp í sambandi við ráðningastofurnar, að hver starfsmaður hefði vinnubók, þar sem sjá mætti hvaða störf hann kynni. En sá sem ræður mann í vist eða vinnu vill ekki að eins vita hvaða verk hann kann, heldur og hve góður verkmaður hann er í hverju um sig, og er þá að athuga hvernig því mætti haga.

Gerum ráð fyrir að gefnar væru út vinnubækur fyrir þá er stunda landvinnu. Yrði auðvitað að vera annað form fyrir konur en karla. Í þessum vinnubókum væri efst á hverju blaði prentað skýrsluform fyrir þau atriði, er eg áður greindi um verkamanninn: nafn, heimilisfang, aldur, hæð, þyngd, fæðingarstað, skólagöngu, aðalatvinnu, hjúskaparstétt, börn, heilsufar, ástundun og hegðun, en þar fyrir neðan nöfnin á helztu störfum sem unnin eru í landi, hvert niður undan öðru. Í vinnubók karlmanna geri eg ráð fyrir að talin yrðu þessi störf: sláttur, heyhirðing, heyband, garðavinna, plæging, túnasléttun, garðhleðsla, vegagerð, skurðgröftur, mótak, torfrista, steinsteypa, sauðfjárhirðing, kúahirðing, sláturstörf, lestaferðir, tóvinna, eyrarvinna. — Kvennastörfin yrðu þessi: matreiðsla, barnagæzla, húsræsting, fataþvottur, saumar, aðgerð fata, tóvinna, mjaltir, túnvinna, garðavinna, móvinna, rakstur, sláttur, fiskþvottur, fiskþurkun, síldarvinna. —

Auk þess ætti að vera eyða fyrir önnur störf eða iðnir, er eigandi bókarinnar kynni að vilja bæta við, og fyrir þá einkunn, er hann kynni að hafa fengið við kapp-próf í einhverju starfi, eða met, sem hann hefði unnið í því, og mun eg skýra það mál frekar í annað sinn.

Verkamaður setti í bók sína merki við hvert það verk er hann þættist kunna, en jafnframt fengi hann hjá húsbónda sínum einkunn fyrir hvert verk er hann ynni í hans þágu, og væru einkunnirnar færðar inn í bókina. Hugsa eg mér að einkunn gæti verið 1, 2, 3, 4 eða 5 og fundin með þeim hætti er nú skal greina.

Gerum ráð fyrir, að einhver húsbóndi ætti að gefa vinnumanni sínum einkunn fyrir slátt. Hann skrifaði þá á blað nöfn þeirra sláttumanna, er hann hefði veitt nána athygli og myndi vel eftir. Síðan raðaði hann þeim þannig, að hann setti efst þann, er hann teldi beztan sláttumann, en þann lakasta neðst, og hina í röð þar á milli, eftir því hve nærri eða fjarri hvor þeirra virtist eiga að vera öðrum hvorum þessara tveggja, hámarkinu eða lámarkinu. Þegar röðuninni væri lokið, kallaði hann þann efsta 1, þann neðsta 5, þann sem væri mitt á milli kallaði hann 3, þann sem væri mitt á milli 1 og 3 kallaði hann 2, og þann sem væri mitt á milli 3 og 5 kallaði hann 4. Þar með hefði hann búið sér til mælikvarða á sláttumenn. Einkunn vinnumanns síns fyrir slátt fyndi hann nú með því að bera hann saman við þessa fimm og athuga hverjum þeirra hann gengi næst. Sé hann t. d. svipaðastur sláttumaður þeim sem á mælikvarðanum er talinn 2, fær hann einkunnina 2, o. s. frv. Sinn mælikvarðinn yrði búinn til fyrir hvert verkið og hvern eiginleikann, sem dæmt væri um, til að dæma um fjármann yrði að búa sér til sinn fjármannamælikvarða o. s. frv. Á sama hátt væru einkunnir gefnar um ástundun og hegðun.

Þessi mannjafnaðaraðferð er nú ekki gripin úr lausu lofti. Hún hefir meðal annars verið höfð í

ameriska hernum til að meta hæfileika manna í foringjastöður og þótt reynast þar vel.

Um þau verk, sem unnin eru í ákvæðísvinnu, ætti jafnframt að greina í vinnubókinni afköst verkamannsins á tilteknum tíma. Um ekkert verk væri slíkt auðveldara en um síldarverkun, þar sem haldin er á hverri stöð nákvæm skýrsla um það hve margar tunnur síldar hver stúlka kverkar og saltar. Til að sýna dugnað stúlku við síldarverkun í hlutfalli við aðrar á sömu stöð, mundi einfaldast að miða við meðaltalið. Gerum ráð fyrir að á einhverri stöð hefðu verið saltaðar 10000 tunnur um síldveiðatímann, en síldarstúlkurnar verið 50. Þá hefir hver að meðaltali saltað 200 tunnur. Einkunn hverrar stúlku yrði þá brot, þar sem nefnarinn væri 200, en teljarinn sú tunnutala sem hún hefði saltað Ein hefði t. d. saltað 173 og fengi einkunnina $^{178}/_{200}$, önnur 300 og fengi einkunnina $^{300}/_{200}$ o. s. frv. Slíkt sýnir í einni svipan hve langt hver stúlkan er fyrir ofan eða neðan meðaltalið.

Nú gæti það komið fyrir, að stúlka hefði verið veik um skeið, eða forfallast á annan löglegan hátt og því afkastað minna en hún ella mundi, og mætti þá láta þess getið í athugasemd.

Líkt þessu mætti gefa einkunnir fyrir fiskþvott í ákvæðisvinnu og fleiri störf.

Hver sem einkunn gæfi í vinnubók ætti að skrifa nafn sitt og heimili við einkunnina og þann tíma er hún væri miðuð við. Bókin væri tvírituð og svo um búið, að kippa mætti út öðru hvoru blaði. Öðrum megin á blaðinu væri skýrsla sú og einkunnir þær er eg nú hefi greint, hinum megin form fyrir umboð til ráðningastofu um að leita eiganda bókarinnar atvinnu og kaupið sem upp væri sett. Sá sem vildi leita til ráðningastofu um atvinnu fylti þá út þetta form, kipti blaðinu úr og sendi það til ráðningastofunnar. Hún hefir þá á sama blaði fullgilt vottorð um manninn og umboð hans. Vinnubækurnar ættu að vera til sölu svo víða um land alt, að hver maður gæti með lítilli fyrirhöfn eignast þær.

Þeir sem ráða sig í vist eða vinnu vilja nú hins vegvegar fá sem glegstar fregnir af þeim stöðum er í boði eru. Þess vegna yrði jafnframt að gefa út eyðublöð fyrir þau skírteini, er ráðningastofan yrði að hafa frá þeim vinnuveitendum er til hennar leituðu um fólk. Eg geri ráð fyrir, að þar yrðu að minsta kosti þessi atriði um vinnuveitandann og heimili hans: Nafn, heimili, aldur, staða, tala heimilismanna, tala og aldur barna á heimilinu, heilsufar, húsakynni, starfið sem ráðið er til, kaupið sem boðið er og önnur hlunnindi er því kynnu að fylgja. Þetta mundi aðallega eiga við, þegar ræða væri um ráðningu í vist eða kaupavinnu. Þeir sem ráða sig í sveit mundu og vilja vita um ýmislegt fleira, svo sem það, hvort engjar væru þurrar eða blautar, hvort gengið væri á þær að heiman eða legið í tjaldi. Konur mundu vilja vita hve margar kýr eða ær væri að mjalta o. s. frv. Sérstakar aðrar atvinnugreinir, svo sem síldarútvegur, mundu aftur hafa sérstakt skýrsluform um þau kjör sem í boði væru. — Þessi skírteini mundu svo vinnuveitendur senda ráðningarstofunni árituð hins vegar með umboði sínu.

Þetta eru þá pappírsgögnin, og er nú næst að íhuga, hvernig þetta mundi ganga í framkvæmdinni. Ef til vill væri mörgum það óljúft starf að gefa öðrum slíkar einkunnir fyrir frammistöðu þeirra og þætti það ábyrgðarhluti, þar sem þessi vottorð mundu geta valdið nokkru um gengi þeirra er fengju þau. En vottorð og einkunnir verða menn oft að gefa hvort sem er, þegar þess er krafist, og sé það gert eftir beztu vitund, verður ekki meira heimtað. Eg býst við að menn fengju brátt æfingu í þessari aðferð, þegar hún væri alment notuð, og hún mundi vekja menn til umhugsunar. Þegar hver húsbóndi eða verkstjóri mætti vera við því búinn að gefa verkamönnum sínum vottorð um frammistöðu þeirra við hvert verkið, á þann hátt er eg hefi greint, þá geri eg ráð fyrir, að þeir færu að rifja upp fyrir sér og bera saman það sem þeir hefðu séð af vinnubrögðum við hvert verkið, jafnframt og þeir

athuguðu betur en áður vinnubrögð verkamanna sinna, en af því mundi leiða skarpara skyn á þessum efnum og meiri áhugi á að bæta vinnubrögðin. Hver sem vandur væri að virðingu sinni mundi og því fremur reyna að dæma rétt, sem hann vissi að aðrir ættu síðar að reka sig áþreifanlega á það, hve mikið væri á dómi hans að byggja. Og þó að mælikvarðar manna yrðu að vonum nokkuð misjafnir, eftir því hve góða starfsmenn hver hefir þekt, þá yrðu einkunnir, sem gefnar væru um hvert verk út af fyrir sig, miklu meira virði fyrir þann sem ætti að ráða sér mann, heldur en vottorð eða meðmæli í almennum orðum, eins og stundum má sjá. Gerum ráð fyrir, að bóndi ætti að gefa vinnumanni sínum alment vottorð og segði, að hann hefði reynst sér góður meðalmaður til verka. Sá sem fær slíkt vottorð í hendur getur ekkert vitað um það, hvernig það er til komið. Hefir bóndi fyrst metið hvert einstakt verk og svo dregið meðaltal af einkunnunum fyrir þau, eða hafði hann þetta einhvern veginn á tilfinningunni? Er þessi maður t. d. góður fjármaður en ónýtur sláttumaður, eða á hinn veginn? Vottorðið segir ekkert um það. Og einmitt vegna þess, að ekki er hægt að reka neitt sérstakt ofan í þann sem slíkt vottorð gefur, af því að hann hefir ekki tiltekið neitt sérstakt, þá verður freistingin of mikil til að kasta til þess höndunum og segja alt og ekki neitt. Með mannjafnaðaraðferðinni er reynt að gera vottorð um menn sem áreiðanlegust. Óskeikulir verða menn aldrei þar sem, eins og hér, er að ræða um að meta en ekki mæla. En um mannaval fer hver eftir þeirri vitneskju sem hann getur fengið. Hér er reynt að gera þá vitneskju sem skýrasta, og ætti það að vera nokkur framför.

Fyrirfram verður ekki um það sagt, hve fúsir menn yrðu alment að taka upp slíkar vinnubætur. Auðvitað væri hugsanlegt að skylda menn til þess með lögum, en eg held að heilbrigðast sé í þessu efni sem öðrum að beita ekki löggjafarvaldinu, nema þegar brýn nauðsyn krefur, og reyna heldur að koma slíku á með frjálsari hætti.

Alt mundi velta á því, hvaða stefnu húsbændur og yfir höfuð vinnuveitendur tækju í þessu máli, hvort þeir alment vildu nota ráðningastofurnar, eða ekki. Gerum t. d. ráð fyrir, að meginþorri húsbænda hér í Reykjavík auglýsti, að þeir mundu ráða sér vinnukonur með aðstoð ráðningastofunnar hér og ekki hafa aðra útvegi. Þær stúlkur, sem ætluðu að ráðast í vist og ekki hefðu verið beðnar af öðrum, yrðu þá að snúa sér til ráðningastofunnar. Nú mundu húsbændur vilja vita hvaða stúlkur það væru, sem um væri að velja á ráðningastofunni, og beinasti vegur fyrir hverja stúlku til að afla tryggilegrar skýrslu um það væri að snúa sér til fyrverandi húsbænda sinna með vinnubók og fá þá til að votta þar um frammistöðuna. Öllum þeim sem staðið hefðu vel í stöðu sinni, mundi vera það ljúft að eiga slík vottorð. Það væri bezta aðstoðin til að fá beztu vistirnar og bezta kaupið. Hinum, sem staðið hefðu ver í stöðu sinni, væri það auðvitað óljúfara. Þær mundu því að líkindum ekki vilja koma með neina vinnubók eða vottorð. Þær um það! En þeir sem réðu þær til sín mundu þá ekki bjóða eins góð kjör, því að þeir þættust kaupa köttinn í sekknum, og það að vilja engin skilríki sýna, gæfi grun um að það sem í boði væri mundi ekki vera af beztu tegund. Þó mundu þessar stúlkur ganga út að lokum eins og hinar, af því að hér er ekla á vinnukonum. En reynslan kendi þeim, að bezta ráðið til að eiga næst um betri kosti að velja á vinnumarkaðinum væri að reynast nú vel og fá góðar einkunnir hjá þessum húsbændum sínum. Þetta fyrirkomulag yrði því bæði til þess að hvetja til framfara og stuðla að því að hver skæri upp eins og hún hefði sáð, en það er réttlæti. — Líkt mundi verða um aðrar atvinnugreinir. Þegar t. d. þeir sem ráða stúlkur í síldarvinnu gætu séð nákvæmlega hvernig hver hefir reynst í hlutfalli við aðrar á sinni stöð, þá gengju þær fyrst út, sem beztar væri í þessu verki, því að þótt síldarvinnan sé ákvæðisvinna, þá mundi hver útgerðarmaður kjósa að hafa færri stúlkur og duglegri, heldur en fleiri og ónýtari. Hann þyrfti því minna

fé að greiða í fargjald, tryggingu, húsnæði og eldsneyti sem hann kæmist af með færri stúlkur, því að alt þetta hafa þær ókeypis. Hann gæti og gert réttari áætlun um það hve margar hann þarf, er hann vissi hvers hann mætti vænta af hverri, heldur en þegar hann veit það ekki og verður helzt að gera ráð fyrir því versta. Þeim stúlkum sem minna væri sózt eftir í síldarvinnu, vegna þess að þær hefðu reynst slakar þar, væri það bending um að leita sér annarar atvinnu, og þær gætu vel verið góðar við önnur störf, þótt þessi létu þeim ekki Einn aðalkostur ráðningastofu með greinilegum skýrslum um hvern mann er þangað leitaði væri sá, að menn yrðu fremur en áður valdir í stöður eftir því hvaða starf þeim léti bezt og fengju þar með hærra kaup. Þarfir vinnuveitenda geta verið svo ólíkar, að sami maður sé þeim mjög mismikils virði Bóndi t. d. sem þarf að gera túnasléttur, mundi vilja borga hærra kaup manni sem væri góður við þær en meðalmaður við annað, heldur en annar bóndi sem ekkert ynni að túnasléttum mundi vilja greiða honum Því almennara sem ráðningastofur yrðu notaðar, því meir mundu þær stuðla að því, að hver ynni þar sem hann væri arðbærastur sjálfum sér og öðrum.

Um þá sem sækja um atvinnu í einhverri grein, sem þeir hafa ekki stundað áður, mundi farið eftir hinum almennu atriðum á skírteini þeirra, aldri, líkamsburðum, heilsufari, ástundun o. s. frv. og svo einkunnum í þeim störfum er líkust væru því sem um væri sótt En í sambandi við ráðningastofur verða vonandi í framtíðinni tæki til að prófa óreynda menn með aðferðum er geti veitt allmiklar líkur um það, hvort maður sé vel upplagður til einhvers starfa eða ekki, og eins hvort menn kunna það er þeir þykjast kunna, en um það skal eg ekki rita að þessu sinni.

Allur fjöldi þeirra, sem létu ráðningastofu ráða sig, mundu koma þangað sjálfir. Þar væri því hið bezta tækifæri til að gera margvíslegar athuganir. Mér finst sjálfsagt, að ráðningastofa hefði fullkomin tæki til mann-

mælinga, og ætti þar að vera maður, sem gæti gert slíkar mælingar svo að á mætti byggja. Það er ófróðlegt, að vér skulum eigi enn vita um meðalhæð Íslendinga og hausmál þeirra, hvað þá um önnur mannfræðileg atriði. Þarna væri tækifæri til að minka þá fáfræði. Sjálfsagt væri að ráðningastofan mældi sjálf m. a hæð og þyngd allra þeirra manna, er til hennar kæmu til að ráða sig. Þar með fengist reynsla fyrir hve áreiðanlegar mælingar alþýðu manna væru í þessum efnum. Auk þess væri auðvelt að mæla afl manna og þol, sem hvorttveggja er fróðlegt að vita um þá, sem ráða á til starfa.

Eðlilegast væri, að bæjarstjórnir og ríkistjórn gengi á undan öðrum í því að ráða ekki verkafólk nema fyrir milligöngu ráðningastofu. Rétt væri og ef til vill að gera atvinnulausum mönnum það að skyldu, að tilkynna atvinnuleysi sitt á ráðningastofu. Engum ætti að vera það bagalegt, að geta fengið tilboð um atvinnu.

Ráðningastofur eru mál sem vér verðum að prófa oss áfram með og sníða eftir vorum högum. Allir menn munu skilja, að verkefni þeirra er mikils vert, því að það er að spara töf, kostnað og erfiði við að koma þeim í samvinnu, sem mest þurfa hver annars við og bezt vinna saman. Aðalatriðið verður að finna hæfan forstöðumann, því að eftir ráðningu hans munu aðrar ráðningar ganga.

*Guðm. Finnbogason.*

---

# Um fatnað.

Eftir

*Guðmund Hannesson.*

---

Íslendingar standa flestum betur að vígi með það, að geta gert sér góð og hlý föt. Þeir framleiða sjálfir miklu meiri ull en þeir þurfa til fatnaðar, og ullin er eitthvert bezta efnið og hlýjasta til dúkagerðar. Þeir hafa ógrynni af ódýrum loðskinnum og þau eru hlýrri en nokkrir dúkar. Hér ætti enginn maður að þurfa að ganga kaldur og ónotalegur, jafnvel ekki í verstu vetrarkuldunum.

En hvernig höfum vér haldið á þessari dýrmætu eign? Vér höfum búið á þessu kalda landi í 1000 ár og hvorki lært að gera skjólgóða vetlinga né skaplegan skófatnað, hvað þá annað sem margbrotnara er. Meðan fólkið sat við ullarvinnu í köldum baðstofum, fengu börnin frostbólgu í hendur og fætur, en úti reyndi illa klæddur fjármaðurinn að berja sér til hita. Og ferðamönnum vorum óx það í augum að komast yfir meðalheiði að vetrarlagi, króknuðu þar og urðu úti, klæðlitlir, »kompás«lausir og fáráðir. Altaf hefir ræfilsháttúrinn við oss loðað, og þó kastar nú algerlega tólfunum á sjálfri sjálfstæðisöldinni, er heimilin gerast svo framtakslaus og fákunnandi, að flestar sveitakonur senda alla ull sína til Gilitrutt í útlöndum eða verksmiðjanna hér og láta þær vinna hana til vaðmála, kunna jafnvel tæplega að vinna og spinna ullina til sokkaplagga og nærfata. Meðan heimilin unnu sjálf dúka úr ullinni var lítil hætta á því, að oss yrði fataskortur, en nú er það ekki víst, að allir hafi handbæra peninga til

þess að kaupa rándýra útlenda eða innlenda verksmiðjudúka.

Það er kominn tími til að bæta úr þessu. Nauðsynjar vorar eru fáar. Þær er þessar gömlu: húsnæði, föt og fæði, og auk þess góðar bækur að lesa. Ef Alþingi vort hugsaði meira um þessa fáu hluti, færi það betur að ráði sínu en það gerir.

Til þess að gera sér ljósa grein fyrir þessu fatnaðarmáli, og sérstaklega, hver fatnaður er beztur, er nauðsynlegt að lýsa efni fata og eiginlegleikum þess, dúkum og dúkagerð, flíkum og gerð þeirra. Alt er þetta nytsamur fróðleikur, en ekki skemtilestur fyrir alla. Það, sem hér fer á eftir, er mjög hið sama og læknaefnum er kent um fatnað á Háskólanum, og fá menn þá um leið sýnishorn af kenslunni þar.

## Efni fatadúka.

Flest föt eru gerð úr dúkum, þó fleira sé til fatnaðar notað t. d. skinn og togleður. Dúkarnir eru aftur ýmist gerðir úr dýrahárum, jurtatrefjum eða silki. Með smásjáreða efnarannsókn má auðveldlega sjá, um hver hár eða trefjar er að ræða.

Af *dýrahárum* kemur einkum *kindaull* til greina. Ullarhárin eru auðþekt á því í smásjá, að yfirborðið er úr smágerðu sköruðu hreistri (hreisturþekja), en eftir miðju hári gengur strengur úr teningslaga-þekjufrumum, sem er kallaður mergur. Ullarhárin eru mjög mismunandi að stærð og fleiru, eftir því hvar þau eru af skepnunni, en auk þess fer ullin mjög eftir því hvert kindakynið er. Íslenzka ullin er tiltölulega grófgerð og togmikil, svo hún þykir lítt hæf í fíngerða dúka. Aftur er hún hlýrri en flest önnur ull. Nokkur ókostur er það á henni, að hún þófnar auðveldlegar en flest önnur ull Þófnun liggur í því að ullarhár sem snúa s i t t á h v a ð og núast saman, festast hvert við annað á þann hátt, að oddar hreisturfrumanna grípa hvorir í annan og innundir annan. Ull

þófnar því miklu síður á skepnum, þar sem allir oddar vita í sömu átt, en laus ull eða spunnin.

*Jurtatrefjarnar* eru ýmist basttrefjar úr jurtastönglum eða plöntuhár. Merkastar eru bómull og hör eða lín. *Bómullin* er fræhár bómullarjurtarinnar (gossypium). Í sjónauka má sjá, að hárin eru flöt, þunn og snúin bönd. *Hör* eru basttrefjar úr stönglum hörjurtarinnar (linum usitatissimum). Þræðirnir eru misgildir sívalningar með þvergárum og smáhárum út úr. Eftir hverjum þræði miðjum gengur lítil loftsmuga. *Hampur* er lítt notaður til fata, en hann er bastþræðir úr hampjurtinni (cannabis sativum). Þeir líkjast hörtrefjum en eru grófgerðari og kvíslast í endana.

*Silki* eru afargrannir, sléttir, merglausir þræðir, sem silkiormurinn (bombyx mori) spinnur utan um sig. Þræði þessa spinna ormarnir úr kvoðu, sem myndast í spunakirtlum þeirra, en harðna svo í loftinu líkt og þræðir þeir sem kóngulær spinna. Þræðir þessir eru mjög sléttir, sívalir, stundum tvöfaldir líkt og tveir þræðir væru límdir saman. Þeir eru því mjög frábrugðnir dýrahárum. Svipaða þræði búa menn og til úr uppleystu trjáefni (nitrocellulose), og svipar þeim mjög til silkis. Það er nefnt trjásilki.

*Rakasælgni.* Ef dúkaefnin eru látin liggja í röku lofti, þá draga þau öll í sig talsverðan raka, án þess að þau verði þó vot við átöku. Það kemur í ljós, að ullin dregur í sig hér um bil hálfu meira rakavatn en bómull og hör, en silki nokkru meira en bómullin.

*Hlýindi dúkaefna* eru talsvert á annan veg en dúkanna, sem úr þeim eru unnir. Ef trefjunum eða hárunum er þjappað saman, svo ekkert loft sé milli þeirra, og hlýindi þeirra borin saman við þurt loft, sem ekki hreyfist, þá eru hlutföllin þessi:

| | | | | |
|---|---|---|---|---|
| Hlýindi | loftsins . . . . . | 1 | —— | » —— |
| — | þurrar ullar . . . . | 1/6 | rakrar | 1/13 |
| — | þurs silkis . . . . . | 1/19 | raks | 1/27 |
| — | þurrar bómullar og hörs | 1/30 | raks | 1/35 |

Á yfirliti þessu má sjá, að loftið er miklu hlýrra en dúkaefnin. Það er sexfalt hlýrra en ullin, 19 sinnum hlýrra en silki og 30 sinnum hlýrra en bómull eða hör. Þá sést það og, að hlýindin spillast stórum við raka. Mest gætir þessa á ull, svo sem fyr er sagt, enda dregur hún mestan raka í sig. Hér er þó gert ráð fyrir því, að dúkaefnin hafi dregið í sig svo mikinn raka, sem þau mest mega, án þess að verða vot. Enn meir spillast hlýindin ef dúkarnir verða reglulega votir, og verður minst á það síðar.

*Verð dúkaefna* er mjög misjafnt. Bómull og hör eru langódýrust, þá ullin, en silkið dýrast. Það er auðvitað verðmunurinn, sem veldur því hve ódýru efnin eru mikið notuð.

## Dúkar.

Efni þau, sem hér hafa verið talin, eru venjulega kembd, spunnin og ofin í dúka. Telja má, að dúkar séu tvenns konar: ofnir dúkar með uppistöðu og fyrirvafi, sem liggja eftir tveim hornréttum stefnum, og lykkjudúkar, sem gerðir eru úr lykkjum, sem grípa hverjar í aðra, en svo er í prjónlesi og hekluðum dúkum.

Dúkagerðin hefir eigi aðeins þá þýðingu, að efnin haldist saman í hæfilega þykkum lögum, er hafa megi í föt. Dúkurinn fær ætíð aðra eiginlegleika en dúkaefnin hafa, og fara þeir mjög eftir gerð hans. Einkum breytast hlýindin að miklum mun.

Þegar dúkaefnin eru spunnin, leggjast hárin eða trefjarnar í þræðinum aldrei fyllilega saman. Milli þeirra verður ætíð mikið af smáum millibilum (millitrefjabilum), sem eru full af lofti. Þetta loft milli trefjanna eykur hlýindin stórum, því hreyfing þess verður lítil í svo smáum og óreglulegum holum. Því snúðminni sem þráðurinn er, og því stæltara sem efnið er, þess meiri verða millibilin. Stæling ullarhára veldur því, að þráður úr ull er venjulega mjög holóttur. Þá er og yfirborð þráðanna misjafnt. Úr sumum efn-

um verður þráðurinn tiltölulega sléttur, t. d. silki. en úr öðrum með ójöfnu, loðnu yfirborði. Svo er ullarþráður venjulega. Yfirborðið fer að miklu leyti eftir því, hve trefjarnar eru stæltar, sem þráðurinn er spunninn úr, líka eftir því hve langar þær eru.

Nú er dúkur ofinn úr þráðunum, og er þeim þá þrýst hverjum að öðrum og að því skapi meir, sem vefurinn er fastar sleginn. Ætíð verða þó smærri og stærri h o l - u r  o g  m i l l i b i l  m i l l i  þ r á ð a n n a (milliþráðabil) og því meir sem yfirborð þeirra er loðnara og ójafnara og efnið í þráðunum stæltara. Þá skiftir það og miklu hver vefnaðurinn er. Allir dúkar eru þannig mjög holóttir og fullir af lofti, þó misjafnt sé. Að nokkru leyti eru þá lofthólfin innan í þráðunum milli háranna, að nokkru leyti milli þráðanna sjálfra. Venjulega eru lykkjudúkar eða prjónadúkar lausari í sér og loftmeiri en flestir ofnir dúkar, ullardúkar meira en silki eða bómullardúkar.

*Loftmagn dúka.* Þess er fyr getið, að holurnar auki mjög hlýindin, og stafar það af því, að hlýindi loftsins eru miklu meiri en dúkaefnanna. Þá valda og holurnar því, að dúkar eru ekki loftþéttir. Loftið getur blásið gegnum holurnar, og því greiðar sem þær eru fleiri og stærri, því gisnari sem vefurinn er. Gegnum þéttan segldúk eða striga gengur loftið mjög treglega, en auðveldlega gegn um prjónles og lausofna dúka úr hverju sem þeir eru gerðir. L o f t m a g n eða holumagn (porositet) nokkurra dúka sést á eftirfarandi yfirliti:

| | | |
|---|---|---|
| Í fínu hörlérefti eru . . . . . | 37% | loft. |
| - vaðmáli úr ull . . . . . . | 72—82% | — |
| - prjónlesi (tricot) . . . . . | 73—86% | — |
| - loðinni ullareinsk. (flúnel) . | 89—92% | — |
| - loðskinnum . . . . . . . . | 95—97% | — |

Af tölum þessum er það ljóst, að dúkaefnin fylla minst af rúmmálinu. M e s t u r  h l u t i  þ e s s  e r  l o f t. Þá er það og auðséð, að h l ý i n d i  þ e i r r a  s t a f a  a ð  m e s t u  l e y t i  f r á  l o f t i n u, sem hvervetna er á

milli hára og þráða. Fatnaður er því að mestu leyti gerður úr lofti.

*Vatnssælgni.* Misjafnt er það hve auðveldlega dúkar blotna og hve mjög þeir fyllast af vatni. Hið fyrra má sjá á því, hve fljótt þeir sökkva, ef þeir eru lagðir í vatn.

| | | |
|---|---|---|
| Þveginn silkidúkur sekkur | á | 5 sekúndum. |
| Þvegið hörléreft — | - | 6 — |
| — bómullarléreft — | - | 4 mínútum. |
| Þvegin ullareinskefta (lómikil) . . . — | - | 1 klst. 36 mín. |

Silki og hördúkar blotna því afarfljótt, bómullardúkar nokkru seinna, ull margfalt seinna. Þurkur eru því ætíð gerðar úr hör eða bómull, aldrei úr ull. Ullarföt verða að sjálfsögðu síður gegndrepa en bómullarföt, ef dúkagerðin er að öllu hin sama.

Ef vatn fylti allar holur í dúkum væri rúmmál þess hið sama og rúmmál loftholanna. Svo mikið vatn helzt í fæstum dúkum. Nokkur hluti þess sígur fljótt úr og meiri eða minni hluti holanna fyllist aftur af lofti. Í lausundnum (handundnum) blautum dúkum er loftmagnið, borið saman við loftmagn í þurrum dúkum:

| | Þur. | Blaut (lausundin). |
|---|---|---|
| Ullareinskefta (flúnel) . . . . . | 92% | 80% |
| Bómullareinskefta . . . . . . . . | 89— | 72— |
| Ullarprjónles . . . . . . . . . | 83— | 61— |
| Bómullarprjónles . . . . . . . . | 83— | 61— |
| Hörprjón . . . . . . . . . . . | 74— | 31— |
| Þunt léreft . . . . . . . . . . | 52— | 0 |

Vatnið hripar auðsjáanlega að mestu úr ullar og bómullareinskeftu, einnig úr prjónadúkum, sem úr þeim eru gerðir. Mestur hluti holanna er eftir sem áður fyltur lofti. Í hörprjóni fyllir vatn rúman helming holanna, en í þunnu lérefti allar.

*Hlýindi blautra dúka.* Eftir því sem vatn fyllir meira af holunum verða dúkarnir kaldari, og þess minna loft getur gengið gegnum þá. Vér höfum áður getið þess hve raki (rakavatn) spillir hlýindunum. Enn meir rýrna þau er vatn sezt líka í holurnar milli trefja (millitrefjavatn),

og þráðanna (milliþráðavatn). Ef um jafnþykka dúka er að ræða og hlýindi þurs dúks er táknuð með 1, þá eru t. d. hlýindi blautrar, lausundinnar ullareinskeftu rúmlega $^1/_2$, en bómullarlérefts liðlega $^1/_4$.

*Þurkun dúka.* Blautir dúkar þorna misfljótt, en þeir fyrst að öllu öðru jöfnu, sem lakast vindast, t. d. léreft. Til uppgufunarinnar gengur mikið hitamagn, og stafar því mikil kæling af blautum fötum.

*Viðloðun blautra dúka.* Eftirtektarvert er það, að blautir dúkar loða mjög misjafnt við hörund og annað slétt yfirborð. Þeir loða fastast, sem sléttastir eru, t. d. léreft. Ullardúkar loða lítt við, og veldur því loðnan á yfirborðinu, ójöfnur þess og stæling ullarháranna. Þessarar viðloðunar gætir einkum á nærfötum, t. d. lérefts-skyrtum. Slíkir dúkar, sem falla þétt að hörundinu, stela miklum hita frá því og gera allar hreyfingar erfiðar. Þetta kannast allir við, sem gengið hafa í blautri léreftsskyrtu.

*Slitþol* og *styrkleiki* dúka fer eftir efni þeirra og gerð. Ullardúkar eru venjulega haldbeztir, en úr öllum dúkaefnum, sem hrein eru og ósvikin, má búa til haldgóð föt. Það eykur slitþolið til mikilla muna, ef þræðirnir í dúknum eru margfaldir, tvinnaðir eða þrinnaðir, hárin löng o. fl.

*Þvottur.* Miklu skiftir það um fatadúka hve auðvelt er að þvo þá og hreinsa, og hve vel þeir þola suðu, sem er oft nauðsynleg til þess að drepa sóttkveikjur. Að þessu leyti er hör og bómull hvað hentust. Dúkar úr þessum efnum þola vel suðu og taka vel þvotti. Þeir eru því mjög notaðir í þurkur, línlök og ýmsan fatnað. Ull þolir illa suðu og þvott. Henni hættir til að þófna í heitu vatni, og þéttist þá dúkurinn og hleypur, þó nokkra bót megi ráða á þessu með sérstakri varúð við þvottinn. Telja má, að sléttir dúkar séu auðþvegnari en þeir, sem ójafnir eru og lómiklir. Óhreinindin loða fastar í þeim, og tekur þetta ekki sízt til ullardúka, prjónles o. því l.

## Fatnaður.

Upprunalega voru feldir og dúkar notaðir til fatnaðar, án þess að eiginlegar flíkur væru úr þeim gerðar, nema úr lykkjudúkum, sem laga mátti eftir líkamanum. Hæfilega löngum og breiðum dúk var þá sveipað eða vafið um líkamann og haldið saman með sylgjum og nálum. Þannig var búningur Grikkja og Rómverja, feldar og skykkjur fornmanna, og enn er sama sniðið á sjölum kvenna og klútum. Slíkir búningar voru allajafna fagrir, en hvorki hlýir né alls kostar hentugir við vinnu. Síðan tóku menn að laga dúkana eftir líkamanum, sníða þá og sauma úr þeim flíkur með svipuðu lagi og líkamshlutar þeir, sem þær áttu að klæða.

*Þýðing fatanna* er auðvitað í köldum löndum, fyrst og fremst sú, að skýla líkamanum, verja hann kuldanum; en þó kemur margt fleira til greina. Blygðunartilfinning rekur jafnvel villimenn til þess að ganga með mittisskýlur. Fötin vernda líkamann til mikilla muna gegn meiðslum, og hlífa honum auk þess við sóttkveikjum, er ýms óhreinindi komast síður að hörundinu. Þau eru og vörn gegn sólargeislunum, sem annars geta valdið sólbruna.

Þá hafa og föt verið mjög notuð til skarts frá aldaöðli. Af öllu þessu er þó mest vert um hlýindin, því án varnar gegn kuldanum geta menn ekki lifað í köldum löndum, og auk þess þyrftu þeir miklu meiri fæðu, til þess að líkaminn héldist heitur. Líkamshiti manna er hinn sami í öllum löndum. Ef lofthitinn er 25—37° eru föt óþörf til hlýinda, en sé hann minni, verður naumast án þeirra verið.

*Einkenni góðs klæðnaðar.* Til þess að föt séu alls kostar hentug þurfa þau að hafa ýmsa kosti, sem fara þó mjög eftir því, til hvers fötin eru ætluð. Snið þeirra og stærð þarf að svara til líkamans, svo hvorki sé of né van (Nec fluctuet nec strangulet). Þröng föt eru köld, hindra hreyfingar og blóðrás, geta jafnvel aflagað líffærin eða meitt. Hlýindin þurfa að vera hæfilega

mikil eftir veðurlaginu, slitþol sem mest; þvott og hreinsun þurfa föt að þola vel. Venjulega þarf loft og vatnsgufa að geta gengið auðveldlega gegn um þau, þó þurfa sumar flíkur að vera vindheldar og vatnsheldar. Þá varðar það að lokum miklu, að fötin séu sem léttust og liðugust að mögulegt er.

*Hlýindi fata.* Þess er áður getið, að hlýindi dúka fari að mestu eftir loftmagni þeirra, þó nokkru skifti það og að dúkaefnin eru mishlý. Þá er og sjálfsagt að hlýindin aukast eftir því sem dúkurinn er þykkri. Nú þykir það af ýmsum ástæðum (liðleiki, hreinsun o. fl.) óhentugt, að gera fatadúka svo þykka að eitt lag sé nægilega skjólgott, og er því fatnaður venjulega gerður úr tveim flíkum eða fleirum, hverri utan á annari, en oft er hver flík úr tveim dúkum eða fleirum (yfirborð, millifóður, fóður). Mörg lög af misþykkum dúkum skýla því oftast líkamanum.

*Dúkamillibil.* Ætla mætti að hlýindi fatanna væru nákvæmlega hin sömu og hlýindagildi allra dúkalaganna samanlögð, en svo er eigi. Þau eru mun meiri og aukast eftir því, sem lögin eru fleiri. Orsök þessa er sú, að dúkarnir í lögunum falla aldrei fyllilega hver að öðrum. Bæði er það, að stærð og lag flíkanna er aldrei svo hvað eftir öðru sniðið, að þær falli hrukkulaust saman, og svo er yfirborð dúkanna með ló og einlægum ójöfnum, sem valda því, að þunt loftlag verður milli allra dúka í dúkamillibilunum. Í dúkamillibilunum hreyfist loftið treglega, bæði vegna þess hve þröng þau eru og dúkalóin hólfar þau í sundur í smáholur og hólf. Þykt dúkamillibilanna er ærið misjöfn, en gera má ráð fyrir, að hún sé sízt minni en dúkanna, og má af því ráða að þau auki hlýindin að góðum mun.

Hlýindi fatnaðarins eru þá undir því komin hve fötin eru þykk, lögin mörg og loftmagnið mikið innan í þráðunum, milli þeirra og í dúkamillibilunum, en miklu minnu skiftir það hver dúkaefnin eru, úr því loftið veldur mestu um hlýindin. Af þessu má ráða, að lausofnir ullardúkar,

og einkum prjónadúkar, muni hvað hlýastir, en þó eigi ýkjastór munur á þeim og bómullar eða jafnvel hördúkum, ef vefnaðurinn er þannig, að þykt og loftmagn sé svipað. Þá er og sjálfsagt, að feldir og loðskinn muni mjög hlý, því loftmagn þeirra er öllu meira en nokkurra dúka.

*Vindföt.* Nú má eigi gleyma því, að hlýindin sem stafa af loftinu í fatnaðinum eru bundin því skilyrði, að það hreyfist mjög lítið. Svo er þetta að miklu leyti inni við, og úti ef logn er, og þá reynast lausofnir dúkar og prjón mjög hlýir. Á þessu verður mikil breyting ef hvast er. Þá næðir gegn um slíka gisna loftfylta dúka. Óðar en loftið í dúkunum hlýnar, rekur vindurinn það burtu, og kalt loft legst að líkamanum í þess stað. Á þennan hátt flyzt hitinn ört frá líkamanum. Á þessu má ráða bót með vindfötum yzt klæða. Þau eru gerð úr þéttofnum léttum bómullardúk, striga, t. d. nál(ega vindheldum. Innan undir slíkum fötum er þá að mestu logn, og hlýindi lausofnu fatanna njóta sín aftur til fulls. Sama gagn gera og olíuföt, sem eru bæði vindheld og vatnsheld. Sjómenn nota þau og allajafna til þess að verjast næðingi. Ef vindþéttu fötin, sem sjálf eru þétt og köld, væru inst klæða, gjörbreyttust hlýindin og fatnaðurinn yrði hér um bil jafn kaldur og vindföt væru engin. Kalda loftið blési inn að vindfötunum, og kældi þau jafnharðan sem líkaminn hitaði. Til þess að vindfötin geri fult gagn þurfa þau að vera yzt

Þessa er sjaldnast gætt í fatnaði. Að nokkru leyti eru þéttir þæfðir ullardúkar látnir taka á móti vindinum, og þó treglega næði gegnum þá, eru þeir ekki sem bezt til þess fallnir. Aftur eru fóður oft allþétt, sama má segja um léreftsmilliskyrtur, en þessi lög eru milli fata og dúkarnir utan á þeim njóta þá lítt hlýinda sinna.

*Þykt og þyngd fata.* Þó hlýindi fata aukist eftir því sem þau eru þykkari, þá vaxa ekki hlýindin að sama skapi og þyktin. Ynstu lögin hlýja tiltölulega langmest.

Þetta sézt á efttirfarandi yfirliti, sem gerir ráð fyrir sama efni hver sem þyktin er (Almquist).

| | | | | | |
|---|---|---|---|---|---|
| Þykt | klæðnaðarins | 1 | mm. | hitatap | 100 |
| — | — | 2 | — | — | 79 |
| — | — | 3 | — | — | 71 |
| — | — | 4 | — | — | 64 |
| — | — | 5 | — | — | 58 |
| — | — | 10 | — | — | 41 |
| — | — | 16 | — | — | 30 |

Sé aftur miðað við hversdagsfötin, og hitatap á nöktum manni (inni í herbergi) talið 100, reyndist Rubner (hitageislun eingöngu):

| | |
|---|---|
| Hitatap í einni ullarskyrtu | 73 |
| — er bætt var við léreftsskyrtu | 60 |
| — — — — — vesti | 46 |
| — — — — — frakka | 33 |

Venjulegur klæðnaður minkar því hitatapið um $^2/_3$. Þá er aðgætandi að allar þessar tölur eru miðaðar við útlendan fatnað. Um íslenzka dúka eru engar rannsóknir til.

Þyngd fatnaðar er ærið misjöfn, 3—7 kg. eða meira. Það liggur í augum uppi, að föt eru því betri þess léttari sem þau eru, ef þau að öðru leyti gera sama gagn. Það er ekki eingöngu að þung föt þyngi menn niður, heldur verða þau ætíð stirð og erfið við vinnu. Það er því mikilvægt atriði að gera fötin sem léttust.

*Okostir hlýrra fata og þéttra.* Ef það eitt er haft fyrir augum að gera hlýindi fata sem mest, þá er að gera öll nærföt og milliföt úr prjónuðum eða lausofnum loftmiklum ullardúkum, hafa lögin ekki mjög fá, en yzt fataþunn og létt, en haldgóð og auðþvegin vindföt. Síðan þarf að búa svo um öll samskeyti fatanna, að ekki blási inn um þau þó í stormi sé, ekki upp með úlnliðnum upp handleggi o. s. frv. Slík föt geta verið funheit, létt og liðug, og verið auk þess haldgóð og auðveld að halda hreinum. Eigi að síður myndu flestir heilbrigðisfræðingar finna þeim margt til foráttu, jafnvel telja þau óholl.

Vér sjáum að oftast er mikill munur á hlýindum

karlmanna og kvenmannafata. Kvenfötin eru öll opnari og skjólminni, ermar oft stuttar, hálsmál vítt, pilsin opin að neðan og fatadúkarnir venjulega miklu þynnri. Og þó kvarta konur sjaldan öllu meira um kuldann en karlar. Þá finna menn lítt til kulda á höndum og andliti þó bert sé, og litlu meira á útlimum en bol. og eru þó fötin langtum hlýrri á bolnum. Að nokkru leyti stafar þetta af vananum, en annars er það eðli heilbrigðs líkama, að hann getur að miklum mun aukið brensluna og hitaframleiðsluna er hörundið mætir kulda, og haldist jafnheitur fyrir því, aðeins þarf fæðan að vera að sama skapi meiri sem kuldinn vex. En þessi dýrmæti hæfilegleiki að geta þolað bæði hita og kulda er mjög kominn undir æfingu eða herðingu. Mönnum, sem ætíð ganga í mjög hlýum fötum eða sitja í funheitum stofum, hættir til að sýkjast af kvefi og fleirum ofkælingarkvillum ef þeir verða fyrir kulda. Þeir verða kvellisjúkir og viðkvæmir fyrir öllu ef út af ber, hafa týnt þeirri list niður að þola kuldann.

Til þess að komast hjá þessu er venjulega ráðlagt, að hafa fötin hvorki mjög hlý né þétt, lofa loftinu að blása hæfilega gegnum þau, láta þau hvorki falla þétt að hálsi né úlnliðum, svo loftið geti vel leikið um líkamann. Fæðuna verður þá að auka eftir þörfum. Slík föt geta verið létt og liðug og þrengja hvergi að líkamanum eða blóðrásinni.

Þá er önnur aðalmótbáran sú, að ýms efni streymi stöðugt út úr hörundinu, meira en $^1/_2$ liter af vatni (sviti) á degi hverjum, nokkuð af þvagefni og kolsýru, að hörundið sé mikilvæg viðbót við nýru og lungu, en hlý og þétt föt hindri þessa starfsemi. Við þetta má bæta, að nái svitinn ekki að gufa greiðlega upp, verða fötin rök eða jafnvel blaut, og missa þá stórum hlýindin. Þá er og hætt við ofkælingu er sezt er fyrir, eða farið úr yztu fötum, og blautu fötin þorna á manni. Að lokum er viðbúið, að óloft og svitalykt setjist i fötin, ef þau eru mjög loftþétt. Það þykir einkenna illa siðaða menn mörgu framar, að þeim fylgir ætíð ódaunn af fúlum svita o. þvíl.

Nokkuð er til í öllu þessu, en frekar gilda þessar mótbárur í heitu loftslagi en köldu. Það er hægur vandi að klæða sig ekki meira en svo, að ekki verði maður kveifarlegur og séu fötin í sjálfu sér hlý, þá geta þau bæði orðið létt og ódýr. Hvað loftun fatanna snertir, þá þurfa þau að vera meira en lítið þétt til þess að hún verði ekki nægileg í íslenzkum stormum og óveðrum. Hitt er óefað, að þá eru fötin of þétt eða hlý, ef þau verða auðveldlega rök eða deig af svita, eða ódaunn vill koma af þeim. Samt verður aldrei fyllilega hjá þessu komist við erfiðisvinnu í hlýju veðri. Úr annari útgufun frá hörundinu, en vatninu í svitanum, er ekki mikið gerandi. Húðöndun manna er sárlítil og engin eiginleg eiturefni streyma út úr hörundinu, þó sumar bækur segi svo (t. d. Müllers). — Þegar öllu er á botninn hvolft, má hiklaust telja það rétt, hér á landi, að gera fötin hlý, úr lausofnum eða prjónuðum dúkum með allþéttu haldgóðu og auðþvegnu yfirborði yzt klæða, að svo miklu leyti sem loðskinn eru ekki notuð á vetrum. Þetta er léttast, liðugast og ódýrast, þó ofmikið megi af öllu gera, en svo hlýr þarf þó fatnaðurinn að vera, að manni sé notalega hlýtt. Hve mikið þarf til þess fer auðvitað eftir veðri, og vinnu þeirri sem stunduð er.

*Vatnsheld föt.* Vér höfum lengst af lifað, Íslendingarnir án þess að hafa vatnsheld föt og eru þau þó bráðnauðsynleg, ekki aðeins sjómönnum, heldur öllum, er votviðri ganga. Þau eru stundum gerð úr almennum dúkum, sem álúnssápur eða önnur vatnsfælin efni hafa sezt í, svo að vatn hrín lítt við fötin, þó ekki séu þau loftheld. Dúkarnir breyta ekki verulega útliti eða lit við slíka þéttun (imprægnering), en eru heldur ekki fyllilega vatnsheldir, ef mikið reynir á. Þessari aðferð er því lítt treystandi, þótt engan veginn sé hún gagnslaus. Þá er það og algengt, að gera föt vatnsheld og jafnframt loftheld, með þunnu lagi úr togleðri (gúmmí) eða gera þau úr sterku olíubornu lérefti. Togleðursfötin eru oftast ásjálegri en olíufötin, bæði ódýrari og sterkari. Fyrir þá,

sem nokkuð þurfa að vinna, eru olíufötin sjálfsögðu hlífðarfötin, enda ganga allir sjómenn í þeim. Það eitt eru ærin meðmæli.

Sá ókostur fylgir togleðurs- og olíufötum, að þau eru svo loftheld, að hætta er á að svitinn gufi treglega upp og klæðin undir þeim verði blaut. Þó ber lítið á þessu, ef hlífðarfötin eru vel víð, en svo eru olíuföt ætíð.

*Óhreinkun fata.* Flíkur óhreinkast mjög misjafnt eftir því hverjar eru. Sokkar eru orðnir jafnóhreinir (leisturinn) eftir einn dag og skyrta eftir 3. og nærbuxur eftir 8. Þá er sá munur á nærfötum úr ull eða bómull (líni), að sveiti gengur mjög gegnum ullarfötin og öll óhreinindi frá líkamanum dragast mjög út í þau, en miklu síður bómullarföt. Hörundið helzt því tiltölulega hreint ef verið er í ullarnærfötum, eins og sjá má á Íslendingum þó fæstir þeirra taki laugar, en óhreinindin sitja auðvitað í fötunum og þarf því að skifta þeim alloft og þvo þau.

Óhreinkun yfirklæða fer mjög eftir því að hvaða vinnu er gengið, en yfirleitt eru þau ekki þvegin og þola þvott illa. Að sjálfsögðu sezt í þau ryk og hverskonar óhreinindi, svo þetta er fjarri því að vera svo sem skyldi. Fyr eða síðar hljóta menn að krefjast þess, að y t r i f ö t s é u a u ð þ v e g i n engu síður en nærföt, enda ekki hættulaust að láta allan skít og sóttkveikjur sitja í þeim, að svo miklu leyti sem ekki má bursta hann úr. Að þessu hefir aðeins verið hugsað um útlit, hlýindi og slitþol ytri fata, verð o. þvíl.

*Loðskinnsföt* nota allar þjóðir að vetrinum, sem búa í köldum löndum, nema vér. Fornmenn notuðu þau mjög og það er tæpur mannsaldur síðan alþýða lagði þau algerlega niður til þess að gera. Hér er að ræða um skaðlega afturför og skammarlega, því loðskinn taka öllum fatnaði fram að hlýindum og vér höfum nóg af þeim. Loftmagnið er meira en í nokkrum dúkum 95—97%, loðnulagið þykt og afarhlýtt, en að utan tekur sjálft skinnið af allan súg, ef loðnan snýr inn. Skinnföt eru því bæði

tiltölulega létt eftir hlýindunum, endast lengi með góðri meðferð og kosta ekki mjög mikið.

Það eru einkum skinn af kindum og geitum, sem notuð eru til fata og má klippa eftir þörfum af ullinni. Hundsskinn eru mjög hlý, refaskinn eflaust hlýjust allra. En hver skinn sem notuð eru, þá þarf að súta þau, (álúnssúta) og það er eflaust fafræðin i þessu efni, sem hefir valdið því að skinnföt lögðust niður. Alþýða þarf að læra einhverja einfalda sútunaraðferð og fá nýtilegar leiðbeiningar um gerð loðfata.

Þeir ókostir fylgja loðfötum, að nálega er ókleift að þvo þau, að lús verður varla úr þeim náð og að þau meltast. Er það danskt orðtæki, að »setja lús í skinnfötin hans« ef manni er gerður grikkur. Melinn má forðast með því að brjóta vandlega pappír utan um fötin að sumrinu.

Í stað loðfata gætu ef til vill stundum komið tróðföt (»vatteruð«). Venjulega er bómullartróð notað, en æðardúnn hlyti að taka því langt fram. Dúnlagið þyrfti ekki að vera þykt og fötin yrðu því lauflétt. Utan um dúninn kæmi þá fiðurhelt bómullarléreft gegnstangað. Slíkum fötum fylgdi sami ókostur, að þau yrðu ekki þvegin.

Venjulega eru loðföt þannig gerð, að skinnið er sem fast fóður í dúkflík. Á hversdagsfötum er þetta algerlega óhentugt, því þá verður ekki yfirborðið þvegið, þó það mæti allskonar óhreinindum. Annaðhvort er að hafa skinnúlpu eða tróðúlpu sérstaka, undir einföldum utanhafnarstakki, eða festa aðeins skinnfóðrið með hnöppum svo taka megi það úr.

*Gerð og snið fata.* Þessu verður ekki lýst rækilega í stuttu máli, aðeins skal drepið á fáein almenn atriði og eru þá aðeins hversdags- eða vinnuföt höfð fyrir augum. Skartbúning getur hver haft eftir sínu höfði eða tízkunnar.

Vér höfum áður fært rök fyrir því, að öll nærföt og millíföt eiga að vera úr gisofnum eða

prjónuðum loftmiklum dúkum, en þétt haldgóð og auðþvegin yfirklæði. (Dæmi: ullarskyrta prjónuð, ullarpeisa og yzt strigastakkur). Ull er hvað bezt í öll nærklæði, en svo má þó prjóna og vefa bómull og lín að hlýtt verði og slík föt er auðvelt að þvo. Yfirklæðin eru bezt úr góðum bómullardúk, þunnum striga »nankin« eða þvílíku. Fóðurlaus eiga þau að vera og auðþvegin Engin flík á að vera svo, að ekki megi þvo hana. Milliskyrtur úr líni og léreftsfóður í fötum ættu helzt að hverfa úr sögunni.

Fatnaður má hvergi þrengja um of að líkamanum. Hættast er við þessu um mittið (lífstykki, belti, þröng föt), um fótleggi (sokkabönd) og hálsmál (stífað lín). Það verður því að halda fötunum uppi á þann hátt, að þyngslunum sé sem jafnast skift á mjaðmir og axlir, án þess að strengja þau verulega að líkamanum. Að nokkru leyti má gera þetta með axlaböndum, að nokkru með því að sníða fötin sem bezt eftir mjöðmunum, en auk þess má og festa föt saman með böndum eða á annan hátt, sokka við nærbuxur o. þvíl Ef buxur falla vel að mjöðmunum (sniðnar eftir þeim) haldast þær uppi án axlabanda, en þau geta valdið nokkrum óþægindum t. d. við slátt. Ef belti er notað, á það að vera sæmilega breitt og ekki strengt fast.

Op og samskeyti á fatnaði á að gera svo að hvorki þrengi þar fötin né blási til skaða inn undir þau, og auk þess þarf að vera mjög auðvelt að loka samskeytum og opna þau. — Flegna hálsmálið ætti ekki að sjást á hversdagsfötum nema loka megi, en lítill hálsdúkur eða klútur getur verndað ytri fötin frá því að núast við hörundið. — Ermaopum loka Ameríkumenn á skjólfatnaði með prjónasmokk, sem festur er að ofan innan í ermina, en að framan er í honum teygjuband, sem heldur honum lauslega að úlnliðnum og þó svo að hvergi blæs innundir. — Vetrarföt skulu tvíhnept og annaðhvort haldið saman með málmspennum eða stórgerðum hnöppum og hneslum, svo hneppa

megi með vetlingum. Getur slíkt varðað lífi loppins manns í stórhríð.

*Fatnaður karla* er nú að sumu leyti góður, sumu illur. Skuggalegur er hann og fábreytilegur. Milliskyrtur úr líni eða þéttum dúk eru heimska ein. Fóðraða vestið með þunna bakinu líka. Jakkinn ætti að vera með ullarfóðri eða fóðurlaus, venjulega hneptur upp í háls, og þó verður hann aldrei vel hentugur, því hann er ekki auðþveginn og á þó að taka við miklum óhreinindum. Utan yfir prjónaskyrtuna[1]) ætti að koma prjónapeysa, þykk eða þunn, hnept á öxlinni og yzt bómullar- eða strigakufl[2]) með líku sniði og kyrtill fornmanna. Hann næði þá niður á lær og væri lauslega haldið saman með belti, líkt og enn gerist í Rússlandi. Brækur ættu að vera einar, eða tvennar prjónabrækur, og þéttar bómullarbrækur utan yfir þeim, sem væru auðþvegnar.

*Kvenfatnaður* hlýtur ætíð að verða öðruvísi en karlmanna. Konur eiga börn og breyta svo mjög útliti eftir aldri. Pilsin og víðu kvenfötin eru sprottin af þessari nauðsyn, en auk þess svara snöggklæddar konur sér illa, því fæturnir eru tiltölulega styttri en á karlmönnum, og þar á ofan sýnast þær mun lægri en í kvenfötum. Þá mun og treglega ganga að útrýma víðu hálsmáli og stuttum ermum, meðan körlum þykja kvenbrjóst og berir armar fagrir. Annars má líkt segja um kvenfatnað og og karlmanna. Lífstykkið þrengir að lungum og andardrætti. Það getur valdið blóðleysi, ef til vill berklaveiki. Það þrengir að kviðnum, getur spilt meltingu og greitt fyrir myndun gallsteina. Víst er það og ómótmælanlegt, að það rýrir bak- og kviðvöðva stórum, og þess vegna finst þeim, sem á það venjast, að þær geti ekki án þess verið. Þó verður þetta tæpast sagt um mjög

---

[1]) Mjög hentugar og sennilega hlýjar eru skyrtur úr hörprjóni. Þær taka ágætlega þvotti. Þó standa þær mikið ullarskyrtum að baki hvað hlýindi snertir.

[2]) Auðvitanlega má nota ullarföt yzt klæða, en þau eru ekki eins auðþvegin og dýrari.

lipur og lítt strengd lífstykki. — Pilsin hanga allajafna á mjöðmunum einum og þrengja oft meir að mittinu en holt er. Úr því má bæta með einhvers konar axlaböndum. Mjög síð pils dragast niður í skarnið, slitna og skitna, og eru því mjög óhentug. Sem hversdagsfat er íslenzka peysan of stirð og þröng, nema prjónapeysa sé, og vaðmálspilsin of þung, ekki sízt er þau blotna. Einfaldur striga- eða bómullarkjóll yzt klæða er hentast sem hversdagsfatnaður við vinnu.

*Höfuðbúnaður* skiftir minstu nema á vetrum og í votviðrum. Í votviðrum er sjóhattur sjálfsagður, á vetrum loðhúfa og ef til vill með Mývatnshettu innan undir í verstu veðrum. Þá er það og skrælingjaháttur, að ganga með augun óvarin í hvaða hríð sem er. Nú er völ á ágætum hríðargleraugum, sem gerð hafa verið handa bílstjórum og flugmönnum. Má og skeyta við þau grímu úr loðskinni eða öðru sem verndi andlitið. Steingrímur Matthíasson læknir lætur mikið yfir Mývatnshettu og hríðargleraugum.

Höfuðbúnaður kvenna vill oftast verða fremur til skarts en nytsemdar. Í votviðrum er ekkert sem jafnast á við sjóhatt, og í þurki er einföld kollhetta ef til vill bezti vinnubúnaðurinn.

Vetlingar. Þó íslenzkir prjónavetlingar séu að ýmsu leyti góðir, þá eru þeir of kaldir í illviðrum, jafnvel þó tvennir séu. Stormurinn blæs gegnum óþéttan prjónadúkinn. Ekki eru þeir heldur haldgóðir við vinnu og vatnsþéttir eru þeir ekki. Þá eru samskeytin við ermar óþétt, svo úlnliðurinn kólnar.

Skjólgóðir vetrarvetlingar eiga að vera tvöfaldir, ytra borðið eða ytri vetlingurinn á að vera víður belgvetlingur, úr sterku, sútuðu og vatnsheldu skinni,[1]) og ná svo hátt upp, að samskeytin verði þétt milli ermar og vetlings. Í sjálfu skinninu er nokkurt skjól, en aðallega

---

[1]) Steingrími Matthíassyni lækni hafa og gefist vel vaxdúksvetlingar á ferðalögum utan yfir.

á það að taka við sliti, vatni og vindi. Innri vetlingurinn á að vera sérstakur, þykkur og skjólgóður ullarvetlingur, sem taka megi úr og þvo, eða úr loðskinni. Loðskinnið er langheitast (snögt hundsskinn), en þykkara og ilt að þvo það. Þó nota útlendingar loðvetlinga allajafna í miklum kulda. Samskeytin milli ermar og vetlings má þétta á ýmsan hátt, en hversu sem umbúnaðurinn er gerður, þá þarf hann að vera sterkur, einfaldur og auðveldur að losa og festa. Vetlingar flugmanna og bílstjóra eru flestir af líkri gerð og hér er lýst. Þröngir mega vetlingar ekki vera. Þeir verða þá ætíð kaldir.

*Fótabúnaður.* Vér fáum tæpast aðra s o k k a betri en góða íslenzka ullarsokka. Þeir eru bæði sterkir og hlýir. Þó slitna þeir helzt til fljótt á hælum og tám. Væri því réttast að gera hælana tvöfalda, svo sem er í sumum útlendum sokkum, eða gera þá úr vænu garðaprjóni, sem sagt er að sé haldbetra. Tvent gæti og komið til tals: að hafa blátt áfram hælinn opinn, því kuldi leitar lítt á hæla, eða nota hvítsútað skinn í hælana. Í miklum kuldum er sjálfsagt að vera í tvennu, sokkum og allháum háleistum. Enn betra er, og í raun og veru hið eina sem er ótvírætt, að vera i loðskinnsháleistum (lambsskinn, hundsskinn, kattarskinn). Þetta hefir gefist Steingrími Matthíassyni lækni ágætlega. Útlendu bómullarsokkarnir eru yfirleitt bráðónýtir, og útlendir ullarsokkar miklu lélegri en vorir, þó áferðin sé fallegri. Og þó kaupir fólkið slíkan varning, jafnvel sveitafólk.

Íslenzku s k ó r n i r eru handaskömm og hafa ekkert til síns ágætis nema léttleikann og að allir geta gert þá úr innlendu efni. Þeir eru kaldir og haldlitlir, hlífa fætinum lítt og sízt fyrir vatni, epjast og úldna í votviðrum, skorpna og harðna í þurkum, og er ekki einu sinni svo vel að þeir meiði ekki eða aflagi fótinn, því þeir valda oft slæmri skókreppu, einkum harðir leðurskór, og aflaga fótinn.

Góðir útiskór þurfa að hafa marga kosti, vera vatnsheldir upp að öklum að minsta kosti, þrengja hvergi að fætinum, meiða hann né aflaga, vera sterkir, ódýrir og

helzt svo, að almenningur geti gert þá úr innlendu efni. Það er erfitt fyrir oss að samrýma alt þetta.

Fyrst má þá nefna, að tréskór eru minna notaðir en skyldi. Þeir eru tiltölulega ódýrir og endast vel, ef þeir eru strax varðir með járni eða þvíl. Heitir eru þeir og vatnsheldir, venjulega vel lagaðir eftir fætinum. Þyngslunum venjast menn. Hvað beztir eru tréskór með yfirleðri. Auðvitað henta ekki slíkir skór við alla vinnu, fjallgöngur, smalamensku og þvíl. En miklu meira mætti nota þá en gert er. Því miður eru þeir hvergi smíðaðir hér, en ekki virðist slíkt smíði ofvaxið hverjum lagtækum manni.

Ef tréskóm er slept, eru sterkir, útlendir vatnsleðurskór hvað beztir (verkamannaskór). Þeir eru auðvitað úr sútuðu leðri, en ófóðraðir. Það ætti að geta orðið heimilisiðnaður hér á vetrum að gera slíka skó, engu síður en í norsku sveitunum, og sútunarsmiðjur þyrftum vér að fá, svo bændur gætu látið súta leður sitt til skógerðar. Við þetta sparaðist leðrið stórum, því sútað skinn endist miklu betur en ósútað, og kynni almenningur til skógerðar, þá væri auðvelt að gera við skó með útlendu sniði Þá þarf alþýða að læra að hirða slíka skó, bera á þá og þvíl. — Vatnsstígvél úr góðu leðri verða hentugustu skórnir í slark og ferðalög, en vatnsheldar ytri buxur verða að ganga niður á þau, eða búa svo um á annan hátt, að vatn nái ekki að renna ofan í stígvélin.

Eflaust má og endurbæta íslenzku skógerðina. Óumflýjanlegt yrði þó að súta skinnið. Sólana mætti gera úr leðri, og beygja það upp með fótjöðrunum, en sauma við rendur þess þynnra skinn (sauðskinn) sem hlífði ristinni upp að öklum. Komið gæti og til tals að festa (negla með sérstökum nöglum) slitsóla neðan á aðalsólann. Norðmenn hafa skó af líkri gerð, sem endast vel.

*Lag og snið* skófatnaðar er allajafna herfilegt. Íslenzku skórnir ganga í odd að framan, og eru alls ekki sniðnir eftir fætinum. Ef þeir harðna, einkum leðurskór, beygja

þeir stóru tána út á við, aflaga fótinn og meiða.[1]) Sama er að segja um oddmjóu, útlendu skóna, sem öll ástæða væri til að banna að flytja inn. Allir skór eiga að vera sniðnir eftir fætinum, og hvernig hans rétta lag er sést bezt á barnsfæti. Innjaðar fótarins alls, fram á stóru tá, er þá nálega bein lína, og stóra táin ekkert sveigð út á við, en að framan má svo heita að fóturinn sé snubbóttur. Slíkt náttúrlegt lag á fæti er fagurt, og það er beinlínis smekkleysi að halda, að oddmjóu skórnir séu fagrir.

Inniskó, funheita og endingargóða, má búa til úr allskonar pjötlum af ullardúkum, ef menn kunna til þess. Yfirborðið (tvöfalt eða þrefalt) er þá gert úr þokkalegum dúk yzt, en sólinn stagaður saman úr hvaða hreinum pjötlum sem vera skal og hafður 1—2 cm. á þykt. Neðan á hann má svo festa sóla úr sauðskinni eða þvíl. — Gerðin á slíkum »tuskuskóm« er afareinföld, en þó þarf maður helzt að hafa fengið dálitla leiðsögu í að gera þá.

Allur fótabúnaður þarf að vera sæmilega víður, bæði skór og sokkar. Annars verður hann ætíð kaldur, óþægilegur og óhollur.

---

*Fatnaður fornmanna.* Það er ekki ófróðlegt að vita nokkur deili á fatnaði þessara frægu forfeðra vorra á söguöldinni og geta borið hann saman við það sem nú gerist. Þekkingin á þessu efni er eflaust ekki svo góð sem æskilegt væri, en hversdagsbúningur mun þó hafa verið svipaður því sem hér segir:

Karlmenn höfðu inst klæða hvíta vaðmálsskyrtu, sem ekki var hnept í hálsinn, en höfuðsmáttin svo víð, að nægði fyrir höfuðið. Heldri menn höfðu og skyrtur úr líni. Milliskyrta var engin og ekkert vesti, en yfir skyrtuna kom kyrtillinn, eins konar úlpa úr hvítu eða lituðu vaðmáli, sem náði niður að hnjám Henni var steypt yfir höfuðið. Höfuðsmáttin var víð og óklofin.

[1]) Þröngir, oddmjóir skór aflaga alla beinagrind fótarins og liðamót, einkum tánna, valda líkþornum og alls konar fári.

Ermar voru á kyrtlinum með venjulegri lengd. Kyrtilinn bundu menn að sér um mittið með belti. Í stað kyrtilsins kom og allajafna stakkur eða treyja af líkri gerð, en styttri, og var stakkurinn stundum úr loðskinni. Brækur voru úr hvítu eða lituðu vaðmáli, ýmist stuttbrækur eða langar, og náðu þá niður á ökla. Nærbrækur voru stundum úr líni, en annars gekk alþýða allajafna í einum brókum. Axlabönd voru engin og var brókunum haldið uppi um mittið, með brókarbelti eða bróklinda. Á fótum höfðu menn upprunalega vafspjarrir, vaðmálsræmur, sem vafið var um fæturna og upp legginn, en síðar saumuðu menn sér sokka úr vaðmáli og voru þeir stundum fastir við brækurnar (leistabrækur). Utan yfir vafspjarrirnar, eða sokkana, komu svo skinnhosur (skinnsokkar) eða skór úr ósútuðu skinni eða sortulituðu, líkt og enn gerist. Um hendur ofanverðar vöfðu menn í fyrstu dúkrenningum, en saumuðu síðar vetlinga úr vaðmáli. Þess eru og dæmi, að vetlingar voru brugðnir eða saumaðir, svo gerðin var ekki óáþekk prjóni.

Þá höfðu karlmenn og yfirhafnir af ýmislegri gerð. Skykkjan var hvað algengust, að minsta kosti hjá þeim sem vel voru búnir. Hún var ermalaus og var annaðhvort haldið saman á brjóstinu með sylgju eða hálsmálið dregið saman með tygli (bandi). Skykkjan var fóðruð með loðskinni en ytra borðið úr dúk eða vaðmáli. Kápa var og algeng yfirhöfn og svipaði til yfirhafnanna á vorum dögum. Hún var með ermum og hnept að framan, oft með áfastri hettu eða hatti að ofan. Efnið var vaðmál, en stundum var kápan fóðruð með skinni. Kufl var svipaður, en ekki hneptur að framan heldur smeygt yfir höfuðið eins og kuflum sjómanna vorra. Venjulega var hann úr vaðmáli, stundum úr skinni.

Búningur kvenmanna var svipaður. Skyrtan var flegin niður að geirvörtum, ermarnar náðu oft ekki lengra en að olnboga. Stundum voru skyrturnar ermalausir bolir og voru þá nefndar smokkar. Brækur voru úr vaðmáli eða líni, en ætíð opnar. Utan nærfata

kom kyrtill, svipaður kyrtli karlmanna en nálega skósiður, víður að neðan og fleginn í hálsmálið. Honum var haldið saman um mittið með belti. Yfirhafnir kvenna voru svipaðar karlmanna: skykkja eða möttull (án skinnfóðurs), kápa og kufl. Sokkaplögg skór og vetlingar voru sams konar eða svipað og karlmanna.

Það sem hér er sagt, nægir til þess að gefa hugmynd um hversdagsbúning fornmanna. Hitt skiftir minnu, að búningur höfðingja og efnamanna var oft skrautlegur og íburðarmikill, jafnvel úr silki og öðrum útlendum efnum. Alþýða hafði minst af því að segja.

Það leynir sér ekki að búningi fornmanna var í mörgu áfátt. Vaðmál var aðalefnið og það var flest gróft og miklu lakar unnið en nú gerist á góðum tóskaparheimilum, enda var það ekki furða er alt var spunnið á snældu og ofið í gamla vefstólnum. Prjón þektu menn ekki og gat því tæpast verið að tala um voðfeld nærföt, hentuga vetlinga eða sokka. Fötin hafa yfirleitt verið frjálsleg og hvergi strengd svo að til óþæginda væri, en köld ef ekki var verið í yfirhöfn, eflaust of skjóllítil í köldu landi, og þarf ekki annað en minna á einfaldar brækur, lélegu vetlingana og fótabúnaðinn. Að einu leyti stóðu þó fornmenn framar: Þeir notuðu loðskinn meira til yfirhafna en vér. Þó sniðið á skykkju og feldi væri ekki hlýlegt, þá voru loðkápa og skinnkufl eflaust mjög skjólgóð föt. Mestmegnis voru það sauðargærur sem notaðar voru til fata, einnig skinn af refum, köttum o. fl. Fornmenn hafa bersýnilega verið illa settir með vatnsheld föt, því ósútuð skinn voru að mörgu leyti óhentug, en engir dúkar þeirra vatnsheldir. En þrátt fyrir alla gallana var sumt í fatagerð fornmanna betra en nú gerist t. d. kyrtillinn hentugri hversdagsflík en jakkinn.

*Fatnaður hermanna.* Búningur hermanna í heimsstyrjöldinni miklu er eflaust ágætt sýnishorn af framtíðarbúningi karlmanna. Þar var alt gert sem auðið var, til þess að fá vandaðan og hentugan fatnað, sem væri

léttur, haldgóður, hlýr (vetrarfötin) og ódýr. Því miður er mér ekki fullkunnugt um gerð hans, en af því sem ráða má af myndum (amerískum) hafa nærklæði verið úr ullarprjóni eða ullareinskeftu (flúneli) en yfirklæðin þéttur, tvíhneptur, óþveginn mó- eða gráleitur bómullargarri, og stuttbuxur úr svipuðu efni. Vetraryfirhafnir hermanna hafa verið hér til sölu (enskar). Yzta borðið er úr tiltölulega vatnsþéttum (impraegneruðum) bómullardúk. Innan þess er þunt olíuléreft, en inst kafloðin ullareinskefta. Bómullardúkurinn yzti er til þess að taka á móti sliti og óhreinindum og að nokkru leyti móti vatni. Olíuléreftið gerir fötin vatnsheld og vindheld, loðna ullareinskeftan gerir þau hlý. Þeir sem reynt hafa yfirhafnir þessar segja þær ágætlega hlýjar, og mjög léttar eru þær. Hversu vetlingar og fótabúnaður hafa verið er mér ekki kunnugt. Hvorttveggja hefir eflaust verið ágætt og svipað því, sem hér er lýst að framan, að svo miklu leyti sem samrýmanlegt var við hernaðarstörf og manndrápin. Loðföt voru og mjög notuð að vetrinum og einkum úr kindaskinnum. Þau eru og notuð í fatnað flugmanna.

---

# Ritfregnir.

**Dr. Helgi Pjeturss, Nýall.** Nokkur íslenzk drög til heimsfræði og líffræði. I.—II. Rvík 1919—1920. Bókaverzlun Guðm. Gamalíelssonar.

Sumar bækur hafa það til ágætis sér, að þær koma heim við skoðanir almennings og segja það, sem flestir vildu sagt hafa. Þær eru með þakklæti meðteknar, því að þær auka gleði lesandans yfir því, að vera eins og aðrir menn, hugsa eins og þeir, tala eins og þeir. Þær glæða samábyrgðartilfinninguna: Lesandinn finnur að hann er ekki einn um sína skoðun, að þarna bætist enn einn við hóp hinna rétttrúuðu og að sannanabyrðin á baki hvers einstaks verður að sama skapi léttari. Menn horfa í anda öruggir fram á leið, þegar allir verði sömu skoðunar, ein hjörð og einn hirðir: »Det er saa yndigt at fölges ad!«

N ý a l l er af alt öðru tæi. Hann hefir það til ágætis sér að stinga í stúf við það sem aðrir rita, fara þvert úr leið almannahyggjunnar og halda fram skoðunum, sem vera mundu sumar Gyðingum hneyksli og Grikkjum heimska. Til að skrifa slíka bók, þarf meira hugrekki en flesta mundi gruna, enda ber hún þess víða helzt til mikil merki, að höfundi finst þungur straumurinn á móti, en hann heldur sitt stryk, með trúnaðartrausti brautryðjandans, og einlægni hans og þor að fara sinna ferða, er hvorttveggja jafnfágætt.

»Hið mikla samband« er aðalefni bókarinnar. »Það sem stefnt er til, má vissulega kalla hið mikla samband. Miljarðar af frumum hafa fyrir samband sín á milli orðið að líkama, sem er ótrúlega miklu merkilegri, en eðli hverrar einstakrar frumu virðist gefa ástæðu til að ætla að orðið gæti. Og sambandsviðleitninni er haldið áfram á hærrra stigi. Eins og stefnt var til sambands milli þúsunda miljóna af frumum, þannig er stefnt til sambands milli þúsunda miljóna af frumufélögum. Og veran, sem kemur fram,

mun verða ótrúlega miklu merkilegri en eðli hvers einstaks frumufélags, hvers einstaks manns, virðist gefa ástæðu til að ætla, að orðið geti. Og það er stefnt til sambands, eigi einungis milli hundraða og þúsunda miljóna á einum hnetti, heldur milli alls hins óumræðilega fjölda af lifandi verum í óteljandi sólhverfum og vetrarbrautum. Og einstaklingseðlið mun ekki hverfa, heldur fullkomnast fyrir sambandið«. (Nýall, bls. 108).

»Fyr er ekki rétt stefnt en til þess stefnir, að hver einstaklingur fái þátt í öllu lífi, og alt líf þátt í hverjum einstökum. Í allri heimspeki og goðasögum mörgum og trúfræðum er einhver viðleitni á að skilja þetta, eða eitthvað af þessu sagt«. (Bls. 184).

»Guðleg fullkomnun er það, að allar meðvitundir séu í einni og ein í öllum. Má glögt skilja, hvernig það getur orðið. Og nú má skilja hvernig allur hinn mikli heimur getur orðið vort heimkynni, og alt heimsins afl vort afl. En sá heimur, þar sem krafturinn sá sem lífið er af, hefir unnið fullkominn sigur, verður mjög breyttur heimur«. (Bls. 110).

Þessar stuttu tilvitnanir sýna grundvallarskoðun höfundarins, en til stuðnings því, að svo víðtækt samband geti átt sér stað, minnir hann á skoðun Faradays, »að hver ódeilisögn (atom) hefði áhrif á allar aðrar, það er að segja á allan heiminn«. (Bls. 36). Hins vegar byggir hann mjög á þeirri reynslu um dáleidda menn eða »svafða«, að þeir geti orðið »samvita« eða »samsála« dávaldinum, »svafninum«, t. d. fundið í munni sér bragð af því, er hann lætur upp í sig. Þykir honum það benda á, að eins líkami geti »magnast af annars sál« og eigi slíkt sér stað í draumum, draumar sofandans séu í raun réttri skynjanir vakandi manns, er magni hann. »Og líkt er það með ímyndanir hins vitveika, hann heldur að hann sjái og heyri það sem einhver annar sér og heyrir í raun og veru; og þegar vitveikin kemst á hæsta stig, heldur maðurinn að hann sé þessi annar« (bls. 15). Þar sem nú höf. gerir ráð fyrir að draumar séu af þessum toga spunnir, en margt ber í drauma sem eigi fyrirfinst á þessari jörð, þá þykir honum sýnt, að það stafi af sálufélagi við verur á öðrum hnöttum.

Hér er þá komið að því í kenningu höf., sem öllum almenningi mun koma kynlegast fyrir sjónir. Sálufélag við verur á öðrum hnöttum, er ekki hversdagsleg hugsun. Og mörgum mun hinsvegar finnast, að nauðsyn væri á að þekkja betur en orðið er »sálufélag« manna á þessari jörð, áður en lengra er leitað, enda þykja það mjög ótrúlegt, að allir draumar stafi af sálufélagi, þó

svo muni vera um suma. En tilgátur eru eins konar leitarljós eða ljósvörpur vísindanna og verða að lokum metnar eftir því, hve margt nýtt þær leiða í ljós. Og hvort sem menn fallast á grundvöll höf. og niðurstöður hans eða ekki, þá berst hann svo fimlega fyrir þeirri skoðun sinni, að »trú og forn speki eigi upptök sín í vitssambandi við verur lengra komnar að þekkingu en mennirnir eru á jörðu hér«, og fær svo einkennilegt samræmi í margt það, er engir hafa áður skoðað í sambandi hvað við annað, að ýmislegt verður í öðru ljósi eftir en áður. Og hann fer víða yfir: Líkamningar á miðilfundum og sambandið við »andana«, miðlar og hofgyðjur, Kristur og postularnir, suðræn og norræn goðafræði, hugarheimur Platós og Plótíns, Sólarljóð og Swedenborg, Grundtvig og Gabriel, guðspeki og goðatrú er honum alt jafnheimilt, sem drög til nýrrar heimsfræði, eins og náttúrufræðilegar athuganir hvaðanæfa. Hefi eg að þessu sinni hvorki rúm né tíma til að rekja það nánar, enda geta menn lesið bókina sjálfir. Og ávalt er það fjörgandi að lesa það, sem Dr. Helgi skrifar, því að hann er einn þeirra fágætu manna, sem ekki eru lestrækir á vegum hugsunarinnar, heldur leiða sjálfir sjálfa sig og þora jafnframt að kveða upp úr með það, sem í brjóstinu býr. Og svo sem athuganir hans eru jafnan frumlegar, svo er og orðbragð hans mergjað og persónulegt, og eigi hafa aðrir meiri metnað fyrir íslenzka tungu en hann. — »Beittu stjörnu fyrir vagninn þinn«, segir Emerson einhversstaðar, ef eg man rétt. Það hefir Dr. Helgi Pjeturss gert, og því verður för hans jafnan merkileg. G. F.

**Eggjum-Stenens Indskrift med de ældre Runer**, udg. for det norske historiske Kildeskriftfond ved Magnus Olsen. Chria 1919 (= sérprentun úr »Norges Indskrifter med de ældre Runer«, III).

Steinn þessi er vafalaust einna merkilegastur allra norrænna rúnasteina með eldri rúnum, en af þeim eru til nál. 200, er fundist hafa í Noregi, Svíþjóð og Danmörk, þótt ekki hafi tekist að ráða meira en 80—90 af þeim, er hafi málfræðilegt gildi. Allir eru þessir frum-norrænu rúnasteinar (með eldri rúnum) frá 3. til 8. old eftir Krists burð, og eru á flesta þeirra rist örfá orð, stundum aðeins eitt. Torvelt er að ráða rúnirnar á þessum steinum, einkum þeim, er fleiri orð hafa, því að greinarmerki eru sjaldnast sett. Eggjum-steinninn, er fanst 1917, og Magnus Olsen próf. í Kristjaníu hefir ráðið, hefir lengsta áletrun, og sýnir rit þetta um Eggjum-steininn, hve langt má komast í ráðningu dular-

fullra rúna, ef skarpskygni og ítarleg þekking fara saman. Ristan lítur þannig út (umrituð með latnesku letri):

hinwarbnAseumaRmAdeþAimkAibAibormoþA-
hunihuwARobkamhAri sahi alatgotnAfisKR-
or[uki]nAuimsuemadefoklifs[litinA]g[A]lAnd(e)is |
A[lin]misurki | nissolusotuknisAksestAinskorin-
ni[sAti]mARnAKdanisn Ar eRniwiltiRmanRlAgi |
hin la —

Umritað á fornislenzku af M. Olsen:

A (I.) *Hin varp *ná-sæ (II.) maðr, máði þeim
keipa í *bor-móða húni.
(III.) Hverr of kom hers á
*hí á land gotna?
(IV.) Fiskr ør[uggi] *ná-vim svimandi, } þ. e. Ormari
fugl, ef s[liti ná], galandi —
B. es | a[linn] *misyrki.
C. Ne's sólu sótt ok ne saxi steinn skorinn;
ne [seti] maðr nøkðan,
ne snarir, ne villtir menn leggi. —

Án vafa er C rétt lesið og er merkingin: steinninn er skorinn með öðru en saxi (hníf), líklega beini, og galdrarúnir ristar á hann að næturlagi (ne's sólu sótt); á hann að flytjast á sleða (*bor-móða húni) og er honum er komið fyrir eiga (galdra-) rúnirnar að snúa niður (ne [seti] maðr nökðan) og ekki mega leggja hann snarir menn (ɔ: þeir, er gátu haft skaðleg áhrif á rúnasteininn og mátt hans) eða viltir (ɔ: þeir, er gátu vilzt, orðið fyrir skaðlegum áhrifum af völdum galdrarúnanna). A og B er vafasamara, en all-líklegar eru skýringar höf., og vitnar hann hvarvetna í fornnorræn rit, einkum goðsagnir Edduljóðanna, getgátum sínum til stuðnings. Ef skýringarnar eru réttar er merkilegt samræmi milli kenninganna á steini þessum (*ná-sjór, *bormóðr, *orm-are, *misyrki) og skáldakvæðanna; ýmislegt er og svipað Edduljóðum; *bormóðr minnir á egg-móðr í Grímnismálum og land gotna á Gotna land í Grímnism.; þá minnir og ormurinn (fiskr ör[uggi] o. s. frv.) á Níðhögg í Völuspá, galdrarúnirnar og notkun þeirra á þessum rúnasteini á rúnaljóðin í Hávamálum og Sigurdrífum. Alt þetta bendir á, að goðasagnir Edduljóðanna áttu sín heimkynni í Noregi og tengir aletrun þessi, ef rétt er skilin, fastar saman fornislenzkan

og norskan skáldskap. Mætti því ef til vill ætla, að sum Edduljóðin væru enn eldri en nú er alment álitið. Lítill munur er á málinu á rúnaristu þessari og fornislenzku, en fornfræðileg og málfræðileg gögn benda á, að rista þessi sé frá því nál. 700 e. Kr. eða frá byrjun 8. aldar. Málið á ristu þessari bætir litlu sem engu við þekkingu manna á frumnorrænni tungu, þareð mikilsverðustu breytingarnar í frumnorrænu urðu nokkru á undan (á 7. öld).

A. J.

**Bjarni Sæmundsson: Bidrag til Kundskaben om Islands polychæte Börsteorme** (Annulata polychæta Islandiæ). (Særtryk af Vidensk Meddel. fra Dansk naturhist. Forening Bd. 69).

Ritgerð þessi er 78 blaðsíður og fylgir henni eitt myndaspjald.

Höf. byrjar ritgerðina með þeirri athugasemd, að eitt og hið sama megi segja um flesta hinna lægri dýraflokka á Íslandi og við strendur þess, sem sé: að hingað til sé lítið eða ekkert kunnugt um þá. Því gleðilegra er þegar eitthvað bætist við og gloppunum fækkar.

Þá telur höf. það litla sem áður var kunnugt. Hann byrjar auðvitað á Eggert Ólafssyni, en lætur þess þó getið, að Eggert hafi athugað burstaormana (telur 11 tegundir) miklu minna en ýmsa aðra flokka lægri dýra. Þá nefnir hann Mohr (18 teg.), Svein Pálsson og Faber og auk þeirra Jón Guðmundsson lærða og Jón Ólafsson Grunnvíking. Árið 1846 ferðaðist hér þýzkur dýrafræðingur, C. Bergmann. Hann fann 18 burstaorma. Þá safnar O. Torell (1857) 43 ormategundum. Því næst getur höf. um Taubers yfirlit yfir danska orma, en þar eru taldir 47 ormar frá Íslandi. G. Armauer-Hansen telur 32 tegundir frá Íslandi og M. R. Levinsen telur (1882—83) 71 ormategund íslenzka.

Höf. hefir haft alt íslenzka ormasafnið á dýrasafninu í Kaupmannahöfn til athugunar. Hafa ýmsir safnað því, t. a. m. Japetus Steenstrup, W. Lundbeck, R. Hörring, A. Ditlevsen, Helgi Jónsson og Johs. Schmidt. Þá hefir hann og notað ormasafnið á náttúrugripasafninu í Reykjavík, en þar er alt hans mikla ormasafn geymt. Þar er og safn Gröndals.

Þetta eru allmikil söfn, og mátti búast við að margt nýtt kæmi þar í ljós, enda hefir og sú raunin á orðið. Tegundatala íslenzku burstaormanna hefir hérumbil tvöfaldast; áður voru kunn-

ar (tæplega) 74 tegundir, en í riti þessu eru taldar 137[1]) tegundir alls, og er þá sextíu og fjogra tegunda getið hér í fyrsta sinni í Íslandssjó.[2]) Af þessum tegundum eru tvær nýjar »fyrir vísindin«, eins og að orði er komist. Nafn þeirra er: Grubeosyllis Jonssonii B. Sæm. fundin af Helga Jónssyni á Djúpavogi (í þarabeltinu í 19—25 m. dýpi) og Melinna islandica B. Sæm., fundin af Hörring (á Dýrafirði í 19—24 m. dýpi).

Íslands sjór hefir verið alt of lítið rannsakaður, enn sem komið er, til þess að auðið sé að gera nákvæma grein fyrir útbreiðslu burstaormanna við strendur landsins. Höf. bendir þó á, að nokkur munur sé á tegundum í kalda sjónum (t. d. við Austurland) og heita sjónum (t. d. við Suðurland).

Höf. bendir einnig á hverja þýðingu burstaormarnir hafi í »búskap« náttúrunnar. Eru þeir fæða fyrir stærri dýr, einkum botnfiska, t. d. heilagfiski, þorska o. fl.). Ormategundir í leðjubotni, sem veiður þur um fjöru, eru og jetnar mjög svo mikið af vaðfuglum. **Helgi Jónsson.**

**Bjarni Sæmundsson: Fiskirannsóknir** 1917 og 1918 (sérprentun úr Andvara XLIV).

Þessar fiskirannsóknaskýrslur eru þegar alþektar og kærkomnar öllum, sem eitthvað eru við fiskiveiðar riðnir.

Í þessari ritgjörð er fyrst talað um rannsóknarferðirnar. Hefir höf. ferðast til Eyrarbakka og Stokkseyrar, Grindavíkur, Akraness og Suðurnesja. Ritgjörðin er full af fróðleik. Þar er talað um lendingar, um hafnir og hafnleysur, um möguleika til að bæta og búa til hafnir o. s. frv., um veiðarfæri, veiðiaðferðir o. fl.

Höf. bendir á, að nóg muni vera af síld, »frá því á vorin og fram á haust«, við suðvesturströnd landsins, og álitlegt væri að stunda þar síldarveiði með reknetum á mótorbátum. Þessar síldveiðar »ættu að geta orðið eins notadrjúgar og hinar uppgripamiklu veiðar við norður- og vesturströndina«. Þessar veiðar mundu að öllum líkindum verða tryggari en hinar orðlögðu síldveiðar við Norðurland. Hér er eflaust um framtíðarmál að ræða, sem vert er að athuga. Réttast væri að gera tilraunir þegar í stað og halda þeim áfram nokkur ár, ef það er mögulegt með þeim höfnum (eða hafnleysum), sem nú eru.

---

[1]) Í ritinu taldar 138 teg., en það orsakast af því að 60 er slept (61 kemur á eftir 59). — Nr. 27 stendur líka tvisvar (vantar 26).

[2]) Höf. telur íslenzkan sjó út á 400 metra dýpi.

Þá er í skýrslunni langt mál og merkilegt um aldursákvarðanir á fiski; er þar talað um þorsk, ýsu og sandkola.

Hér er ekki rúm til að rita meira um þessar merkilegu rannsóknir, og nota eg því tækifærið til þess að hvetja menn til að kynna sér ritgjörð Bjarna sem bezt.

Síðast í ritgjörðinni er drepið á klaktilraunir við Mývatn.

**Helgi Jónsson.**

**Islandica XI. Halldór Hermannsson: The periodical literature of Iceland down to the year 1874.** [8+] 100 bls. 8vo. 7 mbl. Ithaca, N. Y. 1918.

Þetta hefti Islandica-safnsins hefir að geyma fróðlega ritgjörð og skemtilega, einnig almenningi, sögu tímarita og blaða Íslendinga frá öndverðu niður til ársins 1874.

Þegar vér athugum sögu íslenzkrar blaðamensku, verðum vér með höf. að undrast það, að nokkur maður skuli hafa árætt það að gefa út tímarit eða blað handa Íslendingum fyrrum; örðugleikarnir, sem ritstjórar og útgefendur hérlendra blaða og tímarita áttu við að berjast, voru sem sé geysimiklir, hvort sem gefin voru út utan lands eða innan, og jafnvel öllu meiri um útgáfu innanlands. Vegna samgönguleysis var afar erfitt að safna efni og fréttum; skipaferðir strjálar og símar engir. Í öðru lagi var afar erfitt að koma ritunum út um landið, með því að póstgöngur voru þá illar. Útgefendur urðu oft að koma ritunum á ferðamenn, kunningja sína, til útbýtingar. Í þriðja lagi var lítið um slegna mynt í þá daga. Kaupendur greiddu venjulega blöðin í »innskrift«, sem kallað var, hjá kaupmönnum þeim, sem þeir verzluðu við, og aðrar tekjur af ritunum höfðu útgefendur þá ekki, þær er teljandi væru; auglýsingar, sem nú veita blöðunum drjúgar tekjur, voru þá mjög fátíðar. Það var því gamanlaust að fást við blaðamensku fyrrum, enda voru útgefendur og ritstjórar venjulega bundnir við önnur störf aðallega en blaðamensku, og höfðu ritstjórn í hjáverkum. Lögðu þessir menn þannig fé og tíma í sölurnar, mestmegnis af áhuga sínum einum til þess að hrinda í framkvæmd málefnum og hugsjónum, sem þeir báru fyrir brjósti. Oft stóðu heil félög að útgáfunni, og dreifðist við það byrðin af kostnaðinum.

Það er athyglisvert, eins og höf. tekur fram, hvernig eitt þroskastigið, ef svo má að orði kveða, tekur við af öðru í íslenzkri blaðamensku. Fyrsta stigið eða markmiðið er endurbætur á hag þjóðarinnar í verzlun, búnaðarháttum og lifnaðarháttum. Annað

stigið tekur yfir tilraunir til þess að bæta skynbragð manna á bókmentir og efla bókmentalíf þjóðarinnar; á þriðja stiginu tekur við stjórnmálabaráttan.

Þegar frá er talin alþingisbókin, alþingistíðindi þeirra tíma, sem fyrst kom út í Skálholti árið 1696, er hið fyrsta rit í þessa átt, blaða- og tímaritaattina, mánaðarrit það, sem Magnús Ketilsson, sýslumaður í Dalasýslu, hóf að gefa út i Hrapprey 1773 (í októbermánuði) og hélt úti fram á árið 1776. Magnús Ketilsson verður því að teljast fyrsti blaðamaður Íslands. Magnús var ágætur maður, fjölvitur umbótamaður. Þetta mánaðarrit hans kom út á dönsku og hét Islandsk Maaneds Tidende. Margan hefir undrað á því, að jafnþjóðlegur og þjóðþarfur maður sem Magnús var skyldi verða til þess að gefa slikt rit út á öðru máli en móðurmáli sínu. En ef menn athuga, hvernig á stóð, þá er þetta í rauninni ekki undarlegt, eða að minsta kosti afsakanlegt. Þessi ár börðust sem sé beztu menn Íslands fyrir því af alefli að losa um verzlunarhöftin; einn í þeim flokki framarlega var Magnús sýslumaður Ketilsson, enda ber mánaðarritið því ljósast vitni, þótt auðvitað ýmislegt fleira en verzlunarmálið sé efni þess. Ritið hefir því meðfram eða jafnvel mestmegnis verið ætlað til þess að hafa áhrif á dönsk stjórnarvöld eða Dani yfirleitt í verzlunarmálinu, en við þá var ekki unt að ræða á íslenzku. Svipað átti sér stað með öðrum þjóðum; t. d. gáfu Danir út á 18. öld slík rit, bæði á þýzku og frakknesku, eins og höf. tekur fram, og verður þó ekki séð, að þeim hafi verið nokkrar knýjandi ástæður til þess, að minsta kosti ekki að hafa ritin á frakknesku.

Þá taka næst við rit lærdómslistafélagsins, ársrit, sem út komu í 15 bindum á árunum 1781—1798. Aðalhlutverk félags þessa var, að fræða landsmenn um hagnýt efni, enda hafa rit þess að geyma margar ágætar ritgerðir í þá átt. Aðalmaðurinn í þessu félagi, sem hafði bækistöð sína í Kaupmannahöfn, var hinn nafnkunni ágætismaður, Jón Eiríksson, meðan hann lifði. En eftir dauða hans dofnaði smám saman yfir félaginu, enda reis þá upp sundrung með félagsmönnum og fjárhagur þess var ekki hægur, unz það lognaðist út af. En reitur þess gengu síðar til hins íslenzka bókmentafélags, eftir að það var stofnað.

Það mun ekki ólíklegt, að sundrungin í lærdómslistafélaginu sjálfu hafi að nokkuru leyti leitt til þess, að hér á landi var stofnað hið svo nefnda íslenzka landsuppfræðingarfélag. Það var árið 1794. Fyrir því stóðu helztu menn landsins. Hið bezta rit, sem

það gaf út, var Kvöldvökurnar, sem Hannes biskup Finnsson samdi. En tímarit, fréttarit, sem kallað var Minnisverð tíðindi, byrjaði félagið að gefa út 1796, og var Magnús Stephensen, þá lögmaður, síðar justitiarius, ritstjori þess og höfundur fyrst, en síðan Stefán amtmaður bróðir hans, og síðast Finnur Magnússon, síðar prófessor. Eftir dauða Hannesar biskups Finnssonar má telja, að Magnus Stephensen hafi orðið einvaldur í félaginu og jafnframt um alla bókagerð á Íslandi um sína daga, enda hafði hann alla ævi síðan umráð þeirrar einu prentsmiðju, sem hér var til. Magnús var ekki lítilvirkur í bókaútgáfu sinni, þótt ekki séu hér til tínd nánara rit hans; um hitt kunna að vera skiftar skoðanir, hvort hann hafi gert meira gagn en ógagn með bókaútgáfu sinni, og mætti um hana margt segja, og eins um manninn sjálfan, þótt það sé ógert látið hér. Bar og Viðeyjarprentsmiðjan alla tíð, meðan hún stóð, minjar Magnúsar. Sunnanpósturinn, mánaðarrit, sem út kom þar árin 1835—1838, fetaði trúlega í fótspor Klausturpóstsins, sem Magnús hafði gefið út. Svipað er að segja um Reykjavíkurpóstinn (1846—1849), þótt orðfæri raunar væri þar miklu betra. Þar á móti má telja Gest Vestfirðing, sem síra Ólafur Sívertsen í Flatey og fleiri Breiðfirðingar gáfu út (1848—1855) allmerkt og fróðlegt tímarit.

Það bezta, sem út kom á íslenzku, einnig í þessari grein eða með þessum hætti, var gefið út í Kaupmannahöfn. Þar starfaði hið íslenzka bókmentafélag nálega eingöngu; það hélt fyrst úti tímariti, sem nefnt var Sagnablöðin, og þar eftir kallað Skírnir. Þar gaf Baldvin Einarsson og Þorgeir Guðmundsson út Ármann á alþingi. Fjölnir, Ný félagsrit og Norðurfari, alt hin ágætustu rit, hvert í sinni röð, voru öll gefin út í Kaupmannahöfn.

En hið fyrsta fréttablað, sem út kemur hér á landi, er Þjóðólfur, og er fyrsta tölublað hans dagsett 5. nóv. 1848, og fyrsti ritstjóri hans Sveinbjörn Hallgrímsson, síðast prestur í Glæsibæ (d. 1863). Var Þjóðólfur lengi höfuðblað landsins, og blöð, sem stofnuð voru í Reykjavík, sumpart til höfuðs Þjóðólfi, dóu öll, jafnvel þótt góð væru, eins og t. d. Íslendingur (1860—1863), eitt hið bezta blað, sem komið hefir út á íslenzku, alt til þess er Björn Jónsson stofnaði Ísafold og tókst að halda velli.

Öllu þessu er mjög hlutdrægnislaust og liðlega lýst í ritinu. Jafnframt er ritið eins rækilegt og nákvæmt og vér eigum að venjast um rit frá hendi þessa höf., jafnan vitnað til heimildarrita og

rita, sem veita fyllri fræðslu en höf. hefir getað tekið með, t. d. um æviatriði manna o. fl.

Bókina prýða myndir af þessum mönnum: Magnúsi Ketilssyni, Jóni Eiríkssyni, Magnúsi Stephensen, Baldvin Einarssyni, Tómasi Sæmundssyni, Joni Sigurðssyni og Jóni Guðmundssyni. Jafnframt eru og í ritinu eftirmyndir eða sýnishorn ýmsra þeirra rita, sem bókin fjallar um, 13 talsins.

Eg skal að endingu geta þess, að í öllum eintökum Landsbókasafnsins af ritum lærdómslistafélagsins kemur blaðsíðutalan í 15. bindi þeirra heim við það, sem höf. nefnir (bls. 15, 3. neðanmálsgrein) eftir Joni Sigurðssyni (þ. e. 286 bls.).

**Páll Eggert Ólason.**

**Det nye Nord.** Eneste Tidskrift for skandinaviske Samfundsinteresser. Udkommer 52 Gange aarlig. Abonnementspris Kr. 6 Kvartalet (incl. Postpenge). Udgiver: Oscar Smith. Redaktionssekretær: Cand. polit. L. Estrup. København. —

Tímarit þetta hóf göngu sína með apríl s. l. ár. Viðfangsefni þess eru: I. útlend stjórnmál, II. Danmork, III. Noregur, IV. Svíþjóð, V. Ísland, Finnland og fylgilönd Norðurlanda, VI. listir og bókmentir, VII. stríðs- og friðarbúskapur, VIII. atvinnurekstur og atvinnumál ýmsra þjóða, IX. yfirlit yfir viku hverja, X. her og floti. Ræður sinn ritstjóri hverju efninu, Sigfús Blöndal bókavörður því sem Ísland snertir.

Þetta er hið þarfasta tímarit. Það er svo fjölfrótt um helztu nýjungar í hugsun og framkvæmd á Norðurlöndum og gefur svo gott yfirlit yfir ýms af þeim málum, sem nú eru efst á dagskrá í heiminum, að æskilegt væri að það yrði mikið keypt hér á landi af einstökum mönnum og lestrarfélögum. Það hefir þegar flutt allmargar greinar um íslenzk efni, eftir Sigfús Blöndal bókavörð, Bjarna Sæmundsson adjunkt og Björn Símon — það er dulnefni, og býr þar undir skarpur rithöfundur. G. F.

161

# Sigmundur Brestisson.

---

Eldsjórinn mikli í eilífum myrkva rótast.
Yfir er storkið hafborð moldar og grjóta.
Glóðirnar ólga í viðjum, sem bindast og brjótast.
— Bálið er grunnur vors húss og stöð vorra fóta.
En minnsta sveifla hins innsta, iðandi neista
er alvaldsháð og skráð til að kvikna og þrjóta.
Svo rísa hauður, sem heimanna meistara treysta.
Svo hníga þjóðir í rásir logandi fljóta.

En guð lætur hvolfið hvelfast í augans boga.
Í hreiðrum og vöggum það skín yfir tímanna vali.
Hann heggur út björgin. Hann veitir höfum í voga.
Hann vegur upp tindinn og breiðir engjar í dali.
Hann býður að væng skuli lyft og að von megi lifa.
Svo leikur sér alt í fjötri, af eilífum toga —
því brosið skal virt, og andvarpið á að skrifa,
örlagaháð eins og kastið í jarðdjúpsins loga.

— Ein jarðaröld sökk í bruna og lagðist á börur;
þá bárust storðir og fórust í höfugum legi.
En bláskírðar hófust af lauginni Færeyja fjörur,
í fangi strauma og brims, undir vaknandi degi.

Aldanna morgun signdi sæbrattar jarðir
og svipaðist yfir klifin og bjargfuglsins vegi
— svæðin við fyrir hvítar, reikandi hjarðir
og hafna armlögin breidd móti víkinga fleyi.

— Hjer leit yfir foldir og flæði Brestis sonur,
fram gegnum aldir og vestur til hnígandi náttar.
Sveinarnir ljósir á brá og blakkeygar konur
beygðu Íranna hugi til norrænnar áttar.
— Hann heyrði bragana hljóma frá brúnum til stranda;
þar hrundi í stuðlum kveðandi Noregs háttar.
Hann sá sína kynslóð rísa í útheimsins anda —
ungan og seigan streng hins máttuga þáttar.

Útlýða bálkurinn minnsti dró reip við raman;
en rastir og gnípur mögnuðu hug og vöðva.
Langrökkur bjóu hróður tungunni taman
og tryggðirnar byggðust ungar til gamalla stöðva.
Einvera hafsins lagðist um Eyjalandið
og lypti þess mynd, svo að klettarnir hópuðust saman.
— Sundin þau dreifðu, en fjallarmar bundu bandið.
Að baki var saga vors hvels, þess æfi að framan.

— — — — —

Hann mundi og sá. Einsog bylgja blóðug að kveldi
um blótvjein hrundi geisli af deyjandi sólu.
Ljós rann að sunnan. Í kristninnar árdegis eldi
óðulin Þórs undir voldugum skuggum sig fólu.
Hann mundi og sá — þessa styrjöld í eðlinu inni,
þar andans er ríkið, en þelið það varðar minna —
stríðið, sem lýkur við sjálft manns hjarta og sinni
með sigri, sem hugi iðrar til dauða að vinna.

Trúnaður jarlsins hófst yfir mátt og megin.
Hann mildaði goðin með tárum og laut þeirra kynngi.
En öxin boðaði Ólafs heilögu regin.
Eilífi kærleikinn Þrándi bauð högg og stingi.
— Hann mundi. — »Sá baugur hinn digri er dauði
þinn eiginn«
kvað döggling, »eg þigg hann mót Noregs dýrasta
hringi«.
En föðurbananna bani steig örlagaveginn.
Hann brá í goðgremi krossi að heiðingjaþingi.

Dimm var þá konungs raust og húm yfir hvarmi.
Hirðmanna raðir lutu að þungum skálum.
Ýms var þar lund og hörð undir brynjubarmi,
búin til svars með hjör eða ógleymis málum.
En Hákonarnauts var hvikull, litverpur bjarmi,
við háa kyndla hjá löngum, rjúkandi bálum.
Gullið sat vel og fast á Færeyings armi.
Fornsiðir bjuggu í hugum og langfeðgastálum.
— — —

Kvöldheimur nyrðra, með trúna frá Ljósrunans landi,
þarf líf, ekki dauða, frá klerknum í Júðastafinn.
Hagvenjist kristnin ei saman og Alföður andi
vekst Ásinn til lífs — því djúpt var hann aldrei grafinn.
Um öndvegi sögunnar berjast kærleiki og kraptur.
— Svo kórdjáknar syngi, að norrænn sje frami ei
tafinn.
Heyr heimsloka spá — það er kristni, sem yngist
upp aptur,
með aflþróun sálna — er verður í norðrinu hafin.

Frá Norðurjörðunum lyptast ljóðanna skeyti
langfleygust gegnum rökkrin í þjóðanna æfum.
Þar mannsandinn segir já, þótt náttúran neiti —
þar náttast í gleymsku það smáa hjá stórum sævum.
Þar finna kenndir hjartans þau dýrustu heiti;
þar hrökkva ístár í þýðum, græðandi blævum. —
Höllu geislanna himnar þekja þá reiti,
sem hæsta gróðrinum skila af drottins trævum.

— Og Sigmundar land mun sjálfu sjer ala vini.
Hann svam fyrir þrjá til bana — og dæmið skal geyma.
Berdreymi þjóðar er sjónkast frá vitrum syni.
Mót sólu skyggndi hann hönd og ljet aldirnar streyma.
— Tryggðin við eyna mun traust hjá færeysku kyni;
túnunum minnstu hinnst skulu rekkarnir gleyma.
Hve ilmur og skjól munast lengi frá lágum hlyni.
Sá litlu ei ann, hann er smár. Hann á neinstaðar heima.

Sjá vögguna. Hún er kæna með drifhvíta dúka;
þar dreymir barnið til elli um fjallið og miðin.
Og sporin fyrstu. Einstig um hjalla og hnjúka,
þar hugurinn bjargtekinn unir við minningarsviðin.
Og kvikmyndin þýtur. Í hamrinum. Höndin á snæri.
Hjúfrið í kópunum blandast við flæðaniðinn.
Sauðirnir stökkva á forvaðans seinasta færi.
— Ein fjúkandi drífa af vængjum um klettariðin.

Sjóndeild er víð og frjáls eins og farmanns hugur.
Í fjarlægð, eystra, er veröld af múganna glaumi.
En úti er hafauðn — hvelfd eins og ennisbugur;
þar hjálminn Ægis ber Frón, í sögunnar draumi.

— Það horfir til Grænlands, til faldprúða firnageymsins.
— En Færeyjar gnæfa mitt í tímanna straumi;
einn stöpull í brotnu brúnni til Nýja Heimsins,
sem Bretinn skal stikla — með Evrópulestina í taumi.

— — Hjer gnauða straumar á glataðra siða hörgum.
Hjer grúfir hinn forni Lyngbakur Atlashranna.
En norrænan lifir í þessari borg af björgum,
með blóðtengdum kvíslum Engla og Suðurmanna.
Til Álfunnar vestra, til Grænlands fljótandi fanna
af Fróni var sótt. Þar blaktir hið háa merki.
Og Eyjarnar standa á stofninum forna, sanna
með stóra ætlun og hlut í framtímans verki.

*Einar Benediktsson.*

---

# Erlendar tungur.

Erindi flutt á fundi í L'Alliance Française 24. apríl 1920

af

*André Courmont.*

---

Markmið þessa félags er að auka þekkingu Íslendinga á »hinu mjúka máli Frakklands«, og eg ætla hér í kvöld að minnast á nám erlendra mála. Ykkur virðist eflaust efnið heldur þurt, þegar þið heyrið það nefnt, og þó ætla eg einmitt að bregða mér með ykkur inn í indælustu skrúðgarða andans. Hvergi í heimi hugsunarinnar er loftið svo tært, fjarsýnin svo heillandi, blómin svo fögur og glitrandi sem þar. Þessir skrúðgarðar eru margir og fjölbreytnin óþrjótandi; hver okkar á sinn; slíkir garðar eru erlendu málin.

Það er sagt að alt dofni fyrir valdi vanans. Málið sem vér námum í æsku er eins og svæði sem vér þekkjum svo vel, að ekkert er þar framar nýtt fyrir oss. Hin fegursta útsýn, fágætustu furðuverk þar vekja oss ekki hinn guðdómlega unað, er að eins fæst þar sem nýlundan er með.

En útlent mál er altaf undraland, þar sem morgundöggin glitrar án afláts; að vísu verða þar sömu hlutirnir fyrir oss; vér finnum þar alstaðar meiri eða minni samsvaran við átthagana; en alt er þar í nýju ljósi; hugtak, er oss virtist hversdagslegt, verður alt í einu að opinberun; frændorð, er áður voru oss þur og andlaus upptalning, verða blómálfabeður, er festir mynd sína í huga vorum eins og Asfodel-engið, sem enska skáldið Wordsworth

hefir gert ógleymanlegt. Hann segir frá því í sonnettu einni, sem er blæhrein eins og bezta vatnslitamynd, að hann á göngu sinni um dalina í Vatnabygðinni á Skotlandi sá mikinn völl alvaxinn Asfodelum, er gengu í öldum fyrir þýðum vorblæ einn sólskinsmorgun. Þessi mynd varð honum svo hugstæð, að hann síðan um mörg sár sorgarár þurfti ekki annað en loka augunum til að sjá sömu sýnina:

> Then my heart with pleasure fills
> And dances with the daffodils.

Þarna er einmitt dæmi þessarar guðdómlegu nýlundu, er útlend orð verða oss stundum. *Asfodelos!* Þetta gríska orð minnir á grundirnar dapurlegu við Stýgjarfljót; þar reika þögular vofur meðal bleikra blóma í grárri skímu ævarandi rökkurs. *Daffodil.* Þar er orðið dubbað upp með d, s-ið horfið, endingin hljómskærri, og blómið okkar er ummyndað. Nú minnir það á brosandi grundir Englands, sólþoku, unað og yndisleik enskra ljóða. Aðrar myndir orðsins daffodil eru *daffodilly* og *daffodowndilly* og minna þá á Morrisdansara, mergjuð viðlög úr enskum alþýðukvæðum, hressandi einfeldni barnaþulunnar.

Afsakið þennan útúrdúr, sem ykkur hefir ef til vill fundist helzt til fjarri almannaleið, og tökum nú hversdagslegra dæmi, hið fyrsta er flýgur mér í hug. Öll þekkjum við hugtakið *ambition.* Ef vér gröfum fyrir rætur þessa franska orðs, þá sjáum vér að það er komið úr latínu og táknar að ganga um kring og leita að einhverju. Latneska orðið *ambitio* var reyndar í fyrstu haft um það, er þeir, sem keptu um opinberar stöður í Rómaborg, voru á þönum að heimsækja menn til að afla sér atkvæða. Fyrir hverjum frönskum manni er þetta orð ekki annað en máður gangeyrir daglegs máls. Komi oss nú skyndilega orðið »metorðagirni« í hug, bregður nýju og óvæntu ljósi yfir hugtakið: meta — virða, metorð — virðing, heiður; metorðagirni — löngunin, þráin að njóta virðingar annara; þarna er átt við alveg sérstaka tegund af *ambition,* og hvað það er skrítið, að merking orðsins skuli vera

niðrandi, þar sem uppruninn bendir á, að það tákni góðan eiginleika. En fornislenzkan á sér annað orð um sama hugtak: það er »ráðgirni« — löngun eftir að ráða öðrum og stjórna. Sá sem hefir rekist á þessi tvö orð og ber þau saman, skilur margfalt betur en áður í hverju *ambition* er fólgin. Um leið bregður birtu yfir sögu Íslands. *Ambition* forfeðra ykkar hér á Íslandi var að ráða og stjórna; í Rómaborg leituðu metorðagjarnir menn sér atkvæða. Munurinn er lítill, en merkilegur. Frá þessu sjónarmiði líkist Ísland á vorum dögum miklu meira Rómaborg hinni fornu en Íslandi á söguöldinni.

En til þess að útlent mál verði sá dásamlegi skrúðgarður, sem eg áður gat um, þá verður að komast inn í það með góðum hætti. Og vitið þið hvað eg held að sé bezta aðferðin til að komast inn í garðinn? Hún er sú, að stökkva yfir múrinn Reyndar er hlið á garðinum. Þar er hlaðið upp málfræðisbókunum, samtalsbókunum, stílsefnunum og þýðingunum. Sá sem fer inn um þetta hlið og ryður sér hægt og þunglega braut innan um rykið og þvæluna, verður daufur í dálkinn þegar hann kemur inn í garðinn; augu hans eru þreytt, og greina því illa fegurðina; hann nýtur ekki lengur þess unaðar, er fylgir fyrstu óvæntu fundunum. Gerum þá ráð fyrir, að maður staldri fyrst ögn við hliðið, og blaði dálítið í skræðunum, en að því búnu er einfaldast að snúa við þeim bakinu og hlaupa sína leið fram með múrnum, þangað til kemur að hentugum stað; þá er að klifrast einhvernveginn upp á brúnina og láta fallast inn fyrir. Auðvitað getur maður komið illa niður og verið ögn ruglaður fyrstu augnablikin: manni gengur illa að átta sig og er ekki eins og heima hjá sér, en haldi maður þá hugrakkur á stað um göng og lunda garðsins, þá uppsker maður brátt laun dirfsku sinnar. Svo eg sleppi líkingamálinu, þá er ráðið að fá sér góða bók og sökkva sér niður í að lesa hana, hvað sem tautar. Það skiftir engu, þótt orð, línur, heilar blaðsíður fari í fyrstu fyrir ofan garð og neðan. Smám saman verður andi hins nýja máls þeim innlífur,

er svo fer að, hann fær þá gáfuna sem mest er um vert, að sjá af hyggjuviti sínu hvað ókunnugt orð merkir. Hugbönd eiga að myndast milli orða málsins, sem verið er að læra, og hugmyndanna sjálfra, fremur en milli orða móðurmálsins og hins nýja. Sá sem lærir mál með þeim hætti að festa sér í minni langa orðalista: hestur = cheval; maður = homme, tún = champ, fer að eins og sá, er kannaði garðinn fagra með því að stumra frá einu blómi til annars, einu tré til annars, með grasa-nafnaskrá í hendinni Annars eru mörg orð óþýðanleg, t. d. orðið tún, er eg síðast nefndi. Hvað er »tún« á frönsku? Það verða þeir að segja, sem lærðari eru en eg, en eg er smeykur um, að þeir geti það ekki. Það sem orðið táknar, er ekki til á Frakklandi og Frakkar þekkja það ekki. Að rembast við að finna þýðingu, er ekki til annars en að falsa merkinguna. Það er hvorttveggja, að »champ« er ekki »tún« og að ekkert orð er til á íslenzku yfir »champ«.

Málfræðisbækurnar eru ágætar bækur að lesa . . . . þegar maður veit áður efnið í þeim. Við lestur þeirra fá fasta mynd ýmsar reglur, sem vér þektum áður, að vísu án þess að hafa nokkurn tíma komið orðum að þeim.

Augljóst er, að það sem eg nú hefi sagt er vörn fyrir beinu kensluaðferðina, sem kölluð er, og jafnvel þar sem henni verður ekki komið við, t. d, þegar menn læra af sjálfum sér, þá verður þó að telja það óskaráð að lesa skemtilegar bækur undir eins og það er hægt: það á að stökkva yfir múrinn undir eins og búið er að staldra ögn við hliðið.

Hvað það er indælt að skygna merkingu málsgreinar bak við hálfkunn orð; en sá unaður, þegar ein hugsýnin tekur við af annari, og ekki sízt sú sigurgleði, þegar að því kemur, að maður finnur til fullnustu alt sem orð þýðir. Ekkert er eins mannlegt og orðin; miljarðar heila, hjartna og munna hafa myndað þau smám saman, blóð og ryk hversdagslífsins hefir laugast af þeim meir og meir; þau eru því kjarni manneðlisins. Þau færa oss ilm og ang-

an ótal æfintýra í gleði og sorg. Jafnvel hið leiða verður ljúft í samstöfum og merkingu orðs, er lýsir því skarplega.

Oft hafa skáldin harmað það, að sálir vorar eru svo harðlæstar hver fyrir annari. Sully Prudhomme líkir þeim við stjörnurnar, er virðast svo nálægar hver annari, þó miljónir mílna séu á milli:

Rennur stjarnan heilög, hrein,
hljóðar systur grætur.
Brennur sálin eilíf, ein,
orpin húmi nætur.

Ef mannsálin opinberast oss nokkurn tíma hið innra, ef svo má að orði kveða, og eigi aðeins í ytri athöfnum, er aldrei verður til fulls, þá er það þegar vér stundum útlend mál. Þegar vér þekkjum eitthvert hugtak, og orð, sem mótað er af útlendum anda, bregður skyndilega nýrri birtu yfir það, þá sökkvum vér oss i sál annars, en engin gleði er meiri né fullkomnun æðri en sú, að sjá beint með annara augum.

Eg hefi reynt að lýsa þeim unaði, er bíður allra þeirra, er komast alla leið inn í undragarðinn, og finn nú sárt til vanmáttar míns. En eg veit, að þessi garður er ykkur öllum kunnur, og að reynsla ykkar bætir upp alt það, sem lýsingu minni er áfátt. Að einu leyti standið þið stórum betur að vígi í þessu efni en eg: þið hafið orðið að læra frönsku, þar sem eg hefi kynst henni smám saman, jafnóðum og augu mín lukust upp fyrir heiminum. Eg mundi öfunda ykkur af þessum hlunnindum, ef mér hefði ekki veizt hið mikla lán, að þurfa að læra íslenzku. Það kemur ykkur varla á óvart, þegar eg segi, að íslenzkan er mér yndislegasti garðurinn, sem eg hefi fundið. Þessu hreina, djúpúðga, máttuga og hljómskæra máli á eg að þakka mesta andans gleði, málinu, sem er strangt og kaldrænt, eins og jökulbreiðan, sem norðanvindurinn næðir um, málinu, sem er blítt og draumþrungið, eins og ilmur bjarkarinnar á vatnsbakkanum um vor, málinu, sem eitt

skáldið ykkar lýsir svo aðdáanlega í ljóði, sem sannar sjálft það sem hann segir:

Eg ann þínum mætti í orði þungu,
eg ann þínum leik í hálfum svörum,
grætandi mál á grátins tungu,
gleðimál í ljúfum kjörum.

Eg elska þig málið undurfríða
og undrandi krýp að lindum þínum.
Eg hlýði á óminn bitra, blíða,
brimhljóð af sálaröldum mínum.

*G. F.* þýddi.

---

## Úr kvæðinu »Segulafl«.

Loftið blæju litast blárri.
Leiftra fjöllin göfgi hárri.
Blika vötn við bleikan skóg,
engi gul við unnar spegil.
Fjölbreytt skraut í skýjafari
skartar, — og ég hrifinn stari
inn í þennan undrageim.

Þá eg enn sé ásýnd þína,
er mér þetta lætur skína:
túnin græn við tinda bláa,
tindum ofar rauða gull,
enn þá ofar hvelfing háa,
— himins eilífð, dýrðar full!

Ef ég fyndi ei að þig
alt eins þetta hrifi og mig,
hátign sjónar horfin væri:
dvínuð inn í sjálfa sig.

*Þorsteinn Björnsson.*

# Skraddarinn frækni.

## Þýðing úr æfintýrum Grimm's

eftir

*Jón Þ. Thoroddsen,*

sýslumann.[1])

Einu sinni var skraddari nokkur. Hann sat um morgun í sumarsældinni uppi á saumaborði sínu, rétt við ljórann. Þá gekk bóndakona ein fram hjá glugganum og kallaði hárri röddu:

»Hér er hunang til kaups! ágætt hunang! Þá smjamsaði skraddari og sleikti út um, er hann hugsaði til hunangsins. Hann skaut hausnum út um gluggann og kallaði til kerlingar: »Komdu inn til mín, kona góð! hér færðu kaupanda að kraminu«.

Þegar kerling kom inn varð hún að rífa alt upp úr körfu sinni. Skraddarinn skoðaði allar krukkur hennar innvirðuglega. Loksins keypti hann hálfa mörk af hunanginu. Konan sagði að linlega væri gengið að kaupunum, nöldraði síðan nokkuð og gekk brott. Þá mælti skraddarinn:

»Bæti nú guð blessan sinni við hálfmörk þessa, svo hún verði mér að góðu og styrki mig!«

Þá sótti hann brauð sitt og sneið það, tók síðan stærstu sneiðina og drap hana hunangi.

---

[1]) Prófessor, dr. Þorv. Thoroddsen hefir sent Skírni æfintýri þetta og segir, að það muni nú vera eina óprentaða þýðingin, er til sé eftir föður sinn. Mun mörgum þykja gaman að sjá hvernig Jón Thoroddsen þýddi úr útlendu máli og hve list hans er þar rammíslenzk og söm við sig. Ritstj.

»Þetta er matur«, sagði hann, »en áður en eg bít í sneiðina verð eg að herða mig við bolinn«.

Hann lagði sneiðina hjá sér á saumaborðið og saumaði í gríð; nálarsporin urðu einatt fljótari, lengri og lengri; því réði brauðsneiðin.

Flugur nokkrar sátu á veggnum. Þær höfðu einhvern veginn komist að því, að hunang mundi vera komið á bæinn. Þær fóru þá í leiðangur og lögðu að brauðsneið skraddarans. Skraddarinn skotraði við og við augum til brauðsneiðarinnar; varð hann þess brátt vís, að víkingar tóku strandhögg í ríki hans. Þá sagði skraddari:

»Hver leyfir yður að herja í brauðsneið mína? Síðan stökti hann þeim.

Ekki skildu flugurnar þá tungu, er skraddari mælti á. Þær létu sér ekki segjast og komu brátt aftur, og voru miklu fjölmennari en áður.

Þá varð skraddarinn ákaflega reiður, þreif sinn dýrumdal, en það var geysimikil klæðispjatla; hann brá henni og sagði:

»Rennið nú ekki, og skal yður þá skjalla«. Síðan sló hann beint á flokkinn, en þær hrukku fyrir og lögðu á flótta. Þá kannaði hann valinn, og lágu þar sjö flugur fallnar og sprikluðu höndum og fótum í fjörbrotunum.

»Hér er nú mikið afreksverk unnið«, mælti skraddari, »hefi eg haft sjö í einu höggi, það er annálavert«.

Þá gerði skraddarinn sér í skyndi belti eitt, mjög fagurt, bjó það og baldíraði, og saumaði á það með stórum stöfum: »Sjö í einu höggi«.

Enn fremur sagði skraddarinn við sjálfan sig: »Hvað munu sveitungar mínir segja um þvílíkt þrekvirki? Það mun kunngert svo að allur heimur viti«. Og þá varð skraddarinn dauðadrukkinn af einskærri gleði.

Þegar skraddarinn raknaði aftur úr rotinu, tók hann beltið góða og gyrði sig því.

Nú vildi hann fara að leita sér fjár og frægðar. Hann litaðist um í húsi sínu, hvort ekkert væri þar til, er hafa þyrfti til fararinnar. En sjá, þar var eyði og tóm og eng-

inn hlutur nema gamall ostbiti. Honum stakk skraddarinn í fikka sinn, gekk síðan út úr bænum; en fyrir utan borgarhliðið náði hann til allrar guðs lukku smátitlingi einum. Fuglinn varð að fara í fikkann til ostbitans.

Nú lagði skraddari land undir fót, og steig upp á eitt ofurhátt fjall. Þegar hann var þar kominn, sá hann risa einn mikinn, er sat efst á fjallsnípunni og barði hælum í bjargið.

Skraddarinn heilsaði risanum hæversklega og sagði:

»Lagsmaður! þú situr hér og skimar í allar áttir. Eg ætla að fara að kanna veröldina. Viltu ekki, kunningi, koma með mér?«

Risinn leit við honum og mælti: »Þú ert mesta volæði«

»Á!« mælti skraddarinn, hnepti frakkanum frá sér og sýndi honum beltið, »þarna sérðu á svörtu og hvítu, hver afreksmaður eg er«.

Risinn glenti upp glyrnurnar, sem voru eins og tvö stór stöðuvötn, og las letrið á beltinu: »Sjö í einu höggi«. Honum datt ekki annað í hug, en að það hefðu verið sjö menn, er skraddarinn hefði að velli lagt í einu höggi, og þótti nú skraddarinn íbyggilegri en fyr. Þó vildi hann gera nokkra raun um frækleika hans.

Risinn tók þá í hönd sér einn mikinn stein og kreisti hann í lófa sér svo fast, að steinninn draup vatni.

»Leik þú þetta«, sagði risinn, »ef þú ert svo mikill íþróttamaður, sem þú segir«.

»Ekki muntu þurfa mig um þetta að frýja« sagði skraddarinn, »þenna leik mun eg fá leikið eins og þú«.

Hann greip þá til ostbitans, kreisti hann í lófa sér svo greypilega, að greipar hans fyltust mysu.

»Mun nú ekki leikinn þessi leikur?« Risinn ræddi fátt um, þó fanst það á honum, að hann lagði lítinn trúnað á afl og atgjörvi hins litla skraddara.

Þá reif risinn upp stóran jarðgróinn stein, sveiflaði honum í hendi sér og kastaði honum svo hátt í loft upp, að hann varla varð augum eygður.

»Leik þú nú þetta, litla peð!« sagði risinn.

»Það mun eg skjótt gjöra«, sagði skraddarinn; »að vísu er vel kastað, en þó kom steinninn niður aftur. Eg skal kasta öðrum, en sá mun aldrei aftur koma«.

Þá þreifaði hann í vasa sinn, tók fuglinn, sendi hann úr hendi í háa loft. Fuglinn varð feginn frelsinu, flaug burt og kom ekki aftur.

»Hvernig þykir þér nú leikar fara, kunningi?« sagði skraddarinn.

»Þú kastar vel«, svaraði risinn, »en nú skal reyna, hvort þú getur lyft nokkru sem þyngd sé í«.

Risinn leiddi þá skraddarann að geysi-stóru eikitré, sem lá fallið í skóginum.

»Nú skulum við báðir bera spýtugreyið héðan«.

»Taktu þá digrari endann á öxl þér«, sagði skraddaratetrið, »þá vil eg ganga undir hinn mjórri endann; fylgja þar með allar limar trésins og er það miklu meira tak«.

Risinn hóf rót trésins og digrari endann á herðar sér og gekk fyrir, en ekki gekk skraddarinn undir hinn endann; hann settist á einhverja grein trésins, og þá bar risinn alt tréð og skraddarann með. Skraddarinn hafði alllitið erfiði; hann stritaðist við að sitja á grein trésins, og var að kyrja kvæði og vísur í mestu makindum, og lét sem hann gerði sér það til gamans að halda undir annan enda trésins.

Þegar risinn hafði gengið nokkrar rastir vegar og borið tréð einn, er ekki var létt, tók hann ákaflega að mæðast og sagði:

»Æ, nú verð eg að hvíla mig og leggja tréð niður, blása lítið eitt; það veit trúa mín, að eg er að þrotum kominn«.

Skraddarinn neytti fráleika síns, stökk sem kólfi væri skotið frá trénu, greip tveim höndum um tréð, svo það væri auðséð að hann bæri það, og sagði við risann:

»Þér er að skömm að stærðinni, að geta ekki haldið undir annan endann á staurnum með mér«.

Þá héldu þeir, risinn og skraddarinn, áfram leið sína, þar til þeir komu að kirsiberjatré. Risinn greip í hvirfilgrein trésins; hún var alsett fullvöxnum berjum; hann teygði greinina til jarðar, svo að skraddarinn, sem var smár vexti, gæti náð sér ögn af berjum. Skraddarinn tók báðum höndum um greinina, en hann skorti afl til að halda henni; greinin rétti sig þá upp, og hóf skraddarann upp með sér, en hann hékk við hana á höndunum.

»Hvaða firn er þetta«, sagði risinn, »geturðu ekki, maður, ráðið við svona lítinn hríslukvist«?

»Eitthvað held eg mér yrði til um það að halda hríslukvisti, fyrst eg hafði sjö í einu höggi. En veiztu hvernig stendur á því, að eg brá mér hingað? Eg heyrði skothríð veiðimanna konungs rétt hjá okkur, því stökk eg hérna hæst upp í tréð. Leiktu nú þennan leik!

Þá reyndi risinn að stökkva upp í tréð, en gat ekki, því jafnan er hann stökk, komst hann að eins upp í limar trésins, flækti þar fæturna og féll niður. Þá var þessum leik lokið. og bar skraddarinn þar einnig af risanum.

Þá mælti risinn: »Kom þú nú til hellis vors og tak þér næturgistingu«.

Skraddarinn þakkaði risanum heimboðið virðulega og fylgdi honum til hellisins. Risinn lét búa skraddaranum sæng og bað hann hvílast, en skraddarinn gekk ekki til hvílu þeirrar, er honum var til vísað, heldur fór hann í afhelli einn og dvaldist þar.

Þá er leið að miðri nóttu, reis risinn upp, tók járnstöng mikla í hönd sér og gekk að rúmi skraddarans og lagði járnstönginni til skraddarans, því hann hugði að hann svæfi þar. Varð lagið svo mikið, að það gekk í gegnum dýnuna, og svo sængina, og nam staðar í hellisgólfinu. Risinn gekk aftur að sofa og sagði:

»Þá er þetta kvikindi dautt; ekki þarf eg að draslast lengur með hann«.

Daginn eftir fór risinn til skógar og var þá skraddarinn sálugi honum úr öllu minni liðinn, en sá lærisveinn lifði. Hann gekk á veg fyrir risann og kvaddi hann;

var hann þá glaður og kátur og var svo upp dubbaður, sem hann hefði ætlað að fara til kirkju. Risinn varð mjög óttasleginn og hélt að skraddarinn mundi drepa hann og alla hans kynslóð, og flýði sem fljótast frá augliti skraddarans.

Nú fór skraddarinn leiðar sinnar um villivega og hafði engan förunaut, unz hann kom í konungsríki nokkurt. Þá er hann átti skamt til höfuðborgarinnar, lagðist hann til svefns í grænni grasbrekku. Komu þar hirðmenn konungs, skoðuðu hann í krók og kring og lásu letrið á beltinu, þar sem ritað stóð: »sjö í einu höggi«. Konungsmennirnir æptu upp yfir sig og sögðu:

»Hvað ætli þessi mikla hetja ætli að gjöra hingað, þar sem að hér er Fróða-friður og ár í öllu landinu; en mikill garpur og höfðingi mun þessi maður vera«.

Þeir sögðu nú konungi þessi tíðindi og það með, að hann skyldi ekki láta slíkan mann ganga sér úr greipum, því ef herjað væri á ríki hans, mundi hann verða honum að miklu gagni og stórvirkur mjög.

Konungur félst á þetta ráð, og sendi menn til skraddarans, sem skyldi segja honum, er hann vaknaði, að konungur byði honum til hallar sinnar og hirðvistar.

»Vel er boðið«, sagði skraddarinn. »Eg kom hingað í því erindi að bjóða konungi þjónustu mína«.

Konungur tók honum blíðlega og fekk honum herbergi virðulegt.

Ekki þektust hirðmenn konungs skraddarann og vildu helzt að hann færi þaðan eitthvað til fjandans í brott.

»Hvað ætli verði úr okkur«, sögðu þeir hver við annan, »ef við komum með honum í bardaga, þá hefir hann sjö í hverju höggi, en því getur enginn vor afkastað«.

Þeir tóku saman ráð sín og gengu allir saman fyrir konung og báðu hann í einu hljóði um lausn frá herþjónustu svo segjandi:

»Vér getum ekki, herra, gengið eins hraustlega fram í orustu sem þessi berserkur«.

Konungur hrygðist ákaflega af því að sjá á bak öllum sínum hraustu hermönnum fyrir eins manns sakir og leitaði bragða einhvern veginn að losast við hann, og óskaði að hann hefði skraddarann aldrei augum litið. Þó þorði hann ekki fyrir nokkurn mun að reka hann frá hirðinni, því hann óttaðist, að skraddarinn mundi gjörast reiður, drepa hann og alla þegna hans og ryðja sér síðan til ríkis.

Konungur hafði nú lengi áhyggjur miklar um þetta mál. Loks datt honum það ráð í hug, að hann lét kalla skraddarann fyrir sig.

»Þareð eg veit, hversu mikill afreksmaður þú ert«, segir hann, »þá vil eg gera þér eitt boð. Í skógi nokkrum í ríki mínu byggja tvö tröll; þau vinna oss og vorum mönnum mikið ógagn í ránum, brennum og morðum; tak nú vopn þau og hlífar sem þér líkar og ráðst móti þeim. Verði þér þeirrar gæfu auðið að sigrast á tröllum þessum, mun eg gefa þér dóttur mína og hálft ríki mitt í heimanmund. Hundrað riddara vel týgjaða skaltu hafa þér til fylgdar.

»Hér er þó dálítill slægur í fyrir mig«, sagði skraddaraskinnið við sjálfan sig, — »margur hefir lotið að minna en heilli kóngsdóttur og hálfu konungsríki«.

Hann svaraði máli konungs og sagði: »Tröllunum skal eg gjöra skil, herra, það er nú greinilegt, og þessa 100 riddara þarf eg raunar ekki, sá sem hefir haft »sjö í einu höggi« er ekki hræddur við tvo dröngla«.

Þessu næst fór skraddarinn til skógar þess, sem tröllin voru í, og er þeir voru komnir nærri skóginum, sagði hann til riddaranna:

»Bíðið þið mín hér á meðan eg fer að gamni mínu og drep tröllin; það skal ekki lengi standa á því«.

Síðan gekk hann inn í skóginn og litaðist vandlega um, hvort hann sæi ekki tröllin. Loks fann hann þau; þau lágu bæði undir tré og sváfu og hrutu ákaflega, svo tréð skalf og titraði og limarnar sveigðust til jarðar, eins og í aftaka ofviðri.

»Nú geri eg níu blaða stroku«, sagði skraddarinn. Hann fylti vasa sína með steinum, klifraði síðan hæst upp í tréð og settist þar. Þá tók hann að grýta steinunum á annað tröllið, og komu þeir rétt á brjóstið. Tröllið vaknaði við illan draum og í illu skapi, hnipti harðlega í félaga sinn og mælti:

»Því ertu, bölvunin þín, að berja mig?«

»Þú talar í óráði, maður«, sagði hitt tröllið, »ekki er eg að berja þig«.

Tröllin sofnuðu brátt. Skraddarinn tók þá mikinn stein og kastaði honum fyrir brjóstið á því tröllinu, sem hann hafði ekki áður kastað í. Tröllið stökk upp hart og títt og sagði:

»Því ertu, þræll inn þinn, að kasta steinum á mig? Gáðu að hvað þú gjörir«.

»Hvaða bölvaða lygi ferðu með, maður«, sagði hitt tröllið. »Er eg að kasta steinum á þig«?

Tröllin þrættust um þetta nokkra stund, en hvorutveggi var úrvinda af svefni, hættu umræðunum og létu aftur saman augun.

Nú byrjaði skraddarinn aftur á hinu sama gamni sem áður, tók úr vasa sínum hinn stærsta stein, sem hann átti til, og kastaði honum af alefli í brjóst hins fyrra tröllsins. Tröllið spratt þá upp í jötunmóð og sagði:

»Nú þykir mér, lagsi, nóg um«, og veitti hinu tröllinu höfuðhögg, svo við roti lá. Hitt tröllið hafði numið það í barnæsku: »auga fyrir auga, tönn fyrir tönn«, og galt nafna sínum líku fyrir líkt. Bæði urðu nú ákaflega reið, rifu trén upp með rótum og börðust þar til hvort féll fyrir öðru og höfðu bæði bana.

»Það fór þó vel, að tröllin rifu ekki upp tréð, sem eg sit í, annars veit eg ekki nema eg hefði dottið og meitt mig«.

Síðan rendi hann sér glaðlega ofan eftir trénu, fór að engu óðslega, brá sverðinu og lagði bæði tröllin í gegn og gekk síðan til manna sinna.

»Tröllin liggja dauð hérna í skóginum«, mælti hann,

»eg hefi séð fyrir þeim, en það veit trúa mín, að það væri ekki annars færi en þess, er hefði »sjö í einu höggi«, því í fjörbrotunum rifu þau upp frá rótum stærstu tré, eins og þau hefðu verið lúsalyng«.

Þá spurðu riddararnir skraddarann: »Herra, eruð þér ekki sár«?

»Eg fekk ekki eina skeinu«, svaraði hann, »þeir gátu ekki snert hár á mínu höfði«.

Riddararnir trúðu í fyrstu ekki, að það væri satt, er hann sagði, og riðu í skóginn. Þar fundu þeir tröllin dauð og öll löðrandi af blóði, og mörg tré í kringum þau rifin upp með rótum. Þeir undruðust þetta stórlega og höfðu enn þá meiri geig af skraddaranum en áður, og efuðu það ekki, að hann einn gæti unnið þeim öllum bana, ef hann yrði reiður. Síðan riðu þeir heim, og sögðu konungi þessi tíðindi.

Skraddarinn gekk einnig fyrir konung og mælti: »Nú verð eg að biðja yður, herra, að þér fáið mér dóttur yðar, svo og helming ríkisins«.

Konung iðraði þá heitorða sinna og leitaði sér enn ráðs, hvernig hann gæti losast við þessa miklu kempu, því ekki þótti honum nærri því gott að gifta honum dóttur sína. Hann sagði þá við skraddarann, að raunar stæði alt við hið sama af sinni hendi, en þó yrði hann að ná fyrir sig einhyrning einum, sem rynni þar í skóginum.

Þetta lét skraddari sér vel líka, fór til skógar og skipaði fylgdarmönnum að bíða sín við skóginn, og kvaðst mundi kenna einhyrningi góða siði. Eftir það gekk hann á skóginn og leitaði dýrsins víðsvegar. Alt í einu stökk dýrið fram, skopaði skeið beint á skraddarann og ætlaði að reka hann í gegn með horninu.

»Kemst þó kyrt fari«, sagði hann, stóð grafkyr í sömu sporum, þar til dýrið var rétt að segja komið að honum. Þá skaust hann sem kólfi væri skotið bak við tré, er var hjá honum. Einhyrningurinn var á harðri ferð, gat ekki snúið sér við svo skjótt sem hann hefði

þurft, og rann á tréð og lagði horninu svo fast til þess að það sökk meira en til miðju.

Þó dýrið væri allstyrkt, gat það ekki dregið sverðið úr sárinu; en þareð sverðið var gróið við höfuð dýrsins, varð dýrið fast við tréð. Þá kom skraddarinn fram úr vígi sínu að baki trésins, lagði bönd um háls dýrsins, losaði það og leiddi til félaga sinna og síðan fyrir konung, og bað hann nú eigi fresta fyrirheitinu.

Konungur skelfdist ekki minna en Faraó við plágurnar hinar egipzku, hugsaði sér samt á nýjan leik að hafa brögð í frammi.

»Áður vér búum brúðkaupið«, segir hann, »verður þú, tilvonandi mágur, að ná fyrir mig villigelti nokkrum, sem hér er í skógi vorum; mér fanst viðkunnanlegra að hafa ögn af nýju kjöti í veizlunni. Veiðimenn mínir skulu fara með þér«.

»Þetta vil eg gjarnan gjöra, herra!« kvað skraddarinn, »eg skal bráðum, herra. skjótast upp í skóginn eftir geltinum«.

Nú fór skraddarinn enn til skógar. en vildi ekki að veiðimennirnir færu með sér um hann. Þeir létu sér það vel líka, því gölturinn hafði oft áður heilsað þeim, og væntu þeir sér engrar vinakveðju fremur en fyrri.

Þegar villigölturinn sá litla skraddarann, gnisti hann tönnum og froðufeldi, réðst að honum og ætlaði að jarðvarpa honum. Skraddarinn var staddur hjá litlu bænahúsi, er stóð þar í skóginum. Hann hljóp skjótt inn í húsið lauk upp glugganum og stökk út um hann og kom standandi niður. Villigölturinn elti skraddarann inn í bænahúsið, en skraddarann skorti ekki ráð. Hann hljóp til dyranna og skelti hurðinni í lás. Þá var villigölturinn kominn í svartholið, því glugginn var svo þröngur og svo hátt frá honum til jarðar, að hann treystist ekki að stökkva út. Skraddarinn kallaði þá á veiðimennina, sýndi þeim dýrið og sagði:

»Nú hefi eg fangað villigöltinn og eigindóttur konungs örmum tekið«.

Það má geta því nærri, hvort konungur hafi orðið hryggur eða glaður er hann frá þessi tíðindi, en nú voru þrotin öll brögð hans og undanfæri, en heit sín varð hann þó að halda og gefa litla skraddaranum dóttur sína.

Þó hélt konungur, að skraddarinn væri einhver hinn mesti afreksmaður og kempa mikil; hefði hann vitað það, að hann væri skraddari, er það ljóst, að hann mundi hafa látið gera honum belti um hálsinn og hengt hann á hinn hæsta gálga.

Brúðkaupið þeirra skraddarans og konungsdóttur var haldið í höllinni með skrauti miklu og viðhöfn, en litlum fögnuði.

Nokkru síðar er þau skraddarinn og hin unga drotning voru í rekkju saman, talaði skraddarinn upp úr svefni og mælti:

»Strákur! flýttu þér, bjáni, með bolinn svo að þú skeinir honum einhverntíma af, ella læt eg stikuna ríða um eyrun á þér«.

Þá þóttist drotning sjá, hvernig stæði á eðli og ætterni bónda síns.

Morguninn eftir kærði hún málið fyrir föður sínum og æskti skilnaðar við bónda sinn og kvaðst una því illa að vera gefin skraddara.

Konungur bað dóttur sína að láta um sinn sem ekkert hefði á orðið, »en lát þú dóttir», segir hann, »svefnherbergi ykkar vera opið í nótt, þá mun eg láta nokkra hirðmenn mína leynast hjá svefnherberginu, og þá er skraddarinn er sofnaður, skulu þeir ráðast að honum og drepa hann«.

Þetta þótti konungsdóttur gott ráð.

Skjaldsveinn konungs heyrði alla þessa ráðagerð. Hann var trúnaðarmaður skraddarans og honum hollur. Hann gekk til hans og tjáði honum alt hið sanna. Skraddarinn lék alls oddi um kvöldið og sagði við sjálfan sig: »Varla mun eg deyja ráðalaus; þeir lifa lengst, sem með orðum eru vegnir«.

Um kvöldið gekk hann til sængur í tæka tíð og hvíldi

kona hans hjá honum. Hann lét sem hann sofnaði skjótt. Og er hann hafði legið um hríð, stóð hann upp, lauk upp svefnherberginu og gekk síðan aftur að sofa og hraut fast. Þá tók hann ákaflega að tala upp úr svefninum og kallaði hárri röddu:

»Láttu bolinn vera búinn og bættu buxurnar! ella læt eg kvarðann ganga um eyrun á þér. Eg hefi drepið »sjö í einu höggi«, lagt risa að velli og tvö tröll, tekið tvo varga, einhyrning og villigölt; mundi eg þá óttast þessa auminga, er nú standa fyrir dyrum svefnherbergis míns?«

Þegar hirðmenn konungs, er sendir voru að veita skraddaranum tilræði, heyrðu þessi orð, flýðu þeir svo skyndilega sem ótal djöflar hefðu elt þá.

Upp frá þessu dirfðist enginn að ýfast við skraddarum, og síðan sat hann í ríki sínu, og var og varð konungur alla æfi.

---

# Grasafræðin
# í Ferðabók þeirra Eggerts og Bjarna

eftir

*Helga Jónsson.*

---

Eggert Ólafsson og Bjarni Pálsson ferðuðust á Íslandi á árunum 1752—1757, og rannsökuðu þeir landið mjög ýtarlega. Höfðu þeir félagar áður ferðast hér á landi, því að þeir voru sendir hingað 1750 til þess að safna bókum, grösum, dýrum og steinum. Í þeirri ferð gengu þeir upp á Heklu, og var sú för allfræg. Í þá daga þótti það hin mesta ofdirfska að leggja leið sína upp á hina hverflyndu Heklu. Þeim félögum varð mikið ágengt og sendu þeir bæði bækur og náttúrugripi til Kaupmannahafnar. Þóttu þeir leysa starf sitt svo vel af hendi að konungi leizt ráðlegt að þeir væru sendir til Íslands til nýrra rannsókna. Vorið 1751 var för þeirra ráðin. Þó lögðu þeir eigi af stað fyr en næsta vor, en veturinn notuðu þeir til undirbúnings. Voru þeim veitt rífleg laun og þess utan ferðakostnaður. Að ferðalaginu loknu voru þeim veitt góð laun, meðan þeir unnu að ferðabókinni. Lenti það starf mest á Eggerti, því að Bjarni Pálsson tók þá við embætti á Íslandi. Er óhætt að fullyrða, að íslenzkum náttúrufræðingum hefir aldrei verið borgað eins vel.[1]) Þeir intu líka af höndum mikið verk, og ferðabókin þeirra hefir nú um langt skeið verið sú lind, sem allir hafa sótt í fróðleik um náttúru Íslands, eða þangað

---

[1]) Þ. Thoroddsen, Landfræðissaga III, 25.

til Lýsing Íslands eftir Þorvald Thoroddsen kom út. En um aldur og æfi mun ferðabókin standa sem stöðug undirstaða vaxandi rannsókna á náttúru Íslands.

Handrit Eggerts að ferðabókinni var afhent vísindafélaginu danska 1766, en það liðu þó 6 ár þangað til bókin var prentuð. Vísindafélagið og þeir menn, sem það fekk til þess að annast útgáfuna, eiga miklar þakkir skilið. En óskandi hefði þó verið að bókin hefði verið prentuð þegar í stað, er Eggert afhenti handritið og með hans tilsjá.

Ferðabókin er stór bók, 1042 bls., í fjögra blaða broti, og auk þess registur. Á titilblaðinu stendur:

Vice-Lavmand Eggert Olafsens og
Land-Physici Bjarne Povelsens
Rejse igjennem Island | foranstaltet | af |
Videnskabernes Sælskab | i Kjøbenhavn | og
beskreven af forbemeldte
Eggert Olafsen |
med | dertilhörende 51 Kobberstökker | og
et nyt forfærdiget Kart over Island
Sorøe 1772
Trykt hos Jonas Lindgrens Enke.

Landinu er skift í fjórðunga á venjulegan hátt, en fyrstu kaflarnir eru þó um einstakar sýslur, t. a m. Kjósarsýslu, Borgarfjarðarsýslu og Snæfellsnessýslu. Eftir það er venjulegast nokkrum sýslum slegið saman og lýsingarnar þá að mestu bundnar við fjórðunga. Fyrstu sýslunum er lýst ýtarlegast, eins og eðlilegt er, því að þar er um ýmislegt talað, er eigi þarf að endurtaka síðar. Köflunum er að mestu leyti skift niður í sömu flokkana: 1) Landfræðileg lýsing á svæðinu, 2) Jarðvegur, 3) Frjósemi landsins, 4) Íbúarnir, 5) Dýrin og 6) Ýmislegt um náttúru lands og íbúana, hafnir og verzlun.

Að þessu sinni ætla eg aðeins að taka fyrir 3. liðinn eða frjósemi landsins. Þar er á margt drepið, og þar koma í ljós margar og markverðar athuganir. Þar er

talað um graslendi, fóður, algengar jurtir og sjaldgæfar jurtir. Þar er getið um nytsemi jurtanna og meðferð. Má með sanni segja að þar kenni margra grasa.

*1. Kjósarsýsla.*

Í bókinni er byrjað á Kjósarsýslu og svo haldið hringinn í kringum landið, fyrst vestur, þá norður og austur og síðast til Suðurlandsins. Lýsingin á gróðrinum í Kjósarsýslu er all-ýtarleg. Fyrst er þess getið að landið sé fagurt og vel gróið grösum og jurtum. En það er galli á gjöf Njarðar. Heyið er að þeirra áliti ekki eins kjarngott og fyrir vestan og norðan. Bændur hafa um 6—8 kýr á fóðrum og 40—50 fjár, en með helmingi minna búi ala bændur á Vestur- og Norðurlandi önn fyrir jafnmörgu fólki og eins vel í alla staði. Ályktun þeirra félaga er sú, að annaðhvort sé fénaður illa hirtur eða fóðrið lélegt, en þó virðast þeir heldur hallast að hinu síðarnefnda. Þeir geta um ýmislegt, er þeir álíta að rýri heygæðin. Meðal annars telja þeir sem ástæðu að grasið í sjálfu sér sé kjarnminna en í vestur- og norðurhéruðunum. Enn fremur er þess getið, að afarmikið sé um eltingu innan um grasið, þó einkum í Mosfellssveitinni, og að skepnur eti hana með græðgi bæði vetur og sumar, bráðfitni af henni, en verði máttlausar; þannig sé reynslan á Íslandi alstaðar, þar sem mikið sé um eltingu. Það hefir og áhrif í þessu efni, að túnræktinni hefir farið aftur. Túnin eru ekki girt, eins og þó er skipað í lögum, og eins og þau voru fyrir 300 árum, en unglingar eru látnir verja þau og slægjulönd alment fyrir skepnum, en eigi þykir þeim félögum það nægja. Þá er þess og getið í sambandi við hin lélegu heygæði, að jörðin blási upp. Segir ferðabókin að uppblásturinn orsakist af hinum söltu hafvindum. Sú skýring getur verið góð og gild á takmörkuðum svæðum við sjóinn, og þesshættar staði hafa þeir auðvitað séð á ferðum sínum. En yfirleitt er það tæplega rétt að telja hafvinda aðalorsök uppblásturs í þessu héraði.

Eitt af því, sem gerir heyið lélegt, er snjóleysi á

vetrum. Snjórinn hlífir ekki gróðrinum allan veturinn, því hann bráðnar von bráðar af áhrifum hafvindanna. Þá er það og ein af orsökunum að áburðaraðferðir sé breyttar frá því sem áður var, og er ýmislegt sagt til þess að ráða bót á því.

En þýðingarmesta ástæðan er vondur heyþurkur. Heyið er sjaldan þurt þegar það er hirt, og er það meðfram af því, að oft ganga óþurkar um sláttinn á Suðurlandi. Þá er og þess getið að heyin sé ekki eins vel upp borin og á Vesturlandi og verði því lakari

Eigi er þó svo að skilja að alt land í Kjósarsýslu hafi verið vaxið ónýtu eða lélegu grasi. Í hlíðunum, segir í ferðabókinni, að jarðvegur sé miklu fastari, jurtagróður meiri og kjarnbetri og heyið betra. Sem dæmi nefna þeir Kjósina og nokkra bæi í Mosfellssveit. Svo vel hefir þeim litist á þessi hlíðalönd, að þeir telja þau betri til ræktunar en hina þuru og mögru holtajörð, eða sum túnin, og er það efalaust rétt.

Um skóga er lítið rætt, enda hafa þeir litlir verið um þær mundir Nokkuð er þó getið um skóga fortíðarinnar, sumpart eftir sögunum (Kjalnesingasögu) og sumpart eftir þeim leifum af hrísi, sem finnast í mónum. Fyrir nokkrum árum hafði og skriðuhlaup allmikið komið úr Esjunni og í því fundist bútar af birkitrjám svo miklum, »að þeirra líkar eru nú á dögum hvorki í Húsafellsskógi né Fnjóskadalsskógi, sem þó eru stórvöxnustu skógarleifarnar á landinu«.

Um garðyrkju er ekki margt að segja, þó er hún nefnd á nafn, mest af þeirri ástæðu, að konungur hafði skipað bændum fyrir nokkrum árum að byggja kálgarða. Garðyrkjan var ekki lengra á leið komin en að smágirðingar höfðu reistar verið á nokkrum bæjum eftir skipun yfirvaldanna.

Um jurtagróður er vel ritað. Er auðséð á öllu að þeir félagar hafa haft glögt og gætið auga. Upptalning tegunda er þó hvorki ýtarleg né nákvæm og er látið nægja að telja þær tegundir, sem *einkendu gróður* í mis-

munandi jarðvegi. Hér er, með öðrum orðum, verið að ræða um gróðrarfélög, taldar upp helztu einkennistegundir, og jarðvegi lýst Hér er fyrsta sporið til almennrar gróðurlýsingar á Íslandi, og er það mjög merkilegt, því að gróðurlýsingar verða ekki algengar fyr en löngu seinna, og hafa ekki náð fullum blóma fyr en á vorum dögum.

Ferðabókin telur grasategundir margar, og ætlar að flestar þeirra vaxi í Danmörku. Er þess getið í meginmálinu að þær verði taldar síðar, en ekki er gott að sjá hvort það loforð er frá Eggert sjálfum eða útgefendum. Í neðanmálsgrein er þess getið, að hinar merkilegu íslenzku jurtir verði síðar taldar upp í viðbæti við bókina. Neðanmálsgreinin stafar eflaust frá útgefendum, og er auðsjáanlega átt við jurtalistann aftan við ferðabókina.

Meðal grastegunda er á þessum stað eflaust taldar punttegundir, starir og líklega seftegundir. Er þess getið aftur að ósköpin öll sé þar af eltingu, einkum í hálfrökum jarðvegi.

Á *túnum* vex: súra, fífill (rætur ekki etnar hér) undafífill og brennisóley. Þannig er gróðurinn enn þann dag í dag, þó er auðvitað aðalgróðurinn grösin eða punttegundir, og auðvitað má líka leggja þann skilning í ferðabókina, að þeir telji grasgróðurinn aðaljurtafélagið á túnunum, en telji honum lýst þar sem þeir ræða um grösin (sjá á undan), þótt sú lýsing sé í alla staði ófullnægjandi Undafífla þætti mér eiga betur við að telja með hlíðajurtum. En öllum er það kunnugt, að það svæði sem kallað er tún og kallað hefir verið tún, er að eins að nokkru leyti ræktað graslendi. Jurtafélög úr hlíðum eða móum geta því oft verið innan þeirra marka, sem venjulegt er að setja milli túns annars vegar og engja eða haglendis hins vegar.

Í frjóum jarðvegi kringum bæina vex njóli. Eru sumir menn þegar farnir að nota hann til matar, því að hann er bæði heilnæmur og bragðgóður. Er þess og getið að hann sé matreiddur á svipaðan hátt í öðrum

löndum. Í þessum jarðvegi nefna þeir einnig hjartarfa (pungarfa) og telja hann illgresi.

Þar sem túnin eru lægst og jarðvegur rakur vex lækjasóley. Í Kjósarsýslu vex þó langmest af lækjasóley utan við túnin. Lyfjagrasið vex einnig í rökum jarðvegi, og segja þeir nafnið komið af því, að það sé notað til að hleypa mjólk (hleypisgras).

Í flóum og mýrum vex horblaðka. Í ferðabókinni er sagt, að óhætt sé að fara með hest þar sem horblaðka vaxi, af því að hún geri jarðveginn svo seigan, að hestar stígi síður niður úr. Sama er sagt enn þann dag í dag í votlendum sveitum. Er það auðvitað rétt í aðalatriðum, eins og almannadómar um þess háttar efni eru vanir að vera. Ekki vil eg þó ráða mönnum til að fara með hest alstaðar þar sem horblaðka vex. Ummælin á að skilja svo, að óhætt sé að fara með hest þar sem horblaðka vaxi í stargrónum mýrum. Ferðabókin segir og, að bændur kalli horblöðkuna reiðingagras, því að þar sem hún vaxi sé reiðingsrista. Engjarós er og talin í blautum mýrum. Um mýrlendið er sama að segja og túnin, að aðalgróðurinn, starargróðurinn, er ekki nefndur á nafn, að líkindum af því að hann er innifalinn í því, sem þeir í byrjuninni nefna grastegundir.

Í dökkleitri mold, undir börðum og á svipuðum stöðum, vaxa maríustakkur og mjaðurt. Við sjúkrahúsið á Gufunesi var mjaðurtin blómguð seint í júnímánuði, en annarstaðar blómgast hún ekki fyr en í ágústmánuði. Það mun þó tæplega vera svo sjaldgæft að mjaðurt blómgist í ræktaðri jörð og í skjóli í júnímánuði, einkum ef vel árar. Í Flóru Íslands er talið að hún blómgist í júlí, en þeir Eggert hafa venjulegast ekki hitt hana með blómi fyr en í ágúst. Auk þessara tegunda nefna þeir (í svipuðum jarðvegi): Gulmöðru, sem þeir láta sér nægja að kalla möðru, og krossmöðru, en hana kalla þeir hvítmöðru. Mohr og Oddur Hjaltalín nota hvítmöðrunafnið eins, líklega að dæmi Eggerts. Þá nefna þeir og smára, og kveða hann vaxa í þuru graslendi.

Á þurrum og sendnum bölum vex mura, og segja þeir að rætur hennar sé sætar og bragðgóðar að vorinu, og sé etnar annarstaðar, einkum á Vesturlandi og minna í því sambandi á hin gömlu æfintýri um nýgift fólk, sem enduðu með orðunum: áttu börn og burur grófu rætur og murur. Í svipuðum jarðvegi nefna þeir geldingahnapp og gullkoll. Er sagt að gullkollur sé sjaldgæfur og fundarstaðar getið við Korpólfsstaði í Mosfellssveit. Síðar hefir gullkollur fundist víðar á Suðvesturkjálkanum og í Njarðvík á Austurlandi. Í nokkuð svipuðum jarðvegi eða þurum sjávarbökkum segja þeir að kattartungur vaxi. Er það auðvitað rétt, en kattartungur, sem sumstaðar á landinu eru nefndar fuglatungur, vaxa og í klettaskorum og breiðblaða afbrigði á sjávarfitjum.

Í klettum, einkum við sjóinn, vex skarfakál og burnirót. Skarfakál fundu þeir í Lundey, og burnirót í Geldinganesi. Segja þeir að burnirótin sé hávaxin og blómgist síðast í maí eða snemma í júní. Í klettum geta þeir einnig um hjartagras (holurt) og helluhnoðra. Hinn 18. ágúst 1755 fundu þeir í grjótinu við Brynjudalsá helluhnoðra með blómi, og var hann 10 þumlungar danskir á lengd. Þar fundu þeir einnig netlu neðan við klettana, og telja þeir hana sjaldgæfa.

Í fjallahlíðum og dölum segja þeir að ljónslöpp og »stóra«[1])-blágresi sé ríkjandi, en uppi á fjöllunum gullbrá og fjallagrös. Í aðaldráttum er þetta rétt, en fremur ónákvæm gróðrarlýsing.

Í fjörunni segja þeir að ekki sé um annað að ræða en þang og þara, sem notað sé til skepnufóðurs og á Kjalarnesi til eldiviðar hjá fátæklingum. Ekki þykir mér þessi lýsing nákvæm á fjörugróðrinum og vel máttu þeir geta um sölin, því að enginn efi er á, að þeir hafa þekt þau.

---

[1]) Í registrinu finst aðeins stóra-blágresi, en í Borgarfirði er nefnt storka-blágresi.

*II. Borgarfjarðarsýsla.*

Þeim félögum hefir litist betur á Borgarfjörðinn en Kjósarsýslu. Þeir segja að grasvöxtur sé þar afarmikill, og menn kalli Borgarfjörðinn hjarta landsins af þeim sökum, og það er álit þeirra sjálfra að Borgarfjörðinn beri að telja meðal beztu héraða þessa lands. Í Andakílshreppi segja þeir að grasið (þ. e. gulstörin) verði 2 álnir á hæð, og á Mýrunum segja þeir að gróðurinn sé jafnstórvaxinn sumstaðar í feitum og rökum jarðvegi, þar sem árnar og sjórinn flæða yfir. Hér er auðsjáanlega verið að tala um hinar ágætu engjar kringum Borgarfjörðinn, sem Hvítá og fjörðurinn flæða yfir með köflum og rækta.

Í Norðurárdalnum, og þó einkum í Desey, segja þeir að mjög mikið sé af ágætu grasi, mjög þéttvöxnu. Fara þeir nokkrum orðum frekar um Desey, en misskilja nafnið. Segja þeir að nafnið, ef til vill, stafi af því að sætan ilm leggi úr jörðu á sumrin í logni, þegar sólin skíni á engið. Desey dregur auðvitað nafn af des (heydes), sem þýðir heystakkur. Hafa hey að líkindum verið borin þar upp og flutt síðar heim til bæjanna, sem þar eiga slægjulönd. —

Á Mýrunum segja þeir að grasið sé ekki eins gott Segja þeir að þar sé mest um flóaslægjur, þegar túnin sé undanskilin, og heygæðin sé því lakari.

Til fjalla segja þeir að sé hin fegurstu beitilönd og þar sé selin; eru ær og kýr á sumrin í fjallahögum. Selgatan er oft all-löng, 2 mílur eða meira.

Heyið telja þeir yfirleitt mjög kjarngott; það sé ekki slegið of snemma, sé þurkað vel og látið í tóftir, sem bygðar sé úr grjóti og torfi, eins og á Vesturlandi. Vetrarfóður kostar ekki mikið fyrir sauðfénað og útigangshesta. Það lifir alt á útiganginum. Þegar haglaust sé, segja þeir að snjónum sé mokað burt hér og þar, svo að skepnurnar nái í grasið. Reiðhestar eru aldir á vetrum. Elting þykir gott reiðhestafóður, og er sagt að hestarnir verði feitir og fjörugir af henni, en ekki má gefa hana

meira en að þriðjungi á móts við eltingarlaust hey. Kýrnar mjólka 12 potta á 24 tímum, og beztu mjólkurkýrnar 20 potta á sama tíma. Þeir segja að bændur í Borgarfirði eigi fleiri nautgripi og þar að auki arðsamari en bændur á Suðurlandi. Sauðfé telja þeir miklu fleira í Borgarfirði, og segja þeir að álitið sé að Borgfirðingar sé ríkastir fjárbændur á landinu.

Birki-kjarr. Það sem Borgfirðingar kalla skóga telja þeir réttara að kalla smáskóga eða kjarr. Þeir nefna helztu kjörrin: milli Andakíls og Mela, í Skorradal, Hvítársíðu, vestan við Norðurá, neðan Norðurardal og í Hraundal Stærstu birkitrén segja þeir í Húsafellsskógi, sem talinn sé þriðji mestur skógur á Íslandi. Þeir skifta birkinu í upprétt birki (stórblöðótt birki) og skríðandi birki, rifhrís (smáblöðótt birki). Hæð trjánna er þó ekki nema 4—6 álnir yfirleitt og þvermál 3—4 þumlungar. Rifhrís telja þeir afbrigði frá hinni venjulegu björk.

Björkin er notuð undir torfþök, einkum í fjósum og fjárhúsum, segja þeir hún verjist vel fúa, ef hún sé afbörkuð. Börkurinn var notaður til að verka skinn og lita. Hinar smærri greinar voru notaðar í viðarkol. Í sambandi við stærsta skóginn, sem mest var sótt í, er getið um skógarhöggið. Finna þeir það að skógarhögginu að stofninn sé höggvinn í tveim höggum þannig að sýling verði í bútinn sem rótinni fylgi, svo að vatn gangi í sárið og valdi fúa. Mönnum var vísað á hvar þeir mættu höggva, en annars voru menn látnir sjálfráðir hvernig og hvað þeir hjuggu. Hafði skóginum farið mjög aftur á síðustu 100 árum, því að menn hjuggu upp og niður ungt og gamalt, og það er álit þeirra að menn hafi jafnvel sózt meira eftir ungum hríslum en gömlum, því að álitið var að þær væru betri til kola, og stundum segja þeir að gömlu hríslurnar hafi staðið þangað til þær dóu af elli. Auk þessa telja þeir að skriðuföll, vatnsflóð og stormar hafi hjálpast að til þess að eyðileggja skógana okkar. Fyrir nokkrum árum hafði konungur leitast við að ráða bót á þessu og fyrirskipað að hlífa skyldi skógarleifum, einkum þó ung-

viði. Svo virðist sem höf. ætli að erfitt mundi að endurreisa hinn »úrkynjaða« skóg, jafnvel þó komið væri í veg fyrir illa meðferð á skóginum. Svo lítur út sem þeir áliti bezt að rækta skóginn af nýju með aðfluttu ungviði. Sæmundur Eyjólfsson hafði svipaða skoðun. En það er hinn mesti misskilningur að hér sé um úrkynjun að ræða. Hér er ekki um annað að gera en kjarbundinn breytileika, og fræ af kræklu getur orðið að háu og fögru tré ef æfikjörin eru góð.

Kolagerðinni lýsa þeir allnákvæmlega. Það var einkum í ágúst eða september að menn brendu kol, eða þá snemma á vorin ef hrísið hafði verið höggvið að haustinu. Til kolagerðar var brúkað rifhrís og greinar af hávaxnara birki. Það var kallað að afkvista þegar greinar voru höggnar af bolnum. Greinarnar eru þvínæst sniðnar í smábúta, um 3 þumlunga á lengd, og er það kallað að kurla, en smábútarnir heita kurl. Kolagröfin er 2 álnir á dýpt og 1—1½ faðmur að þvermáli. Í botninn eru látnar rætur og lurkar og þar ofan á er svo kurlið látið; það nær 1½ alin upp fyrir barmana. Síðan er kveikt í öllu saman, en þess verður að gæta að veður sé hagstætt, svo að ekki kvikni í skóginum eða öðrum gróðri. Menn höfðu og við hendina torf, mold og vatn til þess að tempra eldinn ef á þurfti að halda og til þess að þekja með kolin að lyktum.

L y n g g r ó ð r i n u m er lýst allýtarlega og þó einkum þeim nytjum, sem mennirnir hafa af þessum tegundum. S o r t u l y n g er algengt í skógunum í Borgarfjarðarsýslu. Berin kalla þeir mylninga og segja að nafnið stafi af því að þau verði mjölkend þegar yzta lagið er tekið af. Blöðin eru notuð til litunar. Hagamúsin segja þeir að safni berjunum til vetrarfóðurs. B l á b e r segja þeir að sé mjög algeng og vaxi í neðanverðum fjallahlíðum og í kjörrunum. Berin eru etin í skyri eða rjóma eða eins og þau eru á jörðunni. A ð a b l á b e r telja þeir einnig og segja, eins og alkunnugt er, að þau sé betri en bláberin. Þeirra er neytt á svipaðan hátt og bláberja.

Með berjaleginum má lita blátt, en gult með blöðunum. Krækiber vaxa í þurrum móum (lyngheiði). Krækiberjalyngið er kallað lúsalyng eins og alkunnugt er, og segja þeir að álitið sé að nafnið stafi af því að menn haldi að lyngið fæli burt flær og lýs, sé það lagt undir sængina í rúminu. Þeir segja að mikið sé tínt af krækiberjum í Borgarfirði og þau etin (berjaskyr) og geymd til vetrarins (í skyri). Sömuleiðis er þess getið að vatni sé helt á berin. Berjalögurinn blandast þá saman við vatnið, og er það ágætur svaladrykkur. Berjalöginn má og hafa til litunar. Krækiberin eru uppáhaldsmatur hrafnanna seinni hluta sumars, og kræsing fyrir krákurnar í öðrum löndum. Þeir telja krækiberjanafnið komið af krákunum. Samkvæmt íslenzkum árbókum er þess getið að Páll biskup í Skálholti hafi gera látið vín af krækiberjalegi kring um árið 1203. Árið 1753 létu þeir Eggert og Bjarni tína mikið af krækiberjum og leituðust við að koma gerð í berjalöginn, en ekki tókst víngerðin sem bezt. Löginn gátu þeir þó notað til lækninga.

Víðirgróður var mikill í Borgarfirðinum og er enn þann dag í dag. Ferðabókin telur 5 tegundir af víði í Borgarfirðinum eins og annarstaðar á landinu. Fjallagrávíðir (grávíðir) var mjög algengur í fjalllendi, voru ræturnar notaðar í körfur og keyri. Beinvíðir (gulvíðir) er hæstur og beinvaxnastur allra víðitegunda á landinu. Loðvíðir (sama sem nú er kallað því nafni) var af sumum nefndur kotúnsvíðir. Hann er lágvaxnari en hinar fyrnefndu tegundir, vex í dölum til fjalla, oft innan um gras og er þá stundum etinn af kúm. Sauðkvistur og haga-grávíðir er fjórða tegundin, sem þeir nefna. Hann vex á grösugum engjum og er sleginn með grasinu. Gott fóður fyrir fé. Líklegast er að hér sé að eins um að ræða afbrigði af grávíði. Kotúnslauf (geldingalauf, grasvíðir) er fimta tegundin, er það minsta víðitegundin á Íslandi. Fræullin er kölluð kotún og safna menn henni og nota sem umbúðir um sár.

Víðiblöðin voru álitin gott fóður fyrir hesta, naut og sauðfé. Þóttu þau góð til að fita stórgripi, en ekki til

mjólkur. Greinar og rætur af stærstu tegundinni voru notaðar til kolagerðar. Fræullin, þó einkum af geldingalaufinu, var notuð á húðlausa bletti á ungbörnum. Vatn sem víðiblöð höfðu legið í var notað við leðurverkan. Legi úr víðiblöðum var blandað við sortulyngslög og haft til litunar. Blek var búið til úr sortulyngslegi, sortu og víði.

Það er einkennilegt að þessi upptalning víðitegunda er hin langréttasta upptalning þangað til Flóra Íslands kemur til sögunnar (1901), og er það því eitt meðal margs annars, er bendir á hve áreiðanleg bókin er, og hve athugulir og glöggir þeir félagar voru í rannsóknum sínum.

Þeir nefna skollafingur og mosajafna, en segja að þeir sé til einskis notaðir. Jafna (litunarjafna) nefna þeir og. Segja þeir að hann vaxi innan um lyng, þar sem áður hafi verið skógar, og fénu þyki hann góður. Segja þeir og að jafninn sé algengur í Borgarfirðinum og alstaðar á Íslandi, en ekki mun það rétt vera að hann sé alstaðar algengur. Jafni var notaður til litunar og lýsa þeir aðferðinni.

Garðyrkjan er ekki komin langt á leið, þó hún sé betri en í Kjósarsýslu. Á 4 eða 5 stöðum hitta þeir garða og nefna þeir sérstaklega: Leirá (þar var fyrir mörgum árum kominn garður) og prestssetrin Hjarðarholt og Reykholt. Þeir telja upp þær tegundir, sem hepnast hafði að rækta, og hinar, sem miður uxu. Auðsjáanlega ber Eggert ávalt matjurtaræktina fyrir brjósti, og lætur í ljós þá ósk, að hún verði algeng, en það yrði hún ekki fyr en öll alþýða sannfærðist um nytsemi hennar og þó einkum kvenfólkið, sem matreiðsluna ætti að annast. Þykir honum líklegt að takmarkið náist, ef yfirvöldin gangi á undan og auk þess leitist við að hafa áhrif á alþýðuna með skynsamlegum og liðlegum hvatningarræðum. Telur hann það heppilegra en valdboð og skipanir.

Ætijurtir á víðavangi. Margar víðavangsjurtir segja þeir að notaðar sé til matar á Íslandi í heild sinni, en í Borgarfirðinum telja þeir þessar helztar: Njóli vex

á hverjum bæ. Fáeinir menn eru farnir að nota hann til matar.

Vallarsúru borða sumir með eggjum, en algengara er að leggja blöðin í vatn og hafa svo súruvatnið til drykkjar í staðinn fyrir mysu. Ekki er gott að geyma þenna drykk og skemmist hann furðu fljótt, einkum ef heitt er. Hvönnin er talsvert notuð, og eru leggirnir borðaðir ósoðnir með smjöri, skornir þvert yfir í sneiðar. Ræturnar eru ekki borðaðar hér, en þó gætu þær verið góður vetrarforði eins og sumstaðar á Austurlandi.

Fjallagrösin. Um þau er auðvitað langt mál, er tekið fram að þau sé mjög breytileg og líklegt talið að um fleiri tegundir sé að ræða. Aðaltegundinni virðast þeir skifta í tvö afbrigði, annað með ákaflega breiðum en hitt með nokkru mjórri þalgreinum. Klóung segja þeir að Borgfirðingar kalli þau fjallagrös, sem þeir nefndu í Kjósarsýslu.

Á grasafjall var farið skömmu fyrir sláttarbyrjun. Fóru þá saman einn eða fleiri frá hverjum bæ. Höfðu þeir með sér hesta, tjald, nesti og aðrar nauðsynjar. Menn fara 4—6 mílur úr bygð og leita uppi mosaþemburnar, því að í þeim vaxa fjallagrösin. Segja þeir að grösin þurfi þrjú ár til að vaxa og því sé menn vanir að skifta grasatekjusvæðinu þannig niður að eigi þurfi að taka úr hverjum reit nema þriðja hvert ár. Yfirleitt leita menn fyrir sér þegar á grasafjall er komið og velja þá venjulegast þá reiti, sem hafa stórvöxnust grösin. Í hörðum árum hefir það komið fyrir að grasatekjusvæði hafa orðið ónýt um stund, af því að of nærri þeim hefir verið gengið og ekki hefir verið auðið að gefa þeim nægilega langan vaxtarfrest. Það er alkunnugt að bezt er að taka grösin í regni, því bæði sjást þau þá miklu betur og svo er auðveldara að ná þeim úr mosanum. Í þurkatíð eru því grösin tekin á nóttunni. Menn eru á grasafjalli 1—2 vikur eftir því hve marga hesta þeir hafa og eftir því hve góð grasatekjan er. Oftast eru menn saman 10—20 til þess að vera við öllu búnir, því að algengt er, að flakkarar og þjófar

leggi leiðir sínar yfir fjöllin. Stundum ber það og við, að borgfirzka grasafólkið hitti norðlenzku grasarana á heiðunum.

Fjallagrös eru hér eins og annarstaðar á Islandi dag lega notuð til matar og eru því seld tilteknu verði. Áður fyrrum, þegar landið var fólksfleira, var vættin seld á 10 álnir. Á Austurlandi var 1 tunna af hreinsuðum fjallagrösum, er var vel þjappað saman og áður höfðu verið mulin nokkuð, svo að meira komst í ílátið, seld á 1 ríkisdal. Þótti það allgott kaup, því að álitið var að 2 þess háttar tunnur væru jafngóðar í bú að leggja og 1 mjöltunna. Svo er sagt í ferðabókinni að Svíar hafi getið þess að Íslendingar byggju til brauð úr fjallagrösum. Þeir Eggert segja að þeir hafi hvergi orðið þessa varir, en telja líklegt að það sé rétt að einhverjir hafi búið til brauð úr fjallagrösum. Sjálfir höfðu þeir gert tilraunir með brauðgerðina og hepnaðist hún vel ef mjöl var haft saman við. Venjulegast segja þeir að búinn sé til grautur úr fjallagrösum. Grösin voru lögð í bleyti einn dag svo þau yrðu bragðbetri, því að eins konar beiskjuefni, sem í þeim er, leystist í vatninu. Grauturinn var soðinn í mysu þangað til hann var orðinn að hlaupi og var það borðað heitt með mjólk eða kalt með skyri. Sumir taka fjallagrösin eftir að þau hafa bleytt verið, aðrir þurka þau aftur, mylja þau síðan og sjóða í mjólk og er það sérlega góður matur, auðmeltur og nærandi.

Þess er einnig getið að fjallagrös hafi notuð verið til litunar. Þá telja þeir ýmsar aðrar tegundir. K l ó u n g i n n, sem fyr var nefndur, telja þeir ekki eins bragðgóðan og fjallagrösin. K r æ ð a er miklu lakari og er einkum etin á Norðurlandi og ekki seld nema hálfu verði á móts við fjallagrös M a r í u g r ö s telja þeir fegurst allra fjallagrasa og því muni þau heitin vera eftir Maríu mey. Voru þau etin í Borgarfirði og þóttu afarbragðgóð. En fremur lítið er um þau. G e i t n a s k ó f hefir og verið etin í harðindum.

Þeir segjast sleppa að geta um ýmsar fléttu- og mosa-

tegundir af því að nytsemi þeirra sé ekki enn þá kunn á Íslandi. Þeir nefna þó litunarmosann (mosalitur) á nafn, en segjast ekki sjálfir hafa rannsakað hann neitt. Þeir nefna einnig barnamosa, hvítmosategund, sem þeir segjast hvergi hafa hitt annarstaðar en við hverinn í Deildartungu. Vex hann þar í rökum leirkendum og heitum jarðvegi, vökvaður heitum úða úr hvernum. Þurkaður er hann mjúkur ákomu. Hann er notaður í vöggu undir ungbörn og segja þeir það sé einasta gagnið, sem að honum sé.

Um jurtafélögin er sagt að þau sé hin sömu og í Kjósarsýslu, og jarðvegur og tegundir svipaðar, þó telja þeir þrjár tegundir, sem þeir hafi ekki fundið í Borgarfirði, og hefðu getað talið fleiri. Því næst koma nokkrar jurtir, sem þeir telja sérstaklega borgfirzkar, en flestar þeirra eru það þó ekki, að öðru leyti en því að þær eru þar algengar eins og víða annarstaðar á landinu. Tegundirnar eru þessar: storka-blágresi, mjaðurt, gullbrá, græðisúra, vatnsnafli, melasól, eyrarrós, brönugrös og sandlæðingur.

Blágresið er algengt á heiðum, í dölunum og í fjallahlíðum og er eitthvert hið fegursta blómgresi Sauðfé kýr og hestar snerta ekki blágresi nema hungur sverfi að. Áður fyrrum lituðu Vestfirðingar blátt með því og er það því kallað litunargras. Er það skoðun þeirra að fornmenn hafi litað blátt með jurt þessari. Á Austurlandi segja þeir að svartur litur sé búinn til úr sorta og blágresi. Mjaðurt er algeng í Hvalfirði. Segja þeir að hún hafi áður verið notuð við öl- og víngerð á Norðurlöndum. Hún er einnig notuð til að lita svart. Gullbrá er algeng á öllum hálsum. Græðisúra er nefnd í Reykholti. Óx hún þar ofan á rennunni úr Skriflu í Snorralaug, í heitum jarðvegi og voru blöðin þverhandar breið. Vatnsnafla fundu þeir í Deildartungu í heitum jarðvegi. Melasól fundu þeir á Glitstaða hálsi, og segja að hún sé einkennisjurt fyrir Vesturland. Eyrarrós fundu þeir í Norðurárdal og síðar á nokkrum öðrum stöðum en segja þó að hún

sé sjaldgæf. 1756 fengu þeir fræ af henni frá Austurlandinu og sáðu því í garða á Íslandi og í Kaupmannahöfn en ekkert kom upp.

Brönugrös voru algeng á Skarðsheiði vestari, gróðurinn var ilmandi og hjallarnir alhvítir. Síðast nefna þeir sandlæðinginn í Leirárey. Hefir margt sögulegt gerst út af þessari tegund. Hinir eldri höfundar geta hennar eins og t. a. m. Mohr, og Oddur Hjaltalín kemur með íslenzka nafnið. Grönlund þorði ekki að taka ferðabókina trúanlega. Hann fylgdi þeirri góðu og gildu meginreglu, að telja enga jurtategund íslenzka með vissu nema hann hefði séð hana sjálfur. Moritz Halldórsson læknir fann að þessu og ýmsu öðru í bók Grönlunds. Fanst honum enginn efi á því vera að ferðabókin segði rétt til. Urðu útaf þessu deilur nokkrar með þeim Grönlund. Stefán fór að dæmi Grönlunds og tók ekki sandlæðinginn í Flóru Íslands. En árið 1905 fann eg sandlæðinginn (Glaux maritima) á leiðinni úr Kóranesi að Álftanesi á Mýrum og nokkru síðar fann Bjarni Sæmundsson hann í Straumfirði, svo sandlæðingurinn kemst vissulega í næstu útgáfu af Flóru. Og eg fyrir mitt leyti er ekki í neinum vafa um það, að sandlæðingur hefir vaxið í Leirárey þegar Eggert var þar á ferð. Eg bendi á þetta dæmi sem eitt af þeim, er sýnir áþreifanlega hve áreiðanleg ferðabókin er.

---

Mér hefir stundum fundist sem eigi hafi verið tekið nægilega mikið tillit til þess, sem ferðabókin segir um grasaríki landsins. Er það eðlilegt, því að hvergi voru til nein söfn frá ferðum þeirra félaga, er menn gætu borið saman við bókina. En þótt það sé ekki til, þá er þó mögulegt að bera ferðabókina saman við hið lifandi grasaríki á Íslandi. Sé það gert, sést greinilega hvernig gróðurinn hefir verið í aðalatriðum og einnig kemur þá í ljós, að gróðurinn hefir verið mjög svipaður því, sem nú er. Samanburðurinn við náttúruna sýnir því glögt hve áreiðanleg bókin er. Af því sem á undan er ritað sést

hvernig þeir lýsa gróðrinum í fyrstu sýslunum, Kjósar- og Borgarfjarðarsýslu, og vel má sjá af lýsingunni hvernig hinar algengu jurtir hafa gróið. Venjulegast hefir og sú raunin orðið á, að sjaldgæfar jurtir hafa fundist á þeim stöðum, sem bókin getur um. Greinilega má sjá að þeir félagar hafa þekt jurtategundirnar og það, sem segir um grasaríkið í bókinni, er miklu meira vert en listarnir, sem út voru gefnir síðar eða um það leyti. Listarnir voru venjulegast tóm upptalning tegunda og venjulegast voru fundarstaðir ekki tilgreindir. Er því jafnerfitt að bera listana saman við náttúruna eins og það er auðvelt að gera þann samanburð á ferðabókinni og náttúrunni

---

Margt og mikið hefir ritað verið um Eggert Olafsson og skal það ekki rakið hér. Læt eg mér nægja að vísa í Landfræðisögu Þorvaldar Thoroddsens. Þar er skemtileg og fróðleg frásögn um þá félaga og ferðabókina.

Eggert var fæddur 1. desember 1726 í Svefneyjum á Breiðafirði. Hann útskrifaðist úr Skálholtsskóla 1746. Á háskólanum lagði hann meðal annars mikla stund á náttúrufræði. Eggert hefir aðallega einn samið ferðabókina og meðan hann var að því starfi var hann í Sauðlauksdal og fyrst og síðast Kaupmannahöfn. Þeir félagar hittust nokkrum sinnum meðan á starfinu stóð og hafa þá eflaust ráðgast hver við annan um bókina. Þegar Eggert hafði afhent vísindafélaginu handrit sitt hefir hann verið um fertugt. Var hann þá mikils metinn af dönskum vísindamönnum og öllum Íslendingum Að vísu bar á einhverri öfund meðal landa hans í Kaupmannahöfn um tíma, en heima á Íslandi var hann víst ávalt metinn að verðleikum af lærðum mönnum og allri alþýðu. Skömmu eftir að hann hafði lokið við ferðabókina kvæntist hann frænku sinni og fóstursystur. Hann var farinn að búa og ætlaði að fara að sýna í framkvæmdinni hvernig hann sjálfur inti af höndum þau þýðingarmiklu og þörfu störf, sem hann hafði sungið um í »Búnaðarbálki forðum«. Hann var í blóma lífsins, og hafði unnið þrekvirki, er seint

mun fyrnast. En þá var brautin á enda. Hann dó í fullu fjöri. Baráttu lífsins hepnaðist ekki að smækka hann og ellinni tókst ekki að koma honum á kné. Til frægðar skal konung hafa en ekki til langlífis, og svo er komist að orði um hina fögru Napoli, að þeim sem auðnist að sjá hana sé bezt að deyja. Er hugsunin sú að bezt sé að deyja þegar svo er komið, að maður getur ekki búist við að sjá neitt fegurra, en það sem áður hefir fyrir augun borið. Eins má komast að orði um framkvæmdir hvers eins, og er hverjum gott að deyja áður en kraftarnir bila. Þegar menn hafa lokið við bezta og fegursta starfið og alveg vonlaust er um að ná hærra, þá er hverjum einum bezt að sofna. Eg tel Eggert sælan að deyja í blóma lífsins að loknu sínu mesta og fegursta verki, því að það mun sönnu næst, að hann hefði ekki unnið annað meira þrekvirki síðar.

En menn bjuggust við miklu af Eggert og dauða hans bar svo skyndilega að höndum að mönnum varð mikið um. Hefir margt og mikið um það verið ritað og mörg skáld hafa ort minningarljóð um hann. Hin fegurstu sem mér eru kunn eru eftir þá Jónas Hallgrímsson, Grím Thomsen og Matthías Jochumsson, og eru þó einkum ljóð þeirra Jónasar og Matthíasar á allra vörum.

---

# Kapp og met.

Undarlegt er það, hve lítið er til þess gert að gera vinnuna að íþrótt. Nálega hvert verk getur orðið íþrótt. Það sem gerir greinarmuninn eru ekki ytri einkenni, heldur hugarfar verkamannsins. Engin störf eru almennari en að eta, drekka, ganga eða hlaupa, en það hefir alt verið talið til íþrótta, og ef til vill eru það elztu íþróttirnar sem sögur fara af. Allir kannast við sögu Snorra um ferð Þórs til Útgarðaloka. Þegar Þór með förunautum sínum, Loka og Þjálfa, kom fyrir Útgarðaloka, þá segir hann: »Hvat íþrótta er þat, er þér félagar þykkisk vera við búnir? Engi skal hér vera með oss, sá er eigi kunni nokkurs konar list eða kunnandi um fram flesta menn«. Þá segir Loki: »Kann ek þá íþrótt, er ek em albúinn at reyna, at engi er hér sá inni, er skjótara skal eta mat sinn en ek«. Þá svarar Útgarðaloki: »Íþrótt er þat, ef þú efnir, ok freista skal þá þessar íþróttar«. Þjálfi bauðst til að freista kapphlaups, og sagði Útgarðaloki að það væri »góð íþrótt«, en Þór bauðst til að »þreyta drykkju við einhvern mann«. Kunnugt er hvernig fór með þessar íþróttir þeirra félaga, en eg minni á þessa sögu vegna þess, að alt orðalag hennar sýnir svo vel, hvað það er sem gerir eitthvert starf að íþrótt. Starf verður að íþrótt, þegar menn vinna það með þeim ásetningi að verða fremstir í því, leysa það svo fljótt, vel og fagurlega af hendi sem frekast má verða. Í hugtakinu »íþrótt« felst alt af, að lögð er stund á fullkomnun. En mannlífinu er svo háttað, að fullkomnun fæst ekki á neinu sviði nema einn læri af öðrum og einn keppi við annan. Því að maður er manns fyrirmynd og mælikvarði. Enginn getur vitað hvers virði hann er í raun og veru, nema hann beri sig og verk sín saman við aðra menn og verk þeirra, sérstaklega þeirra er fremstir eru. Þess vegna sjáum vér, að hvar sem íþróttir eru stundaðar af alvöru, þar keppa menn iðulega hver við annan í því, »reyna sig«, eins og heppilega er að orði kveðið. Og

sumar íþróttir eru fólgnar í beinni sókn og vörn, gegn öðrum mönnum. Enginn getur t. d. glímt við sjálfan sig, eða skylmst við sjálfan sig. Aftur á móti má í sumum greinum keppa við aðra, þótt höf og lönd og aldir séu á milli. Það er þegar afrekið er mælanlegt og hægt að koma sama mælikvarða við á ýmsum stöðum og tímum. »Met« kallast nú á íslenzku í hverri íþrótt mesta afrek sem unnið hefir verið í þeirri íþrótt, af mönnum í þeim flokki sem »metið« er miðað við. Og met má vinna hvort heldur er á leikmóti eða utan þess, sé að eins séð fyrir hæfum mönnum til að dæma um afrekið. Með þetta í huga skulum vér nú athuga hvað gera mætti til þess að glæða íþróttamannshugsunarháttinn hjá verkamönnum og þar með gera vinnuna að íþrótt.

Fyrst er þá þess að geta, að sum störf eru í eðli sínu þannig, að mjög erfitt eða ógerningur mundi að láta marga keppa við þau á sama stað og tíma. Svo er t. d. um sauðfjárhirðing í húsi. Að vísu mætti liða það starf sem önnur í frumatriði sín og athuga hvert fyrir sig, t. d. taka hey úr stáli, bera það fram, hreinsa garða og kræer o. s. frv. En til að vera góður fjármaður þarf ýmislegt fleira, sem erfitt er að mæla og vega á annan hátt en líta á árangurinn, sem sé, í hve góðu standi fjármaðurinn heldur skepnunum og með hve litlum tilkostnaði, og þar er í raun og veru ekki hægt að bera aðra saman en þá, sem hirða sama fjárkyn á sama aldri, sama ár og með sömu aðstæðum! — Og við ýms verk yrði það aðalvandinn að gera aðstæðurnar jafnar fyrir keppendur, svo að hægt væri að bera afkast þeirra nákvæmlega saman. Við að taka upp grjót t. d., er mikið komið undir því hvernig grjótið er lagað og hvernig það liggur, og erfitt gæti verið að finna tvo staði þar sem þessu væri nákvæmlega eins háttað. En hvar sem hægt er að gera aðstæðurnar jafnar fyrir alla þá sem keppa á þeim stað, þá mætti í sjálfu sér vel hafa kappmót, þar sem menn reyndu sig við það verk. Samanburður við þá sem keppa á öðrum stöðum með öðrum aðstæðum verður auðvitað alt af hæpinn, ef ekki er fundinn sæmilegur mælir fyrir aðstæðurnar. Þó getur kappið haft sitt gildi fyrir þann hóp sem keppir á hverjum stað, því að hann þekkir aðstæðurnar, sem hann hafði, og hver um sig í hópnum veit hvar hann stendur í samanburði við hina, sem hann reyndi sig við. Og það er þó stórum mun betra, en að hafa ekkert að mæla sig við. — Þá eru mörg störf þannig vaxin, að eg býst naumast við að nokkru sinni yrðu fjölmenn kappmót um þau, þótt fá mætti á einum stað jafnar aðstæður fyrir alla keppendur. Svo er t. d. um

það að rista torf. Eins hugsa eg að menn keppi seint á íþróttamóti í því að raka gærur. En verk má vel gera að íþrótt, þótt þau séu aldrei sýnd á íþróttamótum, svo framarlega sem unt er að ákveða afrek manna í þeim. Í hverju slíku verki ætti að vera hægt að vinna m e t, alveg eins og í íþróttum.

En hvernig ætti að koma því í kring á landi hér, hvernig ætti að koma skipulagi á slíkt? Gáum að! Í hverju verki, sem unnið er á landi hér, eru eflaust einhverjir, einn eða fleiri, sem skara fram úr öðrum samtíðarmönnum sínum, menn sem hafa unnið mesta afrekið í því verki. Þó veit enginn með vissu hverjir þessir menn eru. Þeir hljóta fyrir það enga frægð, enga viðurkenningu, er hvetji aðra til að feta í fótspor þeirra. Enginn veit hvað hann nú heitir, bezti sláttumaðurinn á Íslandi, bezti garðhleðslumaðurinn, bezti plægingamaðurinn, bezti torfristumaðurinn, bezti flatningamaðurinn o.s.frv. Og hefði ekki Guðrún Osvífrsdóttir sjálf látið þess getið, að hún spann tólf álna garn daginn sem Bolli vó Kjartan, og höfundur Laxdælu haft það eftir, þá vissum vér nú ekkert um það hve mikil spunakona hún var, og frægð hennar væri að minni. — Auðvitað tala þeir sem næstir standa stundum um það sín í milli, að sá og sá muni vera flestum eða öllum fremri í þesssu eða þessu verki, en þar við situr. Enginn getur fært sönnur á það, það verður getgáta ein.

Úr þessu mætti nú bæta með þeim hætti, að þegar einhver væri kunnur að frábærri leikni í einhverju starfi og sjálfur væri fús á að sýna afrek sitt í því, þá léti hann þrjá sér vandalausa og óvilhalla menn taka sig til prófs í því. Eðlilegast væri að hann ynni starfið heilan dag, t. d. 8 eða 10 stunda vinnudag. Dómendur athuguðu afrek hans, bæði að vöxtum og gæðum, og gæfu um það svo nákvæma skýrslu sem þeim væri unt, og lýstu öllum tækjum og aðstæðum skilmerkilega, mældu það sem mælanlegt væri. Væri verkið t. d. að rista torf, þá væri til tekið hve langar og breiðar torfurnar væru, hve margar undanskerur, hvort staðurinn væri, harðvelli eða mýrlendi, rót sendin eða öskuborin o. s. frv. Væri um heyband að ræða, yrði að vega nokkra bagga tekna af handa hófi, gera grein fyrir hvort bundið var úr sæti eða göltum, hve langt var á milli þeirra, hvers konar hey var bundið, hvernig reipin voru o. s. frv. Aðalreglan ætti að vera sú, að tilgreina alt sem hugsanlegt væri að hefði haft einhver áhrif á starfið. Þessa skýrslu ættu svo dómendur að staðfesta með fullu nafni sínu, stétt og heimilisfangi og leggja við drengskap sinn, að hún væri gerð eftir

beztu vitund. Skýrslan yrði því næst birt á prenti. Mér virðist eðlilegast að skýrslur um öll þau verk er að landbúnaði lúta væru birtar annað hvort í Búnaðarritinu eða Frey, en um þau störf er sjávarútvegi heyra, þá væru skýrslurnar birtar í Ægi, en öllum blöðum frjálst að taka þær upp. Með þessum hætti kæmi það smámsaman fram í dagsljósið, hverjir væru mestir afreksmenn í hverju starfinu. Og það væri rétt að birta skýrslu um slíkt próf, þó að reyndur hefði ekki farið fram úr eða jafnast alveg við þá sem áður hefðu reynt sig, því að það er alt af sæmd að vera næst beztur, og misjafnar aðstæður gætu valdið, að einn varð öðrum fremri. Það væri sérstaklega æskilegt að hafa skýrslu um mestu afrek í hverri sýslu landsins í þeim verkum sem prófuð væru þannig, því að það mundi vel fallið til að vekja kapp. Þegar svo með þessum hætti væru fundnir nokkrir mestu afreksmennirnir við eitthvert starf, þá væri mjög mikilsvert að koma á sérstöku kappmóti með þeim og láta þá reyna sig þar sem aðstæðurnar væru eins fyrir alla. Jafnframt væri þá aðferð hvers þeirra rannsökuð nákvæmlega í öllum atriðum og gerð um það skýrsla. Einmitt slíkir menn væru mesti fengur fyrir vinnurannsóknir. Mér virðist að ríkið ætti, beinlínis eða óbeinlínis, að kosta slík kappmót, þ. e. annað hvort veita beint fé til þess á fjárlögum eða veita Búnaðarfélaginu eða Fiskifélaginu fé til þess. Met sem unnin væru þannig á opinberu kappmóti væru auðvitað í mestum heiðri höfð, vegna þess að þar væri tryggingin mest fyrir því, að alt væri vel athugað og rétt hermt. En hitt yrði þó að vera byrjunin og undirstaðan, að einstakir menn létu prófa sig, hver þar sem hann dveldi, og það væri alt af mikils virði að fá þó svo góðar heimildir fyrir því hvað afrekað er á hverju sviði, í stað þess, að nú er það alt lauslegar getgátur, sem lítið er á að byggja. — Sjálfsagt mundu smám saman rísa upp áhugamenn, er hétu verðlaunum hverjum þeim sem færi fram úr öðrum í þeim störfum sem met væru komin í, og það væri hins vegar mjög vel til fallið, að ríkið legði eitthvað til slíkra verðlauna, sérstaklega verðlaun fyrir met er kæmi við opinbert kappmót.

Þá er að líta á þau störf sem vel eru fallin til að hafa um hönd á almennum íþróttamótum. Eitt slíkt starf er slátturinn, og svo sem kunnugt er, þá hefir á síðustu árum kappsláttur farið fram á nokkrum stöðum hér á landi. Margt ber til þess, að slátturinn ætti að geta orðið einhver hin vinsælasta íþrótt. Hann er þokkalegt, holt og skemtilegt starf, og getur þroskað allan líkamann, ef rétt er að farið. Til að verða góður sláttumaður þarf mikla ástundun og iðkun, og það er beinlínis fögur sjón að sjá vel vaxinn og slyngan sláttumann slá á grænum teig í góðu veðri.

Það er og sannast að segja, að eg hefi ekki í annan tíma séð áhuga áhorfenda á kappleik hér á landi meiri, en á þeim kappsláttumótum, sem eg hefi verið á. Það er skiljanlegt. Menn hafa að jafnaði því meiri áhuga á að sjá afrek í einhverri list, sem þeir skilja hana betur, en menn skilja það bezt sem þeir jafnframt iðka

sjálfir, og slátt hefir hver maður iðkað, sem alinn er upp í sveit á Íslandi. Alveg eins mætti hafa kappraksstur, og það einmitt í sambandi við sláttumótin. Enda hafa ýmsir hreyft því við mig. En til þess þyrfti fyrst að rannsaka raksturinn á líkan hátt og gert hefir verið með sláttinn og finna fastar reglur fyrir því, hvernig gefa skyldi einkunnir fyrir hann o. s. frv.

Þess konar kappmót, hvort sem þau eru höfð í sambandi við aðrar íþróttir eða ekki, eru nú ekki að eins til skemtunar og til að vinna sér frægð, heldur eru þau um leið hið bezta námsskeið í því sem kept er í. Þarna má sjá mestu afreksmennina reyna sig. Það er hrein og bein sýnikensla. En þegar tekin er jafnframt nákvæm skýrsla um öll atriði verksins, eins og gert hefir verið með sláttinn, og hún birt, svo að hver sem hefir skýrsluna í höndum getur sjálfur af henni séð aðferðirnar og hvernig verkfæri hvers eins voru, þá getur orðið úr því eins konar þjóðskóli í þessu verki. Þar fær hver keppandi að leggja orð í belg, hver sem vill getur tekið aðferð hans eftir skýrslunni, tamið sér hana og prófað. En auðvitað vekur dæmi þess sem sigurinn fékk mest til eftirbreytni. Tilgangur kappmótanna er einmitt að fá beztu mennina fram á sjónarsviðið til að læra af þeim. Góð fyrirmynd er bezta útsæði sem til er, því að hún getur borið þúsundfaldan ávöxt.

Enginn getur sagt um það fyrirfram, hve mörg þau verk kunna að verða með tímanum, er reynast hæf til kappmóta. Einu störfin sem enn hafa hlotið þann heiður hér á landi eru sláttur og vélritun. Í öðrum löndum hafa kappplægingar tíðkast sumstaðar, og Ameríkumenn hafa lagt mikla stund á kapppróf í vélritun. En þau störf verða eflaust fleiri og fleiri sem eins verður farið með, jafnóðum og mönnum skilst betur en áður, að kappið og frægðarlöngunin eru einhverjar sterkustu hvatir heilbrigðrar sálar, jafnskjótt og réttar aðstæður og tilefni eru fengin. Að fá sig fullreyndan er í raun og veru þroskans æðsta boðorð, því menn þroskast ekki til fulls í neinu, nema því að eins að þeir reyni á sig af fremsta megni, en það kemur bezt með því að keppa við sér meiri menn. Sá sem hefir unnið met í einhverju, er um leið orðinn mælikvarði á aðra, er stunda hið sama, dæmi hans er sönnun þess hvað takast má, og verður um leið ögrun til annara að koma á eftir, vera ekki minni menn. Íþróttamenn í hverju sem er, eru forustumenn á sviði hæfileikanna, þeir færa út kvíar mannlegrar getu, hver á sínu sviði. Og þar sem vinnan fær meginhluta æfi vorrar, þar sem atvinnuvegur hvers eins er lífsvegur hans, og alt annað að eins skýli og skemtistaðir með fram þeim aðalvegi, þá er auðsætt hve mjög persónugildi og lífsgildi hvers manns ykist við það, ef vinnan yrði stöðug leit að fullkomnun, og frægðarljóminn félli jafnt á afreksmanninn við moldarverkin eins og vísindamanninn, er leiðir mannkynið upp á nýjar sjónarhæðir.

**Guðm. Finnbogason.**

---

# Ritfregnir.

**Jón Þórðarson Thoroddsen: Kvæði.** Khöfn. 1919. Önnur útgáfa, aukin. (Sigurður Kristjánsson).

Ýmsum íslenzkum útgefendum og skáldum hefir farið — og fer stundum enn — ekki ósvipað og sumum bænda vorra, er þeir bjuggust í kaupstaðarferð með ull sína. Þeir vönduðu, sem kunnugt er, oft lítt verkun á þessum þjóðlega kaupeyri. Þeir tímdu ekki eða þeim datt ekki svo mikið sem í hug að taka úr óhreina lagða né illa þurkaða, heldur tróðu því, sem þeir gátu, í pokana, svo að hún vægi sem mest á metaskálum kaupmanna. Það sér ekki á mörgum ljóðmælum vorum, að mikið hafi verið skolað úr þeim af leir né leðju, áður en farið var með þau í prentsmiðjuna. Alt virðist verið hafa prentað, er höfundar eða útgefendur mundu eftir eða fundu í fórum sínum, fjörlaus brúðkaupsljóð, einkisverð erfikvæði, merglausar og marklausar stökur um hversdagslegustu viðburði, ekkert virðist hafa verið felt úr, ekkert geymt, þangað til skáldið færðist í þann andans móð, að hann fékk blásið í innantómt rímið anda af sínum anda, lífi úr sínu lífi, lagað það og fágað eftir lögmáli góðrar listar, unz ekkert var vansagt né ofsagt, svo að frumhugsun eða hugblær kvæðisins orkaði á lesendurna, eins og vakti, ljóst eða óljóst, fyrir höfundinum í fyrstu leiftran þess.

Í þessum efnum er víða »pottur brotinn«. En eg held fastlega, að óvíða meðal siðaðra þjóða séu slík brögð að þessum hroðahætti sem með oss. Og þetta er eðlilegt. Lítil viðkoma í bókmentum veldur því, að fatt verður til samanburðar. En þar sem fatt er til samanburðar, þrífst dómvísi illa. Lesendur gera þar lítinn eða engan greinarmun á gulli og ódýrustu málmum, þakka og launa skáldum og útgefendum hvorttveggja jafnvel eða jafnilla. Þeim fer sem kaupmönnunum, er keyptu sama verði vel þvegna ull sem illa þvegna. Á slíku ranglæti sljóvgast og spillast höfundar og útgefendur, svo að þeir missa að nokkru sjónar á mis-

mun góðs og ills í verkum sínum og annarra. Þessar athugasemdir eiga ekki síður heima um fræðirit vor en fagrar mentir.

Útgefendur Kvæða Jóns Thoroddsens 1871 segjast í formálanum hafa slept »fáeinum kvæðum«, sem þeim þótti »hvorki að efni né frágangi taka því, að þau yrðu prentuð«. En annars virðist þar farið eftir venjunni að prenta sem flest, en ekki það eitt, er gott var og boðlegt. Sætir furðu, að útgefendur sleptu ekki fleira, úr því að þeir fóru að velja úr á annað borð.[1]) Þetta er því undarlegra, er jafnvíðlesinn maður í góðum bókmentum og Steingrímur Thorsteinsson var einn þeirra nefndarmanna, er Bókmentafélagið fól að annast útgáfuna. Það er erfitt að finna ástæðu til að prenta ýms kvæði, er þar var komið á prent handa alþjóð manna, nema ef það þykir nægja, að þau eru eftir Jón Thoroddsen. Hvorki bókmentir vorar né hið stórmerka söguskáld vort hefðu skaðast á, að stórum minna hefði verið gefið út en gert var. Svo mörg ljóð hans vantar andleg næringarefni og eru ekki heldur á neinn hátt það sælgæti andans, að aðrir hafi andlegar nautnir af en þeir, sem er næstum því sama, hvers þeir neyta. Og þau fræða oss ekki hóti meir um anda skáldsins og öldurót sálar hans en venjuleg embættisbréf hans. Rímarinn, en ekki skáldið og listamaðurinn Jón Thoroddsen, hefir gert ýms kvæði, sem runnin eru undan penna hans, t. d. brúðkaupsljóð hans, erfiljóð og miklu fleira. Það er merkilegt, hversu slíkt tilþrifa- og listaskáld í lausu máli sem Jón Thoroddsen getur ort tilþrifalaus eftirmæli og hversdagsleg. Við ber það, að honum ferst ekki fimlegar né smekkvíslegar en svo, að stöku erindi í þeim gætu verið ort af einhverjum pokapresti, jafnsnjöllum söguhetju skáldsins, síra Sigvalda, í ljóðagerð. Að listinni til minnir t. d. þetta erindi á sýnishornið af kveðskap klerks í 11. kap. »Manns og konu«.

»Horfin er ágæt höfðingskona
úr hópi kvenna Vesturlands,
Þorvaldar beðja Sigurðssonar,
seggjum alkunna snildarmanns;
ættar göfugrar ættarblóm
eflaust var hún að hölda dóm«.

Og fleira mætti tína til keimlíkt úr kvæðum þessa mikla merkis-

---

[1]) Jón Sigurðsson var ekki smáviðkvæmur fyrir hönd vinar síns og öruggs flokksbróður, Halldórs Friðrikssonar, er hann lét prenta illfyndin háðkvæði nafna síns um hann í útgáfu sjálfs Bókmentafèlagsins.

skálds. Verður því ekki neitað, að líkur kveðskapur og ofangreint rindi er með »þjóðkennilegum blæ«, eins og sagt er í formála Kvæða Jóns Thoroddsens 1871 um ljóð hans. Er furða, að slíkt skáld gat ort þannig eftir daga Jónasar Hallgrímssonar og Bjarna Thorarensens, er sýnt hafði, hvílíkt yrkisefni æfi og örlög sumra Íslendinga eru. Það hefir farið hér fyrir Jóni Thoroddsen líkt og sumum hermikrákum, er sagt er um, að tali stundum óafvitandi eins og þeir, er þeir herma eftir. Á æskuárum sínum nærðist skáldið og á ljóðagerð svipaðri að gæðum. Því varð honum á að yrkja svona á fullorðinsárunum.

Annars virðist Jón Thoroddsen hafa ort ýmislegt að eins til stundargamans, en ekki til langlífis í bókmentum, t. d. margar lausavísur, brúðkaupskvæði sín öll og erfiljóð, suma skopsnúninga á sálmum, er hann skemti sér oft við, og fleira. Ef hann hefir síðar ætlast til, að alt slíkt yrði prentað, stafar það eflaust af því, að hann hefir komist að raun um, að alþýðu manna félli þessir kviðlingar vel í geð.

Kveðskapur Jóns Thoroddsens átti snemma miklum vinsældum að fagna með þjóð vorri. Útgefendur kveða það samkvæmt alþýðurómi, er hann hafði þá fengið, að Gísli Brynjólfsson orti til Jóns 1854, er hann fór heim til fósturjarðar vorrar:

»Betra skáld fór aldri
yf'r um hranna hreyki-hvel«.

»Ljóðmæli hans gerðu mikla lukku, þegar þau komu út«, sagði gamall og skilríkur prestur eitt sinn við mig. Og slíkt er ekki torskilið. Ljóð hans íþyngdu ekki skilningi lesenda með lífspekilegum hugleiðingum. Hann flaug þar hvorki hátt né kafaði djúpt. Þau voru ávalt auðskilin. Hann var léttur í spori og liðugur, hann var kátur og gamansamur, hann var stundum meinhæðinn, en alls ekki »græskulaus«, eins og þeir Jón Sigurðsson og og samnefndarmenn hans segja í fyrnefndum formála. En skáldið fyrirgerði samt ekki þjóðhylli sinni. Hann skaut skopgeirum sínum þangað, sem alþýðu manna þótti vel við koma, að danskinum og æðstu embættismönnum vorum, »titlatogum« og höfuðstaðnum. Hann orti undir gömlum og góðkunnum bragarháttum. Hvorki búningur né efni ljóða hans var alþýðu of nýstárlegt. En ef til vill hefir það aflað ljóðum hans mestra vinsælda, að hann lýsti með lipurð og fjöri árstíðum og sveitanáttúru lands vors, dauðri og lifandi, mjög trúlega, eins og hún gerist skemtilegust og fegurst.

Kvæði hans eru líka að þessu leyti með »þjóðkennilegum blæ«. Mörgum sveitalesanda hefir verið skemt, er hann las t. þ. þetta erindi:

»Sprettur fiskur í sjá,
lítið leik bregður á
lambið, grænkuðum fjalla í geirum,
hoppar kálfur án bands,
stígur fetfljótan dans,
folald lífað á rennsléttum eyrum«.

Alþýðumenn könnuðust við það líf, er hér var lýst. Þeim þótti vænt um þessar kvikmyndir af sömu rökum sem mönnum þykir gaman að ljósmyndum, er líkjast þeim, þá er þeir eru bezt búnir og á hvern veg bezt fyrirkallaðir. Og með líkri gerð eru ýms kvæði hans. Ýmsum mætti við bæta, er sveitamenn höfðu mætur á, t. d. »smalastúlkunni«, er Jón Thoroddsen hefir ort um á undan Hannesi Hafstein. Ljóðelskir lesendur geta í tómstundum skemt sér við samanburð á þessum tveimur kvæðum.

Það var í alla staði vel við eigandi að efna á einhvern hátt til nýrrar útgáfu af kvæðum Jóns Thoroddsens á fyrsta aldarafmæli hans. Hitt orkar tvímælis, hvort gefa átti út alt, sem hann hafði ort, eða að eins úrval. Þessi afmælisútgáfa er endurprentun fyrri útgáfunnar, óbreytt að öðru en því, að bætt er hér við nokkrum ljóðum, er ekki eru í hinni, aðallega léttvægum gamanvísum og kímnikvæðum, enn fremur fáeinum skammavísum um einstaka menn, þremur beinakerlingavísum og auk þeirra, að minsta kosti, einum klámkviðling. Eitt kvæði hefi ég fundið alvarlegs efnis, sem er ekki í fyrri útgáfunni. Hvergi er þess getið, hver séð hafi um útgáfuna. Enginn formáli fylgir henni. Engin grein er gerð fyrir, hvort þessi viðbætir sé sá úrgangur, sem slept var prentun á 1871, eða önnur kvæði. Þessi útgáfa er að því leyti ófullkomnari en hin fyrri, að slept er athugasemdum um, hvar kvæðin eru fyrst prentuð. En þær athugagreinir leiðbeindu nokkuð um aldur þeirra.

Það stafar eflaust af kunnugleik á fornum og nýjum vinsældum afmælisskáldsins og skilningi á afstöðu hans í bókmentum vorum, að jafnmikið er prentað eftir hann og hér er gert. Alt að einu held eg fastlega, að skáldinu hefði verið meiri sómi sýndur, ef að eins hefðu verið gefin út úrvalsljóð hans. Ætla má, að hverjum höfundi sé mest þægð í, að það eitt sé prentað eftir hann, er hann hefir sæmd af. Íslenzkum vísinda- og mentamönnum í Kaupmannahöfn hefði ekki átt að verða skotaskuld úr að velja fáein

beztu ljóð skáldsins í slíka útgáfu. Eg hygg og, að flestum dómvísum ljóðvinum hefði þótt vænst um að eignast ofurlítið úrval úr ljóðum hins þjóðkæra söguskálds vors, t. d. í líku snyrtisniði og »Smaa Digtsamlinger«, er bókverzlun Gyldendals gefur út. Annarsstaðar, t. d. í Ársriti Fræðafélagsins, mátti birta eftir hann óprentuð kvæði, er aukið gátu skilning á honum. Einhverstaðar mátti og gera grein fyrir öðrum óprentuðum kvæðaslitrum skáldsins og geta, hvar þeirra væri að leita. Það stendur ekki á sama, hvar slík kvæði eru gefin út, hvort þau eru eingöngu prentuð sem einskonar heimildarrit, eða þau koma á torgið í skaldskapargervi og gera tilkall til virðingar í bókmentum þjóðarinnar. Það reynist ávalt lítið gagn að ógjaldgengum peningum í verzlun og viðskiftum.

Eg hefi farið nokkrum orðum um þetta efni, af því að áríðandi er að komast að skýrri niðurstöðu um greinir þær, er fara ber eftir við útgáfur á ljóðum sígildra skálda. Menn verða að minnast þess, að því verða ekki lífsgrið gefin, er hinn »ríki at regindómi«, miskunnlaus tíminn, hefir dæmt til fyrnsku, það ekki vakið upp, er hann hefir drekkja látið.

Framan við þessa nýju útgáfu Kvæða Jóns Thoroddsens er prentuð æfisaga skáldsins eftir Jón Sigurðsson. Hún er hispurslaust rituð, án hlutdrægni og hlýju. Hún hefði þurft að vera miklu rækilegri, lýsa gerr einkennum hans og skapi. Ýmislegt má græða á köflum úr bréfum skáldsins til vinar hans, Gísla Brynjólfssonar. Eru kaflar þessir því verðmætari, er bréf hans til Gísla munu nú glötuð. Þess var því meiri þörf, að einhver nákunnugur samtíðarmaður Jóns hefði lýst honum rækilega, er hann dekrar ekki mjög við sjálfan sig í skáldskap sínum né skoðar sig þar í krók og kring. Í ljóðmælum hans má þó ofurlítið skygnast inn í hugskot hans og og kynnast æfi hans. Vér sjáum hann grátandi á skipsfjöl skoða fjalltinda lands vors hverfa í sjó (»Kveðja«, »Afturlit«). En er til Hafnar kemur, taka glaumur, gleði og gjálífi hann í skaut sér. Hann venur komur sínar nokkuð á óæðri skemtistaði bæjarins, skemtir sér t. d. á »Skóarakránni«, er hann svo kallar, og er auðsjáanlega vel kunnugur þeim stað. Það auðkennir skáldið vel, að hann velur sér slíkt yrkisefni úr Hafnarlífinu, en á ekki við glæsta gildaskála né fágaðar skemtanir. Hann skortir skotsilfur sem frónska Hafnarstúdenta, bæði fyrr og síðar, og sverfur stundum að honum (»Von í hallæri«, »Herleiðingin í Höfn«). En hann treystir því, að eitthvað leggist til, kvíðir engu og vonar hið bezta (»seggir sízt er

hyggja — svöngum lýði færir — krummi ketlæri«). Hann lætur hverjum degi nægja sína þjáning:

»Lífs umhyggju litla ber:
líkur smáfuglunum
af kvisti' á kvist eg hoppa hér
á Hafnar steineikunum«,

kveður hann. Samt líður honum ekki altaf vel. Þunglyndið þrumir »undir niðri í stiklunum«, leynist undir hlátrinum:

»Enginn sjá mig innan má,
er þeir sjá mig hlæja,
en gömlum tíðum gröfum á
glitrar rósablæja«.

Og þungbúinn er hann eitt sinn, er hann heldur af stað heim á leið frá Höfn og rennir huganum yfir liðin æfiár og hefir þá, ef til vill, reynt »veraldar vélráð«, er hann nefndi í »vöggukvæði« sínu. Honum finst þá lítil uppskera sín á akri lífsins. Hann hefir ekki fundið »lífgras« það, er hann leitaði, ástaþrá hans er ófullnægt, draumar hans hafa engir ræzt (»Afturlit«). Af frjálsræði, peningavandræðum og gleðskap Hafnaráranna tekur við næðis- og hvíldarlítið embættisarg. Þá er hann er settur sýslumaður, langar hann til að rita skáldsögu, en »umsvif og veraldarsýsl hafa, síðan eg kom hingað, hindrað mig frá að ráðast í slíkt«, ritar hann. En síðar kárnar þó gamanið enn meir. Árið 1859 kveður hann fjandann sjálfan hafa fjötrað sig »á skrifstofubekk«, og þykist hann þar þræll fastur á fótum:

»Þar eru límdar laggir mínar,
loði eg niður fastur þar
alt eins og fugl, er fætur sínar
flækt hefir lykkju snörunnar
því er eg ekki ferðafrjáls« o. s. frv.

Ekki er kyn, þótt leitað sé hressingar í flöskustútnum, er æfikjörin fullnægja þörfum andans svo illa, að hann fær ekki frjóvgast né sjaldnast veifað vængjum frjáls til flugs. Svona hafa embættin leikið ýmsa hina mætustu Íslendinga. Er broslegt að hugsa til þess, að mörgum landanum hefir leikið öfund á óöfundverðum stöðum þessara manna. Þeim embættismönnum, er gæddir voru anda og lifandi sál, var staðan einatt álíka notaleg og vinnuharðir húsbændur voru fyrrum námfúsum unglingum, er þeir sneyptu og snoppunguðu fyrir að líta í bók. Og ef þá vantaði anda

og lifandi sál, tók það því sannarlega ekki að öfunda þá.

Í »Skírnis«-ritgerð minni um Jón Thoroddsen mintist eg á nokkur einkenni kvæða hans, þau er kvæði má kalla. Eg fór þar fljótt yfir sögu, með því að mér þótti ekki kveðskapur hans þess virði, að rita um hann langt mál í stuttri tímaritsgrein um allan skáldskap hans. Eg hefi orðið þess áskynja að mörgum hefir getist furðu misjafnlega að dómi mínum um ljóð skáldsins, sumum þótt eg gera úr þeim ofmikið, fleirum oflítið. Eg trúi því enn, að dómur minn sé ekki réttu fjarri. Eg sé ekki ástæðu til að endurtaka ummæli mín þar né breyta þeim. Mér láðist að nefna þar »Krummavísur«. Þær eru að vísu ekki nema snoturt smákvæði, skrúðlaust og skrautlaust, en að mínu viti með fullkomnu listasniði. Skáldið sér allar aðfarir krumma skýrt í huga sér og lýsir þeim með látlausri lipurð. Skemtileg hugsun felst í kvæðinu. Mundu eftir sauðnum hans krumma, lesandi, er þér liggur við að örvænta, og þú sér engi hjálparráð. Og krumma fer fallega, er hann kallar á nafna sína í krásina.

Þó að Jóni Thoroddsen hafi auðnast að yrkja sjaldgæflega lífvænleg kvæði, hafa ljóð hans ekki gert hann að slíku merkisskáldi sem hann er. Hann er ekki stórvaxið ljóðskáld. »Hvað vantar?« spyr gramur lesandi. Eg skal skýra mál mitt. Flestum miklum kvæðum má að einu leyti líkja við heilaga kirkju, er vera átti bæði sýnileg og ósýnileg. Hugsýnilegur og utanverður helmingur þeirra er lýsingin eða myndin, ger úr orðum, hvort sem það er náttúrulýsing, frásaga eða annars konar lýsing. Innanverður og óhugsýnilegur helmingur þeirru er geðöldurnar, og umfram alt andinn, er lesöndunum vitrast í þeim, hugsunin, sem rennur undan hjartarótum skáldsins og hituð er í hjartavarma þess. Það er — ef svo má að orði kveða — þessi ósýnilega hálfa, andinn, er helgar mörg kvæði annars merkisskálds vors, Gríms Thomsens og veitir þeim skáldlegt líf. Ljóðabók hans er opinberunarbók. Það er andinn, sem kvæði Jóns Thoroddsens vantar. Þau kvæði hans, er telja má nokkurs virði, eru kostugri að utan en innan. En hann á, auk kímninnar, að minsta kosti, í hörpu sinni einn ósvikinn streng, að vísu ekki sterkan né hljómdjúpan, en hljómþýðan. Sá strengur er unun hans og hrifning af náttúru lands vors, er hann festi ungur ástarauga á, hlýja hans til hennar og íslenzkrar sveitasælu samfara, raunsæjum skýrleik í náttúruskoðun og fimleik í að sýna það, sem hann sér. Hann umbreytir náttúrunni lítið í lýsingum sínum, stórfeng-

legt ímyndunarafl birtist ekki í kvæðum hans. Hugleiðingalaus og brosandi náttúrufró vakir í þeim, gyllir lýsingarnar og hýrgar lesendurna. Beztu kvæði hans verða samt vart kölluð meira en lagleg.

Það væri gaman að vita, hvort Jón Thoroddsen hefði lesið kvæði Bellmans. Um það verður engin ályktun leidd af því, að hann hefir ort undir lögum þessa fræga skálds. Þeim hefir hann getað kynst annarstaðar, t. d. í söngleikum Heibergs. En þó að ólíku sé saman að jafna, finst mér lýsingaraðferð í stöku kvæðum Jóns Thoroddsens ofurlítið svipuð lýsingalagi Bellmans. — Ef tala má um staðreyndir í skáldskap, er Jón Thoroddsen staðreyndaskáld, bæði í sögum sínum og þeim ljóðum, er veigur er í. Þau eru líkamleg, hlutleg, tiltölulega mörg orð í þeim merkja fyrirbrigði úr sjónar- og heyrnarheimi, er hver vitiborinn Íslendingur kannast við. Þau eru aldrei hjálíu. Í þessu efni virðist mér Jón Thoroddsen geta verið ungum skáldum til eftirbreytni.

**Sigurður Guðmundsson.**

**Magnús Helgason: Uppeldismál.** Til leiðbeiningar barnakennurum og heimilum. Rvík. Kostnaðarm. Sigurður Kristjánsson. 1919.

Bók þessari er annars vegar ætlað að vera skólabók í Kennaraskólanum, hins vegar leiðarvísir á heimilunum um uppeldi barna og fræðslu, og á báðum stöðum mun hún verða til mikilla bóta. Hún tekur stórum fram þeim útlendu bókum, sem hingað til hafa verið kendar á Kennaraskólanum, og foreldrar og aðrir, er hugsa um uppeldi barna, munu finna þar margar hollar bendingar.

Bókin skiftist í tvo hluta. Er hinn fyrri yfirlit yfir almenna sálarfræði með bendingum um, hvernig haga skuli uppeldi og fræðslu í samræmi við þau lög sálarlífsins, sem skýrt er frá. Síðari hlutinn er um heimili, skóla, samvinnu þeirra, kennara, bekkja skipun, stjórn, refsingar, stundaskrá, einkunnir og próf, og loks um kenslu sérstakra námsgreina.

Mikill vandi er nú á tímum að semja uppeldisfræði, því að í fáum vísindagreinum mun vera örari vöxtur eða meiri nýbreytni á seyði. Uppeldisfræði er meir og meir að verða hagnýt sálarfræði, bygð á tilraunum. En úrslitatilraunir eru þar, því miður, helzti fáar enn þá, og því óvíst, hvað af því sem uppi er fær að lokum festu í framkvæmdinni. Þar sem svo er ástatt, er varla við því að búast, að bók sem ætluð er byrjendum í þessum efnum taki

mikið með af nýjungum, enda hefir höf. þessarar bókar haldið sér við það sem almennast hefir fengið helgi í slíkum kenslubókum. Mér virðist höf. hafi yfirleitt tekist vel að ná því marki, er hann hefir sett sér: að rita bók er væri hvorttveggja í senn, skólabók og alþýðubók. Meðferð efnisins er í bezta lagi, framsetningin léttstíg og ljós. Síra Magnús skrifar skemtilegt mál, hreint og alþýðlegt og þó persónulegt. En það sem gefur bókinni mest gildið, er að hún andar að lesandanum hlýrri mannúð og spaklegri lífsskoðun góðs manns. G. F.

**F. Genzmer: Das eddische preislied**, Halle 1919 (sérprentun úr Beitr. zur Gesch. d. deutschen Spr. u. Lit. 44, bls. 146—168).

Edduljóð eru miklu auðskildari en skáldakvæði; hættir skáldakvæðanna (dróttkvætt, kviðuháttur, runhent) eru dýrari en Edduljóðanna (fornyrðislag, málaháttur, ljóðaháttur), skáldakvæðin úa og grúa af kenningum, venjulegri orðaröð er kollvarpað, en Edduljóðin eru óbundnari í bragarháttum og eðlilegri að orðaröð. Höf. ritgerðar þessarar bendir fyrst á aðalmismuninn á þessum skáldskaparstefnum, ef svo mætti nefna, og rannsakar þvínæst ýtarlega nokkur skáldarkvæði, einkum Hrafnsmál eða Haraldskvæði Þorbjarnar hornklofa og sýnir fram á, að kvæði þetta beri að ýmsu leyti einkenni Edduljóða og sé því tengiliður milli Edduljóða og skáldakvæða. Rannsakar hann síðan orðfæri nokkurra annarra skáldakvæða og skýrir því næst mismun Edduljóða og skáldakvæða: hetjukvæðin meðal germ. þjóða lýstu örlögum einstaklinga, ást og hatri, en lofkvæðin lýstu hernaðaratburðum og þjóðamálum og var því hætt við, að kvæði þessi yrðu tilbreytingalítil. Kenningar og bragarhættir réðu bót á þessu tilbreytingaleysi annars vegar (skáldakvæðin), en goðafræðissagnir hins vegar (Edduljóð). Loks kom kristna trúin og réð niðurlögum þeirra beggja. A. J.

**Davíð Stefánsson: Svartar fjaðrir.** Rvík 1920.

Það verður fokið í flest skjól fyrir Íslendingum, þegar þeir hætta að yrkja. Hér hefir aldrei orðið hlé á ljóðakliðnum, frá því að fyrstu landnámsmenn stigu hér fótum á land og alt fram á síðustu stundir. Það mun vera einsdæmi í sögu þjóðanna, að skáldskapur hafi orðið að þjóðlegum atvinnuvegi, en á söguöldum Íslands voru d r á p u r og f l o k k a r ein hin helzta útflutningsvara héðan úr landi. Og ekki lögðu Íslendingar árar í bát, þó að hinn erlendi

merkilegt kæmi fyrir hana. Hún var heilsulítil og fátæk og hélt áfram að ganga í nunnuskólann í Lourdes, því hún var ekki orðin lesandi og skrifandi fyr en á 19. aldursári. Um þriggja ára skeið var hún alveg hjá nunnum, en þegar hún var 22 ára gömul, gjörðist hún sjálf nunna og fór í klaustur í Nevers, þar sem hún dó 35 ára gömul. En á þessum 20 árum var bærinn Lourdes orðinn frægur fyrir kraftaverk, er þar gjörðust; stór og mikil kirkja var reist og einnig tvær miklar standmyndir af hvíklæddu konunni, sem Bernadette sá og gjörðar voru eftir hennar fyrirsögn, þó ekki fyndist henni sjálfri að listamönnunum tækist vel.

Sagt er að klerkastéttin hafi í fyrstu tekið þessum vitrunum litlu stúlkunnar heldur fálega og er eðlilegt, að hún fari varlega í þesss konar efnum. Þegar Bernadette kom með skilaboð til sóknarprestsins í Lourdes, um að María mey vildi láta reisa sér kirkju þar og að fólkið ætti að ganga í skrúðgöngum til hellisins, þá var hann heldur byrstur við hana og sagðist hún vera hrædd við hann. En ekki leið á löngu fyr en honum fanst sjálfsagt að fara að tala um málið við biskupinnn í Tarbes. Biskupinn dró þangað til í júlímánuði að skipa nefnd til að rannsaka fyrirbrigðin. Nefndin fór sér hægt, fyrst yfirheyrði hún Bernadette á sjálfum vitrunarstaðnum, því næst voru hafnar vitnaleiðslur og rannsóknir út af lækningum, sem höfðu orðið svo skyndilega í Lourdes, að álitnar voru kraftaverk. Merkur læknir var fenginn til að aðstoða nefndina. 27. sjúkdómstilfelli voru rannsökuð. Um nokkur þeirra sagði Dr. Verger þessi, að hægt væri að gefa vísindalegar skýringar á batanum; önnur komu fyrir, er hann var í efa um, hvort mögulegt væri að lækna á náttúrlegan hátt, en um 8 sagði hann, að lækningin væri beinlínis kraftaverk.

Efnafræðislegar rannsóknir fóru fram á vatninu, því í Pyreneafjöllum eru víða ölkeldur, sem notaðar eru til lækninga. En úr uppsprettunni í Lourdes fæst aðeins vanalegt drykkjarvatn. — Skýrsla nefndarinnar var prent-

uð 18. janúar 1862 og kvað hún upp þann dóm, að *María mey* í raun og veru hefði birzt Lourdes 11. febrúar 1858 og dagana þar eftir og skoraði á páfann að staðfesta dóminn. Pius 9, sem þá sat á páfafastólnum, gjörði það samt ekki og eftirmenn hans ekki heldur. En miklar mætur hafa páfarnir á Notre Dame de Lourdes og í Vatikansgarðinum í Róm er nákvæmleg eftirstæling af Massbieillehellinum.

Árið 1862 var þegar farið að safna fé til að byggja fyrir kirkju á vitrunarstaðnum, og peningarnir streymdu að úr öllum áttum.

Tíu árum síðar, eða 1872, var kirkjan fullgjörð, og 1876 var hún hátíðlega vígð, og standmynd af Maríu mey, sem stendur fyrir framan hana var krýnd í viðurvist mikils mannfjölda.

Reglulegar pílagrímsferðir til Lourdes hófust 1867 og það ár voru farnar 36 ferðir, en í þeim tóku þátt 28,000 manns. Tala pílagríma jókst ár frá ári, og 1873 komust á hinar svokölluðu »pèlerinages nationaux« eða pílagrímsferðir fyrir almenning. Þeir sem taka þátt í þeim geta komist til Lourdes fyrir lítið eða ekkert endurgjald, enda komst pílagrímsfjöldinn það ár upp í 140,0C0. Nokkrum árum fyrir stríðið var talan orðin 500,000, og þó eru hér ekki taldir nema þeir, er tóku þátt í reglubundnum pílagrímsferðum, og átt við Frakka eina. En pílagrímarnir koma úr öllum löndum Norðurálfunnar, einkum Belgíu, en einnig úr öðrum heimsálfum.

Það er auðvitað lækningarnar sem árlega verða í Lourdes, er draga að sér mannfjöldann. Hvernig sem á þessar lækningar er litið — og auðvitað hafa komið fram margar vísindalegar og óvísindalegar skýringar á þeim, þá neitar nú varla nokkur læknir á Frakklandi, að þær eigi sér stað og nái til allra sjúkdóma: blindir fá sýn og haltir ganga, heyrnalausir heyra og mállausir mæla.

Fyrst framan af létu menn sér nægja, að sjúklingarnir sjálfir og héraðslæknar þeirra bæri vitni um kraftaverkin, en 18~2 var sett á stofn nokkurs konar k r a f t a -

verka-klínik, ef eg mætti svo að orði komast. Verkefni hennar er að skoða undir eins þá sjúklinga, sem fá bata í Lourdes, rannsaka skírteini þau, er þeir hafa með sér frá læknum, sem hafa stundað þá, og frá sóknarprestunum sem þekkja lífsferil þeirra og ætt. Við þessa stofnun eru fastir læknar, en allir læknar, frá hvaða landi sem er og hverrar trúar sem er, geta fengið aðgöngu að þessari klínik, og þannig sannfært sig sjálfir um, að hér sé ekki um neinar blekkingar að ræða. Á 20 árum hafa komið þangað 5000 læknar og þar af var eitt þúsundið erlendir menn. — Þegar annríkt er, kemur jafnvel fyrir, að yfirlæknirinn kveður aðkomulækna sér til hjálpar, og er þeirra dómur tekinn jafngildur hinna.

Þó að um Lourdes megi nú að vísu með sanni segja, að margir séu kallaðir, en fáir útvaldir, þá hafa kraftaverkalækningarnar samt komist upp í 200 á einu ári, og eru það hinir margvíslegustu sjúkdómar, sem þar hafa verið læknaðir: holdsveiki, krabbamein, heilabólga, beinbrot o. s. frv. — Eg gríp niður í frásagnir um lækningarnar af handahófi:

Madame Rouchel er frá borginni Metz, hún var sterkbygð og hafði aldrei kent sér neins meins þangað til 1890, en þá var hún fertug og lá á sæng eftir 4. barnið. Hún var ein í húsinu. Þá brauzt brjálaður maður inn til hennar, reif í sundur rúmtjöldin og dró upp hníf. Varð þá aumingja konan svo hrædd, að hún stökk upp úr rúminu og komst við illan leik og lítt klædd út úr húsinu. Við þetta misti hún heilsuna. Fyrst fékk hún augnveiki, en augnalæknirinn sagði henni, að hún gæti ekki fengið bót á því, af því að blóðið væri spilt. Það kom brátt í ljós að eitthvað var að henni, því hún fékk bólur um andlitið á hverjum mánuði, og svo ágerðist þetta og fór að grafa í öllu saman: nefinu, vörunum og munninum. Andlitið varð eitt einasta sár. Hún leitaði margra lækna, en að eins einum tókst að lina dálítið kvalir hennar, en læknað hana gat hann ekki, og fór sjálfur með hana til tveggja sérlækna (specialista), sem tóku úr henni allar

tennur og brendu varir og góma með glóandi járni. En alt kom fyrir ekki. Að lokum ráðguðust margir læknar saman um ástand hennar og kom þeim saman um, að hún væri ólæknandi. Hún lá svo í rúminu frá því í desember 1902 þangað til í maí 1903. Henni fór mjög aftur, ígerðin í andlitinu ágerðist meir og meir, það var komið gat í gegnum kinnina á henni, nefið var etið í burtu, holdið var orðið svart og ódaun lagði af öllu saman. Jafnvel ástvinum hennar var farið að bjóða við henni og sjálf var hún huggunarlaus. Ætlaði hún þá að fyrirfara sér, kasta sér í á, en þá mætti hún presti, sem hughreysti hana og stakk upp á því, að hún reyndi að fara til Lourdes. Hún fór líka með öðrum pílagrímum frá Metz og kom til Lourdes 4 sept. 1903. Hjúkrunarkonan, sem fór með henni, þurfti alt af að skifta á henni umbúðum, því mikill gröftur rann úr sárunum. Það gefur að skilja, að hún fór og baðaði á sér andlitið undir eins fyrsta daginn. Árangurinn var ekki mikill, þó fanst henni ekki renna eins mikið úr sárunum þann dag. Næsta dag yfirgaf hún alls ekki baðlaugarnar og hellinn og þar hitti hún konu frá Metz, sem var komin til Lourdes með dætrum sínum til að hjúkra hinum sjúku, því það er orðin venja meðal heldra fólks í Frakklandi að gjörast sjálfboðaliðar við hjúkrunarstörf í Lourdes, og mun jeg minnast á það síðar. — Kona þessi, Madame Lacroix varð dauðhrædd þegar hún sá Madame Rouchel baða andlitið og skola munninn, hún bauðst til að hjálpa henni að láta umbúðirnar um aftur, en það vildi Madame Rouchel ekki og var erfitt að skilja mál hennar. Þetta var um hádegi þ. 5. sept. Stundu síðar batt nunna nokkur um sár hennar og sá gatið í kinninni. Kl. $4^1/_2$ skoðaði kennari við prestaskólann í Tarbes sár hennar, en einmitt þá hófu pílagrímar skrúðgöngu til rósinkranskirkjunnar með söng og bænum. Aumingja konan fyrirvarð sig að ganga með í skrúðgöngunni, hún fór samt í kirkjuna og settist þar út í horn. Að líkindum hefir hún heyrt þangað sameiginlegt andvarp pílagrímanna: »Drottinn, ef þú vilt, getur þú læknað oss! heilaga Guðsmóðir bið þú fyrir

oss!« Sjálf endurtók hún án efa orð tollheimtumannsins: »Guð minn, vertu mér syndugri líknsamur!« Í því kom biskupinn frá Saint-Dié inn í kirkjuna með helgan dóm í hendinni, en á eftir honum pílagrímarnir. Þá duttu umbúðirnar frá andlitinu á henni og óhreinkuðu bænabókina. Hún greip þær fljótt og batt þær á sig, gekk svo út til að drekka af hinu furðulega vatni, en umbúðirnar voru alt af að detta af henni. Hún kom því inn á spítalann óánægð og möglandi og ein hjúkrunarkonan ætlaði þá að hjálpa henni. En þegar hún aðgætti hana, hrópaði hún: »Madame Rouchel, þér eruð læknaðar!« Hjúkrunarkonan, er hafði fylgt henni frá Metz, kom þar að og varð hissa að sjá, að af þessum óttalegu meinum var ekki annað eftir en ör. . . . . .

Fréttin barst fljótt út og allir vildu fá að sjá konuna, er á augnabliki hafði fengin heilsuna aftur, en Madame Rouchel var ekki um það gefið; þó varð hún að láta læknana í Lourdes skoða sig, en þeir urðu að kannast við að allur þrúti væri horfinn, sárin væru gróin, en örin rauð eftir.

Eg var einmitt í París þann vetur er þetta gjörðist, og var mikið talað og skrifað um þetta kraftaverk. Meðal annars var það gjört að umræðuefni á læknafundi í Metz sama ár, og reyndi Dr. Muller nokkur að gjöra lítið úr því. En yfirlæknirinn við einn af stærstu spítölum Parísar kvaðst aldrei hafa séð eða heyrt getið um að »lúpus« yrði læknaður á svipstundu.

Það mætti lengi halda áfram með svona sögur, en eg skal að eins drepa á sögu Clementine Trouvé, af því að frægur franskur rithöfundur, Emile Zola, sem ritað hefir skáldsögu um Lourdes, lætur þessa litlu stúlku koma þar fyrir, en undir öðru nafni.

Telpan hafði í 3 ár haft vont hælsár og beinátu, og gat ekki gengið, en var ekið í handvagni að lauginni, þar sem hún læknaðist samstundis. Zola leit auðvitað öðruvísi á málið en trúaðir kaþólskir menn, og varð mikið þras út úr bók hans; en naumast verður sagt með sanni

að Zola hafi tekist að hrekja sönnunargögn mótstöðumanna sinna.

»Trúin flytur fjöll« segir máltækið, og satt er það, að trúin, hin sterka, óbilandi trú á mátt Maríu meyjar á sjálfsagt mikinn þátt í þessum undralækningum.

Hvergi verður maður, ef til vill, var við meiri lifandi trú en í Lourdes. Þangað safnast ekki að eins mörg þúsund veikra manna á hverju ári, heldur fara þangað einnig friskir menn og fagrar konur af öllum stéttum, einkum af tignum og ríkum ættum, til að þjóna og hjúkra fátæklingunum í guðsþakkarskyni. Hvítar hendur, sem heima fyrir ekki snertu á neinu, baða og binda hér um viðbjóðsleg sár. Ungir menn, sem hafa nóga peninga til að skemta sér fyrir í nálægum baðvistarstöðum, meta það þó meira sakir sálu sinnar, að taka á sig þjóns mynd og bera sjúklingana í Lourdes frá járnbrautarstöðinni á spítalana og frá spítalanum í baðlaugarnar. Hér kemur ekki til greina hvort vont sé veður eða hitinn mikill, ekki heldur hugsa burðarmennirnir um, hvort sjúklingarnir þjáist af ógeðslegum sjúkdómum, eða séu klæddir tötrum.

Þessir sjálfboðaliðar eru þar einungis tíma og tíma, en dæmi er til að maður, sem fekk bót heilsu sinni, helgaði sig algjörlega þessu starfi, og allir sem þekkja sögu Lourdes, þekkja nafn hans, sem er Gabriel Gargam.

Hann er af góðum ættum, ætlaði sjálfur að verða póstmeistari. Um leið og hann las undir próf, hafði hann verklegt starf á hendi og var í póstvagninum í hraðlest, sem 17. desember 1899 fór frá Bordeux til Parísarborgar. En þá kom fyrir óttalegt járnbrautarslys. Gargam þeyttist langar leiðir út í snjóinn og þar fanst hann næsta morgun viðbeinsbrotinn, með sár á höfði og fótum. Hann læknaðist samt fljótt af þessu, en áfallið hafði verið svo mikið, að öll líffærin röskuðust, hann var máttlaus frá mittisstað og gat sama sem engu rent niður. Böð voru reynd við hann, en þá versnaði honum svo mikið, að upp frá því varð að næra hann gegnum pípu, sem látin var í meltingarfærin.

Um þennan mann eru allar upplýsingar mjög nákvæmar, því þær voru lagðar fram bæði í undir- og yfirréttinum i skaðabótamáli, er hann höfðaði á hendur járnbrautarfélaginu. Allir læknar, er skoðuðu hann, kváðu hann ólæknandi. Alt af megraðist hann og alt af hnignaði honum, og að síðustu var kominn kolbrandur í tærnar á honum. Járnbrautarfélagið hafði verið dæmt til að borga honum 6,000 franka á ári og 60,000 franka í eitt skifti fyrir öll, því eftir áliti læknanna var hann að verða aumingi það sem eftir var æfinnar.

En átti hann þá langt eftir ólifað?

Móðir hans var hrædd um, að það yrði ekki, og beiddi hann nú að reyna að fara til Lourdes. En Gargam var ekki trúmaður og vildi ekki í fyrstu heyra talað um það. En svo fór samt að lokum, að nokkurs konar sjúkrakista var smíðuð utan um hann og móðir hans og hjúkrunarmaður lögðu af stað með hann til Lourdes. Hann var þá búinn að vera veikur í 20 mánuði, og þó hann væri hár vexti, vóg hann ekki nema 72 pund.

Eg fer nú fljótt yfir sögu, því lækningarnar verða alt af með sama móti. Hann var látinn í baðlaugina með mikilli varkárni, og síðan voru börurnar, sem hann lá á, látnar hjá veginum, þar sem skrúðganga pílagríma fór um. Þegar prestarnir, er gengu á undan henni með helgan dóm, nálguðust hann, leið yfir hann, en svo reis hann alt í einu upp af börunum og gekk nokkur fet og kvaðst vera svangur. . . . . .

Kraftaverkið var fullkomnað, og næstu daga kom hann sjálfur prúðbúinn á læknaskrifstofuna til að skýra frá öllu. Læknarnir undruðust að hann skyldi undireins þola að borða kjöt, en honum varð gott af öllu, sem hann borðaði, og fitnaði fljótt. Sárin á fótunum læknuðust einnig í sama vetfangi og hann reis upp.

Eg hefi reynt að segja sögu Lourdes hlutdrægnislaust, eins og hún er sögð á Frakklandi af þeim, sem hvorki eru of kaþólskir né of vantrúaðir.

Fyrst í ágústmánuði í fyrra ferðaðist eg um Pyrenea-

fjöll að gamni mínu og án nokkurrar ferðaáætlunar. Það var því af hreinni tilviljun að eg kom til Lourdes snemma einn sunnudagsmorgun. Í járnbrautarvagninum með mér var prestur með hóp af sóknarbörnum sínum, og heyrði eg að mikið var um pílagríma talað, en eg gaf því engan gaum, því eg vissi, að litlir hópar af þeim eru alt af á ferðinni, en »*le pèlerinage national*« eða pílagrímsförin fyrir almenning var um garð gengin. Þegar eg ók frá járnbrautarstöðinni ofan að gistihúsunum, sá eg þó, að eitthvað mikið var um að vera, mannfjöldinn var afskaplegur og öll gistihús full. Eg var nú samt svo heppin, að rekast á mann, sem léði mér lítið herbergi, en hann sagði mér, að 50,000 pílagríma mundu vera í borginni. Löng járnbrautarlest hefði komið beina leið frá Belgíu og væri það í fyrsta sinni frá því er stríðið hófst. Ein pílagrímslest hefði komið frá Lyon og loksins ein frá París, og væri það kristilegt félag járnbrautarþjóna. Eg flýtti mér auðvitað að fylgja fólksstraumnum. Leiðin lá meðfram ánni og tré til beggja hliða, en takmarkið var Massabieillehellirinn og hin mikla kirkja, sem er reist í fjallshlíðinni fyrir ofan hann. Það er erfitt að lýsa kirkjunni og vellinum fyrir framan, en auðsjáanlega er gert ráð fyrir að hér eigi að geta komist fyrir hundrað þúsundir af mönnum. Geysimikil standmynd af Maríu mey, eins og Bernadette lýsti henni, verður fyrst á vegi manns, því næst er kirkjan. Stórkostteg marmaraþrep liggja til beggja handa upp að efri kirkjunni, en milli þeirra eru aðaldyrnar inn í helgidóminn. Þegar upp er komið, er enn mikið rúm fyrir utan efri kirkjuna. En upp og niður þessi þrep ganga pílagrímarnir í skrúðgöngu. Veggir kirkjunnar að innan eru alsettir smáum, hvítum áletruðum marmaraplötum, og má þar lesa marga þakkargjörð fyrir fenginn bata og uppfyltar óskir. Ótal hermenn höfðu hengt þar heiðursmerki sín í þakklætisskyni við Maríu mey, er svo dásamlega hafði verndað þá í hættu heimsstríðsins.

Jafnvel fyrir þá, sem þekkja kaþólskar kirkjur og

kaþólska siði, var hér margt að athuga, því hvergi er Guðsmóðurdýrkunin svo heit sem hér. Í staðinn fyrir að fara þaðan niður að hellinum, kaus eg að ganga fyrst upp fjallshlíðina og skoða þá eftirlíkingu af Golgata, sem þar hefir verið gjörð. Tólf miklar standmyndir sýna atriði, er kaþólskir menn telja að komið hafi fyrir Krist á leiðinni til Golgata — en náttúran hjálpar til að gjöra jafnvel píningarstaðinn aðlaðandi. Eg gat ekki stilt mig um að klifrast enn hærra upp eftir fjallinu, og þegar eg loksins heit og þreytt settist niður á hárri snös, þá fanst mér eg líta inn í eitthvert fyrirheitið land. Mikið skelfing gat útsýnið verið fallegt!

Mennirnir hafa að sönnu í Lourdes reynt að bera guði vitni um trú á tilveru hans með stórkostlegum byggingum, en guð sjálfur hefir gjört náttúruna þar svo fagra, að öll mannvirki hverfa sjónum. — Eg tók ekkert eftir hvað tímanum leið, og klukkan var nærri því 4 þegar eg var kominn ofan að kirkjunni aftur. Eg flýtti mér nú að hellinum, og það var áhrifamikil sjón, sem bar fyrir augu mér. Massabieille-hellirinn er beint niður undir kirjunni. Á stalli til hægri handar stendur mynd af Maríu mey, og með gullnum stöfum stendur í kringum höfuð hennar: Je suis l'Immaculée Conception. Inni í hellinum er altari með mörgum ljósum og blómum, en á veggjunum hanga ótal hækjur, sem læknaðir sjúklingar hafa hengt þar upp til sannindamerkis. Járngrindur eru fyrir framan hellinn, sem ekki eru opnaðar nema endrum og sinnum. Fyrir framan grindurnar var prédikunarstóll og í honum ungur, belgískur prestur, sem í mjög svo hugðnæmum orðum þakkaði guði fyrir, að hann hefði haldið hendi sinni yfir ættjörðu þeirra og leyft þeim að komast þangað aftur. Pílagrímarnir krupu niður alt í kringum mig, og margan veikan og vanaðan sá eg meðal þeirra. Sálmar voru sungnir og að endingu þjóðsöngur Belga: La Brabançonne, og fanst mér þá raddirnar verða enn innilegri og mörg tár hrundu niður eftir kinnunum á þessu fólki, sem flest hafði verið flæmt úr landi burt og mist mest af

eigum sínum. Því næst steig biskupinn frá Tarbes í stólinn, og var ræða hans ætluð öllum pílagrímunum og bar alt annan keim en hin. Loks var skrúðganga hafin til kirkjunnar, og var helgur dómur borinn fyrir henni eins og vani er til. En eg fór að skoða uppsprettuna, og verð eg að játa, að mér fanst klerkunum ekki hafa tekist vel umbúnaður hennar, en vera má að þeir hafi á réttu að standa, að þetta fyrirkomulag hafi verið nauðsynlegt til að koma í veg fyrir sóttnæmi. Hið heilaga vatn kemur út úr múruðum vegg í fjallinu og rennur gegnum vanalega krana, eins og við höfum í eldhúsum vorum. Það fælir samt ekki hina trúuðu frá að fylla flöskur með vatni og hafa með heim handa veikum vinum og ættingjum. Allir vilja líka drekka af þessu vatni, og var svo mikill troðningur í kringum kranana, að það var með naumindum að eg komst að. Baðlaugarnar eru múraðir klefar með tjöldum fyrir, og var það fyrst næsta dag að eg sá borna þangað sjúklinga af þessum sjálfboðaliðum, er fyr er getið. En því miður var eg ekki svo heppin að neitt kraftaverk gerðist þennan dag, og fanst mér svo átakanlegt að sjá þessa aumingja, sem margir hverjir voru nær dauða en lífi, að eg gat ekki horft á þá lengi.

Eg sneri aftur að hellinum, því eg sá að prosessía myndaðist til að ganga inn í hann, fór eg með og sá þá, að kletturinn fyrir neðan Maríumyndina var orðinn fágaður af kossum hinna trúuðu. Sá eg einmitt, að margir tóku upp myndir eða eitthvað úr vasa sínum og snertu með því klettinn, og átti það auðsjáanlega að leiða gott af sér. Þegar eg kom út úr hellinum, gaf eg mig á tal við pílagríma, en hugmyndin pílagrímur bjó í heilanum á mér innan um svo miklar frásagnir frá miðöldunum, að eg gat ómögulega felt mig við nýtízkutal þeirra.

Svo fór fólkið að snæða þarna á árbakkanum, allir höfðu nesti með sér og flestir þeirra sögðust ætla að liggja úti um nóttina, því þó að stór ókeypis pílagrímshæli séu þarna, þá gátu þau ekki tekið þennan aragrúa.

Um kl. 9 söfnuðust allir enn einu sinni hjá hellinum; var þá orðið dimt, en allir báru logandi kertaljós og byrjaði svo hin mikla skrúðganga, er stóð yfir í nærri tvær stundir og var eitt af því, sem mest fékk á mig. Eg ætlaði fyrst að ganga með í skrúðgöngunni, en eg sá fljótt að betra væri að flýta sér á undan pílagrímunum og standa uppi á tröppunum og sjá þá koma. Eins og lifandi ljósbylgja kom hópurinn upp öðru megin og fór niður hinumegin við kirkjuna, en hún var öll uppljómuð að utan með rafmagnsljósum, er litu út sem mislitur perlukrans kringum hvern glugga, með fram þakinu og upp eftir turninum.

En út í myrkrið hljómaði þúsundraddaður söngur og þúsund sinnum endurtekið:

Ave Maria.

*Thora Friðriksson.*

---

# Jón Arason og „landsrjettindin.“

Hr. dr. Páll E. Ólason hefur í bók sinni um Jón biskup Arason látið þá skoðun í ljós, að Jón hafi í baráttu sinni við konungsvaldið ekki aðeins viljað verja forna kaþólska trú, heldur og hin fornu landsrjettindi; barátta hans hafi verið bæði kirkjuleg og pólitísk; þetta kemur svo oft fyrir í síðara hluta bókarinnar, að ekki er þörf að greina staðina; jeg bendi þó á bls. 228 o. s. frv. Jeg álít, að þessi skoðun sje ekki rjett og að hún stafi af misskilníngi, sjerstaklega á orðum í einu brjefinu

Jeg vil byrja með þeirri almennu setningu, að á dögum Jóns biskups og lengi þar á eftir var yfir höfuð að tala ekki mikil tilfinning fyrir rjettindum landsins í þeirri veru og þeim skilningi, sem hjer um ræðir. Það er ekki fyrr en löngu síðar, að hún lifnar. Móti þessu er ekki það, að bæði Jón og margir aðrir, bæði á undan honum og eftir, vísa oft til fornra laga, til forna »privilegia« og þess konar — andspænis einhverju, sem þótti gjörræði frá konungs hálfu, eða helst annara, sem áttu við stjórn landsins af hans hendi. Þar undir heyrðu og öll þau lög sem snertu trúna og kirkjuna. En slíkar tilvitnanir eru alls ekki neitt sjerstaklegt í fari og hugsunarhætti Jóns biskups.

Jeg vík að þeim stað, sem er grundvöllurinn eða sýnist vera undir þessari skoðun dr. Páls, sem jeg nefndi. Hann segir sjálfur (á 229. bls.) að eftir að Kristján 3. hafði »náð undir sig Danmörku og Noregi virðist engin mótstaða hafa átt sjer stað við hann af hálfu Jons biskups Arasonar, nje heldur Ögmundar biskups«. Nei, auðvitað, því að engum datt annað í hug, en að konúngur væri rjettur höfðíngi landanna í fullu samræmi við forn lög.

Þegar kirkjuskipuninin kom til Íslands — hvernig snerist Jón við henni þá? Þarum má t. d. lesa í bókinni á 230. bls. o. s. frv. Jóni biskupi er auðsjáanlega eingöngu trúin fyrir öllu öðru. Hann skírskotar til »þess embættis og átrúnaðar«, sem hinum vísustu lærðu mönnu-

um komi saman um og ekki sjeu í móti rjettum Noregs lögum, en vilji konúngur bjóða annan átrúnað, þá biður Jón um leyfi til þess að flytja burt úr landinu og þángað sem hann — og trúfjelagar hans — gætu dýrkað guð sinn á þann hátt sem þeir væru vanir. Ekki eitt orð í þá átt, að konúngur eigi ekkert með að þröngva nýjum siðum upp á fólk, ekki eitt orð með neinum mótþróa-anda eða hótun (að því undanskildu sem nefnt er) um uppreist í landinu sjálfu.

Í þessu brjefi eru nú samt þau orð, er dr. Páll leggur svo mikið upp úr og vitnar í (bls. 231). Þau eru þessi: »Vile ydar Herradomur lata hallda oss med ríett norges log sem ydrer og vorer forfedur hafa jafnan halldit síjdan kristiundomurinn efldizth, þá vilíum víer giarnan allir lifa og deyja vnder ydar konungligre vernd etcet.«

Hvað er hjer nú átt við með »Norges lög«? Dr. Páll skilur orðin sem þau eigi við lögin alment og út af fyrir sig og að með þeim sje átt við pólitísku rjettindin alment. En þetta er misskilningur. Þessi orð verður samkvæmt allri laga- og málskýringarreglu fyrr og síðar að skoða og skilja í nánu sambandi við það sem á undan fer og eftir. Bæði á undan og eftir er um ekkert annað að ræða en afstöðu til trúarinnar (síðari partur brjefsins á við Claus v. Merwitz, og kemur ekki fyrri hlutanum sjerstaklega við). Þess vegna er og sjerstaklega sagt: »síðan kristindómurinn efldist«. Það er sýnist mjer eftir þessu engum vafa bundið, að setningin um »Norges lög« er stutt og að hana verður að fylla svo svo sem vjer mundum segja: »að svo miklu leyti sem snertir trúna og kristilega siði«. Í »Norges lög« er hjer vitnað í föstu og ljósu sambandi, og þetta samband sýnir glögt, hversu orðin eiga að skiljast, þannig og ekki öðruvísi. En þá fellur um koll öll hugsun um, að hjer sje átt vi pólitísk rjettindi Íslands alment.

Ekki er heldur mótþrói móti konúngi í brjefinu $^{15}/_{6}$ 1541 (D I 621 o. s. frv.), þar sem 12 klerkar í Hóladæmi hylla Kristján konung og lofa að styrkja hans umboðsmenn, með þeim vanalega fyrirvara um, að þeir haldi »oss og almugan med riett norigis og islandz lög og gömul fríheit og logligar sidveniur« o. s. frv. Það er ekki alveg rjett sem dr. Páll segir (á 235. bls.), að »hann (c: Jón biskup) og klerkar hans» hafi lýst þessu í brjefinu, því að Jóns getur ekki við í þessu brjefi, að minsta kosti ekki beinlínis.

Aftur á móti hyllir Jón biskup og aðrir með honum Kristján konung í brjefi $^{27}/_{6}$ sama ár sem »rettan herra og norigis konung og [vilja] giallda honum allan þann skatt og skylldur . . . eptir þeim svörnum sattmala, sem vier og vorir forfedur hafa fyri oss iatad« — og að öðru leyti fyrirvaralaust. Annars er brjefið um kristnihald, og að »kóngsins brjef« hafi eigi verið haldið af umboðsmönnum hans, og er þar sjerlega átt við meðferðina á Ögmundi biskupi. Annars er brjefið fult af trausti til konúngs. Að Jón biskup hyllir konúng sem konúng Noregs, en ekki Danmerkur, er sjálfsagður hlutur og beint áframhald af því sem allir höfðu gert áður og samkvæmt sögunnar gángi.

Munnmælin um viðskifti Jóns biskups við Karl keisara 5. skal eg ekki fara hjer útí, með því að dr. Páll hefur sjálfur kveðið þau niður röggsamlega og að því er mjer virðist, með fullum rjetti. En einkennilegt er það, sem stendur á 289. bls., að það hefðu »engin drottinsvik eða landráð getað talist, þótt Jón biskup leitaði liðs hjá annari þjóð t i l v a r n a r r j e t t i n d u m l a n d s i n s« gegn rjettmætum konúngi, ef hann hefði ekki haldið heitorð og skildaga. Vissulega var slíkt athæfi landráð. En þarum er þýðingarlaust að deila, úr því að ekkert slíkt átti sjer stað.

Heldur ekki getur brjef Jóns biskups til páfa 27. ágúst 1548 talist hafa nokkra þýðingu í þessu máli, að svo miklu leyti sem efni þess þekkist af svari páfa, Páls þriðja, 8. marts 1549. Í svarinu er ekki með einu orði vikið að viðskiftum Jóns og konungs. Brjefið frá páfa er í raun og veru nauða ómerkilegt. Páfi þakkar fyrir brjef Jóns biskups og hlýðni hans og undirgefni, sem í brjefinu hafi staðið, hvetur hann til varnar sannri trú framvegis, og mælir fyrir, hvað hann skuli gera af Pjeturspeningum úr hans biskupsdæmi. Þetta er alt efnið. Minna gat það ekki verið, en Jón biskup gerði mikið úr þessu brjefi, sem kunnugt er, og það styrkti hann í baráttunni fyrir k a þ ó l s k r i t r ú.

Úr þessu er lítið um brjef, er nokkuð megi ráða af. Þó er eitt skjal ekki marklaust í þessu máli, þótt ekki stafi það frá Jóni biskupi sjálfum. Það er brjef sona hans, Björns og Ara, til Frís, kanslara konungs; vel mætti kalla það brjef frá Jóni til konungs, því það er sjálfsagður hlutur, að brjefið er sett og samið með vilja og samþykki, segja mætti innblæstri Jóns; og þó það sje sent og stílað til kanslarans er það auðvitað ætlað konúngi. Brjefið er kæra yfir framferði Marteins og Pjeturs Einarssona, og ekki síst Láfrans Múla. Brjefið á að vera lýsing ástandsins á Ís-

landi, »þeirrar stórru tvídrægni og óvilja, sem hjer hefur verið nú í Íslandi«. Skjalið er merkilegt, en efalaust mjög hlutdrægt, þótt sumt megi vafalaust til sanns vegar færa. Þeir óska þess, að »einn mann, sem trúr og forstandugur væri«, yrði sendur til landsins til þess að geta flutt konúngi fullan sannleik um framferði manna, Múla sjer í lagi; hann er harðlega ásakaður. Og svo stendur berum orðum svo: »vier seigium ydur uppa okkar tru og æru ad biskupenn Jon okkar fader og vid vilium vera truer og holler þienarar nadugasta herra kong Christians Fridrichssonar og hans unga syne [svo] Friderich styrckia til nádugs herra . . . og so vilium vier hallda christiliga tru og þad helga evangelium so sem það hefur alla vega i Islande predikat verid sijdan ad sá nádugaste herra kongurinn þar af skrifade og skipade«.

Það er ekki uppreistarandi mikill í þessum orðum og ekki eitt orð um lög og pólitísk rjettindi. Þeir vilja allir, biskup og synir hans, fyrirvaralaust, vera »trúir og hollir þjenarar kongsins«. En merkilegast er, að svo er að sjá sem þeir segist vilja hlíta kirkjuskipun konúngs. Það liggur nærri að álíta, að þetta muni ekki af heilu sagt, en einhvern tilgang hafa þeir bræður hlotið að hafa með þessu, hvort sem það er heilt eða óheilt sem þeir segja; en tilgángurinn getur ekki verið annar en sá að friðmælast við konúng, að fá hann sjer hlyntan — en þá getur heldur ekki verið um neina uppreist móti honum að ræða.

En svo heldur áfram með bæn um kóngsbrjef, um biskupskjör, framið af öllu landsfólki, og í sambandi við þetta stendur: »og mættum með og eptir Norges lög ríki og rjetti haldnir verða«. Það er sama sem annars, ósk um að forn lög landsins sjeu ekki brotin, ekki síst í sambandi við kirkjustjórn.

Þar með er lokið þeim skjölum, sem til greina geta komið.

Það sem nú af þessu öllu verður ráðið, er, að Jón biskup og þeir feðgar hafa aldrei hugað á uppreist gegn konúngi, en ætíð viðurkent hann sem konúng Íslands, reyndar af því að hann var líka konúngur Noregs; sem Danakonúng viðurkenna þeir hann ekki konúng Íslands (sbr. 5. grein í sakargiftum Kristjáns). En þetta var ekki annað en það sem Íslendingar gerðu yfir höfuð fyrr og síðar. Og það var ekki nema eðlilegt. Því er það og eins eðlilegt, að þeir vitna í íslensk lög, er þeir krefja að sje farið eftir, íslensk gildandi lög, en í þau vitna þeir einungis kirkjunnar vegna og kirkjusiða. Fyrir því er alveg rángt að telja Jón biskup verjanda almennra þjóðrjettinda, og jeg tel rángt að segja, eins og dr. Páll gerir (á 337. bls.)« . . . þá má ekki gleymast, að þjóðrjettindin gaf hann ekki upp eða vörn sína fyrir þeim og ekki heldur hjer. Þau voru honum helgust«. Nei, þau voru honum ekki helgust; það var kirkjan og trúin, sem honum var allrahelgast. Þjóðrjettindin í eiginlegum, pólitískum skilningi hafði hann aldrei í hug. fremur en aðrir. Að nefna Jón biskup verjanda þeirra er því heimildarlaust og þar að auk ósamrímanlegt við anda og skilning þeirra tíma, er hann lifði á.

**Finnur Jónsson.**

---

# Ritfregnir.

---

**Frumnorræn málfræði eftir Alexander Jóhannesson**, dr. phil. Reykjavík 1920.

Það mætti margan furða, bæði hjer og annarstaðar, að slík bók sem þessi skuli vera samin og útgefin, ekki síst í þessari dýrtíð, á voru landi, Íslandi. Höf. getur þess í formálanum, að bókin sje hin fyrsta í sinni röð, og er það að vissu leyti satt; þó er alt meginefnið í henni tekið upp í málfræði Noreens og að vissu leyti í Boers Handbock, en hana hefir höf. ekki þekt. Hann getur allra sinna heimildarrita; þau sýnist hann hafa notað alúðlega og samviskusamlega. Það er ekki aðeins hinar alkunnu ritgjörðir hinna mestu rúnafræðinga sem Bugges og Wimmers, heldur og hið mikla rit Bugges: Norges indskrifter med de ældre runer, þar sem allar eldri rúnaristur Noregs eru skýrðar, nema þær sem síðar hafa fundist, og þær hefur M. Ólsen skýrt með sinni alkunnu gjörhygli og lærdómi. Eftir öllum þessum ritum og ritgjörðum hefur höf. farið, og er það sannast að segja, að höf. hefur yfir höfuð ekki komið með nýjar skýringar, hvorki á neinni áletran nje orðum, svo að jeg hafi orðið var við; var heldur ekki við öðru að búast, og skal það ekki sagt höf. til neinnar foráttu. Hinu hefði heldur mátt búast við, að höf. hefði ekki tekið allar skýringarnar og skilning hinna einstöku áletrana og orðmynda, án þess að láta í ljósi krítík á þeim eða efa. Því að það er ekki krítík, þótt hann segi sumstaðar, að skýringin sje óviss, það er ekki annað en það, sem frumskýrendurnir hafa sjálfir sagt eða látið í ljósi.

Það er kunnara en frá þurfi að segja, að næsta margar af þessum áletrunum eru bæði máðar og því erfiðar viðfangs af þeirri sök, og er þá oft getið í eyðurnar. Eða þær eru svo stuttar og »skammstafaðar«, að þær eru óskiljanlegar eins og þær eru; svo er sjerstaklega ástatt með kínguletrin og suma af steinunum; jeg tek t. d. Fjóns-kínguna (nr. 24): aata ik uha. IliB A oþlau. Það

má auðvitað spreyta sig á að reyna að skýra annað eins og þetta; en það getur aldrei orðið annað en getgátur, og oft næsta ósennilegar, og svo er um þetta letur. Hjer er ekkert orð skiljanlegt nema ik — ef það þá er ek. Eða Vi-spöngin: aaðagasu laasauwinga, fullkomlega óskiljandi og óskilið. Mjer dylst það ekki, að höf hefði ekki átt að taka neitt með af þessu, sem svo er óvíst, t. d. letrin nr. 11, 19, 22, 27, 32, 35, 42, 48, 50, 55, 71, 80, 81, og þar að auk óskiljanlega parta sumra letra. t. d. 34, 41, og einnig hefði mátt alveg sleppa Bleikingar-letrunum, Björketorp, Stentoften, Gummarp (nr. 6, 28, 60), sem enginn hefur enn skýrt til neinnar hlítar. Enn betur hefði mátt vinsa úr. Það sem hefði unnist við það er, að bókin hefði orðið minni og ódýrari — hins vegar hefði sjálf málfræðin orðið alveg eins fullkomin og ábyggileg fyrir því, þótt öllu þessu óvissa og óskiljanlega hefði verið slept. Hefði höf. svo látið prenta orðarunurnar á sparnaðarlegri hátt, t. d. tvídálkaðar eða allra helst í fullum línum (sem vel hefði mátt vera, og þó greinilegt), hefði mikið rúm sparast, bókin orðið öll minni og ódýrari, bæði að prenta og kaupa.

Skipun efnisins er góð og gerð eftir góðum fyrirmyndum, enda er formið á þesskonar bókum nú ætíð hið sama. En höf. á lof skilið fyrir hina glöggu röð og alt skipulagið.

Í »innganginum« er gefið hið vanalega yfirlit yfir skiftingu hinna indóevrópsku mála, og er ekkert við það að athuga. En kynlegt þykir mjer það, að höf. segir afdráttarlaust (2. bls.) sennilegt, að »frumheimkynni« Indógermana hafi verið ekki lángt frá Babyloníu; það munu þó lángflestir helstu fræðimenn ætla nú, að frumheimkynnisins sje helst að leita í sauðaustur-Evrópu. Ástæðau, sem höf. tilgreinir, er lítilsvirði. — Jeg skal ekki deila um aldur elstu letranna (5. bls.), þar er svo mart óvíst enn. — Í kaflanum um rúnastafrófið (6. gr. o. s. frv.) fylgir höf. ýmsum um uppruna hinna einstöku rúna. Þetta er nú á dögum mikið deiluefni. Wimmer leiddi þær af latínska letrinu yngra (höf. nefnir letur Norður-Etruska á 2 stöðum eða svo; jeg skil það ekki vel); v. Friesen vildi leiða þær af grískum letrum. Bugge fór bil beggja, og höf. fylgir honum helst. Jeg fer ekki frekar út í þetta, en segi aðeins, sem jeg áður hef sagt, að lángeðlilegast er, að leiða sem flestar rúnir eða allar, annaðhvort af því gríska eingöngu (en það er nú ómögulegt, sem allir játa) eða af því latínska eingöngu, og það er mögulegt; það hefur Wimmer sýnt — og því fylgi jeg. Að höf. er ekki ætíð viss, sýnir jafneinkennileg setning sem þessi: »Rún

þessi [b] er latnesk eða öllu heldur grísk að uppruna« (10 bls.). Andspænis kenningu Bugges um uppruna rúnanafnanna (12. bls. o. s. frv.) hefði jeg óskað að höf. hefði viðhaft hæflega krítík, því alt það mál er mjög svo óeðlilegt og ósennilegt, alveg sama kyns og nafnskýringar Bugges í goðafræðisritum hans. Öllu þessu hefði helst átt alveg að sleppa, eða aðeins geta þess með einu orði. Kaflinn um hljóðfræðina er rækilegur mjög, og ætla jeg að þar sje ekkert undanfelt, sem komið getur til greina, og líkt er að segja um hinn samfelda málmynda-kafla.

Höf. hefur búið til yfirlit yfir beygingafræðina, og er það lofsverð tilraun, en það hefur þó í rauninni litla þýðingu að smíða þær, og flestar eru þær sjálfgefnar í líkingu við þær orðmyndir, sem rissurnar sjálfar hafa, og í líkingu við orðmyndir í öðrum germönskum málum.

Einstöku atriði og orð væri ástæða til að taka hjer til umtals, en jeg verð að láta mjer nægja með allfátt. Höf. segir að »snikjuhljóðin« sjeu að miklu leyti »vankunnáttu« að kenna, þeirra, er ristu rúnirnar (43. bls.).

Það er eflaust ekki »vankunnátta«, sem þessu veldur, heldur þá miklu fremur ónákvæmt eyra, ef ekki er dýpri orsökin. Heldur ekki er rjett að tala um »stafrófsæfingu« í sambandi við Vaðstenakínguna (137. bls.). Nei, stafrófið hafði miklu meiri og dýpri þýðingu, nefnilega sem töfrastafir, með verndarafli fyrir þann sem átti og bar kínguna. Það er trúin á töframátt rúnanna, sem hjer birtist, en ekki æfing í að krota stafina. Um þetta mál hefði höf. getað lært meira af M. Olsen.

Það er auðvitað ekki til neins að fara út í skýring einstakra orða, sem höf. tekur úr eldri ritum eða vilja krítísera hans ummæli um orðaleysur sem jalawið (77. bls.), alawin (81. bls.), gagaginu (78. bls.) og mart þess konar; heldur ekki um það, hvernig rúnin er lesin, sú sem ýmist er lesin ng eða j. Höf. sýnist ekki fylgja þar neinni meginreglu, sem líka er allerftt. Jeg trúi hvorki á þrijok nje arbija á Túnasteininum, og álít að Wimmer hafi alveg rjett fyrir sjer, er hann les rúnina ætíð sem ng. — Þaʀ (með ʀ-rúninni) = þar (102 bls.) er ómöguleg orðmynd, nema misritað sje. — hlaiwa ætti helst að hafa orðið hlæ, eins og hraiwa hræ (108. bls.), en vel gæti þó hugsast, að hjer hefði hljóðabreytingin orðið öðruvísi. Hljóðheildin aiw er yfirhöfuð einhver hin erfiðasta viðfangs. — Linalaukaʀ á Flöksandhnífnum er naumast mannsnafn, heldur 2 sjálfstæð orð (lín, laukr). Mart fleira mætti hjer nefna.

Höf. greinir, eins og reyndar fleiri eða ef til vill flestir, nefnifall og þolfall í framsetningunni. Mjer er slíkt óskiljandi. Þessi föll eru svo náskyld, eins og best sjest af kvennkyns- og hvorugkyns orðum, að þau ætti aldrei að skiljast að.

Ranríki og Renir eru rjettu myndirnar, en ekki Rán- og Ræn- (sjá 141. bls.).

Rjettara fyndist mjer og að rita færþer (c. 42), sœkja (99), hrœra (108) og þvíumlíkt, heldur en að rita þessi orð með æ í riti sem þessu.

Að lokum vil eg nefna ýms orð, sem mjer finnast óviðkunnanleg: lánsorð er beinlínis þýtt úr »låneord«, en af því að lán gerir helzt ráð fyrir að aftur sje skilað, er það ekki vel gott. Jeg legg til að þessi »lánuðu« orð sjeu nefnd »tökuorð«, (sbr. tökubarn). »Snikju«-hljóð finst mjer ekki gott. Betra væri að finna eitthvað annað. Sama er um orð sem »stúprún«. Það sem á dönsku er kallað »at afskrive« hefur á ísl. verið kallað »að skrifa (rita) upp«; og áður var talað um »uppskrift«; nú eru menn farnir að skrifa (og tala?) »afrita«, »afrit« og »afskrift« (og svo gerir höf.) eftir dönskunni. Er nokkuð unnið með því? Sömuleiðis vildi jeg halda orðinu »samhljóður«, karlk., í stað »samhljóð«, hvorugk.

St. í Reykjavík, í ágúst 1920.

**Finnur Jónsson.**

**Bjarni Sæmundsson: Sjór og loft.** Kaflar úr almennri jarðlýsingu (eðlislýsingu jarðar) til notkunar við kenslu í lærdómsdeild mentaskólans. Bókav. Sigf. Eymundssonar. Rvík 1919, 69 bls.

Bókin skiftist í tvo kafla: I Eðlislýsing sjávarins (sjófræði) og II Eðlislýsing loftsins (loftfræði eða veðurfræði).

Sjófræðin (Hydrografi) er ung vísindagrein og kemur ekki verulega til sögunnar fyr en eftir miðja 19. öld. Um það leyti var farið að rannsaka sjóinn ýtarlega. Bretar gengu þar á undan og gerðu út leiðangur, sem frægur er orðinn og venjulega kendur við skipið Challenger. Var það á árunum 1872—76.

Innihaldinu er skift niður í kafla: 1. Stærð og skifting sjávarins. 2. Dýpt og botn; er þar í mynd af grunnsökku Sigsbee's og dýpi kring um Ísland. 3. Sjávarbotninn, lögun og efni. 4. Efni sjávarins og eðlisþyngd. 5. Gagnsæi og litur. 6. Hiti sjávarins, og þar í mynd af vendimæli og sjótökuáhaldi, mynd er sýnir hita í ýmsu dýpi, mynd er sýnir hita utan og innan við Gibraltarsund og að lokum mynd er sýnir hita fyrir norðan og sunnan Færeyja-

hrygginn. 7. Hreyfing sjávarins, er þar talað um öldugang, sjávarföll og hafstrauma og meðal annara hafstrauma við Ísland, eru þar myndir af öldugangi og tvær myndir af sjávarfollum og síðast mynd, er sýnir strauma við Ísland. 8. Lífið í Sjónum. Er þar mjög stuttlega drepið á jurta- og dýralíf sjávarins.

Veðurfræðin er og ung vísindagrein, er eigi kemst verulega á laggirnar fyr en um miðja síðustu öld.

Efnið skiftist í: 1. Eiginleikar loftsins. 2. Hiti loftsins með tveim myndum. 3. Hitinn á ýmsum stöðum og þar í mynd, er sýnir arsjafnhitalínur á hnettinum. 4. Loftþyngd. 5. Vindar, með mynd af vindmæli og tveim myndum af sveipum og ský yfir sveip. 6 Vindar á ýmsum stöðum. 7. Vatnsgufan í loftinu, með mynd af daggmarks-rakamæli. 8. Úrkoma, með mynd af regnmæli. 9. Úrkoma á ýmsum stöðum. 10. Loftslag á Íslandi.

Um bokina er fátt að segja annað en hún er góð kenslubók, gagnorð og ljós, enda er höf. bæði reyndur kennari og reyndur kenslubókahöfundur. Ef eg ætti eitthvað að finna að, væri það helzt, að bókin hefði á ýmsum stöðum mátt vera lengri, því að svona bók lesa margir sem engrar kenslu njóta.

Það er vandi að skrifa um ýmsar fræðigreinar á íslenzku, því að málið vantar orð yfir fjölda mörg hugtök. Er þar um tvær leiðir að ræða, annaðhvort að búa til orð eða taka útlendu orðin, og þá helzt samlaga þau málinu. Báðar þessar aðferðir eru notaður að dæmi forfeðra vorra og gerir höf. það líka. En þótt forfeður vorir hafi leyft sér að innleiða útlend orð í málið, ættum vér þó að varast það til þess að spilla málinu sem minst. Ættum vér að leggja áherslu á að búa til sem mest af nýjum og góðum orðum þegar þess er þörf. Eg skal nú benda á nokkur orð, sem eg er fremur óánægður með, þótt eg raunar hafi ekki neitt betra að setja í staðinn. Á bls. 25 nefnir höf. j a f n a ð a r s t r a u m a þá strauma, sem orsakast af rás aðalstraums og ganga í öfuga átt. Mér skilst að hér sé um sams konar strauma að ræða, sem í alþýðumáli eru kallaðir a f t u r k a s t. Á 39. bls. er orðið n o r m a l hiti; vel getur verið að maður venjist lýsingarorðinu normall, sem líklega ætti að beygjast eins og orðið v i ð s j á l l, en óviðkunnanlegt finst mér það vera. Í svipinn þekki eg ekkert íslenzkt orð, sem komið gæti í staðinn fyrir normal, en eg efast ekki um að orðsköpunarsnillingar vorir geti búið til gott orð yfir »m e ð a l v e r ð a l l r a m e ð a l v e r ð a«. Á 45. bls. er orðið hitaskekkja, munurinn á meðalhita staðar og breiddarstigsins sem hann er á. Þetta

er gott orð. Þegar hiti staðarins er hærri en hiti breiddarstigsins segir höf. að skekkjan sé pósitíf, en negatíf þegar hiti staðarins er lægri en hiti stigsins. Lýsingarorðin p o s i t í f u r og n e g a t í f u r ættu líklega að beygjast eins og orðið stífur, en íslenzk finst mér ekki þau geti orðið. Mér hefir sagt verið að G u ð m u n d u r prófessor F i n n b o g a s o n hafi búið til orðin v i ð l æ g u r (positiv) og f r á d r æ g u r (negativ). Það er fljót fundið að þessi orð eru íslenzka, enda hljóma þau þúsundsinnum betur en útlendu orðin.

Á 49. bls. eru orðin m i n í m (minimum) og m a x í m (maximum). Eg get ekki betur séð en að ómögulegt sé að þessi orð geti samþýðst íslenzku. Mér hefir margt dottið í hug, og eg hefi fundið ýms orð, sem mér þykja betri, en ekkert sem eg er alveg ánægður með. Bjarni bróðir minn hefir búið til orðin í v i n d (minimum) og ú r v i n d i (maximum)*). Þessi orð eru íslenzka og sjálf eru þau nægileg skýring á hugtakinu.

**Helgi Jónsson.**

**Landsbókasafn Íslands 1818—1918.** Minningarrit, Reykjavík, prentað í Gutenberg 1919—1920. Jón Jacobson landsbókavörður hefir samið ritið.

Þetta er mikið rit, fullar 39 arkir í stóru fjögra blaða broti, prentað á góðan pappír, og allur annar frágangur eftir því.

Bókin hefst á inngangi, og er þar fyrst stuttlega skýrt frá því, hvernig þekking á fornbókmentum vorum breiddist smámsaman út um Norðurlönd, og því næst greinir frá tildrögunum til stofnunar safnsins alt til ársins 1825. Þá kemur fyrsti aðalkafli ritsins, 1825—1881, sem tekur yfir það tímbil í æfi safnsins, er það átti heima á dómkirkjuloftinu. Annar kafli nær frá 1882—1908, þá stund, er safnið var geymt í alþingishúsinu, og loks er þriðji og síðasti kafli frá 1908, þegar safnið var flutt í eigið hús þess, bókhlöðuna við Hverfisgötu, og endar hann með árinu 1918. Þá eru nokkur fylgiskjöl og registur mannanafna. Myndir eru og nokkrar í bókinni.

Það má nærri geta, að ekki sé það neitt áhlaupa- eða auðveldisverk að semja slíka bók sem þessi er, því að þótt heimildir séu að vísu hvorki mjög margar né dreifðar, hlýtur það þó að hafa tekið langan tíma að tína þær saman, en auk þess hefir höfundið að vinna að samningunni á hlaupum, »í fyrirvinnu og eftir-

*) Síra Jóh. L. Jóhannesson vill segja: m i n s t a, m e s t a, b e z t a, sbr. í f y r s t u n n i.

vinnu við dagleg störf. En alt um það hefir honum þó tekist að gefa hér glögt og gott yfirlit yfir vöxt og viðgang safnsins alt frá upphafi til þessa dags. Og sé það nú svo, að mikils þyki um það vert að eiga vel ritaða sögu merkra stofnana, þá mega menn vera ánægðir með þetta rit.

Eg býst við, að um það geti verið skiftar skoðanir, hvað taka skuli í svona rit af því, sem ekki kemur safninu beinlínis við. Þó hefði eg kosið, að í innganginum hefði verið gerð nokkur grein fyrir lestrarfjelögum þeim, er hér voru í það mund, sem safnið var stofnað, svo og bókagerð yfirleitt hér á landi um það leyti. Þá hefði og mátt geta Landsuppfræðingarfélags nánar en gert er.

Árbókarleiðin, er höf. fer, hefir og sína galla. Hún er að vísu glögg að mörgu leyti, en sá er aðalgallinn á henni, eins og höf. tekur fram, að eigi verður komist hja endurtekningum, og þeirra gætir nokkuð. Þá hefði og ef til vill farið betur á því að hafa skrá aftan við ritið, er sýndi vöxt safnsins ár frá ári, bæði að því er tekur til prentaðra bóka og handrita, svo og til þess að sýna útlán bóka, lántakendur o. s. frv., í stað þess að hafa þetta alt í meginmálinu; hefði þá mátt draga efnið saman meira en gert er, og bókin þá orðið nokkru styttri. En þrátt fyrir þessa smá-annmarka er bókin hið þarfasta verk og hin fróðlegasta, og á höf. þakkir skilið fyrir samninguna og þingið fyrir að hafa veitt fé til hennar.

Þetta rit er að vísu saga safnsins fyrst og fremst, en þó jafnframt saga Íslendinga að nokkru leyti, og það væri synd að segja, að þessi þátturinn sé glæsilegur: Í fyrsta lagi eru það ekki landsins börn sjálf, heldur útlendir menn, sem frumkvæði eiga að stofnun safnsins. Þá lifði og safnið lengi vel mestmegnis á gjöfum útlendra manna, og þótt þeir séu allra þakka maklegir fyrir gjafirnar, þá er hins þó gætanda, að þess kyns gjafasöfn eru allajafna nokkuð sundurleit og gloppóttari en hin, sem keypt er til eftir föstum, ákveðnum reglum. Enn er það, að fjárframlög landsmanna til safnsins hafa alla jafna verið, og eru enn í dag, mjög af skornum skamti, og var það reyndar ekki vor sök, meðan fjárforræði landsins var í Kaupmannahöfn. En þótt fjárframlögin yrðu nokkru rífari er landið varð fjár síns ráðandi, hefir féð þó altaf verið mikils til of lítið, og hefir þessi nánasarskapur orðið landinu bæði til tjóns og vanvirðu. Sakir fjárskorts hefir eigi tekist að fylla upp í gloppurnar í gjafabókunum, og komið hefir það fyrir, að safnið hefir orðið af íslenzkum bókum fágætum af sömu ástæðum. Þá hefir og bókasafnsnefndin ekki ætíð verið beysin, og nægir því til stuðnings að minna á undirtektir hennar undir tilboð Jóns Árnasonar 1878. Jón sál. gat þess í tilboði sínu að bækurnar væru mjög fágætar, en nefndin þorði ekki að kaupa, því verið gat, að sömu bækur væri í safni Jóns Sigurðssonar. Það er engu líkara en að nefndinni hafi þótt það mestu máli skifta að eiga ekki fleira en eitt eintak af ísl. bókum sjaldgæfum. Eigi virðast heldur sumir heldri menn hér hafa verið mjög ginkeyptir fyrir að kaupa safn Jóns sál. Sigurðssonar, þegar um það var rætt á alþingi 1877, og svona hefir oftar verið. —

Matthías Eggertsson, prestur, Grímsey.
Óli G. Árnason, Bakka í Kelduhverfi.
Óskar Friðmundsson, Skál.
*Páll Einarsson, bókhaldari, Húsavík.
Páll Kristjánsson, kaupmaður Húsavík.
Sigtryggur Helgason, bóndi, Hallbjarnarstöðum.
Sigurður Gunnarsson, yngispiltur, Skógum.
*Sigurður Kristjánsson, Húsavík.
*Sigurður Sigfússon, sölustj. Húsavík.
Sigurður Sigurðsson, hreppstjóri, Halldórsstöðum.
*Sigurgeir Friðriksson, bóksali, Skógarseli.
Sigurjón Ármannsson, Hraunkoti.
Sigmundur Sigurðsson, læknir, Breiðumýri.
Snorri Jónsson, hreppstjóri, Þverá.
Stefán Pétursson, Húsavík.
Steingrímur Jónsson, sýslumaður, Húsavík.
Sýslubókasafn Suður-Þingeyinga.
Theodór Friðriksson, Húavík.
*Tryggvi Sigtryggsson, Hallbjarnarstöðum.
Þórarinn Jónsson, bóndi, Halldórsstöðum.
Þórður Stefánsson, Geirbjarnarstöðum.
Þórólfur Sigurðsson, gagnfræðingur, Baldursheimi.
*Örn Sigtryggsson, búfræðingur, Hallbjarnarstöðum.

**Norður-Múlasýsla.**

Bókasafn Fljótsdalshrepps '19.
Björn Guðmundsson, bóndi, Sleðbrjótsseli '19.
Eiríkur Helgason, Eyjaseli '19.

[1]) Skilagrein komin fyrir 1919.

Eiríkur Sigurðsson, kennari, Fremraseli í Hróarstungu '20.
*Gunnl. A. Jónson, verzlunarmaður, Dalhúsum, Bakkafirði '18.
Halldór Pálsson, búfræðingur, Nesi í Loðmundarfirði '19.
*Halldór Stefánsson, Hamborg í Fljótsdal '19.
Haraldur Þórarinsson, prestur, Hofteigi '18.
Kristján Jónsson, Hrjót '19.
Lestrrafél. Hjaltastaðahrepps '20.
Magnús Eiríksson, bóndi, Eyjaseli '19.
Ólafur Ó. Lárusson, héraðslæknir, Brekku '21.
*Páll Pálsson, kennari, Möðrudal '19.
Stefán Benediktsson, Merki á Jökuldal '19.

Vopnafjarðar-umboð.
(Umboðsm. Gunnlögur Sigvaldason bóksali).[1])

Árni Jónatansson, Skógum.
Árni Jónsson, verslunarstjóri, Vopnafirði.
Ásbjörn Stefánsson, Guðmundarstöðum.
Björgvin Vigfússon, Einarsstöðum.
Björn Jónasson, bóndi, Hámundarstöðum.
Einar Einarsson, Hlíðarhúsum
*Einar Jónsson, prófastur, Hofi.
Einar Runólfsson, kaupm., Vopnafirði
*Guðm. Guðmundsson, Krossavík.
Gunnl Sigvaldason, bóksali, Vopnafirði.
Hallgrímur Gíslason, Egilsstöðum.
*Ingólfur Eyjólfsson, Þorbrandsstöðum.
*Ingólfur Gíslason, læknir, Vopnafirði.
Ingólfur Hrólfsson, Vakursstöðum.
Ingvar Nikulásson, prestur, Skeggjastöðum.

Ólafur Metúsalemsson, Bustarfelli.
Sigurður Gunnarsson, Ljótsstöðum.
Stefán Friðriksson, Eyvindarstöðum.
Valdemar Jóhannesson, Brúnahvammi.
Víglundur Helgason, bóndi, Hauksstöðum.

Rangár-umboð.
(Umboðsm. Björn Hallsson).[1]

Björn Hallsson, alþm., Rangá
Emil J. Árnason, Blöndugerði.
Gísli Helgason, bóndi, Skógargerða.
Guðm. Olason, búfr., Höfða.
Gunnar Sigurðsson, Hleinargarði.
Sigfús Eiríksson, Rangá.
Sigurjón Þórarinsson, Brekku.
Sveinn Bjarnason, bóndi, Heykollsstöðum.

Borgarfjarðar-umboð.
(Umboðsm. Þorst. M. Jónsson, alþm., Borgarfirði)[1].

Anna Guðný Guðmundsdóttir Hóli.
Björn Jónsson, bóndi, Snotrunesi.
Halldór Ásgrímsson, Grund.
Hallsteinn Sigurðsson, Bakka.
Jón Sigfússon, búfr., Svínafelli.
Jón Stefánsson verslstj. Borgarfirði.
Lestrarfélag Borgfirðinga.
Sigurður Hannesson, trésm., Bjargi.
Steinn Magnússon, Odda.
Sveinn Ólafsson, Geitavík.
Vigfús Ingvar Sigurðsson, prestur, Desjamýri.
Þorst. M. Jónsson, alþm., Borgarfirði.
Þorvaldur Sigurðsson, Svínafelli.
Þórarinn Björnsson, Húsavík.

Seyðisfjarðar-umboð.
(Umboðsm. Pétur Jóhannsson, bóksali, Seyðisfirði).[1]

Arnalds, Ari, bæjarfógeti, Seyðisfirði.

[1]) Skilagrein komin fyrir 1919.

Benedikt Jónasson, verzlunarstjóri, Seyðisfirði.
Björn Þorláksson, prestur, Dvergasteini.
Einar Pétursson, Kleppjárnsstöðum.
Guðm. Guðmundsson, bókhaldari, Seyðisfirði.
Guðm. V. Kristjánsson, úrsmiður, Seyðisfirði.
Hermann Þorsteinsson, skósmiður, Seyðisfirði.
*Jón Jónsson, bóndi, Firði.
Jón Sigurðsson, Hjartarstöðum.
Jón Sigurðsson, Ketilsstöðum.
Karl Finnbogason, skólastjóri, Seyðisfirði.
Kristján Kristjánsson, læknir, Seyðisfirði.
Lestrarfélagið „Dagsbrún“ Seyðisfirði
Lestrarfélag Seyðisfjarðarhrepps.
Pétur Jóhannsson, bóksali, Seyðisfirði
Sigurður Jónsson, bóndi, Seyðisfirði.
Sigurður Jónsson, kaupm., Seyðisfirði.
Sigurður Sigurðsson, kennari, Seyðisfirði.
*Sigurjón Jóhannsson, kaupm., Seyðisfirði.
*Sveinn Árnason, yfirfiskimatsmaður, Seyðisfirði.
Þórarinn Guðmundsson, kaupmaður. Seyðisfirði.

**Suður-Múlasýsla.**

*Alþýðuskólinn á Eiðum '19.
*Ásm. Guðmundsson, skólastjóri, Eiðum '19.
Benedikt Sveinsson, bóksali, Borgareyri við Mjóafjörð '20
Björgólfur Gunnlaugsson, búfræðingur, Egilsstöðum '19.
*Blöndal, Sigrún Pálsdóttir, Eiðum '19
Guðgeir Jóhannsson, kennari, Eiðum '19.

Guðm. Guðjónsson, Sléttu '20.
Guðm. Stefánsson, Firði '19.
*Guttormur Pálsson, skófræðingur, Hallormsstað '19.
Guttormur Vigfússon, hreppstj., Stöð í Stöðvarfirði '18.
Ísfeld, Eir. G., Hesteyri '19.
Ísfeld, Jón, veitingam., Norðfirði '19.
*Johansen, Sverre F., Reyðarfirði '20
Lestrarfélag Mjófirðinga '19.
*Lestrarfélag Stöðfirðinga '19.
Magnús Blöndal Jónsson, prestur, Vallanesi '19.
Magnús Stefánsson, búfræðingur, Eiðum '17.
Ólafur B. Jónsson, Egilsstöðum '17.
Sig. Antoníusson, Múla.
Sig. Þorsteinsson, kennari, Reyðarfirði '19.
*Sveinn Jónsson, Egilsstöðum '19.
Sveinn Ólafsson, alþm., Firði '20.
Sæm. Sæmundsson, kennari, Reyðarfirði '20.
Þórhallur Helgason, trésmiður, Eiðum '19.

Norðfjarðar-umboð.
(Umboðsm. Þorbergur Guðmundsson, búfræðingur).[1]
Bergur Eiríksson, trésm.
Björn Björnsson, verzlm.
Björn Ól. Gíslason, verzlstj.
Helgi Jónsson, skósmiður.
Hjálmar Ólafsson, verzlm.
Ingibjörg Sveinsdóttir, kensluk.
Ingvar Pálmason, útvegsbóndi.
Jónas Andrésson, kaupfélagsstj.
Jón Benjamínsson, útvegsbóndi.
Jón Sveinsson, cand. phil.
Páll Guttormsson, kaupm.
Sigurjón Magnússon.
Sigurjón Stefánsson, sjómaður.
Stefán Halldórsson, verzlm.
*Sveinn Árnason, trésm
Thoroddsen, Pétur, læknir.
Valdemar Valvesson, kennari.
Vigfús Sigurðsson, trésm.
Zoëga, Tómas J., verzlm.
Þorbergur Guðmundsson, búfræðingur.

Eskifjarðar-umboð.
(Umboðsm. Stefán Stefánsson, bóksali á Eskifirði).[1]
Arnesen, J. C. F., konsúll, Eskifirði.
Baldvin Erlendsson, Eskifirði.
Björn Brynjólfsson, Eskifirði.
Einar Guðmundsson, Reyðarfirði.
Einar Hálfdánarson, Eskifirði.
*Eiríkur Bjarnason, Eskifirði.
Ferd. Magnússon, Teigagerði.
Figved, Jens, Eskifirði.
Gunnar Bóasson, Teigagerði.
Hallgrímur Bóasson, Reyðarfirði.
Hallgrímur Guðnason, Eskifirði.
*Jón Björnsson, Seljateigi, Reyðarfirði.
Jón Einarsson, Mýrum.
Jón Valdemarsson, gagnfræðingur,
Lárus Stefánsson, Eskifirði.
Magnús Steinsson, kennari, Hólmum.
Sigurður Hjörleifsson Kvaran, læknir, Eskifirði.
Sigurður Vigfússon, kennari, Eskifirði.
Sigurjón Markússon, sýslumaður, Eskifirði.
Stefán Björnsson, prestur, Hólmum.
*Sveinbjörn P. Guðmundsson, Búðareyri í Reyðarfirði.
Þorst. Pálsson, Reyðarfirði.

[1]) Skilagrein komin fyrir 1919.

Fáskrúðsfjarðar-umboð.
(Umboðsm. Marteinn Þorsteinsson, bókhaldari).[1])

Björgvin Þorsteinsson, verzlm., Fáskrúðsfirði.
Georg Georgsson, læknir, Fáskrúðsfirði.
Guðm. Jónsson, útvegsb., Búðum.
Guðni Björnsson, útvegsbóndi, Búðum.
Haraldur Jónasson, prestur, Kolfreyjustað.
Höskuldur Stefánsson, bóndi, Dölum.
Jóhannes Þórðarson, vm., Dölum.
Jón Davíðsson, verzlm., Fáskrúðsfirði.
Lestrarfélag Búðaþorps.
Marteinn Þorsteinsson, bókhaldari, Fáskrúðsfirði.
Páll Benjamínsson, verzlm., Fáskrúðsfirði.
Sighv. Bessason, sjóm., Fáskrúðsfirði.
*Stefán Gíslason, Kolfreyjustað.
Stefán Guðmundsson, verzlunarfulltrúi, Fáskrúðsfirði.

Breiðdals-umboð.
(Umboðsm. Ólafur H. Brím, bóndi, Eyjum í Breiðdal).[1])

Brím, Ólafur H., Eyjum.
Einar Sveinsson, Ósi.
*Eiríkur Sigurðsson, Dísastöðum.
Hannes Þórðarson, Jórvík.
Jón Gunnarsson, Brekkuborg.
Vigfús Þórðarson, prestur, Eydölum.
Sigurbjörn Björnsson, Skriðustekk.
Stefán Guðmundsson, Felli.
Þorsteinn Stefánsson, bóndi, Þverhamri.

Djúpavogs-umboð.
(Umboðsm. Ingim. Steingrímsson, póstafgr.m., Djúpavogi).[1])

Björn Jónsson, bóndi, Múla í Álftafirði.
Elís Jónsson, verzlstj., Djúpavogi.
Helgi Einarsson, bóndi, Melrakkanesi.
Ingim. Steingrímsson, póstafgr.m., Djúpavogi.
Jón Árnason, óðalsbóndi í Múla í Álftafirði.
Jón Finnsson, prestur, Hrauni við Djúpavog.
Jón Jónsson, lausam., Geithellum.
Jón Stefánsson, kennari, Hálsi.
Stefán Einarsson, stud. art., Höskuldsstöðum.
Sveinn Sveinsson, bóndi, Hofi.
Thorlacius, Ólafur, læknir, Búlandsnesi.

Skaftafellssýsla.

*Ari Hálfdánarson, hreppstj., Fagurhólsmýri, Öræfum '19.

Hornafjarðar-umboð.
(Umboðsm. Guðm. Sigurðsson, söðlasmiður, Höfn í Hornafirði).[1])

Bjarni Bjarnason, Brekku.
Bjarni Guðmundsson, bókhaldari, Höfn í Hornafirði.
Gísli Sigurjónsson, Fornustekkjum.
Guðm. Sigurðsson, söðlasmiður, Höfn í Hornafirði.
Hákon Finnsson, Borgum.
Jón Guðmundsson, kennari, Höfn.
Lestrarfélag Lónsmanna.
*Lestrarfélag Mýrahrepps.
Lestrarfélag Suðursveitar.
Pétur Jónsson, prestur, Kálfafellsstað.

---

[1]) Skilagrein komin fyrir 1919.

Sigurður Sigurðsson, kennari, Hoffelli.
Þorleifur Jónsson, alþm., Hólum.
Þorvarður Stefánsson, Hólum.
*Þórhallur Daníelsson, kaupmaður, Hornafirði.

Víkur-umboð.
(Umboðsm. Jón Ólafsson, kennari, Vík í Mýrdal).[1])
Anna Jónsdóttir, læknisfrú, Vík.
Ársæll Sigurðsson, vm., Skammadal.
*Bjarni Ásgr. Eyjólfsson, Syðri-Steinsmýri.
Bjarni Bjarnason, Vík.
Bjarni Einarsson, præp. hon., Vík.
Bjarni Kjartansson, kaupm., Vík.
*Bjarni Loftsson, Hörgslandi.
*Björn Runólfsson, hreppstj., Holti.
Brynjólfur Einarsson, búfr., Reyni.
Einar Erlendsson, verzlm.
Elías Eyjólfsson, kennari, Hörgslandi á Síðu.
Elimar Tómasson, vinnumaður, Skammadal.
Eyjólfur Guðmundsson, hreppstj., Hvoli í Mýrdal.
*Gísli Sveinsson, sýslum., Vík.
Jóel Sigurðsson, búfr., Bakkakoti.
Jóhann Sigurðsson, búfr., Breiðabólsstað.
Jón Ólafsson, kennari, Vík.
Lestrarfélag Dyrhólahrepps.
Magnús Jónsson, verzlm., Vík.
Ólafur J. Halldórsson, verzlm., Vík.
Páll Sigurðsson, Skammadal.
*Sigurjón Kjartansson, kennari, Vík.
*Ungmennafél. „Bláfjall“ í Skaftártungu.
Ungmennafélagið „Gnúpa-Bárður“ í Vestur-Skaftafellssýslu.
Þorst. Þorsteinsson, kaupm., Vík.

[1]) Skilagrein komin fyrir 1919.

Þorv. Þorvarðarson, prestur í Vík.
Þórður Stefánsson, vm., Norður-Vík.

**Rangárvallasýsla.**
Árni Ingvarsson, Núpi '20.
Björgvin Vigfússon, sýslumaður, Efra-Hvoli '20.
Einar Jónsson, hreppstj., Kálfsstöðum '19.
Einar Jónsson, Bakka í Landeyjum '20.
Erlendur Guðjónsson, Hamragörðum '19.
Guðbr. Magnússon, kaupfélagstjóri Hallgeirsey '19.
Guðm. Guðfinnsson, læknir, Stórólfshvoli '19.
Ingimundur Benediktsson, Kaldarholti '20.
Ingimundur Jónsson, búfr., Hala '18.
Jakob Lárusson, prestur, Holti '19.
Jón Guðmundsson, bóndi, Ægissíðu '19.
Jón Jónsson, bóndi, Sumarliðabæ '18.
Lestrarfélag Ásahrepps '19.
*Lestrarfélag Landmanna '19.
Magnús Kristjánsson, Drangshlíð '19.
Ólafur Finnsson, prestur, Kálfholti '20.
Páll Jónsson, málari, Ægissíðu '19.
Sveinn J. Sveinsson, Dalskoti '18.
Thorarensen, Grímur, hreppstjóri, Kirkjubæ '19.
Thorarensen, Skúli, Móeiðarhvoli '19.
Tómas Sigurðsson, hreppstj., Barkarstöðum '20.
Ungmennafélagið „Hekla“ '18.
*Valdemar Jónsson, Álfhólum '20.
*Vigfús Bergsteinsson, Brúnum '19.
Þorst. Jónsson, oddviti, Meiritungu '18.

**Árnessýsla.**

Ágúst Helgason, bóndi, Birtingaholti '19.

Briem, Þorst., prestur, Mosfelli.

*Böðvar Magnússon, hreppstj. Laugavatni '19.

Eggert Benediktsson, hreppstjóri, Laugardælum '19.

Einar Jónsson, Mjósundi í Villingaholtshreppi '19.

Eir. Einarsson, útbússtj., Selfossi '20.

Gísli Gestsson, Hæli '20.

Gísli Jónsson, Stóru-Reykjum '18.

*Gísli Pétursson, læknir, Eyrarbakka '19.

Guðjón Rögnvaldsson, Tjörn í Biskupstungum '19.

*Guðm. Guðmundsson, bóksali, Eyrarbakka '18.

Guðm. Guðmundsson, Efri-Brú '19.

*Guðm. Helgason, præp. hon., Selfossi '19.

Guðm. Lýðsson, bóndi á Fjalli á Skeiðum '19.

Heiðdal, Sig. Þ., rithöf., Stokkseyri '19.

Hermann Eyjólfsson, kennari, Grímslæk '20.

Jóhanna Eiríksdóttir, Haga '19.

Jónas Halldórsson, hreppstj., Hrauntúni '19.

*Jón Sigurðsson, cand. phil., Kallaðarnesi '20.

Jörundur Brynjólfsson, fv. alþm., Múla '19.

Kjartan Helgason, prófastur, Hruna '17.

Lestrarfél. Baldur, Hraungerðishr. '20.

Lestrarfél. Gnúpverja '19.

Lestrarfél. „Mímir", Ölvesi '19.

Lestrarfél. Stokkseyrar '18.

Nikulás Friðriksson, innlagningarm., Eyrarbakka '19.

Páll Lýðsson, hreppstj., Hlíð í Gnúpverjahr. '20.

Páll Stefánsson, Ásólfsstöðum '19.

Sigurður Greipsson, Haukadal '20.

Sigurður Ólafsson, fv. sýslumaður, Kallaðarnesi '18.

Sveinn Guðmundsson, járnsmiður, Eyrarbakka '20.

Thorsteinsson, Jón, prestur, Þingvelli '16.

Ungmennafél. „Hvöt", Grímsnesi '19.

*Þorsteinn Þórarinsson, Drumboddsstöðum '19.

*Þórður Jónsson, bóksali. Stokkseyri '19.

Þórður Ólafsson, Ásgarði '18.

**Vestmannaeyjasýsla.**

Vestmannaeyja-umboð.
(Umboðsm. Jón Sighvatsson, bóksali).[1]

Árni Sigfússon, kaupm.

Einar Lárusson.

Finnur Sigmundsson.

Guðl. Br. Jónsson, kaupm.

Guðl. Þórarinsson.

Guðný Guðjónsdóttir.

Gunnar Ólafsson, konsúll.

Halldór Eyjólfsson.

Jóhann Pálmason.

Jóhann Þ. Jósefsson, kaupm.

Johnsen, Árni J., verzlm.

Johnsen, Gísli J., konsúll.

Johnsen, Guðni J.

*Johnsen, Lárus J., verzlm.

*Jón Einarsson, kaupm.

Jón Jónsson, kaupm.

Kristinn Ólafsson.

Magnús Jónsson, útg.m.

---

[1]) Skilagrein komin fyrir 1919.

Páll Oddgeirsson, kaupm.
Sigurður Sigurðsson, lyfsali.
Sigurjón Högnason, gagnfr.
Sigurlaug Guðmundsdóttir, húsfrú.
Sýslubókasafn Vestmannaeyja.
Þorbjörn Guðjónsson.
Þórarinn Gíslason.

## B. Í Vesturheimi.

### Kanada og Bandaríkin.

Andrews, A. le Roy, Itaka N. Y. '18.
Cornell University Library, Itaca N. Y. '19.
*Halldór Hermannsson, bókavörður Ithaca N. Y. '19.
Hollander, Dr. Lee M., Madison, Wis. '19.
Lidholm, E., St. Louis, Mo. '20.
Malone, dr. phil. Kemp, Cleveland, Tennessce '19.
Newberry Library, Chicago '20.
Þorbergur Þorvaldsson, próf. dr., Saskatoon, Saskatchewan '20.
Östlund, David, Minneapolis '19

### Vesturheims-umboð.

(Umboðsm. Finnur Jónsson, 698 Sargent Ave., Winnipeg).[1]
Albert Jónsson, Winnipeg.
Andrjes Helgason, Kandahar, Sask.
Arason, W. B., Húsavík.
Arni Eggertsson, Winnipeg.
Árni Sigurðsson, Spring Water, Sask.
Arni Sveinsson, Glenboro.
Askdal, S. M. S., Minneota, Minn.
Bandalag Pembinasafnaðar, N. Dak.
Bergmann, Jónas S., Garðar, Pembina.
Bjarnason, J. M., Otto, Man.
Björn B. Jónsson, prestur í Winnipeg.
Björnsson, G. B., Minneota, Minn.
Björn Sveinsson, Svold, N. D.
Blöndahl A. J., Wynyard.
Borgfjörð, Th. S., Vancouver.
Böðvar H. Jakobsson, Árborg, Man.
Eggert Jóhannesson, Winnipeg.
Eggertsson, J., Swan River, Man.
Einar Gíslason, Gimli.
Einar Sigváldason, Baldur
Einarsson, Chris. O., Winnipeg.
Eyjólfur S. Guðmundsson, Jacoma, Wash.
Friðrik Hallgrímsson, prestur, Baldur, Man.
Geirmundur B. Olgeirsson, Gardar, N. D.
Gestur Jóhannesson, Poplar Park.
Gíslason, Anna, Mrs., Winnipeg.
Gíslason, O. H., Mrs., Winnipeg.
Gísli Egilsson, Logberg, Sask., Can.
Goodman, G. G., Wynyard, Sask.
Goodman, Gísli, Winnipeg.
Gould, Chester N., prófessor, Chicago.
Guðni Þorsteinsson, Gimli, Man.
Gunnar Gunnarsson, Caliento, Man.
Gunnlaugur Tr. Jónsson, ritstjóri, Winnipeg.
Guttormur Guttormsson, prestur, Minneota, Minn.
Guttormsson, Thorst., Winnipeg
Halldórsson, M. B., dr., Winnipeg.
Henderson, John, Winnipeg, Man.
Högni Einarsson, Winnipeg.
Ingim. Ólafsson, Reykjavík, Man.
Jakob Guðmundsson, Vancouver, B. C.
Jóhann O. Björnsson, Wynyard, Sask.
Jóhann Pálsson, Clarkleigh, Man.
Jóhannsson, Kr. H., Winnipeg.
Johnson, Arni A., Mozart, Sask
Johnson, Kristján, Duluth.
Johnson, Magnús, Cold Spring, Man., Can.

[1]) Skilagrein ókomin fyrir 1919.

Johnson, St. E., Otto P. O., Man.
Jón Árnason, B. A., Wynyard.
Jón Einarsson, Gimli.
Jón J. Hallsson, Leslie, Sask.
Jónas Danielsson, Winnipeg.
Jón Sveinsson, Markerville, Alberta.
Klemens Jónasson, Selkirk.
Kristinn Þorfinnsson, Garðar N. D.
Kristinsson, Kr. Fr., Framnes, Man.
Kristján Stefánsson, Vetfold, Man.
Lesrarfél. Árgalinn, Wild Oak, Man.
Lestrarfél. Dagsbrún, Lundar, Man.
Lestrarfél. Dagsbrún, Vidir, Man.
Lestrarfél. Fjólan, Nes, Man.
Letrarfél. Fróðleikshvöt, Árborg.
Lestrarfél. Fræðir, Kristnes, Sask.
Lestrarfél. Gangleri, Gardar.
Lestrarfél. Fram, Árnes, Man.
Lestrarfél. Gimlé.
Lestrarfél. Hafstjarnan, Pt. Roberts, Wash.
Lestrarfél. Harpa, Blaine, Wash.
Lesrarfél. Herðubreið, Siglunes, Man.
Lestrarfél. Iðunn, Markerville, Alberta
Lestrarfél. Ingólfur, Vancouver.
Lestrarfél. Ísland, Baldur, Man.
Lestrarfél. Íslendingar á Gimli, Gimli, Man.
Lestrarfélag. Íslendinga í Churchbridge, Sask.
Lestrarfél. Íslendinga í Cypressveit, Glenboro.
Lestrarfél. Íslendinga í Reykavík, Reykjavík P. O.
Lestrarfél. Leifur hepni, Kandahar, Sask.
Lestrarfél. Mentahvöt, Otto, Man.
Lestrarfél. Mentun, Antler, Sask.
Lestrarfél. Mímir, Wynyard.
Lestrarfél. Morgungeislinn, Hova, Man.
Lestrarfél. Morgunstjarnan, Hekla, Man.
Lestrarfél. Morgunstjarnan, Leslie, Sask.
Lestrafél. Skjaldbreið, Silver-bay.
Lestrarfél. Stjarnan, Selkirk, Man.
Lestrarfél. Tilraunin, Keewatin, Ont.
Lestrarfél. Verðandi, Mozart, Sask.
Lestrarfél. Vestri, Seattle, Wash.
Lestrarfél. Vísir, Geysir, Man.
Lestrarfél. Þjóðernið, Winnipeg, Beach
Lestrarfél. Æskan, N. Dakota.
Long, S. M., Winnipeg.
Magnús Hindrikss., Churchbridge.
Nielsen, Charles, Winnipeg.
Norman, Jakob, Leslie, Sask
Oddsson Th., Winnipeg.
Ólafur Bjarnason, Winnipeg.
Ólafsson, K. K., prestur, Mountain, N. Dak.
Pálmi M. Sigurðsson, Winnipeg.
Pétur Hjálmsson, prestur, Markerville, Alberta.
Pétur Ó. Hallgrímsson, Seattle.
Pétursson, P. V., Ivanhoe.
Runólfur Marteinsson, prestur, Winnipeg.
Scheving, S. P., Point Roberts. Wash.
Sigfús Magnússon, Duluth, Minn.
Sigtryggur Jónasson Árborg.
Sigurðsson, Guðrún, Winnipeg.
Sigurðsson, Job, Mrs., Uppham, N. D.
Sigurður Ólafsson, prestur, Blaine, Wash.
Sig. Sigfússon, Oak Wiew, Man
Símon Símonarson, Winnipeg.
Snæbjörn Einarsson, Lundar, Man.
Stefán Guttormsson, Winnipeg.
Steingrímur Þorláksson, prestur, Selkirk.
Styrkár Vesteinn Helgason, Railway Siding, Alberta.
Sveinn Árnason, Seattle, Wash.
Swanson, Fred., Winnipeg.
Thorarinsson, Th., Riverton, Man.

Thordarson, C. H., verksmiðjueigandi, Chicago.
Thordarson, Thordur, dr. Minneota, Minn.
Thordarson, Thorgerður, Winnipeg.
Thorgrímsson, Mart, Garðar, N. Dak.
Thorlacius, B., Winnipeg.
Thorsteinsson, Oddur, Icl. River, Man.
Toronto University, Library, Toronto.
Tómas Jónasson, Icl. River, Man.
University of North Dak.
Vídal, Sig. J., Hnausar, Man.
Vium, S. J., Wynyard, Sask.
Þorgils Þorgeirsson, Winnipeg.
Þórður Árnason, Mozart, Sask.

## C. Í öðrum löndum.

(Bóksölu-umboð hefir Gyldendalske Boghandel Nordisk Forlag, Klareboderne 3, Kaupmannahöfn)[1]).

### Færeyjar.

Dahl, Jakob, prófastur, Þórshöfn '19.
Magnús Einarsson, kaupm., Þórshöfn '20.
Paterson, Joannes, kongsbóndi, Kirkjubæ '19.
Símun av Skarði, lýðháskólastjóri, Fagrahlíðar-háskóli '19.
S. P. úr Konoy, kennari, Götu '19.
Thorshavns literære Samfund, Þórshöfn '19.

### Danmörk.

Albrectsen, Hans, adj., Prins Chrg. 5, Randers '19.
Árni Guðnason, stud. mag. Blaagaardsg. 31, Kh.
Bartels, Martin, Walthersg. 6 Kh. '19.
Berlin, Knud, prof. dr. phil., Sorteddoss. 27, Kh. '19.
*Blöndal, Sigfús, bókavörður, Amagerbrog. 153. Kh. '19.
Gad, G. E. C., bóksali, Vimmelsk. 32, Kh. '19.
Gísli Brynjólfsson, læknir, Dannebrogsg. 1, Kh. '19.
*Gunnar Gunnarsson, rithöf. Gl. Kongev. 141[3], Kh. '19
Hafsteinn Pétursson, prestur, Fiolstr. 28, Kh. '19.
Halldór Kristjánsson, cand. med. Frederiksbergs hospital '19.
Hallur Hallsson, tannl., Hroarsvej 25, Kh. '19.
Hammerich, M., málaflutningsmaður, Stege '19.
Haraldur Sigurðsson, tannlæknir, Österbrog. 35, Kh. '19
Jakob Gunnlögsson, stórkaupm., Amagerbrog. 18, Kh. '19.
Johansen, J., Landbrugsskolelærer, Ladelund, pr. Veien '19.
Jónas Lárusson, veitingam., Personbg. Restauration, Kh. '19.
Jón Helgason, stud. mag., H. C. Örstedsvej 15, Kh.
Jón Sveinbjörnsson, kgl. kabinetsekretær, kmjr., Svanemosegaardsvej 3, Kh. '19.
Kaldan, Sigtr., Strandg. 75, Helsingjaeyri '19.
Kristján Albertsson, cand. phil., H. C. Örstedsvej 18 '19.
Kristján Björnsson, cand. med., Sundby Hospital '19.
Magnús Magnússon, prestur, Gamby '19.
Melsted, Bogi Th., mag. art., Ole Suhrsg. 18, Kh. '19.
Möller, J. V., prentari, Hestemöllestr. 5, Kh. '19.

1) Skilagrein ókomin fyrir 1919.

Nielsen, Chr. Hein, adj. Hygge Allé 2, Esbjerg '19.
Oddur Gíslason, málaflm., Kort. Adelers G. 10, Kh. '19.
Pétur Bogason, læknir, Solbað pr. Holte '19.
Sigurður Sigtryggsson, cand. mag., Viborg '19.
Sóleyjarskóla bókasafn, Sorö '19.
*Stefán Stefánsson, cand. jur., Gl. Torv. 8, Kh. '19.
Sveinbj. Högnason, stud. theol., Regensen.
Sveinbjörn Sveinbjörnsson, yfirkennari, Aarhus '19.
Sæmundsen, Karl, stórkaupm. Holbergsg. 18, Kh. '19.
Thomsen, Ditlev, konsúll, Overg. o. V. 90, Kh. '19.
Trausti Ólafsson, stud. polyt., Ole Suhrg. 16, Kh.
Tulinius, Thor E., stórkaupm., Ryvangs Alle 44, Hellerup '19.
Valtýr Guðmundsson, dócent, dr. phil., Amagerbrogade 151, Kh '19.
Wiehe, Holger, mag. art., Alderslyst pr. Silkeborg '19.

### Noregur.

Birkeland, Erling, Store Milde pr. Bergen '20.
Birkeland, M., skólastj. Store Milde pr. Bergen '20.
Blix, P., rektor, Vors '20.
Bugge, Alexander, prof. dr. phil. Fyresdal, Telemarken '19.
Böyum, S., lektor, Vors '20.
Dagestad, J. lýðháskólastjóri, Kongsvinger '20.
Eggen, E., yfirkennari, Vors. '20.
Fonstad, M., yfirkennari, Vors. '20.
Fjörstad, N., kennari, Osa í Harðangri '20.
*Guðm. Ásmundsson, læknir, Lyngseidet '19.
Hanssen, Olav, Lillebö-gruber, Storð '20.
Háskólasafnið, Kristiania '17.
Heggstad, L., lektor, Vors '20
Hjelle, L., ritstj., Leirvik, Storð.
Hveding, Joh., lýðháskólast., Trondenes pr. Harstad '20.
Höverstad, T., dr., Asher st. pr. Kristiania '20.
Hövik, Ivar, ritstjóri, Stavanger '18.
Jón Eyþórsson, stud. mag., Schultsg. 7, Kristiania '20.
Katedralskolens Bibliotek, Kristiania '19.
Kolsrud, Oluf, docent, Kristiania '19. '19.
Kolsrud, Sigurd, arkivar, Kristiania '19.
Nordhus, Hans, Holbergsalm 9, Björgvin.
Rökke, Olav, kennari, Notodden '20.
Sandnes, O., yfirkennari, Vors '20.
Skar, Anton, Vadaneset '20
Skásheim, Anders, bókhaldari, Bergen '19.
Skotte, H., lektor, Vors '20.
Steinnes, Anders, kennari, Rysten, Sunnmæri '20.
Stórþingisbókasafnið í Kristianiu '19.
Strand, Einar, héraðslæknir, Málöy, Nordfjord '20.
Utne, Sverre, Lofthus, Harðangri '20.
Vangsnes, N. J., kapt., Fresvik, Sogni '20.
Vísindafélagið í Þrándheimi '19.
Voss, J. Fr., lektor, Vors '20.

### Svíþjóð.

Berencreutz, A., kammarherre, Motala '20.
Göteborgs stadsbibliotek '19.

Lunds Universitets Nord. Seminarium '19.
Söderwall, K. F., prófessor, Lund '19.
Zadig, Viggo, cand. phil., Malmö '19.

**Þýzkaland.**

Anderson, Ernst, godsegare, Alenstein, Preussen '13.
Erkes, Heinrich, kaupm., Köln '19.
Gruner, Max, dr. phil., Berlin '13.
Herdersche Verlagshandlung, Freiburg im Breisgau, Baden '18.
Heydenreich, W., prof. dr. phil., Eisenach '13.
Mayer, E., prof., dr. phil., Würtzburg '15.
Meissner, R., prófessor, dr. phil. Bonn '15.
Staatsbibliothek, München '13.
Stadtbibliothek, Hamburg '13.
*Svensson, Jon, prestur, Lüdinghauserstr. 35, Dülmen, Westfalen.
Universitetsbibliothek, Kiel '19.

**England.**

Banks, Mrs. M. M., London '19
Björn Sigurðsson, London '19.
Gray, John, prestur, St. Peters, Falcon ave., Edinburgh '19.
Hight, Geo. Ainslie, Oxford '18.
Johnston, A. W., Chelsea, London '20.
Olsen, O. T., dr., Grimsby '18
Phillpotts, Miss Bertha S., Westfield College, London '16.

**Sviss, Frakkland og Holland.**

Austin, C. K., læknir, Rossinieres, Vaud, Sviss '20.
Cahen, Maurice, agrégé de l' Université, Valence '19.
Hoogt, J. M. van der, litt. cand., Wageningen, Nederl. '20.
Krijn, Sophie A., Amsterdam '20.
Meuleman, Gertrud, Nijmegen '20.
de Vries, J. P. M. L., prof. litt. n. doct., Steinstraat 11, Amsterdam '19

Reykjavík, 17. júní 1920.

*Matthías Þórðarson*,
bókav. félagsins.

# SKÍRNIR

TÍMARIT
HINS ÍSLENSKA BÓKMENTAFJELAGS

XCV. ÁR

RITSTJÓRI
ÁRNI PÁLSSON




REYKJAVÍK — 1921
ÍSAFOLDARPRENTSMIÐJA H.f.

T11

# Efnisskrá.



*Ljósm. eftir P. Most, líkl. 1871—72.* *Myndarm. eftir Ó. Hvanndal.*

Sjera Matthías Jochumsson.

# Matthías Jochumsson

11. nóv. 1835—18. nóv. 1920.

---

I.

## Erfiljóð.

1.

Minni er sál sem mjöð'r á könnu
morgunbrún yfir hugins túni, —
brosir dátt og blíðu vottar
bjartri lund, er hana stundar.
Vil eg eldi af himni halda
hátt á lofti, er tekur að nátta:
vafurlogum visku og stefja —
venda kvæði að Sigurhæðum.

Leiftra um þig í ljósaskiftum
logaglæður himinboga,
ís þó stranda ögrum læsi,
yglibrýndur þegar siglir
svalur og grár af saltri hélu
suður um storð úr Greipum norðan.
Silfurfloti ystu álfu
óðmæringi varð að glóðum.

Horfir nú úr hljóðu hverfi
hagorðastur sifji Braga,
sólu mót þó silfrinhélu
sáldi vetur kringum skáldið.
Suð'r í lönd mun sálin venda,
svo var hændur Braga frændi

þeirra til, sem horfa hærra
heldur en menn, er spilla kveldum.

Sældaði lengi söngva-Baldur
saman við þá og mjög til frama,
er höfðu kynni af hreinni lafði:
heilagri frú, er nefnist trúa.
Miðlingstrú á mannlegt eðli
mundi hann eigi þrá né stunda,
heldur þá, sem hátt til valda
hefur sál úr þröngum klefa.

Öðrum þræði lék í ljóði
landkönnuður furðustranda
háttum að og málsins mætti
— mögur vorrar eigin sögu;
slyngur að þýða og velja vængi
vökuorðum hingað norður
þeirra, er fundu í ljóðalandi
lífsins veig og drukku í teygum.

Sótti heim á aftni og óttu
andansmenni Breta landa —
horfinn lýð af sjónarsviði:
Shakespeares öld á bak við tjöldin.
Handsöxum í ljóðalendi
lék með Poe, svo grétu og hló'u
áhorfendur úti' á ströndu
íss og glóða, er fjarri stóðu.

Mól hann gull úr möl og gjalli
mannlífs kjara snauðum granna —
lýsigull, sem leiftrum olli
langt á brautu sorga og þrauta;
elda kunni meginmilda
munngátið úr Urðarbrunni.

Fullin bar í hreysi og höllu,
hald og traust á níræðisaldri.

Snildin þinna á öllum aldri
orða, er kveiktu bál í norðri,
lýsir eins og logi í gosi —
langra kvelda jólaeldur.
Þó að syrti, þíns mun hjarta
þakið seint í mold né klaka
— ljóði mínu þó logi eyði —
lýsigull á foldu Ísa.

Sængurklæði sín hefir fengið
svæfla og voð hjá morgunroða
æskumenni, er sálu sinni
sólarmegin í lífsins skóla
haldið gat, — til arinelda
andans manna í sumarlandi
sótti glóð til síð'stu náttar, —
síungur með hverju nýi.

---

Himindís í blæjubrumi
brosir nú og skýjaflosi
móti jólum, ljóma lætur
litaskraut sem brenni vitar.
Það er gott, að þig hefir sóttan
þessi dís, á göfga vísu
heim, og yfir rekkju rima
reist þér boga úr vafurlogum.

*Guðmundur Friðjónsson.*

2.

Skáldið af náð! með fangið varma og víða
að vefja að hjarta alt vort kalda land.
Hve mjúk þín tunga', að túlka' hið angurblíða,
og tónasterk sem brim við ægisand!
Þitt var að yrkja, okkar var að hlýða —
andinn var guðs, og prýði allra tíða.

Þú hafðir valdið til að tala í ljóðum
titrandi bænir, drápur, hetjumál.
Raust þín var mögnuð Íslands sögusjóðum,
sóttirðu þangað heilagt bál og stál.
Skáldjöfur gastu orðið öðrum þjóðum —
ættjörð vor gleðst að lúta þér svo góðum.

Dæmdir þú lítt. Þinn dómur Sögu bíður.
Dundu' á þér títt hin þungu sorgaél.
Hárið varð hvítt og hvar var allur lýður?
Hverfull, en grætur Baldur sinn úr Hel.
Eftir á sést þinn sjónarheimur víður,
sagnheiður, gamall, nýr og reginfríður.

Feiknstafi skorið alla ásýnd þína
aldanna stormar höfðu langa tíð.
Dýpst var af Braga rist þín lófalína —
ljóðhátt þinn geymir mál vort ár og síð.
Hvar sem að tungan signir sig og sína
sólin mun skína á þig og aldrei dvína.

Skáldið af náð! með fangið varma og víða
að vefja að hjarta alt vort kalda land.
Hve mjúk þín tunga', að túlka hið angurblíða,
og tónasterk sem brim við ægisand!
Þitt var að yrkja, okkar var að hlýða —
andinn var guðs, og prýði allra tíða.

*Sigurður Sigurðsson,*
frá Arnarholti.

## II.
## Ræða Einars H. Kvaran
á minningarhátíð Bókmentafélagsins 19. febr. 1921.

Við erum hér saman komin til að minnast og þakka. Allur þorri þjóðarinnar og eftirkomendur vorir minnast að sjálfsögðu framar öllu öðru skáldsins Matthíasar Jochumssonar. Ekkert íslenzkt skáld hefir notið jafnalmennrar ástsældar og hann í sínu jarðneska lífi. Í mínum hug er hann mesta ljóðskáldið, sem þjóð vor hefir eignast. Eg hygg, að svo finnist mjög mörgum öðrum. Um hitt verður auðvitað ekkert fullyrt, hvernig eftirkomendur vorir kunna að líta á það mál. En óhætt er að fullyrða það, að núlifandi Íslendingum er það óskiljanlegt, að M. J. verði ekki minst, meðan íslenzk ljóð verða lesin og íslenzkir sálmar sungnir.

En við, sem höfum átt því láni að fagna að kynnast síra M. J. til nokkurra muna, finnum víst öll til þess, að mikils er að minnast, þar sem maðurinn M. J. var. Eg get tæplega hugsað mér nokkurn mann, sem hefir kynst honum nokkuð og hugsar til hans annan veg en af hlýjum hug. Þau fáu orð, sem eg ætla að segja, eru, að því leyti, sem þau verða frá mér sjálfum, að mestu sprottin upp af endurminningum, sem eg ber í brjósti, um viðkynning mína við hann.

Eg get þá ekki bundist þess að minnast þess, sem eðlilega hefir minna verið um talað en margt annað, er að síra M. lýtur — hvað hann var mikið líkamlegt karlmenni. Eg hafði æfinlega heyrt það um hann. En sjálfur sá eg þess ljósastan vott, þegar hann var 82 ára gamall. Eg var þá á Akureyri dálitinn tíma að vetrarlagi. Kuldinn var á hverjum degi 15—20 stig, og stormar og byljir jafnframt Það er áreiðanlegt, að þá fóru fæstir Akureyrarmenn út sér til skemtunar. Eg varð þess ekki var, að nokkur maður væri á ferðinni um bæinn — nema þá í brýnustu erindum — annar en M. J. Hann fór um bæinn á hverjum degi, hvernig sem viðraði. Þetta var því merkilegra, sem heimili hans var uppi í

snarbrattri brekku, sem var alls ekki hættulaus umferðar, um það leyti árs og í þeim veðraham, sem þá var, sjóndöpru og fótstirðu gamalmenni. Eg veit það, að honum var nauðsyn á að hreyfa sig úti. En hvað eru þeir margir, þótt yngri séu en á níræðisaldri, sem láta bugast af slíkum örðugleikum sem þeim, er þar var við að tefla, og haga sér þá ekki eftir því, sem þeim er hollast. Það leyndi sér ekki, að hér var verið að nota leifar af tápi og fjöri, sem á léttasta skeiði mannsins hafði verið sannarlegt ásmegin.

En auðvitað var það hin andlega atgjörfi mannsins, sem mest bar á og mest var um talað. Og þegar eg renni huganum til viðkynningar minnar við síra Matthías — og sú viðkynning hélzt alt af öðru hvoru hátt upp í hálfa öld, sumpart með viðræðum við hann sjálfan, sumpart með bréfaskriftum — og þegar eg reyni að gera mér grein þess, hvað mér hafi fundist um þessa viðkynning, þá er eitt lýsingarorð, sem verður efst á baugi í huga mínum: Hann var sannmentaður maður.

Eg er þess ekki fullvís, að eg hafi þekt neinn mann, sem betur átti við latneska setningin: *Nil humanum a me alienum puto* (ekkert mannlegt tel eg mér óviðkomandi). Hann talaði af áhuga um búskap og fornleifar, um náttúruvísindi og söguvísindi, um stjórnmál og kirkjumál og trúmál og ýmis konar heimspeki og um svo margt og svo margt. Hann var ekki sérfræðingur í neinni grein — þó að það sé sannfæring mín, að í skilningi á forfeðrum vor Íslendinga hafi hann staðið flestum sérfræðingum á sporði. En hann talaði um alt, ekki eingöngu af skilningi víðlesins mentamanns, heldur gat hann líka talað um allar skoðanir og öll fyrirbrigði mannlífsins af hlýrri ljúfmensku allsherjarsamúðar.

Það var þessi fágæti samúðar-hæfileiki hins sannmentaða manns og örlæti hans á viðurkenning við alt, er honum fanst vel af hendi leyst, sem olli því, að honum var svo oft borið það á brýn, að hann væri laus í skoðunum sínum. Guðm prófessor Hannesson hefir gert því máli

frábærlega góð skil í ritgjörð sinni um síra Matthías á Akureyri, svo að í raun og veru þarf ekki um það að tala hér. En af því að viðkynning mín við hann varð svo löng, eins og eg hefi þegar sagt, á það ef til vill ekki illa við, að eg leggi þar fáein orð í belg. Og þá verð eg að láta þess getið, að eitt af því sem einkendi síra M. mest í mínum augum, var það, hvað hann sat í raun og veru fastur við sinn keip — þrátt fyrir öll heilabrotin og þrátt fyrir samúðina með öllum hugsanlegum stefnum og straumum.

Að öllum jafnaði var ekki mikið gert úr síra M. sem stjórnmálamanni. Ekki kemur mér heldur til hugar, að lífi hans hefði verið hentuglega varið, ef hann hefði gert stjórnmál að aðalstarfi sínu. En á hitt langar mig til að benda, að því fór fjarri, að hann væri neinn veifiskati í þeim efnum. Frá því er hann ritaði fyrst móti Jóni Sigurðssyni 1874 og þangað til eg vissi síðast til — eg efast ekki um fram á síðustu stund — var grundvallarskoðun hans í stjórnmálum Íslands óbreytt. Eg er ekki að halda því fram, að sú skoðun hafi verið rétt. Eg var henni að sumu leyti afdráttarlaust andvígur. Eg bendi að eins á, hver hún var, og að hann stóð við hana, á hverju sem gekk. Stjórnmála-sjálfstæði landsins lá honum í litlu rúmi. Þjóðræknari maður var ekki til en hann. Engum gat verið annara um sóma ættjarðar sinnar og þjóðar en honum. Það voru framfarir og hvers konar menning þjóðarinnar, sem hann þráði. Honum fanst það eitthvað fáránlegt, að bóndinn færi að setja upp »þá blóðrauðu húfu« — hann, »sem býr æ við útigang, sléttar ei þúfu«, eins og hann segir í Nýjársósk Fjallkonunnar. Hitt duldist honum, hvað framfarirnar, sem hann bar fyrir brjósti, voru nátengdar sjálfstæði landsins og hentugri stjórnarskipun. Og hvað sem söng í mönnum hér á landi í stjórnmáladeilunum, þá var hann alt af jafn-mikill vinur Dana, og það var nú eitthvað annað en að hann færi leynt með það. Eg veit ekki, hvort eg hefi þekt mann, sem hefir verið fjær því að láta nokkurn tíma stjórnast

af nokkurri lýðsæsing, og öllum var ókleift að fara með hann í nokkurar gönur.

Hann sagði mér að minsta kosti einu sinni, fyrir mjög mörgum árum, frá þeim tveim skiftum, er fundum þeirra Björnstjerne Björnsons bar saman — eg held ekki, að þeir hafi oftar fundist. Mér er það ógleymanlegt, því að hann sagði svo skemtilega frá þessu. Í fyrra skiftið — það mun hafa verið veturinn 1856—7 — var Björnson Grundtvigssinni og kirkjutrúarmaður. Hann fór þegar að tala um trúmál, og spurði um trúarskoðanir þessa Íslendings. Síra M. varð ógreitt um svör, eða fór að engu óðslega, og Björnson fór að gruna, að hann mundi vera nokkuð ískyggilega mikill skynsemistrúarmaður. »Þér verðið þó að trúa á kraftaverkið, dásemdina«, sagði hann, og varð hinn kennimannlegasti. — »Ja-á«, sagði Matthías. En Björnson fanst einhver semingur í þessu, og var alls ekki ánægður með sálarástand þessa unga Íslendings.

Þegar þeir fundust aftur, hafði Björnson varpað frá sér allri opinberunartrú. — »Þér eruð orðinn prestur«, sagði hann. — »Já«, sagði síra Matthías. — »Þér trúið þó ekki á alt þetta kraftaverka- og dásemdadrasl, sem kirkjan er að burðast með?« sagði Björnson. — »Jæ-ja«, sagði síra Matthías — »sumt af því«. Þá tók Björnson að útlista það fyrir honum, að þetta væri alt saman úreltar og ramvitlausar hugmyndir, og endaði, að því er mig minnir, á löngu erindi um Davíð konung, sem síra Matthías skildi ekki, að kæmi neitt trú sinni við.

Önnur eins andleg hamskifti sem þau, er um var að tefla hjá Björnson, komu aldrei fyrir síra Matthías Jochumsson. Þegar eg talaði við hann síðasta skiftið, var hann merkilega líkur því, sem hann hafði verið fyrsta skiftið, sem eg talaði við hann um þau mál, er miklu skifta — grundvallar-lífskoðunin í raun og veru alveg sú sama — að eins festan meiri, hugmyndirnar ljósari, skilningurinn skýrari.

Á skólaárum mínum, 1875—81, naut eg þess láns og þess unaðar að eiga kost á að tala meira við síra Matthías

en búast hefði mátt við, þar sem svo mikið djúp var staðfest milli okkar — hann einn allra mesti andans maður þjóðarinnar, eg fávís og óþroskaður piltur í latínuskólanum. Síðari hlut þessara ára komst eg í nokkur rit hinna nýju bókmenta, sem þau árin voru að ryðjast yfir Norðurlönd eins og fljót í fossandi leysingu. Af þeim ritum, sem eg las þá, man eg bezt eftir »Det 19 Aarhundrede«, sem bræðurnir Brandes gáfu út, og »Höfuðstraumunum« eftir Georg Brandes. Eg hafði ekkert lesið áður, sem mér fanst jafn-gáfulegt. — Mótstöðumátturinn var enginn. Hið gamla varð að engu. Alt var orðið nýtt.

Eg hafði eiginlega engan annan en síra Matthías til þess að tala við um öll þessi ósköp, sem eg fann vera að streyma inn í sál mína. Og eg skildi ekki jafn-vel þá og nú þá þéttings-mótspyrnu, sem eg varð var við hjá honum gegn þessum merkilegu bókmentalegu nýjungum. Eg held, að af öllum þeim straumum, sem á síra Matthíasi skullu, hafi realistiski eða natúralistiski straumurinn náð minstum tökum á honum. Og það þurfti mikið til að standast þann straum, meðan hann var í algleymingi sínum á Norðurlöndum. Á dögum síra M. varð enginn bókmentastraumur jafn-sterkur þar. Svo mikið sem síra M. tignaði Björnson, olli Björnson honum vonbrigða, þegar hann var að fullu kominn inn í realismann. Um Ibsen tala eg nú ekki. Fyrri ritunum hans unni hann — þó að honum fyndist ekki, að hann gæti ort góð kvæði. Hann lagði jafnvel á sig það feikna-erfiði að leggja út »Brand«. En það er áreiðanlegt, að hann langaði ekki til þess, að síðari rit Ibsens kæmu mjög nærri sér.

Hann kannaðist auðvitað við það, að gífurlega mikið af gáfum hefði látið berast með þessum straum. En honum fanst ekki kenna jafn-mikið þar hinnar æðstu speki. Honum fanst veruleg fegurð vera þar tiltölulega lítil. Og mestu máli skifti það, að hann sá þar ekki morgunroða annars heims, heyrði ekki hljóminn frá klukkum eilífðarinnar.

Þetta var síra M. aðalatriðið, þegar öllu var á botn-

inn hvolft. Þrátt fyrir það, hve óvenjulega næmur hann var á áhrif úr öllum hugsanlegum áttum, þrátt fyrir óhemju urmul af alls konar efasemdum, og þrátt fyrir hans takmarkalausa frjálslyndi og hleypidómaleysi gagnvart öllum skoðunum, var sál hans í raun og veru alt af á verði — þegar hún hafði fengið ofurlítinn tíma til að átta sig — gegn því, er gekk of nærri honum. Og trúin á guð, trúin á hið góða í mönnunum og trúin á framhald lífsins voru ekki að eins sannfæringaratriði hjá síra Matth. Jochumssyni, heldur einhverjir sterkustu þættirnir í eðlisfari hans. Ef þessi trú hefði rýrnað — eg tala nú ekki um ef hún hefði dáið, — þá hefði hann verið orðinn allur annar maður en hann var. Eg er ekki sannfærður um, að eftir þá breytingu hefði hann getað lifað. Hitt er eg sannfærður um, að þá hefði hann ekki getað ort.

Hið magnmikla frjálslyndi hans og hleypidómaleysi verndaði sál hans frá því að láta nokkuru sinni leggja á sig nokkurar viðjar kreddanna og erfikenninganna. Að hinu leytinu var þessi lífsnauðsyn, sem trúin var honum. Af þessu hvorutveggja stafaði það, að þegar spíritisminn kom inn í líf síra Matthíasar Jochumssonar, þá olli hann engri byltingu þar. Hann kom að eins sem staðfesting á hinum heitustu óskum og hjartanlegustu vonum þessa efagjarna og áhrifanæma, bjartsýna trúmanns.

Hvenær sem talað er um einhvern mann, er miklu slept, ef heimilis hans er að engu getið. Eg er þess ekki fullvís, að annar prófsteinn á sanngildi mannsins sé áreiðanlegri en sá, hvernig honum tekst með heimilið sitt — þegar ekki er um neinar undantekningar-ástæður að tefla. Eg hygg, að sannarleg mentun mannsins og hinir viðkvæmustu mannkostir verði hvergi reyndir betur en þar.

Nokkur kynni hafði eg af heimili síra Matthíasar. En eg er svo heppinn að geta flutt ykkur vitnisburð þaðan, sem þekkingin á þeim efnum er margfalt meiri. Dóttir síra Matthíasar, ungfrú Halldóra, hefir sýnt mér

þá góðvild, að rita mér bréf um hann. Nú ætla eg að lesa ykkur kafla úr því:

»Á heimili var hann, eins og hann birtist úti á meðal vina sinna og kunningja, ljúfur og elskulegur, skrafhreyfinn og skemtilegur, þegar hann var þá ekki sokkinn niður í lestur og ritstörf; en það var hann æði oft. Oftast var hann í góðu skapi; en kæmi það fyrir, að hann væri önugur eða áhyggjufullur, helzt þá út af efnahagnum, — því að oft var þröngt í búi, sérstaklega meðan allur barnahópurinn var heima — þurfti sjaldan nema stundar viðtal við mömmu. Hún sá ætíð einhver ráð til að kljúfa útgjöldin og jafna yfirstandandi vandræði, og pabbi vissi, að henni mátti treysta, og gleymdi brátt öllum áhyggjum og fór að hugsa um annað.

Yfirleitt átti hann ómetanlega stoð og styttu, þar sem móðir mín var. Dugnaður hennar og starfsemi var dæmafá, og átti hún því drjúgan þátt í vellíðan okkar allra. Þetta fann pabbi, og var því æfinlega hálf-eirðarlaus, ef hún hafði brugðið sér eitthvað að heiman, og orðið lengur burtu en hún hafði búist við. Og venjulega endaði það með því, að hann fór að sækja hana, ef hann vissi, hvert hún hafði farið, þó að öllu liði vel heima.

Okkur börnunum var hann hinn ástúlegasti faðir: óþreytandi að leika við okkur og segja okkur sögur, meðan við vorum lítil, og þolinmóður að hjálpa okkur við lærdóminn og fræða okkur, þegar við stækkuðum. Aldrei gat hann bannað okkur, og værum við að rellast við hann, vísaði hann okkur ætíð til mömmu; hún skar úr allri þrætu. Pabbi og mamma jöfnuðu þannig hvort annað upp, og ást okkar var þar af leiðandi jöfn til beggja. Heimilislífið var, þrátt fyrir lítil efni, hið ánægjulegasta, og ætíð var það mesta tilhlökkunarefni fyrir okkur systkinin, eftir að við vorum farin burt að heiman, að geta skroppið heim í sumarleyfum okkar«.

Mér finst, að þessi bréfkafli hljóti að lyfta upp tjaldi fyrir öllum frá heimilislífi síra M., og þá ekki sízt sýna okkur konuna hans — hvernig það er í raun og veru hún, sem veitir þessu mikla heimili með stóra barnahópinn forstöðu, hvernig hún vakir yfir honum með sínum glöggu ástaraugum, hvernig hún léttir af honum áhyggjunum eins og barni — sem þessi mikli snillingur og ástmögur íslenzkrar þjóðar alt af var í aðra röndina. Það er meira en lítil þakkarskuld, sem íslenzka þjóðin stendur í við þá konu, og það er vonandi, að þeirri skuld gleymi þjóðin aldrei

Eg ætla nú að endingu að lesa ykkur niðurlagið á bréfi ungfrú Halldóru:

»Faðir minn var árrisull mjög, meðan hann hélt fullri heilsu, sérstaklega þegar hann hafði nýtt kvæði eða ritgjörð í huga, því að honum var áríðandi að geta starfað í næði, meðan »andinn var yfir honum«. Oft var hann því búinn að yrkja langt og fallegt kvæði, þegar við, hitt fólkið, komum á fætur, og var það þá æfinlega sjálfsagt, að hann læsi fyrir okkur það, sem hann hafði gjört. Annars kunni hann bezt við sig í daglegu stofunni hjá okkur, innan um barnagarg og skrölt, því að þegar hann var kominn vel af stað með sitt starf, var hann svo niðursokkinn í það, að hann sá hvorki né heyrði það, sem fram fór kringum hann.

Veðrið hafði ótrúlega mikil áhrif á skap hans og alla líðan. Þegar óveður var í loftinu, misti hann ætíð svefn og hjartveiki ásótti hann. Honum var það lífsnauðsyn að ganga sér til hressingar á hverjum degi, og helzt að heimsækja einhvern kunningja um leið. En þeir voru margir í Akureyrar-bæ. Gæti hann þetta ekki óveðurs vegna, naut hann sín ekki fyllilega allan daginn — fanst sér dagurinn glataður og hann vera ófær til allrar vinnu

Akureyri var honum kærasti staðurinn á jörðinni, er mér óhætt að segja. Þar þekti hann svo

að segja hvert mannsbarn, og hans kærleiki til bæjarbúa var ósvikinn. En Akureyringar kunnu líka að meta hann, og aðrir hans vinir og vandamenn eru þeim eilíflega þakklátir fyrir það, hvernig þeir hafa heiðrað hann, bæði lífs og liðinn.

Faðir minn átti því láni að fagna að vera heilsugóður alt fram á síðustu ár; enda lifði hann ávalt reglusömu lífi, að minsta kosti eftir það að hann hann tók að eldast. Sjóndepran síðustu árin var honum sárasta kvöl, þó að hann léti sjaldan óþolinmæði sína í ljós. En lífslöngun hans þvarr með sjóninni, og það var heitasta ósk hans að fá að deyja, áður en hann hætti að geta grilt ljósið og sólina, sem var honum ímynd guðs.

Honum varð að þeirri ósk sinni. Hann leið út af eins og ljós, umkringdur af ástvinum og með fullvissuna um, að hinumegin biðu sín aðrir ástvinir með útbreiddum örmum«.

Á þessum ummælum endar bréf dóttur hans. Eg er ekki í neinum vafa um það, að honum hefir orðið að þessari fullvissu sinni. Eg get ekki hugsað mér annað en að í öllum heimum föður okkar muni góðir íslenzkir menn fagna því að fá síra M. J. í hópinn.

## III.

## Tvö brjef

### frá sjera Matthíasi til Jóns Sigurðssonar, rituð þjóðhátíðarárið.

[Sjera Matthías átti marga vini alla æfi og var furðulega ópennalatur, svo að sjálfsagt er til eftir hann urmull af brjefum, bæði víðsvegar hjer á landi og í útlöndum. Er hin mesta nauðsyn, að bráður bugur verði undinn að því, að safna sem flestum þeirra saman á einn stað, helst í handritasafn Landsbókasafnsins, svo að þau glatist ekki fyrir handvömm. Því að sjera Matthías var aldrei hversdagsmaður, og ekki heldur í brjefum sínum. Jeg hefi sjeð fáein þeirra, og eru þau lifandi eftirmynd hans sjálfs, — barnslega hreinskilin og bersögul, andrík og tilþrifamikil. Nokkuð bláþráðótt kunna þau að vera við og við, en þegar minst varir er höfundurinn rokinn á harða sprett, svo að gneista-

flugið stendur af fyndni hans og andríki og spakmælum. — Þau tvö brjef, sem hjer fara á eftir, sýna, að það er ekki ofmælt, sem Einar H. Kvaran segir hjer að framan um fastheldni hans við skoðanir sínar. Vitanlega má margt segja um þá landsmálastefnu, sem þar kemur fram, en hann vjek aldrei eitt þverfet frá henni, og fjekk margt ófagurt orð í eyra fyrir það. Það er og ekki síður eftirtektarvert, að hann hefir fulla hreinskilni til þess að segja Jóni Sigurðssyni sína skoðun, þar sem þá greinir á, en þá einurð mun suma hafa brostið, sem meiri skörungar þóttust en hann. — Á. P.]

1.

Reykjavík, 24. júlí 1874.

Háttvirti herra og vin!

Mínar virðingarfylstu þakkir fyrir yðar alúðarfult og kærkomið brjef. Það var slæmt að yður mislíkaði, að jeg setti kvæði mín í Þjóðólf; jeg hugsaði að þið gætuð tekið þau samt, þar jeg áleit þau nokkurn veginn þess verð að prentast í tvennu lagi, — slíkt mun ekki fátítt, ef kvæði þykja góð. Jeg hjelt líka eins og raun varð á, að Andvari mundi verða of seinn að koma þeim fyrir almennings augu á undan þjóðhátíðinni, en í hennar nafni voru þau gjörð. Eitt er mjer nær að halda og það er, að kvæðin hefðu heldur bætt en skemt fyrir riti ykkar, en veri það nú eins og vill; þetta eru smámunir. — Jeg get ekki verið yður samdóma í því, að vel eða rjett hafi farið, að Andvari kom ekki út fyrri. Allir vonuðu eftir ritinu fyrir hátíðina, og allir yðar sinnar þurftu yðar ráða við. Jeg fyrir mitt leyti: mig sárlangaði að heyra yðar tillögur, sem oftast og ítarlegast, en hef ekki heyrt annað frá yður um st(jórnar)skrána en það, sem þjer rituðuð út af grein G. Br., — en hreinskilnislega sagt, þykir mjer það ekki nóg, þar við erum af vana svo heimtufrekir við yður og vonumst ætíð eftir miklu — einhverju betra en frá öðrum. Þetta kemur nú eflaust í yðar upphafsgrein í Andvara.

Jeg hefi heyrt þegar fleygt, að Björn Jónsson og einhverjir með honum ætli sjer að bæta upp minn politiskvolaða Þjóðólf með því að styðja hann (eða steypa hon-

um) með nýju, bráðfjörugu blaði. Guð gefi þeim lukku, landi og lýð til gagns, ef þeir byrja það. Sem stendur er mín meining, að skifta mjer ekki meir af deilunni, en jeg álít skyldu mína, og það litla fremur sefandi en æsandi hugi manna. Jeg hefi skoðanir fyrir mig, sem stúdentar vorir ekki fallast á að öllu leyti — jeg er náttúrlega ekki pólitískari en stúdentar, en þó hygg jeg að mínar meiningar um suma hluti eigi framtíð og heyri sannleikanum til. Jeg tala nú reyndar í þoku; jeg meina hjer um bil þetta: jeg vil reyna að efla frið og samlyndi hjer innanlands, eins og lífsskilyrði þess, að kraftarnir þokist saman til framkvæmdanna; vjer erum stirð þjóð og tortrygg, ömurlynd og ekki vel hreinskilin; eðli og landshættir, kjör, vani og kringumstæður draga oss hvern frá öðrum; móti þessum voða vil jeg setja vissan conservatívismi, nefnilega þennan: að draga niður dramb manna og gorgeir, þar sem hann ætlar upp, reyna að innræta mönnum hóf og drengskap og pietet etc. etc. Animositet eða rýg við Dani vil jeg ekki heyra, það tilheyrir liðinni tíð, heldur ekki er mjer um að prjedika um fjarskalegt dálæti við Noreg: hver er eftir eðli sínu sjálfum sjer næstur, og hver verður að hjálpa sjálfum sjer; enginn er annars bróðir í leik. En þetta vitið þjer alt síðan löngu áður en jeg fæddist. Sat de hoc.

Mikið gengur á og meira stendur þó til. Bara við »með kvarnirnar« ekki verðum að steindröngum af öllum þessum fádæmum. Hátíð vor Víkverja á að haldast á Öskuhlíð(!). Haldi Juppiter »tárunum inni«, er vel, en gráti hann yfir borginni, verður grátleg vor dýrð á Öskjuhlíð. — Menn hafa verið að gnauða við mig um minni, þ. á. m. 2 kongsminni. Í því, sem jeg læt syngja fyrir H. M. — ef til kemur — á Þingvelli, stendur þessi vísa:

»Landsfaðir, stíg vort Lögberg á,  
Og lít svo yfir Drottins verkin!  
Hvar sástú fegri frelsis merkin:  
Eldsteyptu virkin, vötnin blá!

Hjer gjörðust vorar hetjusögur,
Hjer viknar sjerhver Íslands mögur:
Altari þetta gjörði Guð!«

Kveðja til kongs við landgang hans tilvonandi hjer í Vík — verður þar á móti ljeleg, jeg hafði ekki andann án mælis, en Steingrímur er fyrir norðan, svo hann kemst undan.

Samlyndi manna hjer innanlands er betra en í fyrra, en samheldnin söm: hátíðin haldin í pörtum. Af Ísafirði fæ jeg ekki fá brjef (eða þaðan úr fjörðum). Þar var sýslufundur haldinn, en fáir mættu, og ekkert varð að verki; enginn sendur á Þingvöll, en nokkrir koma líklega samt. Þar vestra vantar ekki hráan kraft, en mentun vantar alveg: enginn skóli; engir sjóðir; engin fjelög; engin söfn; fáir klerkar; mikill þorskur, lýsi, heimska og sjerviska og — drengskapur, örlyndi, manndáð og gáfur. Guð hjálpi Eyrinni, með öllum hennar krafti, en með engan mentandi, stjórnandi anda! Þar er sauðarhöfuð πρεσβυτηρ, sem altaf er að skoða sig í spegli fyrir altarinu, en sjer þó til eilífðar hinn sama afgamla Adam síns egin jegs. Jeg veit engan mann hafa sama kæk.

Á Ísafirði þarf að setjast fyrst hjer á landi real-skóli og prentsmiðja (auk barna- og unglingaskóla og sjómannaskóla) og skal jeg glamra um það og fleira, eftir hátíðina, ef Drottinn sparar mitt líf. Gufuskipsferðamálið fær víða fjörugar undirtektir, en mikið þarf hjer til. Það er conditio sine qua non. Upp með vegi og samgöngur, — þangað til alt forgefins.

Með virðingu og innilegri ástsemd

yðar heiðrandi vinur og ættbróðir,

*Matthías Jochumsson.*

2.

Reykjavík, 28. október 1874.

Háttvirti, elskulegi vin!

Fyrirgefið gleymsku mína, jeg sendi yður ekki línu síðast; jeg er líka þetta nálægt því hringlandi í hvert skifti, sem póstar fara. Okkur var fremur farið að leið-

ast eftir Veiðigyðjunni[1]) okkar, enda þjóta póstar allir strax um hæl, og því hlýt jeg annaðhvort að duga eða drepast til að koma mínum 5 ex. af Þjóðólfum út til allra þjóða. Jeg hef ráðist í að stækka Þjóðólf, því þótt sumum þyki drengurinn fölur á skjanna, þá hafa þó kaupendur heldur fjölgað síðan jeg byrjaði. Hingað til hef jeg að mestu þagað um pólitík, og enn mun jeg gjöra það að mestu, þar Ísafold ung og smá er miklu meira interesseruð. Mín stefna — ef hún er nokkur — er sættandi og samþýðandi. Jeg veit vel að ekki stoðar að segja: Gef frið um vora daga; — nei, »Lifet er en strid från början«; og víst er stríð fyrir höndum, ekki einungis um endilega, alfrjálsa yfirstjórn, heldur og um þá »innri« eða »undir« stjórn, neðan frá og upp eftir, en svo kalla jeg þjóðlíf okkar í prakisku tilliti yfir höfuð. Við eigum stríð fyrir höndum, höfum óvígan her við að etja, eins og þjer best vitið, en fátt lið og vanbúið mjög í fylking að skipa. Er oss því sá eini kostur bestur, að tvískifta ekki styrkinum, heldur allir halda hóp, hvað sem á dynur. Þessir helv. flokkadrættir (meiri og minni hluti), þeir duga ekki nema í lífsnauðsyn. Jeg skoða þá flokka eins og liggjandi niðri, uns þing er sett að nýju, og hinar nýju þingöldur taka að rísa í stað hinna fornu. Stríð má til að vera, opposition má til að vera svo lengi sem vjer lútum Dönum, en oppositionin verður að vera praktisk, svarandi til situationarinnar og tímanna. Nú er mín meining að hæna að oss opinionina alstaðar, en einkum í Danmörku, já, látast slaka til meðan þjóðakraftarnir, sem hafa *sannarlega* oftekið sig sem stendur, eru að hvílast, — nóg er til að hugsa um. Jeg fæ brjef úr öllum áttum, sem einmitt eru stíluð í þessa stefnu. Það er ekki mín meining að hætta við vorar ýtrustu kröfur, — nei, nei, nei! Suum cuique! Mín meining er að vekja lýðsins áhuga og energi núna fyrst eða helst að praktiskum framförum, því það er guðlaust athæfi altaf að standa og þrefa,

[1]) Hjer er átt við póstskipið „Díönu".

en gjöra ekkert, geta ekkert, vilja ekkert — nema að heita og heitast og efna hvorugt. Jeg er dauðþreyttur á gorgeirnum í Norðlendingum, — sem fyrst vilja vera »ríki «og fara svo til Ameríku — á húsganginn. Á Norðurlandi getur ekki heitið að til sje ein einasta opinber stofnun, nema þessi prentsmiðju-malikvörn hans Björns karls. Jeg hef skrifað þeim helstu þar nyðra fult svo skorinort sem þetta, og hvatt þá til að gjöra heldur eitthvað sjer til gagns, en að vera að æsa og ærslast — og fara af landi burt. Þetta er skandale. Jeg hef sagt þeim að heimta real-skóla á Akureyri og biskup á Hólum etc., þar er dálítið að g j ö r a. Tryggvi sýnist mjer vera þar sá eini þjóðlegi maður, sem bæði er óbrjálaður og besti drengur. Jú, góðir drengir erum við allir.

Nei, nei, nei, nú eigum við, — nú h l j ó t u m við allir að starfa í einingu, — annars gengur hjer ekkert — það skuluð þjer sjá. Sem ritstjóramynd skal jeg reyna að draga menn saman, en í sjerstakan flokk fer jeg þá fyrst, þegar jeg sje að til skarar skal skríða. En þótt mjer líkaði mjög illa við hvorntveggja flokkana á Þingvallafundi og þingi í fyrra, við þann minni sökum hans gamla slóða- og peisuskapar, sem jeg hatast við, og við þann meiri sakir óskynsemi og bernskulegs gauragangs, sem eins og jeg sagði fyrir, kafnaði í sjálfu þinginu, — þá hef jeg ekki enn tekið í blað mitt nokkra grein, sem annanhvorn flokkinn mátti meiða, — ekki fyrir ragmensku sakir, heldur af því að jeg var ekki maður til að svo stöddu að greiða situationina; tíminn til næsta þings gjörir það best — og Andvari, sem við förum nú að lesa. Þjóðvinafjelagið þarf enn að steypa upp og á allar lundir að hvetja. Það sýnist enn að vanta eindregið pósitívt takmark og lífsefni — eða svo segja þeir.

Fyrirgefið nú þetta einarða, en hreinskilna rugl.

Yðar með elsku og eindreginni

virðingu skb. vini

*Matth. Jochumssyni.*

---

Útilegumennirnir, fyrsta rit sjera Matthíasar, voru prentaðir 1864. Hann var þá á prestaskólanum og vitanlega eigi þess umkominn, að kosta útgáfuna sjálfur. Mörgum mun þykja fróðlegt og skemtilegt að vita, að það var Jón sýslumaður Thoroddsen, sem hljóp undir bagga með honum, svo að hann gat komið bókinni á prent. Þess vegna er hjer birt skjal það, er á eftir fer:

Móti veði því, sem sýslumaður herra J. Thoroddsen á Leirá hefur fyrir mína hönd í dag sett prentsmiðju Íslands, eða forstöðumanni hennar, herra Einari Þórðarsyni, fyrir prentunarkostnaði leikritsins »Útilegumennirnir«, skuldbind eg mig hér með til og lofa velnefndum herra J. Thoroddsen að veðsetja honum til næstu fardaga 1865, 200 (tvö hundruð) exemplör í nefndu leikriti »Útilegumennirnir«, prentuðu og innfestu í kápu, og skulu geymd á þeim stað, sem hann sjálfur vill og tilsegir, og sem skulu verða hans lögmæt eign, ef eg innan áðurnefnds tíma skyldi falla frá, eða verða gjaldþrota við prentsmiðjuna, svo hins áðurnefnda veðs yrði krafizt.

Til staðfestu mitt nafn.

Reykjavík, 3. Maímán. 1864.

*Matthías Jochumsson.*

Viðstaddir vottar:
E(inar) Þórðarson.
T(orfi) Þorgrímsson.

---

# Lærði skólinn.

---

Haustið 1904 varð það til nýlundu á landi hér, að skipulagi Latínuskólans var gerbreytt. Meginstoðunum var svift undan hinum gamla skóla, er grískunni var með öllu bolað á burt og af latínunni dregið til óbóta. Var lærði skólinn þar með hruninn, þó að húsið standi enn, og steypt af stóli þeim fræðigreinum, er tilkomumestar voru og mótað höfðu mennina, sem öldum saman voru forvígismenn þjóðarinnar. Það hefði eiginlega ekki átt að vera neitt gáleysisverk, að rífa niður þann grundvöll, sem um langan aldur hafði verið bygt á og af flestum talinn það bjarg, sem reist yrði á nokkurn veginn staðgóð uppfræðsla ungra manna, er síðar meir ættu sjálfir að bera blys fyrir þjóð sinni og verða andlegir leiðtogar hennar. Hér var um grundvöll að ræða, sem öllum var vel kunnur — og menn þektu sannarlega ekki annan betra. Þó var gengið með harðfylgi að þessari nýbreytni, sem að ofan getur, og neðri hluti skólans gerður að svo kallaðri »gagnfræðadeild«. Átti nú svo sem að fullnægja »kröfum« hinnar nýju aldar og gera skólafræðsluna alþýðlegri og nytsamari en áður var, enda óspart otað í fólkið, að forntungurnar væru steingervingar, lamandi, en ekki lífgandi öfl, er rýma skyldu nú fyrir öðru þarfara — einhverju sjálfsagt, sem látið yrði í askana. Og þetta »þarfasta þing«, sem átti að veita nemöndunum allan andlegan þroska, og sérstaklega móta málfræðina í hugum þeirra, var enskan fyrst og fremst. Hana skyldi nú taka upp til kenslu í öllum bekkjum skólans, munnlega og skriflega, með rígbundnum þululærdómi

(endursögnum) og öðru útflúri. Þar þóttust menn hafa fundið þá fræðigrein, er í senn gæti fullnægt vísindunum og viðskiftalífi manna. Má hið síðara reyndar til sanns vegar færa, að í almennum viðskiftum milli ókunnra þjóða sé hagkvæmt að geta fleytt sér í ensku, munnlega og skriflega, því að hún þekkist víða og kann að vera auðlærð til slíkra hluta. En hitt er fáránleg bábilja, sem ilt er að þurfa að eigna nokkrum lærðum manni, að þvílík tunga, sem er eins konar ruslakista annara tungumála og er svo óreglubundin í alla staði, bæði í formi og framburði, sem framast má, — að hún geti verið til þess fallin, að skerpa skilning nemandans og gefa honum rækilega þekkingu í almennri málfræði. Um það ætti ekki að þurfa langrar rökfærslu, enda var þetta viðurkent af þeim manni, er mest og bezt fékst við þetta vandasama verk í skólanum og var frábærlega góður kennari. Og hans vitnisburður hlaut að verða þungur á metunum, jafnmikla alúð og hann hafði lagt við það starf.

Upp úr aldamótunum síðustu komst að nýtt ráðuneyti í Danmörku, er kendi sig við »Vinstrimenn«. Þar varð kenslumálaráðherra I. C. Christensen, sá er síðar gerðist stjórnarforseti og varð kunnur maður. Var hann barnakennari, er eigi hafði gengið hina svonefndu mentabraut, í strangasta skilningi; var ekki stúdent eða »lærður« maður, sem kallað hefir verið. Sýndi það sig brátt, að hann vildi brúa það djúp, sem staðfest var milli lærðra manna og ólærðra, en til þess þurfti eðlilega að jafna helztu torfærurnar á þeirri leið, svo að sem flestir gætu stiklað einstigið. Var þá hendi næst að losa um latínuna og grískuna, því að þar var aðallega fólginn munurinn á lærðum mönnum og ólærðum. Snerust ýmsir mentamenn til fylgis við Christensen, og er ekki að orðlengja það, að stórlega var gengið á þessar fræðigreinar og lýðmentunarsnið færðist yfir lærðu mennina — munurinn var að hverfa. Líkar breytingar urðu og um sama leyti víðar í álfunni, og mun mega telja þessa undiröldu til afsökunar því, sem hjer var gert.

Nú skall breytingin á (þ. 9. september 1904) eins og skúr úr heiðskíru lofti, og virtist ekkert vera þar til fyrirstöðu, sem varnar hefði mátt vænta, því að svo óheppilega vildi til, að sá maður, sem einkum bar forntungurnar fyrir brjósti í skólanum og var rektor hans, Dr. Björn M. Ólsen, treystist ekki lengur til að gegna skólastjórastarfinu, er um þær mundir var hið vandasamasta, enda orðinn mjög bilaður á heilsu þau árin. Hefði honum tæpast komið til hugar að sætta sig við þessa nýbreytni, og svo handgenginn sem hann var hinni nýju landsstjórn, mátti honum vera það í lófa lagið að afstýra þessu, ef hann hefði annars enst til að standa í þeirri stöðu. Er heldur ekki líklegt, að sú stjórn hefði séð þar betur með annara augum en einmitt hans. Alt gerðist þetta því nokkurn veginn hljóðalaust, og úr skólanum heyrðust hvorki stunur né hósti — nema hvað næsti rektor kvað hafa getið þess við skólauppsögn 30. júní það Herrans ár 1909, að þetta væri í síðasta sinn, sem hann útskrifaði »lærða« stúdenta. Svo mörg voru þau orð.

Nú hefir þessari tilhögun verið fylgt í full 16 ár að nokkuru leyti og 11 ár að öllu leyti; má það heita nokkur reynslutími, enda æskilegast að afleiðingarnar fengju að sýna sig, úr því sem komið var. Fylgismönnum þessa fyrirkomulags þykir tíminn auðvitað sízt of langur, en andstæðingarnir hafa líka látið sér lynda, að einmitt tíminn leiddi það í ljós, sem forvígismönnunum skildist ekki upphaflega. Og afleiðingarnar hafa talað hátt og greinilega. Í fyrsta lagi heyrast eilífar umkvartanir frá háskólunum, erlendum og hérlendum, er allar hníga að því, að stúdentamentunin sé mun lakari en áður, aðallegast lausalopalegri, og að þekkingarskorturinn í forntungunum sé tilfinnanlegur og reyndar svo, að ekki sé við unandi. Hafa þar ýmsir mætir menn í þeim hóp og utan hans nú horfið frá villu síns vegar, og afdrattarlaust kannast við glapræðið, sem gert var, og þeir ýmist létu ótalið eða jafnvel mæltu bót í fyrstu. En andstæðing-

arnir hafa eðlilega sannfærst æ betur um sinn málstað, eftir því sem lengra er komið þessu tilraunafálmi, — því að annað er það vitanlega ekki. Má þar að vísu segja, að flestöll nýbreytni sé að eins fálm, og geti þó blessast og orðið til bóta, en reynslan virðist ekki hafa staðfest það í þessu máli, að neinar endurbætur hafi af því flotið, sízt nægar til þess, að svo búið megi standa öllu lengur. Í öðru lagi er það ávöxtur nýbreytni þessarar, að aðsókn er orðin nær gegndarlaus að skólanum, ekki að eins »gagnfræðadeildinni«, heldur einnig lærdómsdeild. Það þykir sem sé ekki hlýða að hætta þar á miðri leið, sem deildirnar mætast, að afloknu gagnfræðaprófi, með því að þær eru báðar undir sama þaki og af almenningi taldar einn og sami skóli. Af þessum misskilningi stafar eflaust að miklu leyti sá hinn mikli ofvöxtur, sem kominn er í stúdentahópinn. Hitt er skiljanlegt, að aðstreymi sé mikið í neðri deildina, þar sem hún má teljast beint framhald barnaskólanna; fólk vill auðvitað hagnýta sér þá unglingamentun, sem á þennan hátt fæst svo notalega ofan á barnafræðsluna — og fólk hefir hér í bæ yfirleitt ekki annað þarfara við börn sín að gera á því reki. — Reyndar eru nú komnir hér ýmsir sérskólar handa unglingum, svo sem verzlunarskóli og aðrir slíkir, en þeir fullnægja ekki þörfinni á »almennri« mentun, sem svo er nefnd. Er nú svo komið, að skólinn fer að standa uppi ráðalaus, sakir rúmleysis. Nú eru 9 deildir (bekkir) í skólanum, þ. e. 6 bekkir og helmingnum tvískift, en 10 gætu þær rúmast þar flestar; auk þess eru um 30 nemendur í sumum deildunum, og má slíkt heita frágangssök, bæði vegna heilsu og árangurs af kenslunni. Á næsta ári gætu ekki orðið færri en 12 deildir, eftir ástandinu nú, og er þá orðið tveimur of margt. En á svo sem 5—10 næstu árunum hlyti nemendafjöldinn eftir fenginni reynslu og eðlilegu útliti að vera orðinn svo mikill, að skólinn yrði að vísa frá alt að þriðjungi þeirra, er fullnægðu inntökuskilyrðunum, og er ástandið þá orðið verulega ískyggilegt. Eru nú í skólanum um 160 nemendur. Bein og óhjá-

kvæmileg afleiðing af framhaldi þessa skipulags, sem nú er, er þá sú, að nýtt skólahús verður að reisa nú þegar til viðbótar því, sem er, eða vísa rektor burt úr skólanum og taka íbúð hans til bráðabirgða fyrir kenslustofur. Og mundi það þó ná skamt, þegar fram í sækti, því að auk þessa, sem nú hefir verið getið, þarfnast eðlisfræðiskenslan i hinni nýstofnuðu stærðfræðisdeild skólans mikils húsrúms til viðbótar þeim stofum, er hún hefir nú. Mætti þá alveg eins reisa hér í bæ nýtt skólahús, gagnfræðaskóla — eða hvað menn nú vilja nefna það, að öllu leyti laust við lærða skólann, því að annaðhvort er að gera: stækka skólann um helming, ef í sama horfi á að halda honum, eða koma upp alveg sérstöku húsi handa »gagnfræðingum«, ef aðskilnaður yrði aftur. Væri það líklegasta leiðin, og um byggingarkostnaðinn yrðu víst nokkur áhöld, hvor stefnan sem tekin yrði.

---

Um mentunargildi forntungnanna (latínu og grísku) hefir annars nokkuð verið deilt. Sumir hafa haldið því fram, að þær væru flestum öðrum tungum betur fallnar til þess að temja gáfur ungra manna, en aðrir hafa vefengt það og talið þar fram enn aðrar fræðigreinar. Um þetta má lengi þrátta og það verður jafnan nokkurt álitamál. Þar otar hver sínu fram. Aðalatriðið er auðvitað, að menn leggi stund á þær einar námsgreinar, sem hverjum falla bezt, að svo miklu leyti sem því verður við komið. Allar hafa þær eitthvað til síns ágætis, og verður það þá helzt k e n s l a n annars vegar og u p p l a g og á h u g i hins vegar, sem skapar árangurinn. Einn maður mentast t. d. af latínu og ekki stærðfræði, annar af stærðfræði og ekki latínu, þótt hvor um sig leggi stund á báðar þessar fræðigreinar. En fæstir svo úr garði gerðir, að þeir geti kingt öllu, sem í þá er látið — og því síður melt það. Það er mín skoðun og föst sannfæring, bygð á mínu eigin námi og litlu kennarareynslu, að almennar og hverjum mentuðum manni bráðnauðsynlegar málfræðis-

hugmyndir sé ekki unt að læra af neinu öðru tungumáli betur en einmitt latínu og íslenzku, eða með öðrum orðum: með því að kenna latínu á íslenzku. Eg þekki að minsta kosti ekkert betra áhald til þess. En af íslenzkukenslunni einni höfum við sjálfir ekki það gagn, sem skyldi; móðurmálið er okkur of nákomið og okkur hættir ósjálfrátt við að skjóta þar við skolleyrunum, sem hlusta ætti, eða þykjast upp úr þeirri bóndabeygju vaxnir. Að hinu tel eg óþarft að leiða frekari rök, en þegar hefir verið gert af mörgum mætum mönnum, hversu nauðsynleg þekking og kunnátta í forntungunum sé flestum þeim, er mentaveginn ganga; einkanlega þó latínu. Um það hefir svo mörgum borið saman, innan lands og utan, enda næsta undarlegt, að efast um jafn augljósan hlut. Verður varla um neina vísindamensku að ræða, ef ekki er bærileg latínukunnátta; má þar meðal annars nefna sagnavísindi, að sjálfum tungumálavísindunum auðvitað ógleymdum. Sé það hins vegar rétt, sem einhver kvað hafa haldið fram, að sú eiginlega mentun sé það, sem eftir verði, þegar fyrnast tekur yfir lærdómsforðann — þá hafa latína og gríska áreiðanlega ekki verið kendar til ónýtis, þó að eitthvað gleymist og fyrnist eftir á. Og léttvæg sönnun er það og harla fánýt, að vankunnátta manna alment í þessum fræðigreinum, á meðan þær voru í heiðri hafðar, hljóti að færa mönnum heim sanninn um það, hversu gagnslítið það sé, að verja jafnmiklum tíma til þeirra og gert var áður. Fyrst og fremst er það alveg rangt að gera lítið úr kunnáttu eldri stúdenta í forntungunum, þó að nokkuð hafi hún verið farin að sljóvgast upp á síðkastið; og áður fyr voru margir ágætlega lærðir í þeim greinum, — svo lærðir meira að segja, að þeim varð ekki meira fyrir að yrkja á latínu en íslenzku, og eru sum kvæðin gersemar að efni og formi. Í annan stað mætti spyrja: Er það fræðigreinunum sjálfum að kenna, þótt farið sé í kring um námið eins og »köttur kringum heitt soð« — að jafnvel sá skásti í bekknum stærir sig af því að hafa lært þýðingar eins og þulu og

»gengið upp á versio«, sem kallað var? Nei, vissulega ekki! Það er nemandanum sjálfum að kenna, eða kennaranum, eða líklega helzt hvorumtveggja. Þessu taki mætti taka allar fræðigreinar — og er víst ósleitilega gert nú í hinum »nýja sið«. Svo má sem sé níða sem prýða, og vopnið getur í sjálfu sér verið biturt og gott, þó að það sje látið ryðga og sljóvgast fyrir handvömm þeirra, sem með eiga að fara.

En það voru aðrar aðfinslur og veigameiri á gamla skólanum, þær sem sé, að hann greindist ekki í tvent, er ofar dró (í 4. eða 5. bekk). Það liggur í augum uppi, að hverjum á að fá það verk, er honum lætur bezt að vinna, jafnskjótt sem nægur undirbúningur og reynsla hafa leitt það í ljós. Kraftarnir eru misjafnir og margvíslegir, svo að viðfangsefnið getur ekki að eilífu verið eitt og hið sama. Og eins og áður var drepið á, getur einn þroskast af því, sem annar þjakast af. Þess vegna mælti öll sanngirni með því, að greina skólann í tvent, þegar upp í 4. eða 5. bekk var komið: í málfræðisdeild o. fl. annars vegar, en stærðfræðisdeild (og náttúrufr.) hins vegar. Var þá nokkurn veginn sýnt um flesta nemendur, hvað bezt var við þeirra hæfi; þeir sjálfir búnir að átta sig nokkuð á því, hvora stefnuna skyldi taka — eða myndu fljótt hafa komist upp á það. Og kennarar þá líka búnir að kanna kosti og bresti nemandanna til lærdómsins. Það var auðvitað til ills eins, að pína alla undir oki latínunnar og grískunnar, þegar svo langt var komið og fullséð, að sumum var þess með öllu varnað að læra nokkuð sér til nytja í þeim greinum, en gátu, ef til vill, reynst nýtir á öðrum sviðum. Og alveg sama máli var að gegna um stærðfræðina. Það vildi að minsta kosti oft skifta í tvö horn um kunnáttu manna í latínu og grísku annars vegar og svo stærðfræði hins vegar. Væri mönnum alls varnað í þeim greinum, voru þeir auðvitað óalandi og óferjandi; en það var heldur fátítt.

Hefir nú verið sýnt nokkuð fram á mismuninn á gamla

skólanum og þeim »nýja«, og bent á ýmislegt, er þeim megi leggja til lofs eða lýta. En ályktun mín er sú, að hjer í landi verði að vera einn heilsteyptur latínuskóli eða lærður skóli með latínukenslu og grísku, enda gæti naumast verið um lærðan skóla að ræða, þar sem engin gríska væri. Þeim skóla mætti enginn »gagnfræðadilkur« fylgja og hann yrði að vera sjálfum sjer samkvæmur frá upphafi til enda. Hann ætti að vera í því horfi, að þangað sæktust úrvalsnemendur einir, en ekki hver sá, sem einhvern veginn þarf að eyða tímanum og öðlast eitthvert upplýsingarhrafl, sem víðar mætti fá. Er ekki með þessu verið að amast við almennri uppfræðslu landsmanna, en þennan skóla má engan veginn gera að »almenningi«; hann verður að ganga vitandi vits að sínu verki, sem aðallega ætti að vera í því fólgið, að búa nemendur sína undir háskólanám og á þann veg gera þá hæfa til að taka að sér það embætti eða þá stöðu, er þeir sjálfir kjósa sér í lífinu og þjóðfjelagið kynni að bjóða þeim. Hitt er hégómahjal, sem margur ber á vörunum, að æskilegt væri, að sem flestir yrðu stúdentar. Að ætla sér að »fara og gera alla« að stúdentum, væri nokkurn veginn sama og enginn yrði það. Meiri hluti þeirra mörgu, ef um slíkt gæti verið að ræða í alvöru. yrði alls óhæfur til þeirra verka, er fyrir honum hlytu að liggja, og ærlegri vinnu yrði ekki sint fyrir mentamori. Nei — einn lærðan skóla verður landið að eiga; og það ætti líka að duga, ef hlutverk hans er rjett skoðað. Það er að vísu skiljanlegt metnaðarmál Norðlendinga, að vilja koma upp lærðum skóla á Akureyri, en það er heldur ekki annað. Nú sem stendur er það með öllu ótímabært mál; þörfin alls engin, því að fyrst og fremst hlýtur að vera langt þangað til að þörf verður á fleiri stúdentum hér á landi en einn skóli, sem er í rjettu horfi, getur útskrifað árlega; og svo myndi Austfirðingum og Vestfirðingum ekki hægara að sækja slíkan skóla á Akureyri en í Reykjavík, svo að það yrðu þá aðeins nokkur þægindi fyrir Norðlendingafjórðung í

þrengsta skilningi. Það er ekki fyrirsjáanlegt í svipinn, að slíkra skóla verði þörf í fjórðungi hverjum á næstu áratugum. Er þá eðlilegast að gera þann e i n a svo úr garði, að vanzalaust sé. Auk þessa yrði lengi vel tilfinnanlegur skortur á hæfum kennurum, ef um fleiri en einn lærðan skóla væri að ræða; má ekki tæpara standa nú, ef vel á að vera.

Um skipulag skólans yrði þá helzt að segja, að hann myndi að mestu komast í það horf, sem hann var í til forna, með þeirri sjálfsögðu breytingu, er af tvískiftingu efstu bekkjanna leiddi, og nú er reyndar nýbyrjað á (í fyrra). Latína og gríska yrði þá ekki í stærðfræðisdeild og stærðfræði ekki í málfræðisdeild. Latínu ætti að kenna í öllum neðri bekkjum skólans, og gegn um alla málfræðisdeild, með stílum á latínu og þýðingum (explicanda) úr latínu. En gríska yrði aðeins kend í sjálfri málfræðisdeildinni (5.—6. bekk) Hitt virðist ekki árennilegt, að krefjast latínukunnáttu til inntökuprófs 1. bekkjar. Er það hvorttveggja, að nú er og verður lengi hörgull á hæfum latínukennurum utan skólans, og svo mun skólinn telja það æskilegast, að þ a r nemi unglingarnir frumatriði latneskrar málfræði. Er, sem kunnugt er, öldin önnur nú, en áður var, þegar heimakensla í höndum góðra manna var svo frábærlega góð (í latínu), að þar var í rauninni oft og tíðum litlu við að bæta í skólanum eftir á. Munu þó nokkur dæmi þess. Dönsku og ensku ætti að eins að kenna í neðri bekkjunum, upp að skiftingunni, og dönsku auk þess lítils háttar til inntökuprófs (1. bekkjar). Þýzku og frakknesku yrði að kenna að minsta kosti jafnmikið og nú er gert, og þó reyndar öllu meira í frakknesku, sem nú er aðeins 2 vetur (í 5. og 6. bekk), samtals 8 stundir á viku[1]) Heimilt ætti að vera að ganga upp í hvaða bekk sem er fyrir tvískiftinguna, en að minsta kosti verður að ljúka ársprófi þess bekkjar, sem síðastur er sameiginlegur (3 eða 4.), áður en til stúdentsprófs kemur.

1) Um aðrar greinir er hér ekki talað.

Um fyrirkomulag skólans að öðru leyti er margt til athugunar, og verður ekki nákvæmlega farið út í það hér. Þó liggur eitt atriði svo nærri, að drepa verður á það. Það eru heimavistirnar. Þær voru áður fyr í skólanum og hafa fengið misjafna dóma. Það er fyrst og fremst mikið húsrúm, sem til þeirra þarf og jafnan hefir þótt vandhæfi nokkurt á um þrifnað og reglu í svo mannmörgum unglingahóp. Var heimavistunum einatt kent um ýmsa kvilla, er bryddi á í skólanum áður. Og auðvitað má þar margt til sanns vegar færa. En hitt er þó víst, að mikið vantar í skólalífið, ef þær eru ekki og eflaust hefir samheldni og félagsskap meðal skólapilta hnignað mjög, eftir að heimavistir hurfu úr skólanum Kemur þar að vísu fleira til greina, t. d. það, hversu miklu minni hluti skólapiltar eru nú af bæjarmönnum en fyrir svo sem 20 árum, svo að ekki sé lengra farið aftur í tímann, enda gætir þeirra orðið heldur lítið í þeim urmul. Annað atriði er hér og mikilsvert, en það er húsnæðiseklan í bænum. Hún er svo tilfinnanleg sem allir vita og má það heita neyðaraðbúnaður, sem margt námsfólk verður að sæta, og þó með afarkostum. Þetta er orðið svo ískyggilegt, að skólinn verður að gera eitthvað meira en að fræða þá, sem með herkjubrögðum geta holað sér einhverstaðar niður sjálfir. Má í þessu sambandi geta þess, að margir stunda gagnfræðanám á Akureyri fremur en hér í Reykjavík meðal annars einmitt vegna þess, hve erfitt er að koma sér hér fyrir. Úr þessu yrði því að bæta sem fyrst, ef sambandið slitnaði milli gagnfræðaskólanna (Reykjavíkur og Akureyrar) og lærdómsdeildar (Mentaskólans). Þá mætti þessi annmarki ekki vera til fyrirstöðu, — því að auðvitað eru Reykvíkingar einir ekki til þess kjörnir að leggja landinu til nýta og mentaða embættismenn; gæti bragurinn orðið bágur, ef þeir væru þar einir um hituna, jafnvel þó að mikið mannval hafi nú safnast hér fyrir úr sveitunum. Þarf að sjálfsögðu að vera svo í garðinn búið, að efnismönnum hvaðanæva af landinu gefist kostur á að sækja skólann, meðal annars með ríflegum

styrkveitingum þeim til handa, er þess eru maklegir. Og til þess að tryggja sér nægilegt eftirlit með heilsufari námsfólksins, ekki sízt ef til heimavistanna kæmi, yrði skólinn að hafa ötulan lækni, sem hefði slíkt eftirlit að aðalstarfi sínu og yrði því að hafa sæmileg laun. Hann ætti að koma í veg fyrir skrópa nemandanna og veita þeim góða læknishjálp og leiðbeiningar. Er þetta hvorttveggja svo mikils vert, að ekki er horfandi í ómakslaun læknisins.

---

Nú er svo komið, að stjórnarráðið hefir með bréfi dags. 12. marz síðastl. skipað nefnd til þess að íhuga skólamál landsins, í samráði við forstöðumenn skólanna og kennara. Var henni ætlað að leggja fyrir alþingi það, er nú fer í hönd, álit sitt og tillögur um »Mentaskólann«. Nefndarmenn eru þeir háskólakennararnir Guðmundur Finnbogason og Sigurður Sivertsen. Hafa þeir nú látið prenta álit sitt og komist að þeirri niðurstöðu, að »gagnfræðadeildin« eigi þar ekki heima, og að skólinn verði að vera lærður skóli frá upphafi. Ennfremur skuli honum tvískift í 2 efstu bekkjunum (5.—6.) og að latínu skuli kenna þar í 2.—4. bekk og 5.—6. bekk málfræðisdeildar, eða bókmentadeildar, er þeir nefna svo; en stærðfræði vilja þeir láta kenna í öllum skólanum, meira að segja í 5. og 6. bekk máladeildar. Grísku telja þeir ógerning að taka upp aftur í skólanum vegna annars »óhjákvæmilegra«; auk þess sé engin »frágangssök að una við núverandi fyrirkomulag um grískukensluna, sem sé að Háskólinn annist hana sjálfur« (Nefndarálit, bls. 42), og er all-einkennilega að orði komist um grískuna á sömu bls., þar sem talið er æskilegt, »að nemendur lærða skólans gætu kynst þeirri ágætu tungu, . . . sem fæstir hafa lesið sér til gagns að loknu stúdentsprófi. . . .«

Vitanlega er það vandaverk og ekki þakklátt, sem þessi nefnd hefir með höndum, enda mun enginn hafa búist við neinu almættisorði þaðan í þessum efnum. Fyrir

mitt leyti hugsaði eg þó gott til í fyrstu, er nefndin hafði eindregið látið í ljós á fundi með kennurunum, að hún ætlaðist til að skólinn yrði óslitinn lærður skóli, er svo greindist í tvent í 5. og 6. bekk. En samleiðin gat ekki orðið til frambúðar, og fór meira að segja alveg út um þúfur, er það kom upp úr kafinu, að gríska n ætti að þoka fyrir stærðfræði í sjálfri tungumáladeildinni (5.—6. bekk). Fleira var það og, er varð að ágreiningsefni, og mun eg geta þess hér að nokkru. Frakkneska er nú að eins kend 8 stundir á viku samtals í skólanum (5. og 6. bekk) og fór eg fram á, er grískan kom þar ekki lengur til greina, að við frakkneskuna í máladeild væri bætt 4 stundum á viku — auðvitað í stað stærðfræði. En gegn þessu reis dr. Guðmundur Finnbogason öndverður; kvaðst að vísu unna frakkneskunni hugástum og hefði meira að segja ætlað henni eina (heila!) stund vikulega til viðbótar því, sem nú er, en lengra gæti hann þó sannarlega ekki teygt sig — frá stærðfræðinni! Enn taldi hann það til, að með þessu yrði aukakostnaður, því að tilætlunin væri að kenna frakknesku sameiginlega í báðum deildum, og þá auðvitað með jöfnum stundafjölda; enda kom mér aldrei til hugar, að stærðfræði þokaði fyrir nokkurri annari grein í sinni deild. Kom það fyrir ekki, að eg leitaðist við að sýna fram á, að bráðlega myndu deildirnar svo fjölmennar, að ógerningur yrði að slengja þeim saman hvort sem væri. Í vetur voru upphaflega 40 manns í 4. bekk (29+11) en eru nú eftir áramót 35 (25+10); má þá gera ráð fyrir að minsta kosti alt að 30 í 5. bekk næsta vetur, og skil eg ekki, að nokkur kennari vilji fara að hrúga þeim saman að óþörfu í einstökum greinum, úr því að skiftingin annars er komin á. Kennir hér einkennilegrar skammsýni, þrákelkni eða kotungsháttar; og er þá rausnarskapurinn ólíkt meiri, þegar á að leysa alla kennara skólans frá embætti með fullum launum, er þeir hafa náð 65 ára aldri (Álit, bls. 37, gr. 43). Annars er frakkneska ekki einu sinni nefnd á nafn í kensluáætlun tungumálanna (bls.

43—45). Undarlegt má það líka virðast, er guðfræðiskennararnir leggja það til (bls. 55), að kensla í frakknesku sé með öllu lögð niður í skólanum (H. N.), en finna svo ástæðu til að fara fram á, að sænska sé þar kend. Ef þessir velæruverðu herrar ætla ensku eða þýzku að taka ómakið af frakkneskunni — skyldi þá ekki danskan einnig duga fyrir sænskuna? Og auðvitað er það margt annað í áliti þessu, er orka mun tvímæla meðal skólamanna, t. d. ákvæðin um »skyndipróf« (bl. 31, gr. 10—11 og bls. 46—47) og »forpróf« (bls. 34, gr. 29—30 og bls. 50—51). Býst eg við, að mörgum óþroskuðum ungling gæti skjátlast við slíkt forpróf, jafnvel þó að hann væri annars ekki svo »frábærlega illa að sér« (sbr. Álit, bls 49) yfirleitt. Óviðkunnanlegt er það líka og ekki uppörvandi, er segir á bls. 34 í 25. gr. um uppflutning úr bekk: »Nemandi, sem hlotið hefir þriðju einkunn eða meira við árspróf skólans, skal flytjast upp úr bekk, nema hann hafi áður fengið þriðju einkunn við árspróf tvö ár í röð«. Ætli það tæki því annars að vera að láta þann syndasel sitja í bekk, sem hann með þessari fortíð á engan kost á að flytjast upp úr, þó að hann kynni að hljóta ágætiseinkunn við prófið (þriðju einkunn eða meira)? Ekki munu heldur öll nýyrðin i blessaðri stærðfræðinni þeirra svo á hvers manns vörum í bráðina, að ekki hefði verið bagalaust að lofa þeim venjulegu (útlendu) heitum að fljóta með, svona eins og til glöggvunar! Heili (heilareikningur!)[1]), hnitafræði, óræður o. s. frv. koma þar eins og skollinn úr sauðarleggnum.

Aðalgallinn á tilhögun þeirri, er nefndin vill koma á, er að minni hyggju fólginn í því tvennu, er ræðir um grískuna og stærðfræðina. Get eg með engu móti sætt mig við hana í þessu gervi. Það liggur í augum uppi, að jafnsanngjarnt er að sleppa stærðfræði i máladeild eins og latínu (og grísku) i hinni, enda þori eg að fullyrða, að

[1]) Og væntanlega heilabrot(!)

þessi skoðun háttvirtra nefndarmanna er gagnstæð eðli og anda tvískiftingarinnar, eins og hún er réttilega skoðuð. Og það hefir áreiðanlega ekki vakað fyrir þeim, er þessu atriði hafa áður hreift í einlægni og alvöru, að svona skyldi til hagað. Eðlilegast væri því, að gríska yrði einmitt kend í málfræðisdeild, meðal annars í stað stærðfræði, er ekki á þar heima. Og virðist grískan satt að segja vera þar eins vel sett og í Háskólanum, á þessu stigi málsins, þar sem að eins er um frumatriði að ræða. Ætti lærði skólinn einmitt að veita þar almenna undirstöðu, er guðfræðisprófessorunum sjálfum væri ekki ofætlun að byggja ofan á, er þangað kæmi. Þyrfti þá heldur ekki að hafa til þessa sérstakan háskólakennara, á meðan ekki er um meira að ræða. Háttvirtri nefnd hefir ekki þótt taka því að geta að neinu afstöðu sjálfra kennaranna til grískunámsins í skólanum, eins og hún kom skýrt fram á einum fundinum, er allir fastir kennarar skólans (10) sóttu. Tel eg þó maklegt að tilgreina það hér. Eftir nokkurar umræður bar eg undir atkvæði kennaranna tillögu um, að gríska yrði kend í 5. og 6. bekk máladeildar, en sú tillaga var feld með 6 atkvæðum gegn 4. Auk mín greiddu tillögunni atkvæði Þorleifur H. Bjarnason, Sigurður Thoroddsen og Bogi Ólafsson. Nú mun þó svo komið, að jafnmargir standi þar hvoru megin (5 : 5). Til vara lagði eg til, að frakkneska yrði í sömu deild aukin um 4 stundir á viku með tíma þeim, er stærðfræðinni væru þar ætlaðar. Var þá samþykt breytingartillaga sú frá Sigurði Thoroddsen, er getur um á bls. 43 í Álitinu; var hún á þá leið, að taka 3 stundir frá stærðfræðinni í máladeild og bæta þeim við frakkneskuna þar — og kveðst nefndin ekki vilja hlíta þeim úrslitum. Í annan stað ætti það að duga öðrum en gallhörðum stærðfræðingum, að nema stærðfræði í 5 vetur, þ. e. í 1.—4. bekk skólans, og auk þess svo sem einn vetur undir skóla. En minna má nú ekki gagn gera, að dómi nefndarinnar, en að allir stúdentar læri hana í 6—7 vetur, til þess að »gera nemendur læsa á nútíðar-

vísindi«, eins og komist er svo kringilega að orði í nefndarálitinu (bls. 41). Má það furðu gegna, hversu mikið kappsmál nefndinni virðist vera að koma þessari »formálaflugu«[1]) inn í tungumáladeildina. Og sé henni þetta alvara og sannfæringarmál — ja, þá má sannarlega fara að biðja fyrir sér, ef sú ísöld á að renna yfir bókmentaheiminn, að það eitt skuli framvegis kalla vísindi, sem verður tölum talið og leikur á beinum eða bognum línum!

*Páll Sveinsson.*

---

[1]) Sbr. Nefndarálit, bls. 33, gr. 20; bls. 41 og 48. Á bls. 48 segir svo: „Í kenslustundum ætlumst við til, að nemendur séu æfðir í því að þýða með orðabók og leysa skriflega úr stærðfræði-verkefnum með formálabók, að eins í þeim mæli, sem þarf til þess að þeir viti hvað af þeim verður heimtað við prófin“.

# Ynglingar.

Þá er Snorri Sturluson setti saman Ynglingasögu, svo sem inngang eða forspjall fyrir framan Noregs konunga sögur, hefir hann varla efast um, að hún hefði söguleg sannindi að geyma, að minsta kosti mestöll, og sá hluti hennar einkum, sem var um afkomendur Ólafs trjetelgju, konunga í Noregi. Snorri fellir inn í söguna erindi úr Ynglingatali, kvæði *Þjóðólfs skálds úr Hvini;* þau verða sem vörður við veg mestalla söguna. Þjóðólfur mun hafa orkt kvæðið um 870, fyrir *Rögnvald heiðumhára*, konung á Vestfold (syðra eða vestra hluta hennar), 6. mann frá Ólafi konungi trjetelgju. Var því óhætt að reiða sig á, að Þjóðólfur hermdi sannindi ein um þá feðga, enda hafa sýnilega margar sagnir um þá lifað á vörum manna í Noregi á dögum Snorra, svo að kvæðið var ekki eitt til frásagna. Segir Snorri það beinlínis í formálanum, þar sem hann kemst svo að orði: »Eptir Þjóðólfs sögn er fyrst ritin æfi Ynglinga, ok þar við aukit eptir sögn fróðra manna«. Enda dettur nú varla nokkrum manni í hug, að Snorri hafi sjálfur búið til allar þær frásagnir, sem hann hefir ritað um þessa konunga, umfram þær, er voru í Ynglingatali; yfirleitt hefir hann sett saman eldri, annara fróðra manna frásagnir.

Hjer á Íslandi munu menn á öllum öldum síðan, er þeir lásu Ynglingasögu, hafa álitið hana sanna, og jeg býst við, að alþýða manna hjer líti svo á hana enn. Fram um miðbik síðustu aldar mun hún og erlendis hafa verið

talin sannsöguleg, bæði af lærðum og leikum, alt frá því menn þar kyntust henni alment eftir að útlegging *Matthiasar*, lögmanns í Björgvin, *Stórssonar* kom út, 1594.[1]) En á hinum síðari áratugum, er gagnrýnin varð strangari, fundu sagnfræðingarnir ekki neinar nógu sterkar sannanir fyrir sannsögulegu gildi Ynglingatals nje Ynglingasögu, töldu það ósannar fornsagnir, og jafnvel einn hinn lærðasti maður, prófessor Sophus Bugge, setti fram með miklum lærdómi hinar fáránlegustu kenningar um sjálfan höfund kvæðisins og aldur þess.[2])

---

Í hinu upprunalega heimkynni Ynglinganna hefir fornfræðin átt á síðustu áratugum, og á enn, hvern manninn öðrum lærðari. Starf þeirra var vitanlega margt og verkefnið yfirgnæfandi, en vísindin þessi tiltölulega ung. Margt var af fornsagnafræðingum og málfræðingum ritað um Ynglingatal og Ynglingasögu, og loks tók einn af hinum yngri mönnum, *Birger Nerman*, sjer fyrir hendur, að bera saman hinar fornu frásagnir við staðhæfingar fornfræðinganna, einkum þó hins gjörfróðasta þeirra allra og víðfrægasta, próf. *Oscars Monteliusar*, fyrv. fornminjavarðar, og *Bernhards Salins*, sem nú er forminjavörður, — staðhæfingar þeirra og sannanir um uppruna og aldur fornleifanna og forngripanna. Síðan 1913 hefir Birger Nerman ritað hverja ritgjörðina eftir aðra um þessi efni[3]),

---

[1]) *Norske Kongers Krønicke etc. — Prentet i Kiøbenaffn Aff Hans Stockelman 1594. Mattis Störsön*, lögmaður í Björgvin 1540—69, gerði þýðinguna, en hún er venjulega kend við *Jens Mortensen*, rektor í Slangerup, því að hann gaf hana út.

[2]) *Bidrag til den ældste Skjaldedigtnings Historie. Christiania 1894.* — Þessar kenningar B. voru brátt hraktar af Finni próf. Jónssyni í *Aarb. f. nord. Oldk.h. og Hist. 1895*, bls. 335 o. s. frv., og Gustaf Storm í *Arkiv f. nord. filologi* XV. (N. F. XI.) bls. 107 o. s. frv. — Af þessum ritgerðum geta menn, ef vilja, kynnst ýmsum öðrum ritgerðum og kenningum um Ynglingatal og margt, er því kemur við.

[3]) Sbr.: *Finnur Jónsson, Sannfræði íslenskra sagna, Skírnir 1919*, bls. 186 o. s. frv. — Helstu ritgerðir Nermans um þetta efni eru:

og mun nú af lærðum mönnum litið svo á, að hann ásamt öðrum sænskum fornfræðingum, *H. Schück*, *Knut Stjerna*, *Sune Lindqvist*, *O. v. Friesen*, báðum hinum fyrnefndu o. fl., hafi fært óyggjandi sannanir fyrir því, að frásagnir Ynglingatals um 4 konunga, er dóu og voru brendir og heygðir á tímabilinu 500—600, sjeu sannar að mestu leyti, og að sterkar líkur sjeu fyrir því, að fyrirrennarar þeirra, sem frá er sagt, muni vera sögulegir og hafi því verið uppi á 3.—5. öld, og sömuleiðis eftirkomendurnir á 7. öldinni, Ólafur trjetelgja og forfeður hans 4. Ennfremur þykir nú sannað, bæði af ritgjörðum *Gustafs Storms* og *Finns Jónssonar* sagnfræðinga og *Birgers Nermans* og *A. W. Brøggers* fornfræðinga, að frásagnir Ynglingatals um Ynglingana fyrstu í Noregi, afkomendur Ólafs trjetelgju, sjeu óyggjandi.

---

Ættarnafnið *Ynglingar* er dregið af nafninu *Yngvi*. Snorri segir að þessi Yngvi, forfaðir Ynglinga, hafi verið Freyr, hann hafi heitið Yngvi öðru nafni; Snorri nefnir hann einnig Yngvifrey, sem virðist mjög ólíklegt heiti, enda er það álitinn skáldskapur einn, bygður á fornum metnaði, að telja forföður Ynglinganna einn af guðunum.[1]) Að líkindum hefir þó einnig Ynglingatal byrjað á frásögnum um Njörð og Frey, eftir því er Snorri segir í formálanum fyrir konungasögum, þótt ekki setji hann nein erindi úr kvæðinu um þá. Fyrstu erindin eru um *Fjölni*, son »Yngvifreys«, og *Sveigði*, son Fjölnis. Þeir

---

*Vilka konungar ligga i Uppsala högar?* Uppsala, 1913. — *Svärges älsta konungalängder som källa för svensk historia.* Uppsala 1914. — *Ottar Vendelkråka och Ottarshögen i Vendel*, i *Upplands Fornminnesförenings Tidskrift XXXII.* Uppsala 1917. — *Ynglingasagan i arkeologisk belysning*, i *Fornvännen.* Uppsala 1917.

[1]) Sbr. *A. Bugge*, *Vestfold og Ynglingaætten* i *Hist. tidsskrift* (norska), 4. r. 5. b., bls. 433 o. s. frv. — Viðvíkjandi norsku Ynglingunum í þeirri grein, sbr. aths. sjera Jóns á Stafafelli Jónssonar í sama tímariti, 5. r. 1. b., bls. 109—15.

eru álitnir ósannsögulegir báðir, enda eru nöfn þeirra kenningarnöfn á Óðni; — Fjölnir þó að líkindum kenningarnafn á Frey upprunalega. En þótt ætla megi, að Ynglingar eigi að vísu ekki kyn sitt að rekja til Njarðar og Freys, þá er alt útlit fyrir, að þeir hafi dýrkað einmitt þá guði fyrst og fremst, ásamt Þór, í höfuðhofi sínu að Uppsölum; og glögt er af Ynglinga-haugum, þeim er sannast hefir um, að til sjeu enn, að svo sem Freyr var vopnlaus í hofi þeirra á dögum meistara *Adams af Brimum* (um 1070), svo hafi þeir viljað sækja hann vopnlausir heim eftir dauða sinn, jafnvel þeir, sem herkonungar voru [1]).

Næstir Sveigði koma *Vanlandi* og sonur hans, *Vísburr*. Sagnirnar um þá eru kynlegar og nöfnin virðast naumast verulega forn mannanöfn, en þó fylgja þau þeirri reglu, að þau standa í hljóðstaf, byrja bæði á *V*, en einmitt það, að nöfn fjögurra hinna næstu fylgja því lögmáli, bendir til að þeir 4 sjeu sannsögulegir. Það eru þeir *Dómaldi* og *Dómarr*, *Dyggvi*, og *Dagr*. Nöfn eftirkomenda þeirra allra, að Ólafi trjetelgju meðtöldum, byrja öll á hljóðstaf, og er því sömu reglu enn gætt í þeim. Síðar tekst upp annar siður, að láta heita eftir mönnum, og kemur hann fram í nöfnum Ynglinga í Noregi. Þessi nýi siður, sem mun hafa sprottið af trú á endurburð, kom fram um 500 suður í löndum, en varð ekki útbreiddur á Norðurlöndum fyr en skömmu fyrir og um Víkingaöld. En auk reglunnar um upphafsstaf nafnanna var á þjóðflutningatímabilinu gætt annarar reglu í nafngjöfinni, sem kalla mætti breytingarreglu, nöfnin líkjast hvert öðru að hálfu leyti. Við nafngjöf sumra þeirra Ynglinga, sem heita nafni með hljóðstaf í upphafi, hefir einnig þessarar reglu verið gætt; kemur það í ljós, er nöfnin eru færð í það lag, sem á þeim var er þeir lifðu, sem báru þau. Þannig hjetu *Agni*

---

[1]) Sbr. *v. Unwerth* í *Arkiv f. nord. fil.* XXXIII. (= N. F. XXIX.) 1917, bls. 320 o. s. frv., og *Hugo Jungner* í *Fornvännen* 1919, bls. 79 o. s. frv.

og *Egill* Ag*ina* og Ag*ilaʀ*, *Alfr* og *Aðils* hjetu Aþa-*wolfaʀ* og Aþa-*gislaʀ*, *Ottarr* og *Yngvarr*, *Anhtu*-hariʀ og *Ingu*-hariʀ[1]).

---

Hversu samkvæm þessum fornu reglum heiti þessara fornu konunga eru, það bendir á, að Ynglingar sjeu sannsögulegir, en fyrir því, að þeir hafi í raun og veru verið til hver fyrir sig, og að sagnirnar um þá sjeu sannar, verða og færð önnur gildari rök en þessi, sem einkum eru málsögulegs eðlis; jafnframt verður þá einnig bent á hvenær hver um sig var uppi.

Í sögu *Haralds hárfagra* hefir Snorri miðað ýmsa viðburði við aldur hans og greinir atburðaröðina í árum. Hafa menn getað árfært frásagnirnar eftir venjulegu tímatali og er Haraldur konungur talinn fæddur 850. Tíu vetra varð hann konungur, er *Halfdan svarti* faðir hans drukknaði, fertögur; Halfdan því fæddur 820. Árið eftir var faðir hans, *Guðröðr veiðikonungr*, myrtur. Þar með endar þó ekki enn fullkomið áratal Snorra er aftur skal rakið; hann segir að *Oláfr*, eldri sonur Guðröðar, hafi verið á tvítugsaldri er faðir hans dó, og er hann því fæddur um 800. Sonur Ólafs þessa, sem kallaður var *Geirstaða-alfr*, var *Rögnvaldr* sá, er Þjóðólfur orki Ynglingatal fyrir. Frá þessu ári má eftir frásögnunum rekja og árfæra atburðina aftur eftir nokkurn veginn.

Í fornenska kvæðinu *Bjólfi* (*Beowulf*) er sagt frá bardögum og öðrum atburðum í Sviþjóð; af nöfnunum má ráða, að þar eru einmitt frásagnir um nokkra af Ynglingakonungunum, þá *Aðils*, *Óttar Vendil-kráku*, föður hans, og

---

[1]) *G. Storm*: *Sjælevandring og Opkaldelsessystem*, *Arkiv*, IX, 199 o. s. frv.

*A. Olrik*: *Danmarks heltedigtning I*, bls. 22 o. s. frv.

*B. Nerman*: *Ynglingasagan i arkeologisk belysning*. *Fornvännen* 1917, bls. 226 o. s. frv.

*O. Montelius*: *Ynglingaätten*. *Nord. tidsskrift* 1918, bls. 213 o. s. frv. Þessar síðastnefndu ritgjörðir eru notaðar mest við samning þessarar greinar og án þess að til þeirra sje vísað um einstök atriði.

*Egil Tunna-dolg*, föður Óttars, en ekki er hann þó nefndur Egill í kvæðinu, heldur *Ongenþeow* (sbr. Angantýr). Hann er í kvæðinu sagður falla fyrir *Hugleiki* Gautakonungi, sem síðan fjell á herferð á hendur Frönkum um 516, að því er árbækur þeirra telja. Eftir þessu er þá talið, að Egill hafi fallið skömmu fyrir 516. Á þessum þrem öldum, sem verða milli dauða hans og dauða Guðröðar, eru 10 konungar í röð hver eftir annan, auk Guðröðar. Ef sett er, að 28 ár hafi verið milli dauða þeirra að meðaltali, kemur þetta nákvæmlega heim, að heita má, en eftir frásögnunum hefir að vísu liðið stundum skemur og stundum lengur milli dauða konunganna, svo sem eðlilegt er. Birger Nerman telst svo til, að *Aun hinn gamli*, faðir Egils, hafi eftir þessu dáið um aldamótin 500 eða í lok 5. aldar, en Óttar Vendil-kráka, son Egils, um 525 og Aðils, son Óttars, seint á 6. öldinni. Síðan koma þeir *Eysteinn* (d. um 600), *Yngvarr* (d. í b. 7. aldar), *Braut-Önundr* (d. um 640), og *Ingjaldr illráði* (d. skömmu eftir miðja 7. öldina); hann var faðir *Oláfs trételgju*, og má telja hann brendan inni í lok 7. aldar. Ef rakið er hins vegar aftur frá dauða Auns hins gamla, þá verða þeir *Jörundr*, *Yngvi* (og *Alfr* bróðir hans), *Alrekr* (og *Eiríkr* bróðir hans) á 5. öldinni, og *Agni* talinn hengdur um 400. Forfeður þeirra 6, með nöfnunum, sem byrja á *D* og *V*, verða þá á 4. og 3. öldinni, jafnvel fyr, hinir elstu þeirra.

Sje þetta borið saman við það, er áður var sagt viðvíkjandi nöfnum þeirra, sjest það, að alt kemur þetta heim.

---

Snorri segir[1]), að í Ynglingatali sje sagt frá dauða og legstað hvers eins af Ynglingum, og svo má það hafa verið, en í þeim erindum, sem nú eru til af kvæðinu, eru samt ekki frásagnir um legstaði svo margra, sem Snorri greinir í sögunni. Að finna þessa legstaði, og að öðru leyti að bera saman frásagnirnar um dauða, bálfarir

[1]) Í formálanum *(prologus)* fyrir Noregs konunga sögum.

og jarðarfarir konunganna við fornfræðirannsóknirnar og árangur þeirra, mátti heita knýjandi verkefni fyrir fornfræðingana.

## Ynglingar.

Njörðr
Freyr Yngvi
Fjölnir
Sveigðir
Vanlandi
Vísburr
Dómaldi
Dómarr
Dyggvi
Dagr spaki
Agni *(d. í byrjun 5. aldar)*
Alrekr *(og Eiríkr)*
Yngvi *(og Alfr)*
Jörundr
Aun hinn gamli *(d. í lok 5. aldar)*
Egill Tunna-dolgr *(d. skömmu fyrir 516)*
Óttarr Vendil-kráka *(d. um 525)*
Aðils *(d. seint á 6. öld)*
Eysteinn *(d. um 600)*
Yngvarr *(d. í byrjun 7. aldar)*
Önundr *(Braut-Önundr) (d. um 640)*
Ingjaldr hinn illráði *(d. eftir 650)*
Óláfr trételgja *(d. í lok 7. aldar)*
Halfdan hvítbeinn *(d. nokkru fyrir miðja 8. öld)*
Eysteinn *(d. nokkru eftir miðja 8. öld)*
Halfdan hinn mildi *(d. nokkru fyrir lok 8. aldar)*
Guðröðr veiðikonungr *(d. um 820)*
Óláfr Geirstaða-alfr. Halfdan svarti (d. 860).
Rögnvaldr heiðumhárr. Haraldr hárfagri (d. 933).

Í 19. kap. sögunnar segir Snorri svo frá dauða Agna, sem eftir því, er nú var talið, á að hafa dáið um 400:

*»Agni hét sonr Dags, er konungr var eptir hann, ríkr maðr ok ágætr, hermaðr mikill, atgervimaðr mikill um alla hluti. Þat var eitt sumar, er Agni konungr fór með her sinn á Finnland, gekk þar upp og herjaði. Finnar drógu saman lið mikit ok fóru til orrostu; Frosti er nefndr höfðingi þeira. Varð þar orrosta mikil ok fekk Agni konungr sigr; þar fell Frosti ok mikit lið með honum. Agni konungr fór herskildi um Finnland ok lagði undir sik ok fekk stórmikit herfang; hann tók ok hafði með sér Skjálf, dóttur Frosta, ok Loga bróður hennar. En er hann kom austan, lagði hann til Stokksunda; hann setti tjöld sín suðr á fitina; þar var þá skógr. Agni konungr átti þá gullmenit, þat er Vísburr hafði átt*[1]*). Agni konungr gekk at eiga Skjálf; hon bað konung at gera erfi eptir föður sinn; hann bauð þá til sín mörgum ríkismönnum ok gerði veizlu mikla. Hann var allfrægr orðinn af för þessi. Þá váru þar drykkjur miklar. En er Agni konungr gerðist drukkinn, þá bað Skjálf hann gæta mensins, er hann hafði á hálsi; hann tók til ok batt rammliga menit á háls sér, áðr hann gengi at sofa. En landtjaldit stóð við skóginn ok hátt tré yfir tjaldinu, þat er skýla skyldi við sólarhita. En er Agni konungr var sofnaðr, þá tók Skjálf digrt snæri ok festi undir menit; menn hennar slógu þá tjaldstöngunum, en köstuðu lykkju snærissins upp í limar tréssins, drógu þá síðan, svá at konungr hekk næst uppi við limar, ok var þat hans bani. Skjálf ok hennar menn hljópu á skip ok reru í brot. Agni konungr var þar brendr og er þar síðan kölluð Agnafit á austanverðum Taurinum vestr frá Stokssundi«.*

Nú hefir Birger Nerman[2]) athugað hvort fundist hafi nokkur þau gullmen í Svíþjóð, er hugsast geti, að átt hafi verið við í þessari frásögn, þannig löguð, að menn hafi þurft að binda þau, svo að þeim yrði síður smokkað

---

[1]) Frá því er áður sagt í sögunni (14. kap.); „gullmenit skyldi verða at bana inum bezta manni í ætt hans“.

[2]) *Fornvännen* 1919, bls. 143 o. s. frv.

af, og svo sterk, að takast mætti, að hengja upp menn í þeim. I Svíþjóð hefir fundist fjöldi gullgripa, einkum frá bronziöldinni, en þeir hlutir koma nú engan veginn þessari sögu við. Frá því um 750 f. Kr. og þangað til nær 100 e. Kr. finnast engir munir úr gulli í Svíþjóð. Frá 2. öld eru nokkrir og enn fleiri frá 3 og 4. öld, en frá 5. og 6. öld eru til svo ágætir og mikilfenglegir gullmunir fundnir í Svíþjóð, að undrum gegnir. Eftir miðja 5. öld hætta gullfundirnir skyndilega að heita má, en gullroðnir (gyltir) gripir frá næstu tímum á eftir hafa fundist margir. Á víkingaöldinni gætir aftur gullsins lítið eitt, en þá var silfuröld jafnvel meiri en gullöld nokkru sinni áður. Víkingaöldin kemur hjer ekki málinu við og er þá að leita meðal gripanna frá ca. 100—550, en frá 2. öld eru engin gullmen fundin. Frá því um 200 eru til hringar stórir, en fremur veikgerðir; koma þeir engan veginn heim við frásögnina um Agna konung. Frá 3. og 4. öldinni eru til enn aðrar gerðir af hálshringum úr gulli, en tæplega eru þau men karlmanna-hálshringar, enda ekki þannig löguð að sagan geti átt við slík men. En frá 5. öldinni eru til afardigur gullmen, sum samsett úr 2 hlutum, krækt saman aftan á hálsinum, sum ósamsett, og eru þau sennilega eldri, en á hvorri tveggja gerðinni ganga endarnir á misvíxl framan á hálsinum, og eru þeir með nokkru verki til skrauts oftast. Einmitt þessi gerð á menjum á í alla staði við söguna um henging Agna konungs og verður ekki hjá því komist, að líta svo á, að í sögunni hljóti að vera átt við þess konar men sem þessi. Þó að þau hafi ekki fundist enn frá því um 400 má gera ráð fyrir að þau hafi komið upp þá eða jafnvel fyr, með óbrotnari gerð en er á þeim, sem nú þekkjast frá 5. öldinni, enda hefir annar fornfræðingur, *Gunnar Ekholm*, látið þá skoðun í ljós, að þessi men hafi í fyrstu verið gerð sem afbrigði frá annari eldri gerð, er þekkist frá 4. öldinni. Álítur Birger Nerman því vafalaust, að þessi men hafi verið til á þeim tíma, er ætla má að Agni konungur hafi lifað á.

Hvað viðvíkur Stokksundi þá hefir Birger Nerman jafnframt fært sönnur á, að það sje Norðurstraumur *(Norrström)*, sem nú heitir svo í Stokkhólmi, er kendur mun og við sama stokkinn; Taurinn heitir nú Suður-Taurinn *(Södertörn)* og Agnafit eftir því suðurhlutinn á Staðarhólminum *(Stadsholmen)*, er nú er kallaður svo. Þar sem þetta svæði er í miðri borginni er vitanlega þess ekki að vænta, að haugur Agna konungs finnist nú hjer, þótt hann kunni að hafa verið hjer, sem hann hefir verið, ef Agnafit hefir verið hjer. Í sögunni er tekið fram, að Agni konungur hafi verið »þar brendr«. Samkvæmt því er áður er sagt í sögunni um »*lagasetning Oðins*«, í 8. k., »*skyldi brenna alla dauða menn*« — »*en öskuna bera út á sjá eða grafa niðr í jörð; en eptir göfga menn skyldi haug gera til minningar, en eptir alla þá menn, er nökkut mannsmót var at, skyldi reisa bautasteina*«.

Samkvæmt þessu segir Snorri einnig í formálanum svo: »*In fyrsta öld er kölluð bruna-öld; þá skyldi brenna alla dauða menn ok reisa eptir bautasteina; en síðan er Freyr hafði heygðr verit at Upsölum, þá gerðu margir höfðingjar eigi síðr hauga en bautasteina til minningar eptir frændr sína; en síðan er Danr inn mikilláti, Dana-konungr, lét sér haug gera ok bauð sik þangat bera dauðan með konungs-skrúði ok herbúnaði ok hest hans með söðulreiði ok mikit fé annat, [en hans ættmenn gerðu margir*[1]*) svá síðan, ok hófsk þá haugs-öld með Svíum og Norðmönnum*«. Fornfræðingar hafa borið þá frásögn Snorra saman við árangur rannsóknanna og deilt mjög um sannindi hennar, misskilið hana, og stundum bygt of mikið á henni, einkum fyrrum. Síðast í sumar, er leið, ritaði docent Sune Lindquist ýtarlega grein um þetta mál[2]) og sýnir fram á, að fornleifarnar einmitt færi sönnur á orð Snorra, svo sem greinargjörð fyrir því, er menn á hans tímum

---

[[1]) Fyrir: *gerðu margir hans ættmenn.*

[2]) Fornvännen 1920, bls. 81—82.

vissu sannast um, hvað verið hafði siður i Svíþjóð fyrrum. Þykir mjer þó enn kenna nokkurs misskilnings á frásögnum Snorra í þessum efnum, en oflangt mál að fara hjer nánar út í það.

---

Haugur Agna konungs finst ekki, svo að ekki verða sóktar sannanir í hann fyrir áreiðanleik sögunnar um Agna. Í frásögninni um *Alrek* og *Eirík*, sonu hans, er þess ekki getið, hvar þeir hafi verið heygðir. Aftur á móti er sagt berum orðum í Ynglingasögu, ekki þó í Ynglingatali, að synir Alreks, *Yngvi* og *Alfr*, hafi verið »heygðir á Fýrisvöllum«. Það er ekki tekið fram, að þeir hafi verið brendir fyrst, en mjer virðist, að orðalagið »heygðir«, útiloki ekki að gera megi ráð fyrir að þeir hafi, samkvæmt »lagasetnig Óðins«, og því er Snorri segir í formálanum og áður var bent á, verið brendir og síðan heygðir. — Birger Nerman álítur að benda megi á, hvar haugur þeirra bræðra hafi verið, og ætlar, að hann hafi verið »konungshaugur« sá, svo nefndur, sem getið er í fornskjali einu frá 1407 og í ýmsum öðrum gömlum skrifum. Hann var í Uppsölum, á stað, sem nú má ákveða nákvæmlega eftir bæjarkorti frá 1671, og eru að eins fáir áratugir síðan hinar síðustu leifar þessa forna mannvirkis hurfu með öllu. Dálítið verður ráðið í af hinum gömlu skrifum, hversu haugur þessi hefir verið útlits, fremur lágur, og þó mikill um sig, en þetta virðist einmitt koma vel heim við það sem gera megi ráð fyrir, að átt hafi sjer stað á þessum tíma, fyrri hluta 5. aldar. — Um *Jörund*, son Yngva, er einungis tekið fram, að hann hafi verið hengdur á gálga við Limafjörð á Jótlandi.

En síðan koma þeir 4 konungar hver eftir annan, *Aun hinn gamli*, *Egill Tunna-dolgr* (svo nefnir Flateyjarbók hann), *Ottarr Vendil-kráka* og *Aðils*, sem áður var getið, og er tekið fram berlega um þá alla, nema Egil, bæði í sögunni og kvæðinu, hvar þeir hafi dáið, og í sögunni

segir Snorri beinlínis um þrjá þeirra, alla nema Óttar, að þeir sjeu heygðir að Uppsölum. Orðalag Snorra virðist mjer helst benda á, að hann hafi blátt áfram vitað til þess, að á hans dögum voru tilgreindir haugar þessara þriggja konunga að Uppsölum; sennilega hafa þeir borið hver sitt nafn þá og verið kendir hver við sinn konung — með rjettu eða röngu.

Svo sem alkunnugt er, eru 3 fornir haugar og mjög stórir rjett hjá Gömlu-Uppsölum. Eru þeir á malarhrygg einum, grasi grónum, rjett hjá kirkjunni þar, ásamt mörgum öðrum minni haugum. Alt frá því á 17. öld, en ekki fyr, svo kunnugt sje, hafa haugar þessir verið kendir við Óðin, Þór og Frey, ef til vill vegna þess, að þarna vissu menn, að verið hafði til forna höfuðhof Svía í heiðni. Fyrrum voru þessir haugar nefndir Konungahaugar *(Kungshögarna)*. Einn þeirra (sá í miðið, kallaður Þórs-haugur af alþýðunni, en af einhverjum misskilningi Freys-haugur í bókum) var brotinn á 17. öldinni, en óvíst um, hvað fanst þá við þann gröft. 1846—47 rannsakaði *Bror Emil Hildebrand* fornminjavörður austasta hauginn (Óðinshaug), og að nokkru leyti miðhauginn, og 1874 rannsakaði hann hinn þriðja. Við rannsóknir þessar kom það í ljós, að haugarnir voru yfir menn, er höfðu verið brendir á báli ásamt ýmsum húsdýrum og áhöldum og skrautgripum, en vopnaleifar sáust alls engar. Beinaleifarnar höfðu verið hreinsaðar eftir brennuna og látnar í leirker og í smáhrúgu á stalla þeim, er bálkösturinn hafði verið á í miðjum haugnum, og síðan orpinn haugur yfir úr grjóti, neðst, og leir. Hinn fyrri (austasti) haugurinn var af gripaleifum þeim, er í honum fundust, álitinn vera frá síðustu árum 5. aldar eða byrjun 6. aldar, en hinn vestasti frá því skömmu fyrir lok 6. aldar. Af gerð miðhaugsins má og ráða, að hann sje frá því snemma á 6. öld. Docent Sune Lindqvist álítur, að sá haugur muni elztur og frá því um lok 5. aldar, en austasti haugurinn frá byrjun 6. aldar, og álítur próf.

Oscar Montelius það á góðum rökum bygt[1]. En hvað sem því líður, þá kemur aldur hauganna svo vel heim við þau tímatakmörk, er jeg áður skýrði frá, að setja mætti á sögulegum grundvelli um dauða Auns, Egils og Aðils, að fullar sannanir mega heita fengnar fyrir að þau sjeu rjett, þessir 3 konungar sannsögulegir og frásagnirnar að mörgu leyti öldungis áreiðanlegar.

En þá er hinn 4. þessara feðga, sem jeg nefndi áðan, faðir Aðils, *Ottarr Egilsson*,

*»þann hergammr*
*hrægum fæti,*
*víðs borinn,*
*á Vendli sparn«*

og nefndur var því *Vendil-kráka*. Snorri segir, sennilega eftir Norðmönnum, að Óttar hafi fallið á Vendli á Jótlandi, enda segir Þjóðólfur:

*»Fell Ottarr*
*und ara greipar,*
*dugandligr*
*fyr* Dana *vápnum«*.

I Vendli í Svíaríki, sveit, er svo heitir, skamt fyrir norðan Gömlu-Uppsali, virðist þó æ hafa lifað sú sögn, að Óttar hafi verið heygður þar og nafnið jafnan haldist á haugi hans alt til þessa dags; finst þess getið í sænskum skrifum frá 17. og 18. öld, og bendir ekkert á, að þau munnmæli sjeu þá ekki gömul. *Próf. O. v. Friesen* ljet þá skoðun í ljós (1910), að hjer myndi vera hinn rjetti Ottars haugur Vendil-kráku, en hitt missögn, að hann hefði fallið á Vendli á Jótlandi.[2] B. Nerman rannsakaði þetta mál enn betur, og í ritgjörð þeirri, er hann gaf út 1913, um hvaða konungar væru heygðir í Uppsalahaugum, hjelt hann fram þeirri skoðun sinni, að Óttar

---

[1]) Nord. tidsskr. 1918, bls. 221.

[2]) *O. v. Friesen, När Sverige blev till (Upsala Nya Tidnings julnummer 1910).*

konungur Vendil-kráka væri heygður í Óttars-haugi, sem þá var enn órannsakaður. Næsta ár var byrjað að rannsaka hauginn, en ekki lokið rannsókninni, vegna stríðsins, fyr en 2 árum síðar. Kenning B. Nermans reyndist laukrjett. Haugurinn var að öllu leyti líkur Uppsalahaugum, einkum hinum austasta, er Sune Lindqvist, sá er aðallega fjekst við rannsókn Óttarshaugs, áleit vera þeirra næst-elztan, og því Egils, föður Óttars. — Í haugnum fanst meðal annars grískur gullpeningur, sleginn fyrir *Basiliscus* keisara í Miklagarði 476—77. Peningurinn var með gati við röndina, hefir verið borinn á sörvi að líkindum og var orðinn allmáður, sennilega um 40—50 ára gamall, þegar hann var látinn í hauginn; haugurinn þess vegna eftir peningnum, öðrum gripum í honum og öllu ásigkomulagi, einmitt frá þeim tíma, sem telja má víst, að Óttar hafi dáið á.

Viðvíkjandi viðurnefni Óttars hefir verið bent á, að bændurnir frá Vendli eru þann dag í dag nefndir í spaugi krákur eða Vendil-krákur af nágrönnum sínum, og á líkan hátt er fólkið í 2 öðrum sveitum í grendinni nefnt 2 öðrum fuglanöfnum, skjórar og krummar (korpar). Því kalla strákarnir í Dannemóra-sókn til karlanna frá Vendli þegar þeir aka framhjá:

»*Vendels kråka,*
*får jag åka?*«.

Til þess finnast dæmi, að bændur í öðrum sveitum hafi um 1630—40 verið kallaðir »krákur« og má gera ráð fyrir að þetta uppnefni sje ævagamalt.

---

Um síðustu Ynglinga-konungana í Svíaríki, sem sagt er frá í kvæðinu og sögunni, og ætla verður að verið hafi uppi á 7. öldinni, gat jeg nokkuð áður, þá *Eystein, Ingvar, Braut-Önund, Ingjald illráða* og *Oláf trételgju.* Ekki eru nú fundnir haugar þeirra, enda segir Snorri að Eysteinn, Ingjaldr og Óláfr hafi verið brendir inni, en Öndundr orðið undir skriðuhlaupi. Raunar er haugur einn

forn við *Säffle* á Vermalandi nefndur Ólafs haugur trételgju og er nafnið til um 1770, en 1683 kvað sami haugur hafa verið kallaður Knúts-hóll(-bakki) og ráða menn af því, að hitt nafnið sje síðari tíma tilbúningur. Virðist þó ástæða til að rannsaka þetta mál betur og sjálfan hauginn. Yngvar konung segir Snorri heygðan vera á Aðalsýslu á Eistlandi, »við sjá sjálfan«. Bendir orðalagið enn á, að Snorri hafi þózt hafa sannar sagnir af haugi Yngvars, en þó kann hann á þessum stað hafa þrætt beinlínis hin fögru og skáldlegu orð Þjóðólfs:

*»Ok Austmar*
*jöfri sænskum*
*Gymis ljóð*
*at gamni kveðr«.*

---

Óláfr trételgja var fóstraður á Vestur-Gautlandi og var hvergi nærri, er faðir hans brendi sig inni og Ívar víðfaðmi lagði undir sig ríkið. Óláfr varð að fara landflótta og staðnæmdist loks á Vermalandi, er hann nam og nefndi svo. Var landið alt þakið frumskógi, sem hann ljet ryðja og brenna til þess að geta ræktað landið. *»En er spurðist til Oláfs í Svíþjóð, at hann ryðr markir, kölluðu þeir hann trételgju, ok þótti hæðilegt hans ráð* [1])«.

Eftirkomendur hans, sem jeg gat um áður, urðu konungar á Vestfold og yfir fleiri smáríkjum í Noregi, en Vermaland segir Snorri horfið hafa undan þeim sonum Guðrøðar mikilláta, Óláfi Geirstaða-álfi og Halfdani svarta, snemma á 9. öldinni. Við rannsóknir á fornleifum, haugum, í Noregi hefir þess orðið vart, að því er próf. *Haakon Schetelig* í Björgvin ritar [2]), að náinn skyldleiki er á milli grafanna austast í landi, Heiðmörk, Þótn og Hringaríki

---

[1]) Enn í dag er Vermaland að 4 fimtu hlutum viði vaxið.

[2]) Haakan Schetelig, *Vestlandske graver fra jernalderen (Bergens Museums skrifter. Ny række. Bd. II. No. 1.). Bergen 1912.*

og víðar, og grafanna á upplöndum í Svíaríki, Gotlandi og Borgundarhólmi frá sama tímabili, 7. og 8. öld. Einkum á þetta sjer stað um gripi þá er finnast í haugunum. Þykir Birger Nerman o. fl. þetta koma eftirtakanlega vel heim við frásagnirnar um fiólksflutning þann frá Upplöndum til Noregs, er stóð í sambandi við Óláf trételgju.

---

Jeg gat þess að sagnfræðingar og fornfræðingar hefðu sannað frásagnirnar um Ynglingana norsku, afkomendur Óláfs, enda mætti gera ráð fyrir, að Þjóðólfur, er hann orkti Ynglingatal, og Snorri, er hann ritaði Ynglingasögu, hafi haft staðgóðar heimildir um þessa 4—5 konunga. Óláf trételgju mun mega telja inni brendan skömmu fyrir 700, eins og áður var tekið fram, og nafna hans á Geirstöðum fæddan um 800. Þeir 4 á 8. öldinni, sem taldir eru milli þeirra, bæði í kvæðinu og sögunni, Íslendingabók og Hauksbók (í þætti af Upplendinga konungum)[1], eru *Halfdan hvítbeinn*, sennilega dáinn nokkru fyrir miðja öldina, *Eysteinn*, sem Ari prestur kallar að viðurnefni fret, dáinn nokkru eftir miðja öldina, Halfdan hinn mildi ok matarilli, dáinn nokkru fyrir lok aldarinnar, og Guðrøðr veiðikonungr, myrtur um 820[2].

---

[1]) Hauksbók. Köbenhavn 1892—96. Bls. 456—57.

[2]) Í nýprentaðri ritgerð um Harald hárfagra og forfeður hans (»*Harald Fairhair*« *and his Ancestors*, í *Saga-Book of the Viking Society*, Vol. IX, Part I) hefur *Sir Henry H. Howorth* haldið því fram (bls. 63, sbr. bls. 144), að Guðrøðr veiðikonungr hafi verið sonur Halfdanar hvítbeins og ekki Halfdanar milda, »eins og sumir hafi haldið«. Guðrøðr konungr átti nefnilega afabróður samnefndan og hefir sennilega verið látinn heita eftir honum. Má undarlegt heita að þessi sama villa, að telja Guðrøð veiðikonung son Halfdanar hvítbeins, skuli hafa náð að slæðast inn í registrin við útgáfur Finns prófessors Jónssonar að Noregs konunga sögum, bæði hina eldri, frá 1893—1900, og hina yngri, frá 1911. Því að í ritgjörð sinni um Ynglingatal í *Aarb. f. nord. Oldkh.* 1895 skýrir próf. F. J. vitanlega öldungis rjett frá.

Svo er að sjá sem Howorth hafi verið, er hann reit greinda ritgjörð sína (1918), ókunnugt um rannsóknir og ritgjörðir manna á Norðurlöndum síðasta mannsaldurinn.

Prófessor *A. W. Brögger*, forstöðumaður fornminjasafnsins í Kristjaníu, hefir fyrir 5 árum athugað og prófað frásagnir Þjóðólfs og Snorra um legstaði þessara fjögurra konunga og beggja sona hins síðastnefnda (Guðrøðar), *Oláfs Geirstaða-alfs* (d. ca. 865) og *Halfdanar svarta*[1]) (d. 860).

Þjóðólfur hefir sjálfsagt vitað með vissu, hvar legstaðir þessara norsku konunga voru, og segir í Ynglingatali »frá dauða hvers þeira ok legstað«, nema Guðrøðar, um legstað hans getur hann ekki í þeim erindum, sem nú þekkjast. Halfdan svarta nefnir hann vitanlega ekki. Um Halfdan hvítbein segir hann:

*Ok hallvarps*
*hlífinauma*
*þjóðkonung*
*á Þótni tók.*
*Ok Skæreið*
*í Skíringssal*
*of brynjalfs*
*beinum drúpir.*

Snorri segir: »*hann varð sóttdauðr á Þótni ok var síðan fluttr út á Vestfold ok heygðr þar, sem hét Skæreið í Skíringssal*«. Er að sjá sem Snorri hafi eftir þessu vitað, að þessi staður var á Vestfold, en ef lesa ber »hét«, og ekki »heitir«, svo sem stendur í sumum handritanna, virðist svo sem Snorri hafi engan stað þekt með þessu nafni, »Skæreið (eða Skereið) í Skírings- (eða Skíris-) sal«, um sína daga. — Aftur á móti segir Haukur lögmaður í þættinum af Upplendinga konungum: »*hann varð sóttdauðr á Þótni ok fluttr á* Heiðmörk *ok heygðr þar*«. Virðist Hauki þó hafa verið kunnugt um frásögn Þjóðólfs. Nú vita engir menn hvar Skæreið í Skíringssal hefir verið, en álitið er, að Skíringssalur sje

[1]) *A. W. Brögger, Borrefundet og Vestfold-kongernes graver. Vidensk.-selsk. skrifter.* II. 1916. No. 1. Kristiania 1916.

sveit sú á Vestfold, er Þjóðarlyngs-sókn hjet á síðari öldum, og nú heitir Tjølling, eða að hann hafi verið í þeirri sveit einhversstaðar.[1]) Próf. Finnur Jónsson hefir rannsakað staðháttu þarna og látið í ljósi, að hann hafi fundið staðinn; álítur að hann hafi heitið Sker-eið og að þetta eið hafi verið á tanga nokkrum á ey þeirri, er nú nefnist *Lammøen* (Lambey), skamt frá *Björnæs* (Býjarnesi) í þessari sveit, og að alkunnugt sje, að Skíringssalur sje hjeraðið fyrir neðan Gjerstad (Geirstaði[2]) í Tjølling, víst sjerstaklega einmitt þar sem K a u p a n g heitir nú[3]). — Sophus Bugge áleit að Skæ-reið væri kenning fyrir jörð eða land, en eins og próf. Finnur Jónsson hefir tekið fram væri sú kenning lítt eðlileg, enda dæmalaus.

Um Eystein segir Þjóðólfr:

*Ok nú liggr*
*und lagar beinum*
*rekks löðuðr*
*á Raðar broddi.*
*Þars élkaldr*
*hjá jöfur gauzkum*
*Vöðlu-straumr*
*at vági kømr.*

Snorri segir greinilega frá dauða Eysteins konungs, að hann hafi fallið útbyrðis af skipi skamt frá Jarlsey (nú *Jersø* við Túnsberg) og druknað þar. »*Menn hans náðu líkinu; var þat flutt inn á Borró, ok orpinn haugr eptir á Röðinni út við sjá við Vöðlu*«. Eins og próf. Finnur Jóns-

---

[1]) Nafnið finst enn á 14. og 15. öld í norskum skjölum, sbr. G. Storm, *Ynglingatal*, *Arkiv XV*, bls. 113, og A. Kjær, *Hvad var Skiringssalr?*, *Hist. tidsskr.* (norska), 4. r. 5. b., bls. 267 o. s. frv., og 425—30. — Ennfremur S. A. Sørensen, *Det gamle Skiringssal* (Kria 1900) og *Om Skiringssal* í *Hist. tidsskr.* (norska) 4. r. 5. b., bls. 358 o. s. frv. og 431—32, og G. Storm, s. tímar., 4. r. 1. b., bls. 214—37.

[2]) Þessi bær virðist hafa heitið G e i r a s t a ð i r og ekki Geirstaðir fyrrum; sbr. tilvitnaðar ritgerðir um Skíringssal o. fl., og *Norske Gaardnavne VI.*, bls. 293 (og víðar).

[3]) H e i m s k r i n g l a IV., bls. 22—23.

son hafði bent á [1]), er Röðin í þessum frásögnum malarhryggur sá hinn alkunni á Vestfold, sem nú nefnist *Raet*; Borró (nú Borre) er einmitt skamt frá norðurendanum á henni, en við Borró, »á Raðar-broddi«-num, »út við sjá-« inn eru margir fornmannahaugar. Felst Brøgger eðlilega á, að þetta sje alt rjett og standi heima. Vaðla virðist hafa verið á nokkur, en óvíst er um það örnefni, og skal hjer ekki farið út í ágizkanir um það.

Um *Halfdan milda* segir Þjóðólfur berum orðum, að hann hafi verið heygður *»á Borrói«*, enda segir Snorri: *»varð hann sóttdauðr ok er hann heygðr á Borró«*. Má ætla eins og Brøgger segir, að Snorri hafi haft sannar sagnir af Norðmönnum um það, að þessir feðgar væru báðir heygðir á Borró. Hann var í Túnsbergi veturinn 1218—19 og hefir þá auðvitað kynt sjer ýtarlega alla staðháttu á Vestfold.

Eins og jeg tók fram áðan er þess ekki getið í þeim erindum, sem nú eru til af Ynglingatali, hvar Guðrøðr veiðikonungr (»enn göfugláti«) [2]) hafi verið heygður; Snorri segir greinilega frá hversu dauða hans bar að og hvar, og tilfærir 2 erindi (eða eitt heilt og 2 hálf) af Ynglingatali. Hann segir, að seinni drotning hans, Ása Haraldsdóttir hins granrauða, konungs á Ögðum, hafi látið myrða hann. Hafði Haraldr synjað honum um Ásu er hann bað hennar, og Guðrøðr síðan farið um nótt á bæ Haralds með her manns og drepið hann og Gyrð son hans, en tekið Ásu heim með sjer og gert brullaup til hennar. Með henni átti hann svo Halfdan svarta, föður Haralds hárfagra; *»en þá er Halfdan var vetrgamall, þat haust fór Guðrøðr konungr at veizlum; hann lá með skipi sínu í Stíflusundi; váru þar drykkjur miklar; var konungr mjök*

---

[1]) Heimskringla IV., bls. 24.

[2]) Þjóðólfur viðhefir það orð um hann og hafa síðari tíma menn litið svo á, að það væri viðurnefni; Haukur nefnir hann svo. Snorri segir að hann hafi verið „kallaðr Guðröðr inn mikilláti, en sumir kölluðu hann veiðikonung“. Sennilega er þetta bygt á orðum Þjóðólfs, „enn göfugláti“.

*drukkinn; ok um kveldit, er myrkt var, gekk konungr af skipi; en er hann kom á bryggju-sporð, þá hljóp maðr at honum ok lagði spjóti í gögnum hann; var þat hans bani; sá maðr var þegar drepinn. En um morguninn eptir, er ljóst var, þá var maðr sá kendr, var þat skósveinn Ásu drótningar; dulði hon þá ekki, at þat váru hennar ráð.«* (Ynglingas., 48. k.). Örnefnið Stíflusund er nú ekki lengur til og er óvíst, hvar það sund hefir verið. Próf. Finnur Jónsson álítr[1]), að það hafi verið við »Sker-eið í Skíringssal«, sem jeg gat um áðan, og gæti það vel komið heim við það, sem Haukur lögmaður segir í þættinum, að Guðrøðr hafi verið »*drepinn á Geirstöðum á Vestfold. svá at hann var lagðr með kesju, er hann gekk af skipi sínu í Stíflusundi seint um kveldit*«. En mjer þykir ekki fullvíst, að Haukur hafi átt við *Gjerstad* í Tjølling, þar sem Skíringssalur á einkum að hafa verið, fremr en við *Gjekstad* í Sandeherred (Skaun), sem brátt skal rætt um frekar. Próf. Brøgger þykir einu gilda hvar Guðrøðr hafi verið veginn; lík hans hafi eflaust verið flutt inn á Borró og hann heygður þar hjá föður sínum og afa, á þeim stað, sem var orðinn heilagur grafreitur þessarar konungsættar. Verð jeg að telja það öldungis sennilegt, og geri ráð fyrir, að fullar sönnur kunni að verða færðar á mál Brøggers, er rannsakaðir verða haugarnir á Borró, sem jeg síðar skal minnast nánar á.

En nú er fyrst að ræða um Óláf konung og legstað hans; hann »*var þá á tvítøgs-aldri, er Guðrøðr andaðist*«, segir Snorri, fæddur eftir því árið 800 eða þar um bil. Hann var faðir Rögnvalds heiðumhára, sem Þjóðólfr orti Ynglingatal fyrir, eins og jeg hefi tekið fram áður, og hefir Þjóðólfi vitanlega verið mjög vel kunnugt um dauða hans og legstað. — Snorri segir, að Ólafur konungur hafi haft »*atsetu á Geirstöðum;* »*hann tók fótarverk ok and-*

[1]) Heimskringla IV., bls. 23.

*aðisk þar af, ok er hann heygðr á Geirstöðum; svá segir Þjóðólfr:*

— — — —
— — — —
*liggr gunndjarfr*
*á Geirstöðum*
*herkonungur*
*haugi ausinn«.*

Af þessu þykir mjer líklegt, að Haukur lögmaður hafi átt við þessa sömu Geirstaði í frásögn sinni um morð Guðrøðar föður Ólafs, enda álíta víst flestir það, en um það hefir mönnum ekki komið saman, hvar hafi verið eða sjeu þessir Geirstaðir, sem Ólafur hafði atsetu, var heygður á og kendur við.

Af þættinum af Ólafi Geirstaða-alfi í Ólafs sögu helga í Flateyjarbók má sjá, að haugur Ólafs á Geirstöðum hefir verið brotinn af Sveini jarli Hákonarsyni árið 995.

Rjett hjá bæjunum Gjekstad (Geirstöðum) og Gokstad (Gaukstöðum) við Sandafjörð (Sandefjord) á Vestfold var forn haugur, er nefndur hafði verið, svo lengi sem menn vissu til, »kongshauguriun«, því að þar ætti konungur nokkur að hafa verið heygður í fornöld með gulli sínu og gersemum. Í ársbyrjun 1880 gerðust til þess piltarnir á bænum, sem mestur hluti haugsins tilheyrði, að grafa upp hauginn; komst *N. Nicolaysen*, formaður fornleifafjelagsins norska, að þessu og fjekk frestað haugbrotinu þar til klaki væri úr jörðu. Fór hann svo um vorið, rannsakaði hauginn og fann þar hið fræga langskip, sextánsessuna, sem síðan hefir verið kölluð »*Gokstadskibet*« (G a u k s t a ð a s k i p i ð), ásamt ýmsum gripum öðrum, leifum af beinum höfðingja þess, er heygður hafði verið í skipinu, o. fl. Það kom í ljós, að haugurinn hafði fyrir löngu verið rofinn áður, enda fundust nú hvorki vopn nje dýrgripir. Af því, er fanst, rjeði Nicolaysen að haugurinn væri frá því um 900. Próf. Brøgger álítur hann nú vera frá því um 860—70. Nicolaysen áleit, að höfð-

ingi sá, er hjer var heygður, hafi ekki verið konungborinn (*»at hann ej var nogen kongelig person«*); ræður hann það af frásögnum Snorra um legstaði konunganna hjer; þeir sje sagðir heygðir á Borró og 2 í Skíringssal, sem sje í Tjølling, en enginn hjer í Sandeherred. Annar þeirra, sem hann telur heygðan í Þjóðarlyngs-sókn (»Thjødling prestegjeld«) er Óláfr Geirstaða-alfr, er hann segir dáinn þar á Gjerstad um 840; en svo skrýtilega vilji til, að tvent fari saman með Ólafi konungi og þessum höfðingja á Gaukstöðum: Óláfur hafi dáið af fótarverk og haugur hans rofinn, eins og haugur þessa manns, sem eftir því, er sjá megi af fótleggjunum, einmitt hafi hlotið að hafa mikla fótaveiki, »kroniska« liðagigt (*arthritis deformans*) einkum í hnjenu á vinstra fæti. — Það er glögt, að Nicolaysen álítur samt, að ekki geti verið um það að ræða, að Óláfr Geirstaða-alfr hafi verið heygður í þessum haugi hjá Gaukstöðum [1]).

Um aldamótin hjelt cand. theol. *S. A. Sørensen*, síðar skólastjóri, því fram, að haugurinn hjá Gaukstöðum væri haugur Ólafs konungs. Gjekstad þar rjett hjá myndi vera hinir fornu Geirstaðir [2]). Próf. G. Storm andmælti þessu þá nokkuð [3]) og munu fæstir hafa viljað fallast á skoðun Sörensens [4]) *O. Rygh* taldi þó vafalaust, að nafnið Gjekstad væri orðið til úr eldra heiti *Geirstad*, og fjelst *A. Kjær* bókavörður á, að það kynni að vera rjett, en virðist samt ekki hafa viljað fullyrða neitt um, hvort Gjekstad væri þá hinn forni bær Ólafs konungs og haugurinn haugur hans [5]). — Þessir vísindamenn hafa gefið út

---

[1]) *Langskibet fra Gokstad ved Sandefjord, beskrevet af N. Nicolaysen.* Kria 1882; bls. 70—71.

[2]) *Det gamle Skiringssal, I.* (Kristiania 1900). Sami: *Er »Kongshaugen« Olaf Geirstad-Alfs Haug?* (Kria 1902).

[3]) *Skiringssal og Sandefjord* í *Hist. tidsskr.* 4. r. 1. b., bls. 231—32. Sbr. jafnframt aths [1]) á bls. 393 í sama tímar. 4. r. 5. b.

[4]) *Helge Gjessing* ritaði t. d. grein um *»Snorre Sturlasons arkæologiske kundskap* í *Oldtiden III.*, 1913, og virðist þá ekki vera í neinum vafa um að Geirstaðir Ólafs sjeu Gjerstad í Tjølling, sjá bls. 6.

[5]) *Norske gaardnavne* VI., bls. 272—73 og 305—306.

skrá um bæjanöfn í Noregi og eru allra manna fróðastir um þau, bæði að fornu og nýju.

Í Leiðarvísi um Þjóðminjasafnið benti jeg á það (1914), hversu margar og miklar líkur sjeu til þess, að »konungshaugurinn« hjá Geirstöðum sje haugur Óláfs konungs Guðröðarsonar; auk alls þess, sem jeg hefi nú minst á, nefndi jeg einnig það, að Óláfur konungur væri sagður allra manna mestur vexti, og að beinaleifar hins heygða á Geirstöðum sýndu það, að sá maður hefði verið um 3 álnir að hæð. — Hann hefir verið mjög sterkbygður og rösk 6 fet að hæð, að áliti próf. J. Heibergs, er gerði skýrslu um beinin[1]).

Próf. A. W. Brøgger hefir í ritgerð sinni um þessi efni látið þá skoðun í ljós (1915), að »það verði að teljast bæði sennilegt og líklegt, að höfðingi sá, er heygður hafi verið í Gaukstaða-skipinu, hafi verið Óláfr Geirstaða-alfr. — Hann hafi búið á Geirstöðum, þ. e. Gjekstad, sem nú heitir, hjá Gokstad, og því heygður þar, en norður hlutinn af Vestfold, þar sem Borró með ættargrafreitnum var, hafi lotið Halfdani bróður hans, og jafnframt þess vegna hafi Óláfr ekki verið heygðr þar.[2])

---

Ynglingatal segir nú vitanlega ekki frá legstöðum fleiri forfeðra Rögnvalds konungs. En jeg vil þó hjer geta um tvo legstaði enn.

Snorri segir að Halfdan svarti hafi druknað í Rykinsvík í Rönd (nú Røkensvik i Randsfjorden), en lík hans flutt til Hringaríkis til graftar, en *»þá fóru ríkismenn af Raumaríki ok af Vestfold ok Heiðmörk ok beiddusk allir at hafa líkit með sér ok heygja í sínu fylki, ok þótti þat vera árvænt, þeir er næði. En þeir sættusk svá, at líkinu var skipt í fjóra staði, ok var höfuðit lagit í haug at Steini á*

---

[1]) *Nicolaysen, Langskibet fra Gokstad*, bls. 75—76.

[2]) *A. W. Brøgger, Borrefundet og Vestfoldkongernes graver.* Kria 1916. Bls. 55. — *Vidensk. selsk. skrifter. II.* 1916. Nr. 1.

*Hringaríki, en hverir fluttu heim sinn hluta ok heygðu, ok eru þat alt kallaðir Halfdanar haugar«.*

Í *Agripi* og *Fagurskinnu B.* segir að eins, að Halfdan konungur hafi verið heygður að Steini á Hringaríki. Vafalaust hefir Snorri heyrt Norðmenn segja frá hinum haugunum, og í byrjun 14. aldar lifir lík sögn um skiftingu líkama Halfdanar og 3 hauga hans enn þá, og kemst þá inn í *Fagurskinnu A*, en ekki ber sögnunum saman. Nú er enn í dag sýndur haugur Halfdanar að Steini á Hringaríki, en hvergi annars staðar. Hann er, eða var fyrir 100 árum, mjög líkur haugunum á Borró; hann hefir ekki verið rannsakaður enn.

Próf. Brøgger álítur, að til grundvallar fyrir sögunum um fleiri Hálfdanarhauga muni hafa legið það, að á Vestfold, á ættargrafreitnum á Borró, hafi verið orpinn haugur til minningar um Halfdan *(kenotaphium, tumulus honorarius).* Var slíkt gamall siður og nýr, bæði á Suður- og Norðurlöndum. Skýring próf. Brøggers er mjög sennileg, að öllu athuguðu. Og mjög þykir mjer hún styðjast við það, að próf. *O. Broch* í Kristjaníu, sem er fæddur 1867, kveðst glögt muna það, að einn af haugunum á Borró var í barnæsku hans kallaður Halfdanarhaugur. Haugarnir við Borró eru 9, og steindys 2 stór að auk; ennfremur voru þar um miðja síðustu öld 15 smádysjar eða leiði, sem nú er búið að jafna við jörðu. Fjórir af haugunum eru nú eyðilagðir, án þess að fullkomin rannsókn hafi átt sjer stað, en hinir hafa ekki verið rannsakaðir enn, nje heldur steindysjarnar. Einn af þessum 4 haugum var þó rannsakaður 1852, en þá voru vegagjörðarmenn búnir að grafa göng í gegnum hann, og höfðu eyðilagt ýmsar merkilegar fornleifar, sem þeir rákust á. Haugur þessi var nyrztur allra hauganna. Við uppgröftinn og rannsóknina fundust leifar af langskipi, öllu minna en Gaukstaða-skipinu, ýmsum áhöldum, reiðtýgjum og beinum úr 3 hestum og 1 hundi, en af mannabeinum fundust alls engar leifar. Vopn og gersemar fundust ekki heldur, fremur en í Gaukstaðahaugi,

enda er líklegt, að þessi haugur hafi verið brotinn í fyrndinni eins og hinn. Af því að engin ögn af mannabeinum fanst í haugi þessum, sem sýnilega hafði verið orpinn nokkru eftir miðbik 9. aldar og eftir mikinn höfðingja, og ekki eftir konu, datt próf. Brøgger í hug, hvort þessi haugur muni ekki einmitt vera sá, er af framangreindum frásögnum má ætla að orpinn hafi verið á Borró eftir Halfdan konung svarta 860 og til minningar um hann. Ekkert virðist mæla á móti því, að svo kunni að vera, en fullkomnar sannanir vantar.

Þótt gera megi ráð fyrir að þeir feðgar Eysteinn, Halfdan mildi og Guðrøðr hafi verið heygðir í haugunum á Borró og að hinn 4. haugurinn sje því Halfdanar haugur svarta, verða enn 5 haugar, og steindys 2 að auk, sem óvíst er um, hverir hafi verið heygðir í, en gizka mætti á, að órannsökuðum haugunum, að í þeim hafi verið heygðar drotningar þessara fjögurra konunga, nefnilega Hildr, dóttir Eiríks konungs Agnarssonar, drotning Eysteins, Hlíf Dagsdóttir, konungs af Vestmörum, drotning Halfdanar milda, Alfhildr Alfarinsdóttir, konungs úr Alfheimum, fyrri drotning Guðrøðar, og báðar drotningar Halfdanar svarta, Ragnhildr Haraldsdóttir gullskeggs, konungs í Sogni, og Ragnhildr Sigurðardóttir hjartar, konungs á Hringaríki; alls 5 drotningar.

Aftur á móti eru líkur til þess, að seinni drotning Guðrøðar, Ása Haraldsdóttir hins granrauða, er rjeði Guðrøði manni sínum bana við Stíflusund, svo sem jeg gat um áðan, hafi ekki verið heygð hjer hjá þessum manni sínum og konungsættinni. Virðist sem það hefði hlotið að vera jafnóljúft sjálfri henni sem ættmönnum hans og vinum, að heygja hana þar.

En nú skal jeg víkja að hinum öðrum legstaðnum, er jeg vildi geta um.

Sumarið 1903 var próf. *G. Gustafson*, þáverandi forstöðumanni fornminjasafnsins í Kristjaníu, sagt frá því, að við að grafa í stóran fornmannahaug á bænum *Ásubergi* (Oseberg), sem er um mílu vegar fyrir sunnan Borró, hefðu

fundist ýmsar spýtur, er virtust vera úr skipi. Gustafson fór þegar að skoða þetta; sá hann brátt, að hjer hafði verið hauglagt skip á stærð við Gaukstaðaskipið, sjerstakt líkhús bygt í skipinu eins og á Gaukstöðum, og haugurinn brotinn einhvern tíma í fyrndinni eins og þar. Nú var of áliðið sumars til að framkvæma svo mikið verk, sem hjer var sýnilega fyrir hendi og ljet Gustafson þekja alt aftur. Þegar öllum undirbúningi var lokið, snemma næsta sumar, ljet hann byrja á uppgreftinum, og varð honum lokið um haustið. Voru hjer þá í ljós leiddar hinar merkilegustu fornminjar, sem fundist hafa í einu á Norðurlöndum. Mun sumum mönnum hjer nokkuð um fund þennan kunnugt orðið nú, eftir að farið var að sýna hann og rita um hann, enda oflangt mál í þessu sambandi, að gera verulega grein fyrir honum. Í skipinu fanst hinn mesti fjöldi merkilegra forngripa, er bera þess vott, að skipið og þeir hafi verið hjer heygðir laust fyrir miðja 9. öld eða 840—50, m. a. fjórhjólaður, útskorinn vagn, 3 útskornir og veglegir sleðar og 1 skrautlaus, kista mikil og öll járnbent, full af ýmis konar áhöldum, rúmstæði, fötur og balar, katlar og ker, kvenlegt smádót ýmis konar, svosem spjaldvefur, snælda, o. s. frv. Langskipið sjálft var mjög skrautlegt og bar með sjer, að það hefði verið öllu fremur einskonar skemtiskip en ætlað til »sæfara og harðræða«. Leifar af beinum tveggja kvenna fundust í haugnum, og af þeim og gripunum er það ljóst, að haugur þessi er drotningar haugur og ekki konungs. Hafði hin eldri sennilega drotningin, verið um fimtugt, en hin, sennilega þerna, er hefir verið látin fylgja drotningu til grafar að fornum sið, hafði verið um þrítugt; fanst lítið af beinum hennar, hvað sem því kann að hafa valdið, en af beinum drotningar vantaði fátt, nema hægri höndina og fingur alla af hinni vinstri og vinstri upphandlegg. Munu þeir er í hauginn gengu til forna, líklega í byrjun 11. aldar, hafa haft bein þessi á braut með sjer vegna

dýrgripa þeirra, er á þeim voru og þeir hafa sótt í hauginn, ásamt öðrum slíkum gersemum.[1])

Af bæjarnafninu og því, er í haugnum fanst, hefir próf. A. W. Brøgger dregið þá sennilegu ályktun, að hjer hafi heygð verið *Ása drotning Haraldsdóttir hins granrauða,* móðir Halfdanar konungs hins svarta og stjúpa Óláfs Geirstaða-alfs, sem ætla má samkvæmt framangreindu, að heygður hafi verið í Gaukstaðaskipinu. Telur hann sennilegt, að hún hafi flutt búferlum frá Ögðum og á Vestfold, í grend við aðsetursstað sonar síns, er hann tók við ríki. Hafi hún sezt að á *Bergi,* er svo upp frá því hafi verið við hana kent og kallað *Asuberg* (nú *Oseberg).* Þegar á alt er litið, bæði frá sögulegu og fornfræðilegu sjónarmiði, er þetta mál snertir, verður þessari tilgátu varla hrundið með nokkrum rökum. Af drotningum þeim í norðurhluta Vestfoldar, er áður voru taldar, hefir engin getað dáið fimtug um 840—850, en að Ása drotning, sem varð síðari kona Guðrøðar konungs um 820, að því er ætla má, hafi verið fædd um 790—800, er mjög líklegt, og ekkert, sem mælir á móti því, að hún hafi andast kringum fimtugt.

---

Árið 850 er Haraldr hárfagri, sonur Halfdanar svarta og sonarson Ásu drotningar talinn fæddur, hinn voldugasti og frægasti allra Ynglinga-konunga. Með honum fyrst hafa á síðari áratugum þótt sannar sögur hefjast í Noregi. Með vísindalegum rannsóknum og rökstuddum dæmum hefir mönnum nú tekist að færa sönnur á hinar fornu frásagnir og konungasögur Svía og Norðmanna, og má það kalla harla mikilsvert atriði, bæði frá vísindalegu og þjóðernislegu sjónarmiði. Oss Íslendinga má þetta gleðja ekki síður en frændur vora, er hlut eiga að máli. Vorir fornu, fróðu sagnaþulir, vísindamenn sinnar aldar, rituðu frásagnirnar, og hjá oss, einum að kalla, hafa þær

---

[1]) *Osebergfundet I.* Kria 1917.

síðan varðveizt. Það mátti vera oss hrygðarefni, er þær voru rengdar og að engu hafðar. Vjer höfum ætíð tekið undir með Snorra: *»Þó at vér vitim eigi sannyndi á því, þá vitum vér dæmi til þess, at gamlir fræðimenn hafa slíkt fyrir satt haft«*. Vér höfum litið svo á, að það í fornsögum vorum, sem ekki yrði með rjettum rökum rengt, gæti verið satt, og talið ánægjuefni, er það varð með góðum rökum sannað. Vonandi verða framfarir með framkvæmdum í þessum vísindum í framtíðinni. Mættu þær þá sem oftast færa sönnur á vor fornu fræði og auka á sæmd þjóðar vorrar!

---

Vjer höfum gjört oss það til fróðleiks og frægðar Íslendingar, að rekja kyn vort allar götur til Ynglinga. Verður það gjört á tvennan hátt, um Oddaverja til Þóru Magnúsdóttur konungs berbeins og um Skarðverja til Þórhildar Þorsteinsdóttur konungs hins rauða, Óláfssonar hins hvíta, sem báðar voru komnar af Ynglinga-konungum í beinan karllegg. Eftir því langfeðgatali eru margir nú, og þeirra á meðal er jeg, í 36. lið frá Halfdani hvítbein t. d., sem mun hafa dáið um miðja 8. öld, og þá í 50. frá Dag spaka, föður Agna, er dó á Agnafit um 400. En Snorri telur enn 10 liði fyrir framan Agna og komumst vjer með því móti svo langt aftur í tímann sem til 200 að minsta kosti. Nú segir Snorri í Ynglingasögu, að þessir fyrstu forfeður vorir hafi verið komnir til Uppsala allar götur sunnan frá Vanakvísl eða Tanakvísl, *»er at réttu heitir Tanais«*, nefnilega á latínu; *»hon kømr til sjávar inn í Svarta-haf«* — og heitir nú *Don*. Snorri segir að Njörðr og Freyr hafi verið díar með Ásum, blótgoðar hjá Óðni þarna suður- eða austur-frá. *»Í þann tíma fóru Rúmverja-höfðingar víða um heiminn ok brutu undir sik allar þjóðir«*. — Þá setti Óðinn bræður sína yfir Ásgarð, *»en hann fór ok díar allir með honum ok mikit mannfólk. Fór hann fyrst vestr í Garðaríki ok þá suðr í Saxland. — — — Þá fór hann norðr til sjávar ok tók sér bústað í ey einni;*

*þar heitir nú Oðinsey í Fjóni«.* — — — *»En er Oðinn spurði, at góðir landkostir váru austr at Gylfa* (konungi í Svíaríki), *fór hann þannok«.* — — — *»Oðinn tók sér bústað við Löginn, þar sem nú eru kallaðar fornu Sigtúnir. Hann gaf bústaði hofgoðunum; Njǫrðr bjó í Nóatúnum, en Freyr at Uppsölum«.* — — — *»Þá er Asa-Óðinn kom á Norðrlönd ok með honum díar, er þat ságt með sannendum, at þeir hófu ok kendu íþróttir þær, er menn hafa lengi síðan með farit«.* — — — *»Allar þessar íþróttir kendi hann með rúnum ok ljóðum«* o. s. frv., sbr. Hávamál:

*»Rúnar mont finna*
*ok ráþna stafe,*
*es fáþe fimbolþulr,*
*Oþen meþ ásom«* . . . o. s. frv.

Er nú nokkur fótur fyrir þessu?

Próf. Oscar Montelius hefir nýlega sagt[1]) viðvíkjandi þessu: »Alt það, sem menn með rannsóknum síðustu mannsaldrana hafa komist að raun um viðvíkjandi hag og háttum Norðurlanda á þeim tímum, sem hjer er um að ræða, kemur á merkilegan hátt heim við þessar frásagnir, nema hvað þess ber þó eðlilega að gæta, að Óðinn var guð, sem Svíar dýrkuðu, en ekki einn af konungum þeirra«.

Gotar höfðu farið frá Svíþjóð yfir hjeruðin fram með Weichselfljótinu suður um lönd, og á þessum tímum, sem Snorri talar um, elzta keisaratímabilinu rómverska, bjuggu þeir sunnantil á Rússlandi alt austur að Don, sem einmitt þá var talin skilja heimsþriðjungana Asíu og Evrópu, eins og Snorri segir.

Á Krímskaga og víðar á Suður-Rússlandi, milli Dnjepur og Donar, hafa fundist í fornum gröfum, einkum frá því um 200 e. Kr., margar minjar eftir Gota þá, er þar bjuggu um það leyti. — Leifar af þessum Krímgotum hafa fyrst um 1800 horfið sem sjerstakur þjóðflokkur.

---

[1]) *Nordisk Tidsskrift 1918*, bls. 236.

Þegar Húnar brutust inn í Evrópu árið 375 og hinir miklu þjóðflutningar hófust, fundu þeir fyrir Gota fyrir vestan Don, en löngu áður en svo langt er komið sögunni hafa Æsir farið norður á bóginn, snúið heimávið aftur til sinna fornu heimkynna, og hefir nú fornfræðingum tekist að rekja slóð þeirra. Þeir hafa sýnilega farið um Þýzkaland til Danmerkur og Svíþjóðar, einmitt þá sömu leið, sem Snorri talar um. Stóð þetta ferðalag lengi yfir og hefir Bernhard Salin fornminjavörður sýnt fram á, að ófriður sá, sem minjar hafa eftir fundist á Jótlandi austanverðu og Fjóni, frá 3. og 4. öld, hafi staðið í sambandi við það.[1]. Ennfremur hefir hann fært fram hin gildu rök, er fyrir því eru fengin gegnum fornfræðirannsóknirnar, að frásagnirnar um dýrkun Óðins, sem settar eru í samband við þessa komu Ása til Norðurlanda, sjeu sannleikanum samkvæmar.

Þá hefir og hið sama sannast um upphaf rúnanna á Norðurlöndum. Hefir einkum próf. Otto von Friesen með nýjustu rannsóknum sínum sýnt fram á, að það voru Gotar þessir, er bjuggu í nágrenni við ríki Rómverja og höfðu því vitanlega stöðugt samband við hinar fornu menningarþjóðir, sem fyrstir hafa búið til rúnirnar. Hafa þeir einkum sniðið þær eftir stafrófi Grikkja, en gert stafina beina og greinar allar á þeim, líklega til þess, að hægara yrði að rista þær á trje. Sýnir hann, að þetta hefir átt sjer stað það snemma, að rúnirnar hafi vel mátt flytjast frá Rússlandi til Norðurlanda með Óðni og Ásum í þessu framangreinda ferðalagi á 2. öldinni; og víst verður þeirra vart á fornminjum þeim, er áður var sagt, að fundist hefðu í Danmörku og stöfuðu frá óeirðunum útaf þessari innrás Ása. — Hlutirnir sýna sig. Sjón er sögu ríkari.

Í janúar 1921.

*Matthías Þórðarson.*

---

[1]) *B. Salin, Heimskringlas tradition om asarnes invandring*, í *Studier tillägnade Oscar Montelius 1903 af lärjungar*, Stockholm, 1903, bls. 133. — Sami, *Die altgermanische Thierornamentik*, Stockholm, 1904, bls. 41. — Tilvitn. eftir Montelius.

# Rauða kýrin.

Eftir **Theódóru Thóroddsen.**

---

»Það var einu sinni umkomulaus drengur, hann langaði til að efnast, eiga peninga, jarðir og kvikfje, vera ríkur. — Hann vann baki brotnu, var sparneytinn, reyndi með sjeðleika að afla sjer fjár, og horfði ekki í að stela, vissi hann sig óhultan fyrir landslögum og dómi. — Þegar hann var orðinn fulltíða maður mátti hann ríkan kalla — og þá hætti j e g alveg.«

Þetta var haft eftir Brandi á Hólmi. Hann sagði það ekki nema hann væri hýr af víni, sem ekki var þó að jafnaði. Þess utan var hann sagnafár, hafði sjaldan orð á öðru en því, er að búskapnum laut og ekki varð komist hjá að tala um við hjúin, eða hann atyrti Kristínu konu sína fyrir eyðsluna. Kristín var jafn ör á fje sem Brandur var sínkur, vildi hún helzt bæta úr þörfum allra, sem bágt áttu, en bóndi hennar sá svo um, að hún hafði ekki af miklu að miðla. Honum fanst hver eiga að búa að sínu. »Jeg get ekki gefið, jeg er svo nízkur! það getur enginn gefið nema guð, það sjer ekki á efnunum hjá honum, þótt hann gefi,« sagði Brandur, því fjarri var það honum, að hafa á sjer yfirskin góðgerðasemi, eða kæra sig um að vera álitinn betri en hann var. Var og meira orð gert á svíðingshætti hans og harðdrægni, en mannkostum, og þó vissi jeg af mætum mönnum, er sögðu að margt hefði verið vel um Brand.

Ein af mörgum sögum um harðlyndi Brands er sú, er hjer segir:

Það var eitt sinn, er vetur hafði verið venju fremur harður, að margir voru heylitlir, er kom fram á útmánuði. Höfðu sumir leitað til hreppstjórans í því skyni, að hann leysti vandræði þeirra, því þá var ekki sú tilhögun sem nú er, að hreppsnefndir væru skipaðar. Var því helzt trausts að leita þar sem hreppstjórinn var.

Hreppstjórinn, sem var góður maður og gegn, skaut á fundi á prestssetrinu sunnudaginn fyrstan í Góu eftir messu Voru margir bændur við kirkju, því hann hafði sent þeim orð, að koma til viðtals við sig og prestinn. Þar á meðal var Brandur á Hólmi.

Prestur bauð þeim til stofu, og tóku þeir nú að ráða ráðum sínum. Greiddist svo úr, að til sumarmála var sjeð fyrir öllum, nema ekkjunni í Dal. Hún var í þann veginn að verða heylaus fyrir kýrnar, sem voru tvær. Væri önnur tekin af henni, var líklegt, að hún gæti haldið lífi og lítilli nyt í hinni frameftir vorinu.

»Þú tekur beljuna af kerlingargreyinu Brandur,« sagði hreppstjóri, »þú hefir auðan bás í fjósinu og nóg átt þú heyin.«

»Jeg, nei, ekki eitt mitt bein, það er ekki að nefna, það er mátulegt handa þeim að fella úr hor, sem ekki kunna að setja á heyin.«

»Hún varð fyrir óhappi í haust, þegar torfið reif af heygarðinum í mikla veðrinu og hún misti helminginn af töðunni sinni, og ekki er betra að fá hana á hreppinn með alla krakkana.«

»Það skiftir mig engu, og ekki sit jeg hjer, sje það ætlun ykkar að níðast á mjer. Kúna tek jeg ekki, og læt ekki heldur eitt heystrá út af heimilinu.«

Að svo mæltu tók Brandur hatt sinn, kastaði kveðju á fundarmenn og fór.

Nú var úr vöndu að ráða. Allir vissu að þetta var bara meinbægni af Brandi, og þótti þeim ilt að láta honum haldast uppi, að skorast undan að bjarga í neyð, þegar margur lagði af mörkum, sem af minna hafði að miðla. Það varð því að ráði, að flytja aðra kúna í Dal á hann,

í því trausti, að hann gerði hana eigi afturreka, er hún væri komin. Tóku tveir fundarmenn það að sjer, að annast um flutninginn.

Daginn eftir var hreinviðri, en stinnings kaldi á norðan og ákaflega frosthart. Að líðandi hádegi sá heimafólkið á Hólmi, að tveir menn komu gangandi neðan móana, sem lágu að túninu, og leiddu kú á milli sín. Hafði einhver orð á því, að kalt væri að leiða kýr í slíku veðri.

Brandur sat á rúmi sínu og fljettaði reipi, og raulaði eitthvað fyrir munni sjer, sem vandi hans var, er hann var að dundurs-verki. En er hann heyrði um mannaförina brá honum svo, að hann lagði frá sjer fljettuna og skundaði til dyra. Kendi hann brátt, að þar fóru tveir fundarmanna með kúna í Dal. Kýrin var ung og fönguleg, í góðum holdum, hún var rauð á lit með kolóttar granir og ákaflega stórhyrnd.

Ekki horfði Brandur lengi á þá fjelaga. Hann keyrði bæjarhurðina skyndilega í lás og renndi fyrir lokunni, gekk síðan til baðstofu og tók öllum vara fyrir því að ganga til dyra, þótt barið væri.

Kristín húsfreyja hafði í kyrþey gefið gætur að athöfnum bónda síns. Grunaði hana hvað í efni væri, því Brandur hafði haft orð á því, er hann kom síðast frá kirkjunni, að nú ætti að fara að níðast á sjer með hey handa horbeljum. Bað hún Brand, að víkjast nú vel við og taka við kúnni. En slíkt var ekki að nefna, og svo vön var Kristín orðin múlnum, að hún sá sjer ekki fært að halda málinu til streitu.

En það er frá komumönnum að segja, að þeir komu að öllum dyrum lokuðum og ekki var til dyra gengið, þótt þeir berðu. Tók þá annar það til bragðs, að hann kleif upp á baðstofuna og lagðist ofan að gluggaholunni, er hann vissi að var yfir rúmi Brands, og kallaði svo hátt að vel máttu allir heyra, er inni voru: »Við Jón á Leiti erum komnir með kúna frá Dal. Höfum við einsett okkur að skilja hana hjer eftir, og skalt þú hvers manns níð-

ingur heita, ef þú lætur skepnuna deyja úr kulda fyrir dyrum þínum.«

Að svo mæltu fóru þeir fjelagar burtu, en kúna skildu þeir eftir bundna við hestastein mikinn, er stóð á hlaðinu.

Þegar þeir voru farnir, vakti Kristín enn máls á því, að farið væri út og sint um kúna, bað Brand að gá að guði og láta ekki blessaða skepnuna híma úti í slíku veðri Urðu og fleiri heimamanna til að styðja mál hennar. En Brandur var húsbóndi á sínu heimili, ekki aðeins í orði heldur og á borði. Kvaðst hafa neitað að taka kúna, og lagði blátt bann við, að henni væri hleypt í hús, eða nokkuð að henni hlynt. Varð svo að vera sem hann vildi, en fremur voru menn hljóðir það, sem eftir var dagsins, og undu því illa, að heyra öskrið í rauðu kúnni, sem bundin stóð við hestasteininn í norðanbáli og grimdarfrosti.

Þegar leið á kvöldið fór að draga úr öskrinu og loks þagnaði kusa alveg.

Næsta morgun er út var komið á Hólmi, stóð kusa í sömu sporum við steininn. En hún hafði hljótt um sig, var það og að vonum, því hún var steindauð, helfreðin við hestasteininn á hlaðinu á Hólmi.

Ekki bar á því að Brandi brygði þótt svona færi. Gerði hann hreppstjóranum orð, að hirða af henni hamsinn. En ótalin voru tárin, sem Kristín húsfreyja feldi út af þessum atburði, og ómældir voru líka mjólkurdroparnir, sem hún laumaði til ekkjunnar í Dal, það sem eftir var vetrarins. Margir lögðu Brandi til lasts þessar tiltektir hans með kúna, en mest var það svona aftan við bakið á honum. Enginn hafði djörfung til að ganga framan að honum með slíkt, því síður, að nokkur sækti hann til bóta fyrir eignaspjöll eða illa meðferð á skepnum, og ekkjan í Dal varð að þola skaða og skapraun bótalaust.

---

Rauða kýrin gleymdist. Brandur bjó búi sínu á Hólmi og auðgaðist ár frá ári. Var hann talinn með ríkustu bændum í sýslunni, og þó víðar væri leitað, og að jafnaði kall-

aður Brandur ríki. Kristín kona hans dó á sextugsaldri, var hún öllum harmdauði, er hana þektu. Gerði Brandur útför hennar virðulega, því hann hafði það til, að vera rausnarlegur stöku sinnum.

Eftir fráfall hennar brá Brandur búi, og var uppfrá því í húsmensku hjá einum sona sinna, er tekið hafði við jörðinni.

Þegar Brandur var um sjötugt tók hann krankleika nokkurn. Ekki vildi hann að læknis væri til sín vitjað, kvað það óþarfa tilkostnað, því að einu myndi draga um sitt ráð. Bar hann veikindi sín með karlmensku og stillingu, hafði hann jafnan verið fámáll og æðrulaus.

Elnaði honum sóttin og sótti mjög á hann hitaveiki með óráði. En það þótti þeim, er stunduðu hann í legunni furðu kynlegt, að ávalt er óráðið kom á hann, bandaði hann frá sjer með höndunum, sem hann vildi verjast ásókn, og sagði þá um leið, og var skelfingarhreimur í röddinni: »Rauða kýrin! rauða kýrin!«

Úr þessum veikindum ljezt Brandur ríki á Hólmi.

---

# Vísur.

*Jón Einarsson* rektor (d. 1707) um Sigurð Björnsson, þá hann sagði af sjer lögmannsdæmið (1705):

Búð var hjer, en bar er sú,
bezt sem þótti roðin.
Hjer var maður, en hvar er hann nú?
Hvort eru dauð öll goðin?

*Sigurður Pálsson* kvað, þá hann reið frá greftri sonar sins:

Saman kemur hrygðin hrum,
hrímult stundum af jeg þrym.
Gamans þó að glansi brum,
glymur undir sorgarbrim.

Sigurður Pálsson er fæddur rjett fyrir 1648, lögrjettumaður í Skógarnesi, kallaður »skáld og vitur maður«. Ljest 1720.

# Um hreinlæti.

Eftir **Guðmund Hannesson.**

**Heilsan og hreinlætið.**

Ef trúa mætti því, sem kent er í fjölda af alþýðlegum bókum og ritlingum um hreinlæti, þá yrðum vjer Íslendingar ekki ellidauðir. Vjer dræpumst hrönnum saman úr óþrifnaði. Það má heita, að flest alþýða þvoi sjer aldrei um allan líkamann frá vöggunni til grafarinnar, vjer burstum ekki tönnurnar, og skolum ekki munn og kok, sköfum sjaldan skítinn undan nöglunum, fylgjum yfirleitt fæstum hreinlætissiðum flestir hverjir — og þó lifum vjer nú orðið engu skemur en aðrir, erum jafnvel að verða ein af langlífustu þjóðum heimsins. Þó þetta sjeu engin meðmæli með óþrifnaðinum, — því hann er öllum til ills —, þá sýnir það ótvíræ̈tt, að það þarf magnaðan óþrifnað til þess, að menn geti ekki haldið lífi og sæmilegri heilsu. Eigi að síður er það engum vafa undirorpið, að alt skynsamlegt hreinlæti hefir góð áhrif á alla heilsu manna og líðun.

**Menningin og hreinlætið.**

En það þarf áreiðanlega ekki, að gylla hreinlæti og góða siði með því, að heilsan spillist, ef út af þeim sje brugðið. Ósjálfrátt býður flestum við mjög óhreinlátum mönnum, t. d. þeim, sem mora í lús og hverskonar óþrifnaði. Það er vaxandi menning, sem hefir komið þessari ósjálfráðu tilfinningu inn hjá öllum þorra manna og veldur því, að mjög óhreinlátir menn þykja ekki í húsum hæfir. Og þessi tilfinning eykst, samfara menningunni, með ómótstæðilegu afli. Að lokum þykja engir sæmilegir menn, sem ekki eru kattþrifnir, engin húsakynni boðleg nema þau sjeu tárhrein

styrkur, sem íslenskir stúdentar hafa borið úr býtum, í staðinn fyrir Garðstyrkinn. Þeir stúdentar, sem þetta árið útskrifast, geta t. d. ekki gert sjer von um einnar krónu fjárveitingu til siglingar, svo að ef einhverir þeirra hafa ekki tilhneigingu til þess að leggja stund á neina þá fræðigrein, sem hjer er kend, þá standa þeir uppi í vandræðum, og vita, ef satt skal segja, alls ekki hvað þeir eiga af sjer að gera. Þeim eru allar bjargir bannaðar og allar leiðir lokaðar. En af háskólaráðinu er það að segja, að það hefir ákveðið, að orðin »íslenskir námsmenn« í 2. gr. stofnskrárinnar eigi ekki við aðra en kandídata frá Háskóla Íslands. Þeir einir geta fengið utanfararstyrk úr Sáttmálasjóði, — og svo þar að auki kennarar háskólans. Þetta ár hafa kandídötum verið veittar 8000 kr. til framhaldsnáms erlendis, og er furðulegt, að sú fjárveiting skuli ekki vera stórum ríflegri, úr því að Sáttmálasjóðurinn hefir með öllu brugðist s k y l d u sinni gagnvart stúdentunum. Því að helst ætti að stefna í það horf, að hver einasti kandídat hjeðan gæti fengið tækifæri til þess að framast við útlendar mentastofnanir. Kennarar háskólans hafa hins vegar fengið 4000 kr. styrk til utanfara, og mundi sú fjárveiting síður orka tvímælis, ef stúdentar hefðu ekki samtímis og næstum því fyrirvaralaust verið sviftir þeim ómetanlegu hlunnindum, sem þeir hafa notið öldum saman. Enginn mundi hafa hreyft mótmælum gegn því, að Háskóli Íslands legði undir sig Sáttmálasjóðinn, e f svo hefði verið um hnútana búið um leið, að mikilsverðustu rjettindi íslenskra stúdenta væru ekki fyrir borð borin. — Þess má geta, að Danir munu ætla sjer að veita íslenskum stúdentum fjárstyrk úr Sáttmálasjóði sínum (»Dansk-islandsk Fond«), til þess að stunda nám við Hafnarháskóla og jafnvel við aðra háskóla á Norðurlöndum. En sú fjárveiting á að verða bundin því skilyrði, að styrkþeginn hafi lokið fyrri hluta prófs í þeirri námsgrein, sem hann stundar, eða sje kominn langt áleiðis með námið. Þetta verður því aðallega styrkur til þess að ljúka prófi, svo að ný-útskrifuðum stúdentum kemur hann

ekki að neinu haldi. Og ekki er hinu íslenska háskólaráði það að þakka, hvað Danir fara vel og viturlega með þetta mál. —

Mentamál vor eru nú sem stendur öll á ringulreið, og er hætt við að langar stundir líði, áður en þau komast aftur í rjett horf. Enginn neitar því, að oss er nauðsynlegt að hafa öfluga innlenda mentastofnun handa þeim stúdentum, sem ætla sjer að stunda guðfræði, læknisfræði eða lögfræði. Því að það er vitanlega eina leiðin til þess að fá menn í lækna og presta-embætti, og sú óhæfa varð að hverfa úr sögunni, að íslenskir lögfræðingar fengju enga fræðslu um íslenska löggjöf Hitt er miklu vafasamara, hvort það hefir verið vel ráðið að bæta heimspekisdeildinni við, og nefna svo þessar fjórar deildir háskóla. »Það er stórt orð Hákot«, — og í nafninu háskóli felst stefnuskrá, sem engin von er til að við getum fylgt fram fyrst um sinn, og ekki svo langt sem augað eygir út í framtíðina. Nafnið má því fremur heita nafnbót en rjettnefni, og er því talsverð hætta á, að hjer kunni að fara á sama veg, sem oft vill verða um nafnbætur. Þær rugla almenning, villa honum sýn og spilla dómgreind hans. Enda mætti nefna þess dæmi, að til eru menn hjer á landi, og þeir ekki allfáir, sem hafa það fyrir satt, að nú sje mentamálum okkar borgið til fulls, úr því að hjer er til stofnun, sem nefnist háskóli. En sú villa er svo háskaleg, að hún verður að kveðast niður sem allra fyrst.

Í heimspekisdeildinni eru forspjallsvísindi, íslensk málfræði og saga Íslands aðalnámsgreinarnar, — í rauninni einu námsgreinarnar. Kenslan í forspjallsvísindum er ekki annað en undirbúningur undir námið í hinum deildunum, og hefði því ekki þurft að stofna sjerstaka deild þeirra vegna. En hitt er satt, að það væri bæði ómyndarlegt og næstum því ósæmilegt, ef íslensk fræði ættu sjer engan griðastað hjer innanlands. Enda var talsvert um það rætt, þegar háskólinn var stofnaður, að hann ætti að verða vígi og varnarstöð íslenskrar menningar, og þótti

því illa til fallið, að engin tilsögn væri veitt þar í íslenskri tungu eða íslenskri sögu. Sjálfsagt mun enginn bera á móti þessu, og má telja víst, að framvegis verði hlynt svo vel að hinum íslensku fræðum við háskólann, sem við eigum fremst kost á. En hinu verður að vekja athygli á í þessu sambandi, að furðulegt ósamræmi er í skólapólitík okkar, að því er kemur til tungu og þjóðernis. Því að í flestum skólum landsins er danskan nú annað aðalmálið við kensluna. Að vísu er alstaðar töluð íslenska í sjálfum kenslustundunum, en kenslubækurnar eru flestar danskar. Þeim, sem vilja ganga úr skugga um, að þetta sje rjett hermt, nægir að fletta upp einhverri íslenskri skólaskýrslu, — þær segja flestar sömu söguna, hvort sem þær eru frá mentaskólanum, verslunarskólanum, gagnfræðaskólunum eða bændaskólunum. Allir skólar okkar eru nú sem stendur að meira eða minna leyti brjóstmylkingar dönskunnar. Hvað mundi nú vera orðið um íslenskuna, ef slíkt háttalag hefði tíðkast öldum saman? Því að þess er að minnast, að þessi ósvinna hefir tæpast þekst hjer á landi fyr en á 19 öld, — áður voru hjer engir aðrir skólar en latínuskólarnir, og þar sat latínan í öndvegi. En hún var íslenskunni aldrei háskaleg. Hitt gerðist ekki fyr en á tímum sjálfstæðisbaráttunnar, að Íslendingar sjálfir fóru að veita dönskunni í stríðum straumum yfir alt þjóðlíf sitt gegnum skólana, sem þeir hafa verið að bisa við að koma sjer upp af litlum efnum, til eflingar tungu sinni og þjóðerni! Fyr má nú vera, en að vopnin snúist svo öfugt í höndum manna! — Í stofnskrá Sáttmálasjóðsins er gert ráð fyrir, að veitt verði fje til útgáfu kenslubóka handa háskólanum. Það hefði áreiðanlega ekki verið misráðið, ef háskólaráðið hefði sett Sáttmálasjóðnum það mark og mið, að sjá öllum landsins skólum fyrir íslenskum kenslubókum. Hjer skortir áreiðanlega ekki menn til að semja þær. Ef þeir, sem fjárveitingarvöldin hafa, vilja grípa myndarlega í taumana, er hægt að ráða bætur á þessu hneyksli á skömmum tíma. — — —

Hjer hafa nú verið gerðar fáeinar athugasemdir á víð og dreif um mentamál vor, en málefnið er svo mikilvægt, að miklu rækilegar þyrfti um það að rita. Að lokum vil jeg að eins minnast á eitt atriði í viðbót. Að vísu má bera kvíðboga fyrir því, að svo fámennri þjóð sem Íslendingum veitist erfitt að skipa fullhæfa menn í háskólaembættin. En þó verður það tæpast þyngsta þrautin. Þrátt fyrir alt höfum við nálega á öllum öldum átt margt lærðra manna, og er engin ástæða til að ætla, að svo muni eigi einnig verða á komandi tímum, enda væri þá kraftur kynstofnsins til þurðar genginn. Hitt er mesta meinið, að við höfum stofnsett háskóla í bæ, sem engin skilyrði hefir til þess að vera háskólabær. Því að ennþá er Reykjavík ekki annað en umkomulítill smábær, andlega og efnalega fátækur, og þar að auki á einstöku gelgjuskeiði nú sem stendur. Stúdentar geta að vísu lesið hjer sömu bækur sem annarsstaðar eru lesnar, — en hjer geta þeir ekki kynst neinu, sem þeim er nýtt, hjer geta þeir ekki sjeð neitt, sem vekur undrun þeirra, og hjer fá þeir aldrei reynslu um það, hvað gerist í sál ungs manns, sem í fyrsta sinn er kastað út í iðustraum erlends þjóðlífs, þar sem alt er í hans augum eins og það væri nýskapað, — alt spánnýtt, óvelkt og ósnortið eins og á fyrsta degi. Ef svo ætti að fara, að próf við Háskóla Íslands yrði síðasta takmark íslenskrar skólamentunar, þá verður háskólinn aldrei skjólgarður þjóðernisins, heldur vörslugarður móti erlendum áhrifum, sem oss eru lífsnauðsynleg, ef menning vor á ekki að trjena. Og væri furðulegt, ef það yrði ofan á, að embættismannaefnum væri heimamentunin einsaman nægileg, á sama tíma sem menn úr öllum öðrum stjettum, bæði iðnaðarmenn, kaupsýslumenn og bændur, leita hópum saman til annara þjóða til þess að afla sjer fullkomnari mentunar, en hjer er kostur að fá. Þess vegna m. a. ætti að mega treysta því, að aldrei fari svo, að Reykjavík verði til lengdar síðasti áfanginn á námsbraut íslenskra mentamanna.

---

# Ritfregnir.

**Sigurður Nordal**: Snorri Sturluson. — Reykjavík 1920.

Vafalaust er Snorri Sturluson frægasti rithöfundur, sem uppi hefir verið á Norðurlöndum. Og það er hverjum einasta Íslendingi kent á ungum aldri, að hann sje höfuðsnillingur bókmenta vorra, bæði að fornu og nýju. En hins munu flestir ganga duldir, að bókmentastarf Snorra er að miklu leyti alls annars eðlis en flestra þeirra manna, sem ritfrægð hafa hlotið. Því að minstur hluti Heimskringlu, höfuðrits hans, má heita frumsmíð. Sagnaritun hans er að mestu í því fólgin, að hann fer höndum um annara manna verk, lagfærir þau og leiðrjettir, mótar þau að nýju og blæs í þau anda djúpsærrar rannsóknar og töfrandi listar. Hann skipar öndvegið á bekk sagnaritaranna af sömu rökum sem Shakespeare er konungur skáldanna. Báðir kunnu í besta lagi að ávaxta fengið fje.

Enginn, sem les Heimskringlu eina saman, getur þess vegna fengið neina hugmynd um, hvílíkt verk Snorri í raun og veru inti af höndum. Því að til þess þurfa menn að lesa allar hinar fornu Noregskonungasögur ofan í kjölinn. Það sætir því hinni mestu furðu, að hingað til hefir næstum því ekkert verið skrifað á íslensku um rithöfundinn Snorra Sturluson. Þar var autt skarð í bókmentum vorum. En nú hefir Sigurður Nordal fylt það, og fylt það svo vel, að engin líkindi eru til, að þar þurfi um að bæta fyrst um sinn. Enda hefir hann ekki hlaupið að því verki undirbúningslaust, því að áður hefir hann samið bæði meistararitgerð og doktorsritgerð um mikilvægustu atriðin í sagnaritun Snorra, og þar að auki allnákvæma mannlýsingu hans, sem birtist í »Skírni« fyrir nokkrum árum. Af öllum þeim tilföngum er bók þessi gerð, og þó mörgu aukið við. Það mun og ekki ofmælt, að hjer beri á góma flest þau atriði, sem máli skifta, er meta skal Snorra og verk hans. Þar að auki er gripið á mörgum spurningum, er varða fornísleska sagnaritun og bókmentir yfirleitt, og

verður því bókin svo yfirgripsmikil, að engin leið er til að gera grein fyrir efni hennar í stuttum ritdómi. Hjer verður því aðeins minst á nokkur höfuðatriði.

Mörgum hefir þótt höf. fara ómildum höndum um Snorra í öðrum þætti, þar sem manngildi hans er metið. En þó mun það tæpast verða hrakið, að höf. hefir bygt dóm sinn með mikilli nákvæmni og skarpskygni á forsendum þeim, sem Sturlunga hefir honum í hendur fengið. Það er óvinnandi verk, að skafa það af Snorra, að hann var »ágjarn til allra farsællegra hluta«, metorðagjarn og fjöllyndur, kaldráður og ótryggur, ef því var að skifta, því að Sturlunga leggur fram ærin sönnunargögn fyrir því öllu saman. Og ekki er þess von, að brestir Snorra minki í augum þeirra manna, sem hafa það fyrir satt, að Sturlunga sje honum hliðholl. Höf. er þeirrar skoðunar, eins og raunar flestir eða allir, sem um það mál hafa ritað. En jeg get ekki látið mjer skiljast, að sú skoðun sje á rökum bygð. Jeg get ekki trúað öðru, en að mörgum hafi farið líkt og mjer, er jeg í fyrsta sinni las Sturlungu. Jeg var altaf að leita að Snorra. Hann er næstum því alt af í fjarlægð við lesandann, sjaldan eða aldrei er litið á málin frá hans sjónarmiði, en oft hermt frá atvikum og skotið fram athugasemdum, alveg að þarflausu, sem honum eru til óvirðingar. Það kemur nálega ekki fyrir, að tilfærð sjeu orð eða ummæli Snorra, og má það merkilegt heita, því að ótrúlegt er að þeim, sem þektu hann vel, hafi ekkert verið minnisstætt úr samræðum hans. Hins vegar er mörgum hnýfilyrðum og háðslettum um hann haldið á lofti í Sturlungu. Annars er ekki tóm til að gera nánari grein fyrir þessu hjer. Þó má minnast á það í þessu sambandi, að það dæmi, sem höf. tilfærir á bls. 252—253 um hlutleysi Sturlu Þórðarsonar í frásögn, er ekki vel valið. Sturla segir frá, að Snorri átti tal við hann eftir þingdeild þeirra Órækju um Staðarhól og fleiri jarðir, sem Órækja hafði reynt að sölsa undir sig með rangindum. »Taldi Snorri heldr á hann ok kvað hann vilja deila við frændr sína um hlut annara manna at ósynju«. Sturla bætir ekki við einu orði frá sjálfum sjer, og út af því gerir S. N. þá athugasemd, að meiri geti óhlutdrægnin ekki verið. En ef betur er aðgætt, er öll frásögn Sturlu um þessi málaferli hin meinlegasta í garð Snorra. Sturla hefir áður getið þess, að Snorri hafi sent Starkað Snorrason fylgdarmann sinn vestur til Órækju, og hafði hann »fyrirsögn á málinu« á Þorskafjarðarþingi. Þar með er ótvíræðlega gefið í skyn, hvaðan aldan hafi runnið. Og svo

árjettar Sturla með því að segja frá því nokkru síðar, að Snorri hafi talið á hann fyrir að rísa gegn þessum rangindum. Sjálfsagt hermir Sturla rjett og satt frá öllum málavöxtum. En hann dregur ekki taum Snorra, hvorki hjer nje annarsstaðar í Íslendinga sögu. Hann hallar vafalaust aldrei rjettu máli vísvitandi. En honum hefir vitanlega getist misjafnlega vel að þeim mönnum, sem hann ritar um. Fátt sýnist mjer vissara, en að hann hefir ósjálfraða tilhneiging til þess að láta Sturlu Sighvatsson njóta sín sem best í augum lesandans. En bersýnilega hefir hann litla freistingu til þess að fegra mál Snorra. — — —

Höfuðatriðið í bók S. N. er auðvitað rannsókn hans á sagnaritun Snorra. Þekking hans á málefninu er óvenjulega mikil og djúptæk, og skilningurinn næmur og víðsýnn, enda mun óhætt mega fullyrða, að hann hafi rökstutt flestar skoðanir sínar svo fast og rækilega, að þeim verði tæpast haggað.

Áður en hann tekur til við sagnaritun Snorra, ritar hann þátt um fornislenska sagnaritun í heild sinni. Hann sýnir þar fram á, að meginstefnurnar í íslenskri sagnaritun eru tvær, s k e m t u n og v í s i n d i, og mun það í raun og veru eiga við um sagnaritun allra þjóða. Sagnaskemtunin var frumstigið, allar sögur og sagnir eru sprottnar af ósjálfráðri tilhneigingu manna til þess að svala forvitni sinni og æfintýraþrá. Í upphafi var þjóðsagan, »lygisagan«, þar sem ímyndunaraflið rann gönuskeið sitt, en steig um leið fyrstu sporin á braut söguListarinnar. Löngu seinna knýr n a u ð s y n i n fram sannleikskröfuna, — menn þ u r f a að vita söun deili á ætt sinni, og ættvísin verður fyrsti og traustasti hyrningarsteinn vísindalegrar sagnakönnunar. Saga íslenskrar sagnaritunar er saga um fangbrögð óstýriláts ímyndunarafls og strangvísindalegs rannsóknaranda. Þau fangbrögð fara á ýmsa leið. En um eitt skeið, á einu augnabliki, rennur glímuskjálftinn af þessum ólíku öflum, þau komast í samræmi og beinast bæði að sama marki. Á þeirri sólskinsstund samdi Snorri Sturluson rit sín. En þegar um hans daga sjer þess vott, að samræmið muni ekki haldast lengi, og bratt gerist fullkominn skilnaður listar og vísinda. Sagnaritunin þornar og skorpnar og verður að skrælþurri annálagerð. En ímyndunaraflið verður ólmt og óviðráðanlegt, og gerist svo stórstigt og brokkgengt, að það verður að leita út fyrir mannheima til þess að finna sjer hæfilegan skeiðvöll. Þá voru fornaldarsögurnar færðar í letur. — —

Um rannsoknir höf. á ritstörfum Snorra neyðist jeg til að vera fáorður, enda hefir Björn M. Ólsen gert nákvæma grein fyrir

doktorsritgerð hans í »Skírni« 1915, og verður að vísa til þess ritdóms. Höf. lýsir nákvæmlega sagnakönnun Snorra, — hvernig hann safnaði efninu og vann úr því, hvernig hann notaði heimildirnar, bar þær saman og leiðrjetti þær. Könnunaraðferð Snorra er næstum því altaf hávísindaleg, svo að slíks eru engin dæmi meðal annara þjóða fyr en á 19. öld, enda ber formálinn fyrir Heimskr. þess ljósan vott, hve djúpt hann hefir bugsað það mál. Höf. leiðir óyggjandi rök að því, að Snorri hafi fyrst samið Ólafs sögu helga sem sjálfstætt rit, en bætt seinna við fyrsta og síðasta þriðjungi Heimskringlu. Þá skilst fyrst til fulls, hvers vegna Ólafs saga stingur svo mjög í stúf við hinar sögurnar í Heimskringlu. Áður hafa menn litið svo á, að Snorri hafi lagt mesta rækt við Ólafs sögu, vegna þess að Ólafur var dýrlingur, saga hans viðburðarík o. s. frv. En þeirra skýringa þarf ekki við, þegar maður veit, að Ólafs saga var samin út af fyrir sig, á undan hinum sögunum. Á það verður og að líta, að Snorri var yngri þegar hann samdi Ólafs sögu en hina hluta Heimskringlu. Hann hefir þar miklu meiri skemtun af að segja frá, gefur söguListinni lausari tauminn, heldur en seinna. Þá er hin vísindalega alvara orðin miklu meiri, svo að frásögnin verður jafnvel stundum ósögulegri vegna varkárninnar.

Um frásagnarlist Snorra ritar höf. langt mál og skemtilegt. Hann ber Heimskringlu saman við eldri heimildir og sýnir, að venjulega breytir Snorri stíl fyrirrennara sinna svo, að öll frásögnin fær nýjan blæ, jafnvel þar sem hann breytir efninu lítið eða alls ekki. Eru mörg dæmi þess tilfærð og flest ágætlega valin. Oft varpar Snorri nýjum og óvæntum ljóma yfir setningar, með því að víkja orðum að eins örlítið við. Fagurskinna segir: »Þar stendr ok bautasteinn hár, sem Egill fell«. Snorri: »Háfir bautasteinar standa hjá haugi Egils Ullserks«.

Höf. leggur mikla stund á að skýra, hversu eiginleikar Snorra sjálfs birtist í ritum hans. Hann reynir að sýna, »að andlega starfsemin hefir áhrif á skapferli hans og höfðingjaferil, að veraldarreynsla hans dýpkar skilninginn á fortíðinni og gerir framsetning sögunnar glæsilegri, að skáldgáfa hans kemur fram í vísindaritunum, vísindamaðurinn í kvæðagerð hans, sagnaritarinn í goðafræðinni«. Jeg hygg að það geti ekki á tveim tungum leikið, að honum hafi heppnast þetta vandaverk furðulega vel. — — —

Hjer hefir ekki verið minst á þættina um Skáldskaparmál og Gylfaginning, og er það ekki vegna þess, að þeir standi öðrum köflum bókarinnar að baki, heldur vegna rúmleysis. Þessi fáu orð

verða að nægja til þess að vekja eftirtekt almennings á þessari merkilegu bók.

Sigurður Nordal er rithöfundur að eðlisfari. Hann hefir mikla listamannsgáfu og skarpa dómgreind, og reynir að laða þá tvo hæfileika til samvinnu. Sjálfur veit hann vel, hvað sjaldan það tekst til fulls. Stíll hans er tilþrifamikill, mjúkur og ísmeygilegur. En of víða finst það á í þessari bók, að hann hugsar oft á öðrum málum en íslensku. Á. P.

**The Elder Edda and Ancient Scandinavian Drama by B. S. Phillpotts.** Cambridge 1920.

Rannsóknir þær á Eddukvæðunum, sem bók þessi hefir að geyma, komast inn á alveg nýjar brautir, og eru bæði sakir margra ágætra athugana og þeirrar niðurstöðu, sem höf. kemst að, mjög merkilegar. Það sem Miss Phillpotts leitast við að sanna, er, að á Norðurlöndum hafi tíðkast sjónleikar alt fram á 10. öld, og sje allmikill flokkur Eddukvæðanna leifar slíkra leika. Færir Miss Ph. þessu til sönnunar marga hluti, en fyrst og fremst eru þó gögn hennar kvæðin sjálf.

Gildi hefir bókin einkum tvenns konar, bókmentasögulegt og menningarsögulegt. Sjálf niðurstaðan snertir framar öllu öðru menningarsöguna, en rannsóknir hennar og flokkun á Eddukvæðunum hafa alveg sjálfstætt gildi fyrir bókmentasöguna, hvort sem niðurstaðan er rjett eða ekki.

Miss Ph. skiftir Eddukvæðunum í tvo flokka. Annars vegar eru kvæði þau, sem ort eru undir ljóðahætti; en þau eru þessi: Hávamál, Vafþrúðnismál, Grímnismál, Skírnismál, Lokasenna, Alvíssmál, Reginsmál, Fáfnismál, Sigrdrífumál, og nokkur brot bæði í öðrum kvæðum og í Snorra-Eddu. Til þessa flokks telur Miss Ph. einnig Helgakviðurnar, þ. e. a. s. Helgakviðu Hundingsbana II. og Helgakv. Hjörvarðssonar. Í báðum kvæðunum eru ljóðaháttarvísur, í öðru jafnvel heilt kvæði, Hrímgerðarmál. Telur Miss Ph. vísur þessar úr eldri kvæðum um sama efni, fyrirmyndum Helgakviðanna, sem nú eru til. Fyrirmyndir, ortar undir ljóðahætti, telur hún einnig bæði Þrymskviðu og Hyndluljóð eiga. Þá eru ótalin tvö Eddukvæði, Grógaldr og Fjölsvinnsmál, sem Miss Ph. telur meðal stælinga Eddukvæðanna. Þótt þau sjeu ort undir ljóðahætti, teljast þau ekki til þessa flokks. Í hinum flokknum eru öll kvæði undir fornyrðislagi og málahætti, nema þau, sem

Miss Ph. telur ort eftir ljóðaháttar-fyrirmyndum, svo sem fyr var nefnt.

Mismunur þessara tveggja flokka er býsna mikill. Trú og hugsunarháttur er forneskjulegri og óþroskaðri í ljóðaháttarflokknum. Þar úir og grúir af yfirnáttúrlegum verum. Skýrast kemur það fram, þegar borin eru saman 3 fyrstu Sigurðarkvæðin (Reginsmál, Fafnismál, Sigrdrífumál) við síðari kvæðin um hann. Í fyrri kvæðunum koma fyrir: otur, gedda, dvergar, fuglar, goð, dreki og valkyrja, — og eru dýrin eigi síður en hinar goðkynjuðu verur, máli og skynsemi gæddar persónur. Og skáldinu finst ekki vitund óeðlilegt að oturinn og drekinn eru synir mensks manns. Síðari kvæðin stinga mjög í stúf við þetta. Þar eru allar persónurnar mannlegar, nema aðeins ein tröllkona, sem kemur fyrir í Helreið Brynhildar. — Loks má telja að ljóðaháttarflokkurinn sje öllu alþýðlegri, og koma mörg atriði fyrir, sem í raun rjettri eru miður skaldleg. Á sjálfstæðum siðferðiskröfum ber ekkert að kalla, nema í Lokasennu og Hávamálum.

Hinn flokkurinn sver sig í ætt til höfðingjanna, ber vott um þroskaðri hugsanir um tilveruna og siðferðiskröfur. Hann sýnir meiri list í meðferð efnisins og meiri skilning á sálarlífi manna.

Auk þess er margt fleira, sem á milli ber. T. d. eru ýms sjereinkenni á stíl ljóðaháttarflokksins, sem koma fyrir í nærfelt öllum kvæðum, sem teljast til þess flokksins.

Þá er nú talið nokkuð það, sem aðgreinir flokkana, og þó fátt. Telur Miss Ph. ljóðaháttarkvæðin norsk og ætlar að ljóðaháttur hafi verið norskur bragarháttur, sem ekki hafi tíðkast á Íslandi fyr en á 12. öld, eða síðar. Aftur á móti talar Miss Ph. ekki um heimkynni fornyrðislagskvæðanna í heild. En hún tekur það fram um goðakvæði þau, sem ort eru undir fornyrðislagi, að þau sjeu öll vestræn eða íslenzk.

Annað mikilsvert atriði er það, að Miss Ph. telur öll ljóðaháttarkvæði (þar með taldar Helgakviðurnar) vera um norsk efni. Færir hún marga hluti því til stuðnings, að sagnirnar um það, er Sigurður vá Fáfni, hafi verið norskar.

Miss Ph. hefir nú með þessu varpað nýju ljósi yfir Eddukvæðin, »jarðlögin« í þeim, ef svo má segja. Og má þessi flokkun hennar teljast stórmerkileg, hvort sem menn fallast á aðrar skoðanir hennar eða ekki.

Þá er að minnast á niðurstöðu bókarinnar. Miss Ph. færir því máli margt til stuðnings, að ljóðaháttarkvæðin í Sæmundar-Eddu

sjeu »sjónleikatextar«. Fyrst og fremst er allmargt í kvæðunum sjálfum, sem bent gæti í þá átt. Það tilfærir Miss Ph. af mjög mikilli skarpskyggni og nákvæmni. Auk þess eru ýmsir hlutir utan kvæðanna, sem með því mæla, að sjónleikar hafi verið til á Norðurl. í fornöld. Margt er hjer all-merkilegt, bæði samanburður Miss Ph. á kvæðunum sín á milli — finnur hún að sviplík atriði koma fyrir í mörgum þeirra (stock scenes) — og ennfremur »ættartala« kvæðanna. En hún rekur ætt þeirra aftur til helgileika, er hún hyggur að tíðkast hafi á áramótum og vorjafndægrum hjer á Norðurlöndum, eins og annarstaðar meðal þjóða, sem mjög eru háðar náttúrunni og ekki þekkja enn til borgarmenningar. Hafi þessir leikar borið í fyrstu mjög glögg merki dýradýrkunar, enda eru þau ekki með öllu horfin af kvæðum þeim, sem nú eru til. Í byrjun víkingaaldar voru þessir leikar komnir á sitt hæsta stig. En um það bil komu sunnan að sagnirnar um Gjúkunga og Jörmunrek. Sagnirnar suðrænu náðu útbreiðslu meðal höfðingja, og voru þá ort um þær hetjuljóðin í Sæmundar-Eddu, sem koma eftir Sigrdrífumál. Varð nú að vonum barátta milli hetjukvæðanna og gömlu leikkvæðanna, sem brátt urðu að lúta, og fór það svo, að sumum leikkvæðunum var snúið í hetjukvæði (undir fornyrðislagi).

Þessar eru nú í fám orðum aðalskoðanirnar, sem fram koma í bók þessari, og má varla annað segja, en þetta sjeu nýmæli.

Það væri ljett verk að tína til mörg atriði, sem um má deila. En jeg tel það með öllu gagnslaust, þar sem hjer er ekki rúm til að ræða þau. En um hitt verður varla deilt, að bókin sje samin af miklum lærdómi og dugnaði. Og mjer vitanlega er það fyrsta vísindarit um þessi efni, sem af konu er ritað.

E. Ó. S.

**Finnur Jónsson: Norsk-islandske kultur- og sprogforhold i 9. og 10. aarhundrede** (Det kgl. danske Videnskabernes Selskab. Historisk-filologiske Meddelelser III, 2).

Bók þessa hefir Finnur prófessor samið til þess að gera vísindaleg reikningsskil af sinni hendi. Um langan aldur hafa fræðimenn háð ritdeilur um ýmsar spurningar, er varða upptök og eðli norrænnar og íslenskrar menningar. Nú má ætla, að fram sjeu borin flest gögn bæði í sókn og vörn, og hefir því próf. Finni þótt tími til kominn að reifa málið að sínu leyti.

Þetta er allmikil bók, — 20 arkir, — og skiftir höf. henni í

5 höfuðþætti. Er í fyrsta þætti rætt um elstu samgöngur milli norrænna þjóða og vestrænna, um írska landnámamenn á Íslandi, um írsk og engil-saxnesk orð í íslensku, um vestræn áhrif á norræna goðafræði og forneskjusögur, og loks um kenníngar þær eða tilgátur, sem fram hafa komið um írsk áhrif á íslenska sagnaritun. Í 2. þætti er gerð grein fyrir menningarsamböndum Norðurlandaþjóða suður á bóginn. 3. þáttur fjallar um þær heimildir til menningarsögu, sem finnast í Eddukvæðunum. 4. þáttur er um þekking Íslendinga á útlendum bókmentum á elstu tímum, og 5. þáttur um málið í Noregi og á Íslandi á 9. og 10. öld. Bókin kemur því víða við, enda veitir hún ágæta fræðslu um, hvar þessum rannsóknum er komið nú sem stendur. —

Höf. minnir á það í upphafi ritsins, að í norrænni goðafræði er alt miðað við norður, austur eða suður, — það er næstum því eins og að vestrið sje ekki til. Fyrir vestan Miðgarð gerist ekkert, — þar er alt autt og tómt, ekkert annað en úthafið sjálft, óskaplegt og endalaust. Að vísu er getið um »vestrsali« í Vegtamskviðu, en með því orði er Miðgarður táknaður, sem vitanlega var fyrir vestan Jötunheima. Þetta virðist nú óneitanlega benda í þá átt, að í forneskju hafi forfeður vorir engin kynni haft af vestrænum þjóðum. Og þar við bætist, að þótt leitað sje með logandi ljósi í íslenskum bókmentum, þá finnast þar engar endurminningar um viðkynningu eða viðskifti norrænna þjóða og vestrænna, áður en víkingaöld hefst.

Samt sem áður hafa menn haldið því fram, að Norðmenn hafi tekið sjer bólfestu í Orkneyjum og Hjaltlandi löngu fyrir víkingaöld. Og Alex. Bugge gengur feti framar. Hann fullyrðir, að fjörugar samgöngur hafi verið milli Noregs og Englands þegar á 6. öld. Þessa fullyrðing styður hann með þeim rökum, að í Noregi hafi fundist sylgja, »sem hlýtur að hafa verið gerð á Englandi á 6. öld«, — en fyrir hinu gerir hann ekki ráð, að hún geti hafa borist til Noregs löngu seinna. Aðra sylgju nefnir hann, sem hann segir að sje norsk að smíðinni til, en á henni er engilsaxnesk áletrun. Segir hann, að hún muni hafa flækst til Englands og þaðan aftur til Noregs, — en því miður getur hann ekki um aldur hennar, svo að maður fær enga vitneskju um, hvenær hún hefir verið á þessu ferðalagi. Loks getur Bugge um ristustein einn, sem fundist hefir í Noregi, og segir að myndirnar, sem á hann eru dregnar, sjeu gerðar í líkingu við þær myndir, sem eru á skotskum steinum frá fyrstu tímum kristninnar þar í landi.

Hitt minnist Bugge ekki á, að sumir þessara skotsku steina standa enn þá þann dag í dag, og hafa menn því ekki síður getað haft þá til fyrirmyndar t. d. á 9. öld, heldur en á 6. öld. Svo djarflegar eru staðhæfingar sumra vísindamanna á vorum dögum! Auðvitað veitist F. J. ljett að hnekkja slíkum rökum. Þau hrökkva í sundur sem fífukveykir, óðar en við þeim er hreyft.

Það er engin furða, þó að þeim mönnum, sem trúa á ævagamlar samgöngur milli Norðurlanda og Vesturlanda, hafi orðið tíðrætt um írsk áhrif á íslenska menningu, því að það er víst og satt, að allmargir landnámsmenn komu hingað vestan um haf. Alex. Bugge kemst svo að orði: »Mikill hluti ísl. landnámsmanna, og nálega allir þeir, sem ættstærstir voru og ríkastir, komu frá Bretlandseyjum, sjerstaklega skotsku eyjunum og Írlandi, og áttu þar ætt sína. Og þar að auki rann óstíflaður menningarstraumur frá hinum keltnesku löndum, fyrst til Færeyja og þaðan til Íslands«. F. J. kryfur nú þessar staðhæfingar til mergjar. Hann telur upp alla þá landnámsmenn, sem komu til Íslands vestan um haf. Sýnir hann fram á, að þeir hafi ekki verið fleiri en 50—60, en Alex. Bugge telur, að þeir hafi verið á annað hundrað. En mikilli harðleikni verður Bugge að beita við heimildirnar, til þess að koma tölunni svo hátt upp. Hann segir t. d., að Ketilbjörn hinn gamli hafi hlotið að koma vestan um haf, vegna þess hvað hann var auðugur að lausafje! Og Óleif hjalta, Eilíf örn, Þórólf mostrarskegg o. m. fl. bendlar hann við Vesturlönd, án þess að til þess finnist nein rök í heimildunum. F. J. bendir enn fremur á, að margir þessara »vestrænu« landnámsmanna hafi að eins komið við í vestureyjum á leiðinni til Íslands, og um flesta þeirra megi óhætt fullyrða, að þekking þeirra á vestrænni menningu hafi verið mjög lítil eða alls engin. Þeir höfðu farið vestur um haf til rána og fjefanga, en ekki til þess að ganga þar í skóla. Í því sambandi bendir höf. á, að hin írsku mannanöfn og viðurnefni hverfa næstum því öll úr málinu þegar á fyrstu mannsöldrum eftir landnámstíð, og að hin írsku tökuorð í málinu eru mjög fá, eitthvað 15—16 alls. Og ekki álítur höf., að engilsaxneskan hafi miðlað íslenskunni miklu á þessum öldum (9. og 10. öld), — hann telur, að á þeim tíma hafi ekki fleiri en í hæsta lagi 12 engilsaxnesk orð komist inn í málið. Svo að alt virðist bera að sama brunni um það, að kenningarnar um djúptæk vestræn áhrif á fornnorræna menningu sjeu ekkert annað en draumórar og hugarburð-

ur. Hinu neitar höf. ekki, að ýmis einkenni Íslendinga megi ef til vill rekja til írskra forfeðra. En auðvitað er, að slíkt verður hvorki mælt nje vegð. —

Annars er ókleift að gera hjer nokkra viðunandi grein fyrir sókn og vörn þessara mála. Einna mest svæla hefir staðið af kenningunum um írsk áhrif á íslenska sagnaritun og norræna goðafræði og forneskjusögur. Jeg hygg, að þeir kaflar í riti próf. Finns, sem um þær kenningar fjalla, sjeu einna rökfastastir og best ritaðir. Enda virðast nú flestir fræðimenn hallast á sömu sveif og hann um að afneita þessum írska átrúnaði, — að minsta kosti munu fáir nú rekja rætur ísl. sagnaritunar til Írlands.

Þeir, sem vilja kynna sjer, hvernig hinar írsku kenningar hafa verið rökstuddar á stundum, ættu að lesa samanburð S. Bugge's á Helgakviðu Hundingsbana hinni fyrri og írsku sögunni um bardagann við Ross na ríg. F. J. tekur þann samanburð til rækilegrar íhugunar í riti sínu (bls. 87—91), og hygg jeg ekki ofmælt, að honum hafi tekist að tæta þá hugarsmíð Bugge's í sundur, ögn fyrir ögn. Það var mein þess mikilhæfa manns, og raunar beggja þeirra feðga, að þeir virðast hafa litið svo á, sem engin hugsun eða hugmynd gæti verið heimaborin á Norðurlöndum. Og því verður þeim það svo oft, að þeir seilast um hurðarás til lokunnar. Þó að íslensk fornrit geri ekki annað en að segja fra algengum atburðum, sem alstaðar geta gerst og á öllum öldum, þá leita þeir samt skýringar í útlendum fyrirmyndum. T. d. heldur S. Bugge því fram, að Örvar-Oddur eigi ætt sína að rekja til Hercules'. Því til sönnunar minnir hann á, að Örvar-Odds saga segi frá þeim atburði, að einu sinni hafi Oddur látið stýri sitt í ofviðri og hafi því orðið að leggja að landi og fara til skógar, ásamt Hjálmari, til þess að fá skaðann bættan. En það sje í frásögnum um Hercules, að einu sinni hafi hann brotið ári á sjó, og hafi því orðið að leita til lands, ásamt Hylas fylgdarsveini sínum, til þess að ná sjer í skógartré. Bugge segir, að hjer sje ekki um að villast. Nafnið Hjálmar segir hann, að myndað sje af latnesku þolfalli af Hylas (Hylas, Hilas, Hilam). Lengra verður víst ekki komist inn í myrkvið ágiskana og tilgátna.

F. J. deilir á marga aðra fræðimenn í bók sinni, t. d. A. Olrik, v. Sydow o. fl. Ritar hann alt kurteislega, en þó finst það á, að stundum verður hann að taka á þolinmæðinni. Í þættinum um Eddukvæðin heldur hann því enn fram, að flest þeirra sjeu orkt í Noregi. Ekki nefnir hann þar Björn Ólsen á nafn, og má það

undarlegt heita. En þó ber þess að geta, að í þeim þætti færir hann aðallega rök á móti vestrænum uppruna kvæðanna, svo að deilumál hans og Björns Ólsens kemur þar ekki mjög til greina.

Síðasti og lengsti þáttur ritsins fjallar um málið á Íslandi og í Noregi á 9. og 10. öld. Virðist þar dregið saman geysimikið efni til sögu málsins á þeim öldum. Höf. kemst m. a. að þeirri niðurstöðu, að ýmsar breytingar á málinu sjeu mun eldri, en menn hingað til hafa talið.

Prófessor Finnur á þakkir skilið fyrir þessa bók. Margar kynlegar kenningar um ísl. fræði hafa sprottið upp í skjóli tíðskunnar og tíðarandans á síðustu áratugum, en heilbrigðar skoðanir um þau málefni oft átt fremur erfitt uppdráttar. F. J. hefir sjerstaklega barist með oddi og egg gegn skoðunum þeirra fræði manna, sem hafa haldið því fram, að forníal. sagnaritun væri að mestu leyti ekkert annað en skáldskapur og þjóðsagnablendingur. Þess er ekki langt að minnast, að það þótti ekki vel »fínt« að andæfa slíkum skoðunum. En F. J. hefir alt af setið og situr enn fast við sinn keip. Og nú sjást þess mörg merki, að veðrabrigði eru í lofti. Rannsóknir Svía á Ynglingasögu, sem Matthías fornmenjavörður Þórðarson hefir ritað fróðlega grein um hjer að framan, sýna og sanna, að jafnvel þær sögur, sem menn síst hafa þorað að trúa, eru merkilega sannfróðar um öll höfuðatriði. Ætti því að mega treysta því, að hvatvíslegir sleggjudómar um forníal. sagnaritun verði heldur færri hjer eftir, en hingað til. Á. P.

**Indriði Einarsson: Dansinn í Hruna.** — Sorgarleikur í V þáttum. — Reykjavík 1921.

Leikurinn fer fram á tíma, þegar stórbylting er í aðsigi og hugir manna eru komnir á ráðlaust reik, vegna þess að fornar lífsskoðanir eru að fjara út. Þó er leikritið í rauninni ekki sögulegs efnis. Höf. hefir enn á ný ausið úr lindum þjóðtrúarinnar. Það er reimt á leiksviðinu, óvættir og afturgöngur eru þar á sveimi, og særingar og svartigaldur framinn. Seinni plágan og aðrar drepsóttir eru enn þá í allra manna minnum, og fellur skugginn af þeim endurminningum inn yfir leiksviðið. Loftið er þungbúið og útlit ískyggilegt, enda finnur lesandinn sífelt á sjer, að stórviðri siðskiftaaldarinnar muni skella yfir þegar minst varir. Höf. hefir af mikilli list fest leyniþráð millum hins feiknumfylta skuggaheims þjóðsagnanna og sögulegra atburða, sem allir þekkja.

Hjer verður ekki gerð grein fyrir viðburðum leiksins, en að eins minst á fáein atriði. 2. þáttur, þar sem særingarnar í jarðhúsinu í Berghyl fara fram, er einhver besti kafli leikritsins. Sjaldan hefir íslenskur leikritahöfundur tekið fastar á efni, en þegar Gottskálk særir fram sína eigin fylgju. Fylgjan er útburður, barn, sem hann sjálfur hefir getið að óvilja móður þess, og síðan sjeð ráð fyrir. Kemur það hjer fram, sem víðar í leikritinu, að höf. er ekki alt af að hugsa um veiklaðar taugar væntanlegra áhorfanda eða lesanda. Óteprulegt er og danskvæðið um pláguna í 1. þætti. Höf. lýsir þar djarflega því galgopalega kæruleysi og óstjórnlegu nautnaþrá, sem altaf brýst undan fargi, þegar miklar hörmungar og plágur dynja yfir. Þar er gripið í streng, sem seinna er slegið fastar á, þegar sjálfum dansinum í Hruna er lýst.

Jeg hygg, að Þorgeir prestur og Hlaðgerður á Hamri sjeu þær persónur leiksins, sem best hafa heppnast. Þorgeir er prestur, sem unir sjer illa í kjólnum og veraldarmaður, sem þorir þó ekki að brjóta bág við kirkjuna. Hann elskar góða stúlku, en er henni þó ótrúr, hann þolir illa bannfæringu biskups, en stendst þó enn þá síður ginningar Ógautans. Höf. bendir ekki með vísifingrinum á skapbresti hans, en þeim er þó svo vel lýst, að engum kemur á óvart, að það verður hann, en ekki Lárenz, sem gengur í greipar Ógautans. Innviðirnir í honum eru ótraustir og illa skeyttir saman. Þess vegna gengur hann af göflunum, þegar á hann reynir, ærist og steypir sjer beint út í glötunina.

En þó hefir höf. tekist miklu betur til með Hlaðgerði. Jeg hugsa, að hún verði langlífust allra karla og kvenna í leikritum I. E. Þessi veslings stúlka gengur eirðarlaus fram og aftur um leiksviðið, eins og berfætt manneskja um ís. Hún hefir lent í höndum á bófa, sem hefir misþyrmt henni hræðilega. En þó er það ekki hennar þyngsta raun. Hún elskar mann, sem ekki vill líta við henni, og er það í rauninni ekki merkileg saga. En hún þorir ekki að horfast í augu við sannleikann, hún getur ekki sleppt voninni. Hún niðurlægir sjálfa sig, býðst til að vera frilla og ambátt, en ber það eitt úr býtum, að henni er sparkað burt með fyrirlitningu. Sálarlíf hennar er alt að liðast í sundur, og það er að því komið, að vitfirringin grípi hana. En þá vitkast hún alt í einu og hverfur brott úr dansinum, þegar aðrir ærast. Hlaðgerður er í rauninni höfuðpersóna leiksins, þó að höf. hafi tæpast ætlast til að svo væri.

Það er mikill órói og umbrot í þessu leikriti. Einn viðburð-

urinn rekur annan, ákafinn og ólgan fer sívaxandi, þangað til hinn mikli vábrestur verður og kirkjan sekkur í jörð niður. Ef dæma skyldi eftir bókinni sjálfri, ætti höf. að vera maður á ljettasta skeiði. En sama daginn, sem hún kom út, stóð hann á sjötugu.

Á. P.

**Gustav Theodor Fechner: Bæklingurinn um lífið eftir dauðann.** Þýtt hefur Jón Jacobson. Reykjavík 1921.

Bók þessi er rituð af miklu ímyndunarafli og rökfimi, en sannar vitanlega ekkert um það málefni, sem um er rætt. Höf. var nafntogaður vísindamaður, stórgáfaður og sjálfstæður í hugsun, og hafði þar að auki ríka trúartilhneigingu. Í þessari bók reynir hann að samræma trúarþörf sína og þekkingu. Hugur hans flýgur hátt og víða, og heilabrotin eru óvenjuleg og stórfengleg. Þess vegna er bókin mjög skemtileg, og sjálfsagt finst mörgum hún »uppbyggileg«, en hætt er við, að hún sannfæri fáa.

Þýðandinn hefir samið ágætan formála fyrir kverinu. Hann drepur þar á þá spurningu, hvort lífsfarsæld mannkynsins hafi farið vaxandi, hvort mönnum líði í raun og veru betur nú, en þegar sögur hefjast fyrst. Hann hneigist helst að því að svara þeirri spurningu neitandi. »Framfarir í sönnustu og notadrýgstu merkingu orðsins eru ef til vill ekki til«, — því að þótt tekjurnar kunni að vaxa, þá vaxa útgjöldin að sama skapi. Á leiksviði lífsins þreyta sömu öflin hvíldarlaust sama hildarleikinn og altaf með svipuðum árangri. Um leiktjöld er breytt, en aðrar breytingar virðast litlar eða alls engar. Þess vegna telur þýð. litlar líkur til, að farsæld manna geti aukist í þessum heimi, »nema í ljósi meiri vonar og sterkari trúar«.

Ef til vill er þetta alt rjett. Og er þá engu þar við að bæta, nema því einu, að trúna geta menn ekki gripið upp úr götunni. Sjálfsagt hefir enginn postulanna átt jafnmörg andleg skyldmenni sem Tómas. Því að þeir menn eru ekki allfáir, sem ekki geta trúað og ekki sannfærst um neitt það, sem skilningarvit þeirra og skynsemi nær ekki til. Á þá menn bíta hvorki hótanir kirkjunnar nje heimspekilegar fortölur. Það verður að færa þeim heim sanninn á annan hátt, ef um nokkurn sann er að gera.

Þýðingin er afbragðsvel af hendi leyst, og er það þó ekkert áhlaupaverk að íslenska hið þunga og flókna heimspekismál Fechners. En þýð. er maður svo vel ritfær, að þess verður tæpast

vart nokkurs staðar í þýðingunni, að hann hafi átt við örðugleika að etja.

Á. P.

### Bækur sendar Skírni:

Jónas Guðlaugsson: Sólrún og biðlar hennar. Þýð. G. Hagalín. Rv. 1920.
Haraldur Nielsson: Arin og eilífðin. Rv. 1920.
Arsrit hins ísl. fræðafjelags. 5. ár. 1920.
Gunnar Gunnarsson: Salige er de enfoldige. Kh. 1920.
Morgunn. Tímarit um andleg mál. II. 1—2. Rv. 1921.
Skýrsla um hið íslenska náttúrufræðisfjelag 1919—20. Rv. 1921.
Skýrsla um Bændaskólann á Hólum í Hjaltadal. Ak. 1920.
Um skógrækt. Rv. 1921.
Arbók hins ísl. fornleifafjelags. Rv. 1920.
Hægstad og Torp: Gamalnorsk Mållære-lesestykke-ordliste. Kria 1920.
Matth. Þórðarson: Íslenskir listamenn. Rv. 1920.
Tímarit Þjóðræknisfjelags Íslendinga. II. ár. Wp. 1920.
Stefán Pjetursson: Byltingin í Rússlandi. Rv. 1921.
Jakob Jóh. Smári: Íslensk setningafræði. Rv. 1921.
Gathorne-Hardy: The Norse discoverers of America. Oxf. 1921.
Þorsteinn Gíslason: Ljóðmæli. Rv. 1920.
Ordbog over det danske Sprog. III. B. Bræ—Dö. Kh. 1921.

Sumra þessara bóka verður minst síðar.

---

### Prentvillur.

Bls. 31. l. 3 a. n.: launum *les* launum, þ. e. lífeyri.
— 33, l. 11 a. n.: væru .... ætlaðar *les* væri .... ætlaður
— 82, nmgr. 2.: 19.. *les* 1920.

# Skýrslur og reikningar
## Bókmentafjelagsins 1920.

---

### Bókaútgáfa.

Árið 1920 gaf fjelagið út þessar bækur, og fengu þær þeir fjelagsmenn, er greiddu árstillagið, 10 kr.:

| | | |
|---|---|---|
| Skírnir, 94. árg. . . . . . . . . . . . | kr. | 12.00 |
| Íslendinga saga, eftir B. Th. Melsteð, III. b. 4. h. | — | 2.50 |
| Lýsing Íslands, eftir Þorv. Thoroddsen, III. b. 4. h. | — | 3.00 |
| — — — — IV. b. 1. h. | — | 7.00 |
| Brjefabók Guðbrands biskups Þorlákssonar, 2. h. | — | 6.00 |
| Samtals | kr. | 20.50 |

Reykjavík, 17. júní 1921.

*Matthías Þórðarson,*
bókav. fjelagsins.

---

### Aðalfundur.

Árið 1921, föstudaginn 17 júní, kl. 9 að kvöldi, var aðalfundur Bókmentafjelagsins haldinn í húsi »Kristilegs fjelags ungra manna«. Fundarstjóri var kosinn hr. præp. hon. Kristinn Daníelsson, samkvæmt uppástungu forseta.

Forseti gat 13 fjelaga, er andast höfðu síðan á síðasta aðalfundi, þessara: Björn Jónsson, bóndi á Stakkhamri; Böðvar Kristjánsson, fv. adjunkt; Jakob Havsteen, etazráð á Oddeyri; doktor Jón Aðils prófessor; Jón Jónsson, prófastur að Stafafelli, heiðursfjelagi; Jón Hallgrímsson, kaupm. í Grundarfirði; Jón Sveinsson, prófastur á Akranesi; Magnús Blöndal, umboðsmaður í Stykkishólmi; síra Matthías skáld Jochumsson, heiðursfjelagi; Ólafur Finnsson, prestur í Kalfholti; Pálmi yfirkennari Pálsson; Sigurður bók-

bindari Jónsson í Reykjavík og Stefán skólameistari Stefánsson á Akureyri. — Mintust fundarmenn hinna fráföllnu með því að standa upp.

Síðan síðasta aðalfund höfðu verið skráðir 82 nýir fjelagar.

Þá las forseti upp ársreikning og efnahagsreikning fjelagsins fyrir síðastliðið ár. Höfðu endurskoðendur fjelagsins ekkert haft við þá að athuga. — Þorkell Þorkelsson löggildingarstjóri mæltist til, að stjórnin gerði eftirleiðis grein fyrir verðbrjefum fjelagsins í efnahagsreikningnum einum og ekki í ársreikningi. — Klemens Jónsson, fyrv. landritari, endurskoðandi fjelagsins, fór nokkrum orðum um reikningana og hag fjelagsins. Kvað útistandandi skuldir vera tiltölulega mjög litlar og efnahag þess góðan. Þá bar fundarstjóri upp reikningana til samþyktar, og voru þeir samþyktir með öllum greiddum atkvæðum.

Þá las forseti upp reikninga sjóðs Margr. Lehmanns-Filhés og Afmælissjóðs fjelagsins.

Loks skýrði forseti frá þeirri einróma tillögu stjórnarinnar að próf. dr. phil. K. F. Södervall í Lundi yrði kjörinn heiðursfjelagi. Var það gjört af fundarmönnum í einu hljóði.

Fundarbók lesin upp og samþykt.

Fundi slitið.

*Kristinn Danielsson.*

Matthías Þórðarson.

---

## Reikningur
### yfir tekjur og gjöld Hins íslenska Bókmentafjelags fyrir árið 1920.

Tekjur:

| | | | | | |
|---|---|---|---|---|---|
| 1. Eftirstöðvar frá 1919: | | | | | |
| a. Veðdeildarbrjef Landsb. ... | kr. | 21000 00 | | | |
| b. Dönsk verðbrjef ... ... ... | — | 8000 00 | | | |
| c. Reikningur í sparisjóði ... | — | 7535 97 | | | |
| | | | kr. | 36535 97 | |
| | | Flyt | kr. | 36535 97 | |

| | | | | |
|---|---|---|---|---|
| | | Fluttar | kr. | 36535 97 |
| 2. Styrkur úr ríkissjóði ... ... ... ... ... ... ... | | | — | 3500 00 |
| 3. Tuttugasta greiðsla fyrir handritasafnið ... ... | | | — | 1000 00 |
| 4. Styrkur úr sáttmálasjóði ... ... ... .. ... ... | | | — | 1000 00 |
| 5. Greidd tillög mnðlima ... ... .. ... .. ... | | | — | 13742 57 |
| 6. Fyrir Skírni og bækur í lausasölu .. ... ... | | | — | 4958 11 |
| 7. Náðargjöf konungs ... ... ... ... .. ... ... | | | — | 400 00 |
| 8. Fyrir auglýsingar á kápu Skírnis 1920 ... ... | | | — | 276 00 |
| 9. Aunnið við útdregin bankavaxtabrjef ... ... | | | — | 150 00 |
| 10. Aunnið við keypt ríkisskuldabrjef íslensk .. | | | — | 20 00 |
| 11. Arsvextir af: | | | | |
| a. 21000 kr. í veðdeildarbrjefum Landsbankans ... ... ... | kr. | 945 00 | | |
| b. 4000 kr. í kredítkassaskuldabrjefum landeigna ... ... ... | — | 140 00 | | |
| c. 2200 kr. húskreditkassa. skuldabrjefum ... ... | — | 88 00 | | |
| d. 1600 kr. í þjóðbankahlutabrjefum ... ... ... ... .. ... | — | 160 00 | | |
| e. 200 kr í krðdítbankaskuldabrjefum jóskra landeigna ... | — | 7 00 | | |
| f. peningum í sparisjóði ... ... | — | 84 96 | | |
| | | | kr. | 1424 96 |
| | | | kr. | 63007 61 |

## Gjöld:

| | | | | |
|---|---|---|---|---|
| 1. Bókagerðarkostnaður: | | | | |
| a. Skírnir: | | | | |
| 1. Laun ritstjóra ... ... ... | kr. | 600 00 | | |
| 2. Ritlaun og prófarkalestur | — | 1247 20 | | |
| 3. Prentun, pappír og hefting | — | 8015 43 | | |
| | | | kr. | 9862 63 |
| b. Aðrar bækur: | | | | |
| 1. Ritlaun og prófarkalestur | kr. | 1546 50 | | |
| 2. Prentun, pappír, heft. o.fl. | — | 11766 92 | | |
| | | | kr. | 13313 42 |
| | | Flyt | kr. | 23176 05 |

| | | | | | |
|---|---|---|---|---|---|
| | | | Fluttar | kr. | 23176 05 |
| 2. Afgreiðslukostnaður: | | | | | |
| a. Laun bókavarðar ... ... ... | kr. | 1200 00 | | | |
| b. Innheimtuuppbót til sama fyrir árið 1919 ... ... ... ... | — | 750 64 | | | |
| c. Burðargjald o. fl. ... ... .. | — | 2000 65 | | | |
| | | | | kr. | 3951 29 |
| 3. Til undirbúnings á útgáfu ísl. kvæðasafns ... | | | | — | 1000 00 |
| 4. Brunabótagjald og ýms gjöld ... ... ... ... ... | | | | — | 397 06 |
| 5. Eftirstöðvar 31. desbr. 1920: | | | | | |
| a. Veðdeildarbrjef Landsbankans ... ... ... ... ... ... ... | kr. | 20500 00 | | | |
| b. Kridítkassaskuldabrjef landeigna ... ... .. ... ... ... | — | 4000 00 | | | |
| c. Húskredítkassaskuldabrjef... | — | 2200 00 | | | |
| d. Þjóðbankahlutabrjef ... ... | — | 1600 00 | | | |
| e. Kredítkassaskuldabrj. jóskra landeigna ... ... ... ... ... | — | 200 00 | | | |
| f. Ríkisskuldabrjef íslensk ... | — | 500 00 | | | |
| g. Peningar í sparisjóði ... ... | — | 5483 21 | | | |
| | | | | kr. | 34483 21 |
| | | | | Kr. | 63007 61 |

Reykjavík, 12. maí 1921.

*Sigurður Kristjánsson,*
p. t. gjaldkeri.

Reikning þenna höfum við endurskoðað og ekki fundið neitt við hann að athuga.

Reykjavík, 11. júní 1921.

*Kl. Jónsson.* *Þorsteinn Þorsteinsson.*

# Efnahagsreikningur
## Hins íslenska Bókmentafjelags 1. janúar 1921.

Eignir:

| | | | | |
|---|---|---|---|---|
| 1. Samkvæmt ársreikningi 1920: | | | | |
| a. Í verðbrjefum ... ... ... ... | kr. | 29000 00 | | |
| b. Í peningum í sparisjóði ... | — | 5483 21 | | |
| | | | kr. | 34483 21 |
| 2. Forlagsbækur samkvæmt skrá, virtar ... ... | | | — | 20000 00 |
| 3. Útistandandi skuldir ... ... ... ... ... ... ... ... | | | — | 2739 00 |
| 4. Ýmsir munir samkvæmt skrá ... ... ... ... ... ... | | | — | 716 00 |
| | | | Kr. | 57938 21 |

Skuldir:

| | | |
|---|---|---|
| Skuldlaus eign ... ... ... ... ... ... ... ... ... ... ... | kr. | 57938 21 |
| | Kr. | 57938 21 |

Reykjavík, 14. maí 1921.

*Sigurður Kristjánsson*,
p. t. gjaldkeri.

Reikning þenna höfum við endurskoðað, og er við hann það eitt að athuga, að á skránni yfir ógoldin árstillög er talan 52 tvítalin. Upphæð ógreiddra tillaga á því að hækka um 10 krónur og eignin að hækka að sama skapi.

Reykjavík, 11. júní 1921.

*Kl. Jónsson.* *Þorsteinn Þorsteinsson.*

---

# Reikningur
## Afmælissjóðs hins íslenska Bókmentafjelags fyrir árið 1920.

Eignir:

| | | |
|---|---|---|
| 1. Við árslok 1919: | | |
| Innstæða í Sofnunarsjóði ... ... ... ... ... ... ... | kr. | 1165 64 |
| 2. Vextir 1920 ... ... ... ... ... ... ... ... ... ... ... | — | 55 95 |
| | Kr. | 1221 59 |

Skuldir:

Við árslok 1920:

| | | |
|---|---|---|
| Innstæða í Söfnunarsjóði ... ... ... ... ... ... | kr. | 1221 59 |
| | Kr. | 1221 59 |

Reykjavík, 23. apríl 1921.

*Sigurður Kristjánsson,*
p. t. gjaldkeri.

Reikning þenna höfum við endurskoðað, og ekkert fundið við hann að athuga.

Reykjavík, 11. júní 1921.

*Kl. Jónsson.* *Þorsteinn Þorsteinsson.*

---

## Reikningur

### sjóðs Margrjetar Lemanns-Filhés fyrir árið 1920.

Tekjur:

| | | | | |
|---|---|---|---|---|
| 1. Eftirstöðvar við árslok 1919: | | | | |
| a. Stofnfje: | | | | |
| Í Söfnunarsjóði ... ... ... | kr. | 5451 55 | | |
| b. Starfsfje: | | | | |
| Í innlánsbók Íslandsbanka | — | 1228 11 | | |
| | | | kr. | 6679 66 |
| 2. Vextir 1920: | | | | |
| a. Af stofnfje í Söfnunarsjóði | kr. | 261 68 | | |
| b. Af starfsfje í Íslandsbanka | — | 52 37 | | |
| | | | kr. | 314 05 |
| | | | Kr. | 6993 71 |

Gjöld:

Eftirstöðvar við árslok 1920:

| | | |
|---|---|---|
| a. Stofnfje: | | |
| Í Söfnunarsjóði ... ... ... | kr. | 5516 97 |
| Flyt | kr. | 5516 97 |

Fluttar kr. 5516 97

b. Starfsfje:

Í innlánsbók Íslandsbanka — 1476 74

kr. 6993 71

Kr. 6993 71

Reykjavík, 23. apríl 1921.

*Sigurður Kristjánsson,*

p. t. gjaldkeri.

Reikning þenna höfum við endurskoðað og ekkert fundið við hann að athuga.

Reykjavík, 11. júní 1921.

*Kl. Jónsson.* *Þorsteinn Þorsteinsson.*

# Hið íslenzka Bókmentafjelag.

VERNDARI:

**Kristján konungur hinn tíundi.**

STJÓRN:

**Forseti:**

Jón Þorkelsson, þjóðskjalavörður, dr. phil.

**Varaforseti:**

Guðmundur Finnbogason, próf., dr. phil.

**Fulltrúaráð:**

Hannes Þorsteinsson, skjalavörður.
Sigurður Kristjánsson, bóksali, r. af dbr., gjaldkeri fjelagsins.
Guðmundur Finnbogason, prófessor, dr. phil.
Matthías Þórðarson, fornmenjavörður, skrifari og bókavörður fjelagsins.
Einar Arnórsson, prófessor.
Guðmundur Magnússon, prófessor (í stað Jóns Aðils próf.).

HEIÐURSFJELAGAR:

Anderson, R. B., prófessor, Madison, U. S. A.
Boer, R. C. prófessor, dr. phil., Amsterdam.
Briem, Eiríkur, prófessor, comm. af dbr. m. m., Reykjavík.
Briem, Valdimar, vígslubiskup, r. af dbr., Stóra-Núpi.
Bryce, James, Right Hon., sendiherra Breta í Washington.
Brögger, W. C., próf. dr. phil., jur. & sc. stkr. af st.Ól. o.m.m. Kristjaníu.
Cederschiöld, Gustaf, prófessor, dr. phil., Lundi.

